Mag, Joons Þorkels Sonar Widalins
(Fordum Biskups i Skal-hollts Stifte)

# Huss-Postilla,

Innihalldande
Gudrækilegar

# Predikaner

yfer øll Hatijda og Suñudaga
Gudspiøll.

## Sijdare Parturenn,
Fra Trinitatis Hatijd, til Adventu.

Editio IX

Bæder Partarner til saman Innbundner seliast 105. Fiskum.

Prickt a Hoolum i Hiallta-Dal,
Af Petre Joons Syne, 1777.

# A Trinitatis Hatijd.

## Gudspialled, Joh. 3.

Jpañ Tijma, var þar einn Madur af Phariſæunum, Nicodemus ad Nafne, Eiñ Høfdinge Gydinga. Hañ kom til JEſum a Nattarþele, og ſagde til hañs: Rabbi, Vier vitum ad þu ert eiñ Lærimeiſtare komenn af Gude, þvi eingenn gietur giort þau Teikn ſem þu giører, utann Gud ſie med honum. JEſus ſvarade og ſagde til hanns: Sañlega, Sañlega ſegie eg þier, þad eingenn, nema hañ, ſa ed fædeſt ad niju, fær ad ſia Guds Rijke. Nicodemus ſagde til hañs: Hverniñ ma Madiriñ Endurfædaſt þa hañ er gamall? Hvert gietur hann horfed aptur i ſiñar Moodur-Kvid og fædſt ſo ad nyu? JEſus ſvarade; Sañlega, Sannlega ſege eg þier, nema þad nockur verde Endurſæddur wt af Vatne og Anda, þa kañ hann ecki iñ ad ganga i Guds Rijki. Hvad af Hollde er fædt, þad er Holld; Eñ hvad af Andanum er fædt, þad er Ande. Undraſt þu ecki, ad eg ſagdi þier, ad ydur byriar ad fædaſt ad niju. Vinduriñ blæs hvar er hañ vill, og þu heyrer hañs Þyt, eñ eige veitſt þu hvadañ hann kiemur, eda hvert hañ fer. So er og ſierhver af Andanum fæddur. Nicodemus ſvarade og ſagde til hañs: Hverniñ ma þetta ſkie? JEſus ſvarade hønum, og ſagde: Ertu eiñ Meiſtare i Jſrael, og veitſt ecki þetta? Sannlega, Sañlega ſegie eg þier, ad vier ſegium þad vier vitum, og vitum hvad vier ſied høfum, og vorn Vitnisburd medtakid þier ecki. Hafe eg ſagt ydur jardneſka Hlute, og þier trwed ecke, hverniñ mundud þier þa trwa, ef eg ſegda ydur himneſka Hlute? Eingiñ uppſtijgur til Himins, utañ ſa ſem ofañſtie af Himne, Mañſins Sonur, ſa ſem er a Himne. Og ſo ſem Moyſes upphoof Høggormiñ a Eydimørkeñe, lijka ſo byriar Mañſins Syne upp ad hefiaſt, ſo ad aller þeir ſem a hann trwa, fortapeſt eige, helldur ad þeir hafe eilijft Lijf.

### Exordium.

Mikil vár Blindne Heidingianna Fordum Daga i Guds Dijrdkan; Hiner Vijſuſtu af þeim ſøgdu, ad eitt miked Rijke kynni ecki leinge ad ſtanda fyrer utañ Einvallds Dæme: Þo ſkøpudu þeir ſier Otal Gude til ad ſtioorna allre Ver-

Verølldiñi, ſvo ſem eirn væri ecki fær um̃ ad ræda fyrir þvi, er þeir þo af Nœttur-uñar Lioosi þeckia mœttu, ad hann ſialfur ſkapad hefdi, og ſo ad þeir œ einhvern Hœtt feingiu ſmijdad ſier Einvallds-Dæmi i Heiminum, þœ trwdu þeir, ad eiñ væri þeirra meſtur ſœ ed ødrum ſtioornadi, œtti þo ſlijkt ad vera eftir mannlegum Plagſid, ſvo ad hann þurfti þeirra vid œ Stundum, eins og Agamemnon ſiña undir-Konunga, þoott hann hieti hiœ Grickium Konunganna Konungur. Þegar eg athuga þetta, þœ kiemur mier i Hug þad ſem Paulus ſkrifar, 1. Cor. 3. ad Speki Veralldar þeſſarar ſie Heimſka hiœ Gudi, og undir eins brennur mitt Hiarta i mier af Elſkunni til mijns Skapara, ad hann hefur opinnberad oſs, ſijnum Veſælingum, þad ſem hulid var fyrir Spekingum og Vitringum, þar vier trwum œ Eiñ Gud Þreñañ i Einingu og Einann i Þrenningu, hver ed einkis vidþarf, enn allir hanns, og er Siœlfrœdi allra Hluta, bædi œ Himni og Jordu, ſvo ſem David ſegier, i Pſalm. 115. Vor Gud er œ Himnum, og giørir hvad hønum lijkar. Þeſſarar hœleitu Guddoomſins Þrenningar veglega Hœtijd eigum vier nu i Dag ad hallda, œ hverri oſs verdur predikad þad Evangelium, ſem innibindur þœ hellſtu Velgiørninga, er Fader, Sonur og Heilagur Andi hafa veitt oſs ſyndugum Mønnum til Myſkunar, þad er Endurgietninginn og Endurlauſninn, af hverium allt annad hœngir, ſem hinn nœduge Gud vill lœta oſs þiodna til Sœluhiœlpar. Um̃ ſiœlfa Hlutina hefi eg œdur i þeſſari Book vijda talad:. Enn þad er merkilegt i þeſſu Gudſpialle, ad hier kiemur einn Høfdinge Gydinga, Eiñ Meiſtare i Iſrael, til ad læra þeſſa himneſku Fræde af hønum, ſem til þeſs var ſendur wr Fødurſins Skaute, ad opinnbera hana ſyndugum Mønnum. Þvi vilium vier nu hier af athuga einn froomann, enn þo fœvijſann Læriſvein, og under eins eiñ goodann og alvijſañ Meiſtara, med þeim Lærdoomum, er þeirra Samtal med ſier fœrer. Styrk oſs til þeſsa Verks, goode Gud, med Nœd þijns Anda, fyrer Sonarins Forþienuſtu, AMEN.

## Utleggingenn.

Þar Var Einn Madur Af Phariſæunum, ſegier Textinn. Hvilijkañ Vitnisburd DRottinn giefur þeſſum Flock, mœ allvijda ſiœ i Gudſpiallamañaña Bookum, og þo ecki ſijdſt hiœ Matth. 23. Cap. hvar hann medal añars kallar þa Eitur-Orma og Nødru-Kyn, þo fañſt þeſsi Gudhræddi Madur medal þeirra; Þad Ord ſtendur ſtødugt um̃ Efi, ad þecker Gud þœ ſem hañs eru, ſeger Poſtulenn, 2. Tim. 2. Lær þad af þeſſa gooda Mañs Dæme, chriſtiñ Madur, ad ei ſœmlagir þu þig vondre Verølldu þeſſare, þoott þu hliooter i henni ad lifa. Þar var þo einn Abraham i Gerar, einn Loth i Sodoma, eiñ Hobadia i Achabs Hwſi, eiñ Simeon, eiñ Zacharias, þeſsi Nicodemus og Joſeph af Arimathia œ Chriſti Døgum, hverier hinir ſijdurſtu Tveir ecki ſambycktuſt Gydingum i Lijflœti DRottiñs, Luc. 23. Svo varid ydur og, Børn mijn, þier ſem lifid i hreckvijſri Olld þeſſari medal vor, enn vilied þo DRottinn Ottaſt, ad ecki dragid þier Ok med þeim, ſo þier ei medtakid af hennar Plœgum, helldur

ur skijned svo sem Lioos i myrkvum Stad a medal þessarar prettvijsu Kynslooдar, og treisted þvi, ad sw alvollduga Bæn, er Frelsarenn beidde fyrer sijnum Lærisveinum, hun nær og til ydar, ef þier Otteſt Gud, þar hann sagde: Joh. 17. Eg bid þig Fader, ecke ad þu taker þa burt wr Heiminum, helldur ad þu vardveiter þa fyrir hinum Vonda. Sioorenn er salltur, enn Fiskarner, sem þar inni lifa, þeir eru þo ecki sallter. Svo eiga Guds Born ad vakta sig fyrir Spillingu þeirre, sem i Heiminum er, af Gyrndiñi, svo sem Petur ad Orde kiemst: Þoott þau verde ad synda i giegnum þeña fwla Dam̄, a medañ Gud vill reina þau med þvi, ad horfa uppa alla þa Ohæsu, sem þar iñi framinn verdur. Þesse Madur var Hofdinge Gydinga, an Efa einn af þeim 70. Olldungum þess mikla Raads, samt var honum svo miøg gi fid um̄ Velferd Saalar sinnar, ad hañ þootteſt ecke ofgoodur til ad læra af JEsu, hvern hañs Lagsmenn kolludu Vijn Svelg, Vin Tollheimtumanna og Bersyndugra. Hvad giora þeir hier a moot, er sig kalla Hofdingia medal vor, og eru þo Vesælingar hia Nicodemo? Eg voga ad segia, þeir vita ecki sumir hvad þeir eiga ad trwa, Fræðinn hafa þeir lært ad sonnu, enn eg þecke þa sem ecke skilia ollu meir i þeim, helldur enn Gielldingur Drottningarinnar Candaces i Spaadoome Esajæ, enn hvert þeir eru so Leidetamer til ad laata sier undervijsa, svo sem hann var, þegar Philippus til hauns kom, P. G. 8. Þad bid eg þa ad hugleida, sem jafnvel hata sijna Saalusorgara fyrer heilsusamlegar Kienningar, og þoott sumer af þeim meige vita ad nockru Leite, hvad þeir eiga ad trwa og giora, þa meiga þeir þo ecki Sannleikann heyra af Presſins Munni Reidilaust: Medann hann þeiger yfir Lijtum þeirra og Skoñum, þa er hann Guds Engill, enn tale hañ um̄ nockra Ohlutvendne, þa sturlar hann Israel, eins og Elias, 1. K. B. 18. Hañ skijtſt under Caldæos eins og Jeremias, Jer. 37. og verdur allt til Saka funded. Gud bæte þessa Tijma! Taled þad sem oss er þocknañlegt, sogdu Judar Fordum: Su Olld er apturkomeñ, Spaadoomur St. Pauls er rættur: þeir samannhrwga sier Lærendum efter þvi sem Eyruñ klæa, Meñ laata so daatt ad Loſtum sijnum, eins og Mooder ad einaſta Syne, jafnvel þoott þeir sieu marger og liooter, Meñ elska siñ eigiñ Preck, eins og Siaalldur Auga sijns, so eru Meñ vidkvæmer, nær hañ snertur er, svo sem væru þad Saar, og ad meſtu Leite eru vorer Hofdingiar svo lynder eins og Joachim Konungur, þa hanns Þienare Judi hafde lesed honum Þriu eda Fiogur Blod af Spaadoome Jeremiæ, þa skar hann Bookina i sundur og kaſtade henne i Elldinn, Jer. 36. Eg ætla þa einu gyllte þoott allar Bækur væru brendar, sem hliooda um̄ Guds Otta, og aller Munnar tilbyrgder, sem þar um̄ tala.

Nicodemus kom til JEsum a Naattar-Þele, an Efa fyrer Otta Saker, eins og Joseph af Arimathia, er var heimuglegur Christi Lærisveirn, sokum Hrædslu vid Gydinga, Joh. 19. Veikleike fañst nockur hia þessum goodu Moñum i slijku, og þo var þad Upphaf til þeirra Hiaalprædis; Eñ þu sem eingañ þarst ad Ottaſt i þvi ad filgia Christo pter; Tak þier Dæmi af Nicodemo i þvi, ad vilia læra af honum, og þeim sem hann

hefur

hefur i sinn Stad sett, enn ecki i þvi ad fordast Verolldina ad slijku; Þad er audrædid af Samtali DRottins vid hann, ad hañ hefur ecki verid miøg Froodur i Christiñdoom enum þegar hañ fyrst kom, eñ ecki varde þad lengi, þar til hañ vøgadi ad forsvara Christum berlega i Raadinu, er hañ sagdi: Dæmer nockud vort Løgmaal Mañeñ, nema hañ sie adur heyrdur, Joh. 7. Og mætti heyra þar fyrer: Ert þu vordeñ Galilæus? Sem var hin mesta Smaan medal Gydinga. Þad mætti synast ad wti væri med Christ, þegar hañ var svo sem Jllrædis Madur til Dauda dæmdur og a Gaalgañ uppsestur, hvar hann liet sitt saklausa Lijf; Ecke'er lijklegt ad þeir Joseph mune hafa vered froodare um̃ Upprisuna helldur enn Læresveinarner, samt vogudu þeir ad greftra hañ, og vordu þar til Femunum sijnum: Svo er Gud kroftugur i goodum Vilia, þoott veikur sie: Eñ þu sem vordiñ ert Sañfroodur um̃ Dijrd DRottins i hñs Upprisu, og veist ad hañ situr til Kraftarins hægri Handar; Breit eftir Nicodemo i þessu, og laat þier einkis Maal svo skyllt vera, ad þu afrækir riett ad giora; Laat einga Veralldar Makt so ofbiooda þier, ad þu i miñsta Maata skierdir Dijrd þijns Guds, i þvi ad fremia þad eftir Mañaña Bode sem hañ bañad hefur. O! hversu saavijser og Onijtir eru aller þeir, ed kalla sig Ohullta, nær þeir giora allt hvad hiñ Vollduge bijdur þeim; Heyre þier hvad DRottiñ seiger fyrir Muñ Zophoniæ, Cap. 1. Eg skal a þeim Degi straffa alla þaa sem stockva yfer Þroskullda, hverier ed uppfylla Hws Drottna siña med Raane og Svikum. Sama er um allt añad ad seiga, sem nockur Ofrijkis Madur bijdur a mooti Guds Bodi, hvert hañ er hærre edur lægre Stiettar. Þañig var nu Nicodemo haattad, sem adur er sagt, þa hañ kom til JEsum; Eñ hvert Eyrended verid hafi, er audsært af Lausnarans Andsvare, þo ecki standi hañs Spurning wtþryckelega i Gudspiallinu, hañ hefur aan Efa viliad frædast af DRottne, med hveriu Mooti hañ kyñe Guds Rijki ad erfa; Eñ DRottiñ, sem allt vissi hvad med hønum bioo, hañ svarar hønum ecki eins og hinum Rijka Yngis-Mañe, hiaa Matth. 19. er fretti hañ ad, hvad hañ giora skylldi so hañ mætti eignast eilijft Lijf, hvøriun hañ vijsadi til Løgmaalsins, af hvers Verkum eingiñ kañ þo Hoolpiñ ad verda; Hvar fyrir? Af þvi hañ þoktist Løgmaalid uppfillt hafa; Ecki so sem Phariseis og Herodis Þienurum, er komu til hañs med vidlijkum Formaala og Nicodemus, eñ þo fuller af Underhyggiu og Flaattskap, og spurdu ad, hvert ad leifdist ad giefa Keysaranum Skatt edur ei: Ecki so sem Kieunimonnunum og Olldungunum, er spurdu hañ ad, af hvorium Myndugleika hañ kieñde, Matth. 21. DRottiñ vissi ad Nicodemus var i Løgmaalinu noogu Froodur ad Gydinga Plagsid, þvi hañ var Meystare i Jsrael, þar fyrir tefur hañ ecke ad undirvijsa hønum i þvi sem hønum var Aboota vant, og opnade hønum enar fyrstu Dyr Lijfsins Vegar, sem er Endurfædingiñ, med þessum Ordum: Nema Ad Einhver Fædist Ad Nyu, Þa Kañ Hañ Ecki Ad Sia Guds Rijki. Hier af maa sia hversu megnt Faafrædi ad drottnad hefur medal Gydingaña i Andlegum Efnum þegar Christur kom. Þad sijnist ad þeir hafi ecki þeckt Upprüna Syndina, Jafnvel þoott þeir mættu lesa hiaa

 David

David, Pſ. 51. J Syndinni em eg aliñ, og i Syndeñe hitnadi miñe Moodur med mier: Ecke Endurfædinguna, edur ætlad ad Um̃ſkurnenn munde vera heñar Medal af Gude tilſkickad, helldur ſvo ſem nockurskonar wtvortis Teikn, med hveriu Jſraels Foolk væri adgreint frꜳ odrum Þioodum, þar þo Moyſes ſegir þeim berlega, Devt. 30. Drotteñ mun um̃ſkiera þitt Hiarta og þijns Sædis Hiarta til ad elſka DRottenn Gud þinn af ollu Hiarta þijnu, og af allre Ondu þiñe, ſvo ad þu lifer; Hvar ei kañ ad vera añad meint eñ þad ſem Paulus umtalar; Rom. 2. Er hañ nefner Um̃ſkurn Hiartans ſem er i Andanum og ecke i Book-Stafnum, hverrar Lofſtijr ecke er af Moñum helldur af Gude. Ur þeſſare Villu vill nu DRotteñ fyrſt hiꜳlpa Nicodemo; Og meigum vier chriſtner Meñ Odaudlegar Þacker Gude kuña, ecke einaſta fyrer þad hann hefur endurgieted oſs til eiñar lifande Vonar, ſem Petur ad Orde kiemſt, 1. Piſt. 1. helldur og þad, ad hvert Barnid ꜳ medal vor ꜳ Koſt ꜳ, ad nema þa Himneſku Speke um̃ Endurgietninguna og heñar Kraft, ſem þeſſe Hꜳlærde Olldungur viſse eckert af. Gud giæfe, ad bæde Kienne-Fedur og Forelldrar hefdu ſo mikla Aſtundan ꜳ, ad brijna þvilijkt fyrer ſijnum Bornum og hinum Einfolldu, ſo ſem þad er liooſt i Guds Heilaga Orde! þꜳ mundu Menn ecke ſvo oftlega flecka ſitt Skijrnar Klæde ſem Menn giora, þa mundum vær hafa meira Trauſt i Mootgꜳnginum og i Freyſtingunum, af þvi ad vier erum Chriſto iñplantader og ſetter i hañs Rijke, og Kraftur Skijrnariñar munde framar auglijſa ſig i Endurnijungu Lijfdaganna og Deydingu Holldſins, helldur enn almennelega ſkiedur.

Þad er merkelegt, ad Endurlauſnareñ brwkar þetta Ord: Ad Fædaſt ad Niju. Skijrneñ er ecke neiñ Stundar Þvottur, er giorer Mañ hreinañ um̃ ſiñ fyrer Gude, helldur verdur hiñ ſkijrde nij Skiepna i Guds Auglite, og þar fyrer kallaſt þad Endurgietningar-Laug, Tit. 2. Hverrar Kraftur varer um̃ allañ þeſs Alldur, er ecke afrœker ſiñ Skijrnar Sꜳttmꜳla, helldur koſtar Kapps um̃ ad endurnija hañ med Betrun Lijfernisins Daglegana. Sieꜳed til, Born mijn! Madurenn fædeſt i Heimeñ daudur i Uppruna Syndenne, blindur i ſijnum Sꜳluhiꜳlpar Efnum, þvi Holldlegur Madur ſkyniar ecke hvad Guds Anda er, ſegier Paulus, 1. Cor. 12. Er þad ecke þꜳ ad fædaſt ad niju, ad Heilagur Ande i Skijrniñe upplijſir Hugſkoted, endurſkapar Viliann, og giefur oſs nijar Andlegar Gꜳfur, ad vier fꜳum ſied Guds Rijke, þeckt þad i Trwnne, ſamſinnt þvi er um̃ þad talad verdur, ad vier leitum þeſs, lꜳngar efter þvi, og odlunſt þad um̃ ſijder, hvad Omogulegt er Hollde og Bloode, ſvo ſem Poſtuleñ vottar, 1. Cor. 15. Spekingarner ſegia, ad Madureñ ſie Madur fyrer Sꜳlarennar Skulld; Þvi añars bere hañ eckert af Kvikindunum; ſvo er hañ og Guds Madur alleina fyrer Heilagann Anda, er vier i Skijrninne medtokum, añars er hañ ecke einaſta Skyñlaus, helldur og daudur i Andlegañ Mꜳta; Þvi er þetta Guds Verk riett kallad Endurfæding.

J Annañ Mꜳta er oſs kunnugt, ad vier fædunſt i Heim þeña Born Reidennar, ſem Paulus ſkrifar; Þañig er vor nꜳtturleg Fæding, enn i Skijrnenne verdum vier Guds Born, þar verda oſs, fyrer alls eckert, alleina fyrer Jeſu Chriſti Forþienuſtu, Synder-

nar fyrergiefnar, enn vier riettlætter fyrer hanns Naad, og til Arfs tekner med Guds Syne; Hvi so wtmaalar Paulus Endurfædinguna, Tit. 3. Segied mier: Er ecke slijkt ad niju fæddur ad vera? J Pridia Maata, iñibindur og Skijrnenn i sier Avoxt Endurfædingareñar, sem er Endurnijungenn, hver ed daglega aa fram ad koma og i Voxt ad fara, fyrer hvoria Madurenn endurfæddur verdur ein nij Skiepna, 2.Cor.5. skapadur i Christo til goodra Verka i Skijrninne, enn iklædest daglega einum nijum Mañe, sem endurnijast efter hañs Mynd er hañ skapad hefur: Og i þessu Þrennu er Endurgietningeñ foolgenn, hveria DRotteñ vill teiknad hafa med þvi Orde, ad Fædast ad niju. Þo skal engenn so daarlegur vera, ad hann meine ad þad noog sie, ad færa Bornenn aa Kyrkiuna, og laata þau þar Vatne ausa, og tala Guds Ord yfir, eñ alldrei sijdañ vekia i þeim Kraft þessa Himneska Medals med Gudrækelegre Uppfrædingu. Þolannlegra være ad kasta þeim wt aa Morkena, og laata uppeta af Vorgum, sem þo er hinn verste Glæpur, helldur eñ ad ala þad upp, sem Gud skapade i Moodur-Lijfi, og Endurskapade med Heilogum Anda i Skijrnar-Laugeñe, Fiandanum til Þioonustu og honum i Braad, sem er Guds svareñ Ovinur. Uñskoreñ var Nicodemus; Endurgietiñ var hañ efter þeirre Guds Skickan sem varde allt til Christum, enn þo var hañ so Oscroodur um sialfs sijns Endurfædingu. Meinar þu ad Barne þijnu, sem kañskie alldrei fær ad heyra nema Faavitskuna, þvi mune betur farnast eñ þessum Lærda Manne? Nema þu aler þad aa hinne hreinu og skynsamlegu Mioolk Guds Orda, sem Petur umtalar, 1.Pist.2. ef þu ert fær þar um; og siert þu ecke, sem eg dylst ecke vid ad margur mune vera, hvad Gud betri! þaa skamast þijn ecke ad gaanga med Nicodemo, jafnvel aa Naattar-Þele, þad er heimuglega, ef þu blygdast vid ad giora þad Opeñberlega, þar þu ert gamall vordeñ, til Christi Þienara, edur añarra sem betur vita, til ad læra Fræde þe, er þu maatt ecke aan vera, so þu faaer hoolped bæde þiñe og svo þeirra Saalum, er þier er siltrwad, nema þu vilier kveliast aasamt þeim, i eilijfum Helvijtis Loga, sem Gud hafde boded þier med christelegre Uppfrædingu til Himnarijkis ad leida.

Ecke fær Nicodemus þetta so braadt skiled, er JEsus sagde honum, og þvi talar hañ um Holldlega Fædingu, honum þookte þad Ofgar, ad Madureñ Skyllde hverfa aftur i Siñar Moodur-Kvid, Nær hann er Gamall, Og Fædast Svo Ad Niju. Eñ þoott þad være so laangt fraa hañs Þaanka og yfirgeinge hañs Skynseme, er JEsus talade, samt forlætur hañ ecke DRotteñ ad helldur, og vill heyra meira hier um talad. Olijkur var hañ þeim, sem aa vorum Dogum ecke vilia laata sier i Guds Orde undervijsa; St. Paals Spaa er rætt aa þeim, er hañ segier, 2. Tim.4. Ad þær Tijder mune koma, ad þeir mune ecki lijda Heilsusamlegañ Lærdoom: þeir hlaupa i Felur nær þeirra Christeñdoom aa ad rañsaka, þeir skioota Bornum sijnum undañ, nær þvilijkt skal um Hond hafa, þeir hæda ad Kiennendunum, nær þeir i slijku vilia giora sitt Embætte, og hroosa þvi hver fyrer odrum, ad þeir aa einhvern Haatt hafi gietad sloppld fraa þvi, ad laata Leidseigia sier til Himna-Rijkis. Þetta giora nockrer af þeim aa medal vor, sem bædi eru

skÿrder og gaanga til Guds Bords, Þrisvar, Fioorumsinnum a Are hveriu, enn reidast Guds Þienara, ef hañ vill ecke leifa þeim og Børnum þeirra, ad eta og drecka Holld og Blood DRottens sier til Fordæmingar. Þu Vitfyrringur! Munt þu þa helldur vilia til Helvijtis fara, og þar eilijflega brenna, enn ad lia Eyru þijn heilsusamlegre Kienningu, so þu meiger þinna Saaluhiaalpar Medala verduglega niootande verda? Edur villt þu leida þinn Kienne-Fodur i þann Saalar-Voda, ad hañ hafe Altared til ad syndga, eins og Ephraim? Þad giora þo aller þeir ed þa vijsvitande til Altares taka, sem þess Overduger eru. Ecke styggest DRottenn vid þessa Einfelldne Nicodemi, hañ vill ecke þenna braakada Reyr i sundur brioota, helldur til þess, ad uppræta þessa Faavitsku wr hañs Hiarta um̃ lijkamlega Fædingu, þa segier hañ hverneg þessare andlegu Endurgietningu sie vared, med þessum Ordum: Nema Ad Einn Endurfædest Af Vatne Og Anda, Þa Kann Hann Ecke Ad Inngaanga J Guds Rijke. Hañ blessadur hafde þa allareidu skijrast laated nær þetta skiede, og Johañis Skijrn hefur Nicodemo alkuñug vered, þa var og Logmaal Umskurnarennar afmaad, so ad i Christo gilldte hverke Umskurn nie Yfir-Hwd, þvi Tijme Endurbootarennar var komeñ, sem Paulus um̃gietur, Hebr. 9. Enn Skijrnenn var aptur i heñar Stad iñsett, og DRottens Kvolldmaaltijd komu sijdar i Stadenn Paaska-Lambsins, hver ed vara mun aasamt Skijrnenne þar til Verolld þrijtur. Þess gietur Paulus, 1. Cor. 11. er hann bijdur, ad vier med þessu Himneska Giesta-Bode skulum kuñgiora Dauda DRottenns þar til hañ kiemur; Til þessarar Alvijsu Raadstofunar hinnar Haaleitu Guddoomsins Þrenningar, vijsar nu Frelsareñ þessum sijnum Læresvein, og leggur Ordsokena til, sem þesse goode Madur hefr ecke aadur skyniad; Hvad Sem Af Holldenu Er Fædt, Þad Er Holld: Eñ Hvad Sem Af Andanum Er Fædt, Þad Er Ande. Þad er Upphaf Christenndoomsins, ad Madurenn vite ecke einasta ad hann sie spilltur ad nockru Leite af Uppruna Syndenne, helldur og olldungis i Syndenne daudur, so ad vor Naattura verdur ad endurfædast med ollu; hvad Omøgulegt er ad skie kunne, nema fyrer Almættis Kraft Guds, er Mañeñ i fyrstu skapade riettañ edur heilagañ, so sem hiñ vijse Salomon ad Orde kiemst, Pred. 7. og þess vegna hefur vor goode Kieñe-Fader Lutherus laated Logmaaled undañ gaanga odrum Portum christelegs Lærdoms, ad vier af þvi kyñum ad sia vorn holldlegañ Saurugleik, so þad yrde þañig vor Typtunar-Meystare til Christum. Eñ Hvad Sem Af Andanum Er Fædt, Þad Er Ande; Þad er, þad sem endurfædt er, og af Gude fædt, Joh. 1. J hverium Guds Sædi er, Joh. 3. þad er Ande: Ecki so ad Holldid um̃breitist i Anda, helldur verdur saa hinn same andlegur Madur, eins og Adam vard ad lifande Saal, 1. Cor. 15. þad er lifande Madur, hann verdur eiñ Ande med Gude ef hañ aahanger honum, 1. Cor. 6. og foottredur ecke Guds Saattmaala, jafnvel þoott ecke sie þess Von i þessu daudlega Hollde, ad vier alldeilis andleger verdum, þvi sw er Glijmañ aa mille Holldsins og Andans, er Paulus so optlega talar um̃; Þad skiedur fyrst i Upprisu Riettlaatra, ad vier andleger verdum til fulls, þa munu vorer Lijkamer andleger og Englunum

um jafner verda, og vorar Saaler eitt med Gudi, sem verda mun allt i ollu aa þvi Gled-
innar Lande; Þvi nefnist hun og Endurfæding hiaa Matth. 19. Cap. Þad er Uppreisn
allra Hluta, so sem Petur þad kallar, P.G.3. Vissi DRottiñ ad ei mundi Nicode-
mo skiliast þetta eñ nu, þvi segier hañ hier strax eftir; Undrast Ecki Ad Eg Sagda Þi-
er, Ad Ydur Byriadi Ad Nyu Ad Fædast; Og ecki einasta segier hañ þad, helldur
þar ad auke framsetur hañ eitt Omootmælañlegt Dæmi uppaa Faavitsku hañs, og añ-
ara daudlegra Maña, sem laangt eru fraa þvi, ad skilia þaa Hlute, er þeir daglega um-
gaangast, aukhelldur ad þeir skynia mune þaa Himnesku, er svo laangt yfergaanga mañ-
legann Skilning; Vinduren Blæs Og Þu Heyrer Hanns Þyt, etc. DRottiñ blies
aa Lærisveinana og sagde: Medtaked þier heilagann Anda. H. Ande kom i sterkum
Vinde yfer Postulana aa Hvijtasuñudøgum. Svo tekur nu Frelsareñ hier Dæme af
þeim Hlut, sem Andanum var lijkastur, til ad hiaalpa Faafræde þessa einfallda Mañs.
Vier heyrum aller Vindeñ þioota, vier fiñum hañs Megn aa Lijkamanum, eingeñ sier
hañ þo, eingiñ veit hvar hañ hefur sijn Upptøk, Vinduren blæs aa sømu Stundu i Ims-
um Stødum, af Austre og Vestre, af Nordre og Sudre. Seig mier, hvar hafa þesser
Vindar sijn Upptøk? Hvert fara þeir? Hvar slotar þeim? Fyrst eingiñ hefur eñ nu fund-
ist svo vijs, ad hañ giete sagt oss þad, hversu munum vier þa skynia þad sem miklu meir
yfergeingur vorn Skilning; Eñ Svo Eru Og Aller Þeir, Sem Af Andanum Eru
Fædder: Þeir fiña Guds Anda Hræringar i Saalu siñe, þegar hañ straffar Syndina,
uppvekur Ydranena, lijfgar Trwna, kveiker Elskuna, efler Þoliñmædina, og verkar ad-
rar christilegar Dygder. Vier vitum og ad hañ er fraa Gudi komiñ, af þvi Ritning-
iñ hefur sagt oss þad, eñ hvernig hañ er fraa Gudi wtgeingiñ og i Hiartad komiñ, þad vit-
um vier ecke, þvi Guds Rijki kiemur svo þad verdur ecke adgiætt, seger Frelsareñ, Luc.
17. Ecke helldur vitum vier hvert hañ fer, þvi Andiñ fer i burt og kiemur iñ aptur, vier
vitum ad hann færir oss iñ i eilijft Lijf, ef vier slockvum hann ecke, eñ þad Lijf þeckium vier
ecki nema svo sem fyrer Speigil og i Raadgaatu, þvi þad er Osynilegt enn nu hvad vier
verda munum, og vort Lijf er foolged i Gude, Col. 3. Þar fyrer saa sem finnur Verk-
aner H. Anda i Saalu sinne, og vill þo ecke Endurfædingunne trwa, þad er eins og vill-
de hann neita þvi ad Vindurenn bliese, enn giæte þo ecke sialfur aa Jørdunni staded
fyrir Ofvidre. Ef vier þvi neydunst til Naatturunnar Verkum ad trwa, þoott ei skil-
ium vier þeirra Ordsøk eda Upptøk; Þvi skylldum vier ecki giefa vora Skilningu faang-
na under Hlijdne Trwarinnar i andlegum Efnum, sem svo miklu eru Oskilianlegre?

Ecki ber Nicodemus aa moote þessum Vijsdoomsfulla Sannleika, er DRotteñ tal-
ade, eñ þo vill hañ frædast giør hier um, og þvi segier hañ: Hvernig Maa Þetta Skie?
Þar fyrir tekur Lausnariñ til þess sem sterkast var, þad var hañs eiginn Vitnisburdur,
sem er i Fødursins Skaute: Sañlega, Sannlega Segie Eg Þier, Vier Vitum Hv-
ad Vier Segium, Og Vitnum Hvad Vier Sied høfum. Engiñ Røk edur Vitne
eru svo sterk sem þetta: Gud hefur þad talad. Þvi sagde JEsus Fordum vid Gyd-
inga

inga, Joh. 8. Þott eg beri Vitni af sialfum mier, þa er þo mitt Vitni skodugt; Enn þetta visfi Nicodemus eñ þa ecki; Hañ sagde ad soñu i Ondverdu Samtalinu: Meistari, Vier Vitum Þu Ert Eiñ Læri=Fadir Af Gudi, Þvi Enginñ Kañ Ad Giora Þau Verk Sem Þu Giorer, Nema Gud Sie Med Honum. Hefde hann sagt: J honum, þa hefdi hann riett talad; Enn svo var hann enn þa ecke uppliistur, þo byriade honum ad trwa Christo, þat hañ jaatade, ad hann være af Gude, og giorde svo mikil Kraftaverk; Eñ DRottiñ liet hann ecki leingi vada i Villu þessari, helldur skiirir honum berlega fraa, hver hañ sie, segiande: Enginn Mun Uppfara Til Himins, Nema Hann Sem Ofañ Stie Af Himne, Mañsins Sonur, Hver Ad Er aa Himne. Þetta Ord ad uppstiiga til Himins, merker i Ritningunne, ad ransaka Guds Leyndar=Raad; svo seger Agur til Jthiel og Uchal, Ordsk. 30. Þad er um hann sem heiter Gud Med Oss og saa Maattuge, þad er Christur; Hver mun uppfara i Himininn, og ofañ þadañ? Þad er, hver mun Guds Leyndardooma ransaka? Þar um talar so Moyses, Devt. 20. Þad Bodord er eg biid þier i Dag, þad er ecki hulid fyrir þier, edur langt i burtu, þad er ecki i Himninum, svo þu segia þurfir: Hver mun fara fyrir oss upp i Himiniñ? Þau Ord wtleggur St. Paall, Rom. 10. Þegar hann hefur aadur talad um Leyndardoom Mannsins Riettlætingar fyrir Gudi, Cap. 9. Þu skallt ecki segia i Hiarta þijnu; Hver mun fara fyrir oss upp i Himininn? Þad er ad toga Christum ofann wr Hædunum: Hvar fyrer? Þvi hann var Einusinni ofann til vor kominn, og færdi oss þessa himnesku Speki wr Skauti Fodursins, þvi þurfti einginn upp aptur ad fara i Himiniñ, til ad rannsaka Guds Vilia um Mannsins Saaluhiaalp; Þad er hid sama sem DRotteñ seger hier Nicodemo: Eg sem ad vid þig tala i Lijkingu syndugs Holldz, ad Hegdan fundinn sem Madur, og er ofannkomiñ af Himni af miins Fodurs Skauti; Eg veit hvad eg segie, og vitna hvad eg sied hefe, einginn añar mun uppfara i Himininn til ad rannsaka Guds Vegu, nema eg sem nu er aa Himne, þoott eg hier vid þig tale, þvi byriar þier mijnum Ordum ad trwa, ef þu villt hoolpinn verda. Þessi er Efalaust Meining Frelsarans, þvi einginn hefur um Alldur Gud sienann, saa eingietne Sonur Fodursins, sem er i hanns Skaute, hann hefur oss þad opinnberad, seger Joh. Cap. 1. Eñ Lijka Sem Moyses Upphoof Hoggormiñ aa Eydimorku, Svo Byriar Mannsins Syni Upp Ad Hefiast, segir Frelsariñ. Einhver mætti adspyria: Hvad kiemur þesse Fyrermyndan hier vid? Einginn er betri, christiñ Madur, i ollum Fiaarsioodum Ritningarinnar, einginn sem betur hlijdi uppaa þad Efni, sem hier var umtalad, þvi valdi Frelsarinn hana til ad sannfæra Nicodemum med, hver hañ visfi ad var uppfræddur i Logmaalinu. Paulus seger, Hebr. 9. er hann þijdir gamla Testamentisins Foorner uppaa Christum, sialfur Gydingur fyrer odrum Gydingum: Hversu miklu framar mun og Bloodid Christi (seger hañ) sem fyrir hiñ eilijfa Anda hefur Fornfært sialfann sig Oflekkadañ Gudi, hreinsa Samvitsku vora af daudlegum Verkum, til ad þioona Gudi lifanda. Seged mier, hvar verda vorar Samvitskur fyrst hreinsadar? J

Skijrn,

Skijrninni, þar fyrir kallar Petur hana Saattmaala goodrar Samvitsku; Fyrer hvad verda þær hreinsadar? Fyrer JEsu Blood, sem vitannlegt er af Postulans Ordum, er strax voru lesinn; Hvar gaf Frelsariñ þad wt? J Grasgardinum, i Þijng-Hwsi Pilati, enn allra hellst a Krossins Gaalga, þvi þar blæddi sialfu Lijfinu til Olijfis, og Daudi hañs var Fullkomnan vorrar Hreinsunar; Þvi sagde hann undir Andlaatid; Þad Er Fullkomnad. Hver Fyrermyndan gamla Testamentisins hlijdir nu best uppa Krossfestingu DRottins? Enginn betur eñ þessi, nær Moyses, epter Guds Bodi, upphoof Eyrormiñ a Eydimorku; Moyses hengdi Ormiñ upp a Tried; svo er og JEsus a Gaalgañ upphengdur; Uppa Tried bar hañ vorar Synder, og festi þar Handskriftina þaa sem mooti oss var, Col. 2. J þeim Ormi var eckert Eitur, þoott hañ væri hinum odrum lijkur. Guds Son er ad allre Hegdan fundinn sem Madur, þo aan Syndar; Hann er fyrer oss synduga Orma Madkur og ecki Madur vordinn, jafnvel þoott hann væri Hreinn og Heilagur, og fraaskilinn Syndurunum; Jaa, þoott hañ ecki visse af Synd, þa giordi Gud hann ad Synd, so vier yrdum Guds Riettlæti i honum, 2. Cor. 5. Aller þeir ed litu þañ Eyrorm, sem Moyses uppfesti, þeir urdu læknader af Eitur-Orma Bitinu. Þu, miñ HErra JEsu, ert a Tried upphafiñ, so ad aller þeir ed þig lijta Trwarinnar Augum, þeir verde læknader af þvi Biti, er hun slægi Höggormur Diøfullinn beit vora Fyrstu Moodur med, og oss sijdann daglega bijtur; Þvi seger hier og i Gudspiallinu: So Byriar Mannsins Syni Upp Ad Hefiast, So Ad Aller Þeir Sem a Hañ Trwa Fyrerfariſt Ecki, Helldur Hafi Eilijft Lijf. Þu hefur sagt, DRottinn miñ; Ef eg upphafiñ verd, mun eg draga alla til mijn, Joh. 12. Þad er ecki Gydinga einasta, helldur alla þaa af øllum Þioodum, sem þiñ Fadir hefur þier gefid. So drag oss þa, HErra JEsu, sem bwum i þessu faatæka Landi, hveria þu eins vel leyst hefur med þijnu dijrmæta Bloodi og adrar Þiooder; Drag oss (sege eg) undir þiñ Kross ef þier so lijkar, jaa, uppa Krossiñ med þier, ef þad maa til þiñar Dijrdar gagna og vorrar Saaluhiaalpar. Þad er oss fyrir miñstu þijnum miñstu Bræælingum; Vier vitum þu sagdir vid Gydinga: Þegar þier hafid Mañsins Son upphafid, þa munud þier þeckia ad eg em hañ, Joh. 8. Þvi trwum vier ad þu ert, DRottiñ miñ, ad sigrudum Dauda, Diøfle og Helvijte, yfir alla Himna hafiñ i þijna Dijrd, til ad bwa oss þar Vist i þiins Fødurs-Hwsi. Drag oss þaangad med þier, O! HErra JEsu, so ad hvar sem þu ert, þar mege og þijner Þienarar vera: Þier med Fødur og heiløgum Anda, sie Valld, Heidur, Dijrd og Kraptur, þu haaleita Guddoomsins Þreñing, um Allder Allda, Amen.

# Fyrsta Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 16. Cap.

I Pañ Tijma. JEsus sagde til Phariseaña: Þar var einn rijkur Mañ, sem klæddest Pelle og Purpura, og lifde hvern Dag i Vellistingum praktuglega; Og þar var eiñ Purfa-Madur Lazarus ad Nafne, hver ed wte la fyrer hañs Dyrum, fullur Kauna; hañ gyrntist ad sedia sig af þeim Molum, sem fiellu af Borde hiñs Rijka. Þa komu Hundar og sleiktu hanns Saar. Eñ so skiede, ad hiñ Volade andadest, og vard boreñ af Englunum i Fadm Abrahams; Eñ hiñ Rijki andadist lijka, og var greftradur: Eñ sem hañ var i Helvijte og Kvølunum, hoof hañ upp sijn Augu, seit Abraham aaleingdar, og Lazarum i Fadme hañs; Þvi kalladehañ og sagde: O! Fader Abraham, myskuna þu mier, og send Lazarum hijngad, ad hañ drepe hinu fremsta sijns Fijngurs i Vatn og kiæli Twngu mijna, þvi eg kvelst i þessum Loga. Og Abraham sagde til hañs: Sonur, hugleid þu, ad þu medtookst hid Gooda i Lijfi þijnu, og Lazarus lijka hid Vonda; Þvi hlijtur hañ nu ad huggast, eñ þu ad kveliast. Frañ yfer allt þetta, er, aa millum vor og ydar, mikid Diwp stadfest, so ad þeir, sem hiedañ villa fara til ydar, gieta þad ei, og eige þeir helldur þadañ fraa ydur, upp til vor komist. Og hañ sagde þa: Eg bid þig Fader, ad þu sender hañ i mijns Fødurs Hws, þviad eg hefi Fiñ Brædur, þad hañ skijre þeim fraa, so ad eige kome þeir i þennann Kvgla-Stad. Og Abraham sagde til hañs: Þeir hafa Moysen og Spaamennina, heyre þeir þeim. Enn hann sagde: Ney, Fader Abraham, helldur ef nockur Frañlideña fære til þeirra, þa mundu þeir Jdran giøra. Eñ hañ svarade hønum; Ef ad þeir heyra ecki Moysi og Spaamøñunum, þa munu þeir ecki helldur trwa, þo ad nockur Frañlideña upprijse.

## Exordium.

Vilie ydur Audur til, þa henged ecke Hiartad þar vid, seger David, Psalm. 61. Ecki fordæmir hann Audenn i sialfum sier, helldur ofmikla Elsku aa hønum. Rijkdoomureñ er goodur þeim, er riett kañ ad brwka hañ. Audur er Afl þeirra Hluta sem giøra skal, seger Cicero. Orlaatur Madur Felaus, hann er eins og einn Kappe Vopnlaus. Eckiañ sw er lagde eiñ Pening i Guds Kistuna, hun lagde ad soñu meira enn aller hiner Rijku, þvi hun gaf af Faatækt sinni; Eñ hefdu þeir eins mikid giefid af siñi Audlegd, epter þvi sem Tala rañ til, þa munde þad og af DRottne ecke [illegible]dur vel hafa þeiged vered. Være Rijkdoomurenn ecke Guds Blessan, þa munde

de hañ ecke hafa heited honum til Launa sijnum Elskendum, er vardveita hañs Bodord, og ecke sæmt Astvine sijna þar med. Abraham, Isaac, Jacob, Joseph, Barzelai, hin Sunamiska, Joseph af Arimathia, og adrer miklu fleyre voru Rijkismeñ og þo Guds Viner kallader: Eru þvi Audæfeñ stoor Astgiof DRottens, þvi segier Salomon Ordsk 10. Ad Blessan DRottens giore Rijka, og Hormungeñ mune ei nœalgast þa, þau eru riettvijsum Manne til mikils Heidurs: Þvi segier hann eñ þa aptur, Ordsk. 14. Audæfe hinns Vijsa eru hanns Corona; Med þeim kunnum vier Londum og Lijdum ad hiœalpa, med þeim fœaum vier sett Børn vor og Nœaunga til Menta og Mann-Kosta, med þeim kunnum vier ad biarga Nœaunganum i sinne Angist, med þeim gietum vier aflad ofs Fie-Siooda œa Himnum, ef vier stundum epter ad vera Rijker i goodum Verkum, 1. Tim. 6. svo þeir medtake ofs i Eilijfar Tialldbwder, ef vier giørum gott þar af i sañri Trw, og i Guds Nafne, hvar fyrer ad sœa ed Fœatækum giefur, hann lœanar DRottne, og hafa Menn alldrei betur vared Fe sijnu. So eru nu Audæfenn stoort Guds Lœan og hanns Elsku Merke, nær þau riettfeingenn eru og riett brwkud; Enn so sem þau eru hinum Froomu og Riettvijsu til mikils Heidurs, so eru þau hinum Ogudlega og Agiarna nærsta Ohorf og Skadsamleg; þvi segier DRottenn, ad Nœanglætesins Fie-Siooder sieu Elldur i Hwsenu: Jœa, þoott einn sie vel komenn ad Aud sijnum, enn brwkar hann þo Gude til Stygdar, til Ohofs og Metnadar, til ad underþrickia hinn Vesæla og Lijtelmagnann, og helldur honum til Okurs, og inne fyrer Verka-Mannenum, og hinum Fœatæka, sem Gud hefur skipad ad ala, þa er hann Bolvanenne undervorpenn; þess gietur hinn Vijse med þessum Ordum: Sa ed prettar hina Riettlœatu œa vondum Veige, hann mun i sinne Glotun hrapa, og hiner Einfolldu munu eignast hanns Gootz: Jœa, soddann Audlegd er hveriu Volæde argare, so þad er Kongdoomur ad fara œa Vonar-Vol alla Æfe sijna, hiœa soddann Rijkdoome. J þessa Dags Evangelio verda ofs fyrer Siooner setter Tveir Menn, Einn Rijkur, Añar Fœatækur. Vier vilium i Guds Nafne skoda 1. Dæme hinns Rijka, og so hanns Afdrif. 2. Hinns Fœatæka, og so hanns Endalok.

Þu goode Gud, sem alleina Rijkur ert, hiœalpa ofs med Rijkdoome Nœadar þinnar, ad giøra þetta Verk i þijnum Otta, fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

HAN Var Einn Rijkur Madur, segier Textenn. Rijkdoomureñ kann engum af sialfum sier ad banna inn i Himnarijke, so sem i Inngœangenum sagt er, þvi siœaum vier og i Gudspiallenu hiñ Fœatæka Lazarum i Skaute hiñs Rijka Abrahams. Tokum Vanbrwkunena i burtu, og mun Auduriñ ecke skada, giorunst rijker i goodum Verkum, og mun þad nockud til Himnarijkis gagna; Eñ þad vantade þenna rijka Mañ: Hañ Klæddest Pelle og Purpura, segier Texteñ. Pell var eiñ Vefnadur Forkuñar væñ og Gullvægur halldeñ, hañ er nu ecke ad fœa i Heimenum; Sama er um Purpurañ ad segia, þad var eiñ Litur forkostulegur, tilbweñ wr Skiel-Fiskiar Bloode,

og er nu ecke ad fiña i Verolldeñe. Hverttveggia þetta var Konunga-Bwnadur, og annarra Hofdingia, og leifdest ei Mwga-Moñum ad bera. Þañig var Aaronis Bwnadur, og Hofud-Presta Gydinga, Exod. 28. So var Joseph klæddur, Gen. 41. Þetta Skart bar Daniel, Dan. 5. Þañig var Mardochæus bweñ, Est. 8. Eñ um þeña rijka Mañ stendur ecke i Gudspiallenu, ad hañ hafe nockur þess-Hꜳttar Madur vered, þad er og ecke lijklegt, þvi Frelsareñ munde ei hafa til þess teked, ad hañ hefde so vered i Skart bweñ, hefde hañ vered Hofdinge nockur, þeim er soomt hefde ad bera so dijrmæt Klæde; Og var i þessu ecke lijtill Ofmetnadur. Satt er þad, ad Klædenn giora engañ vondañ nie goodañ af sialfum sier, enn Fatnadureñ er Mañenum giefinn til ad skijla Blygdan siñe, og vardveita Lijkamañ frꜳ Kulldanum; Þvi mætte þad sijnast, ad sa sem kieppest vid ad bwa sig Tiguglegar helldur eñ Virdingu hañs soomer, ad hañ giore þad annadhvert fyrer Lauslætis edur Metnadar Saker, og er hverttveggia stoor Synd i Guds Auglite: Fyrer þvi mun þad ei Syndlaust vera, er Menn brwka til þess ad efla þessa Leste med. Mismunur i Klædnadenum ꜳ ad vera, og var Fordum, til ad adgreina Virdingar Manna, og so er Rꜳd fyrer þessu giort i Lands-Logum vorum: Hvad sem þar fram yfir er, þad er Osidseme og Rꜳnglæte, þvi þad er ad taka siñ Riett frꜳ þeim sem Ædre eru, ad so miklu Leite sem þessum Hiegooma nemur. Eg vil segia, hvert sem ad einn er Kostum bwenn edur ei, þa syndgar hañ ef hañ klæder sig betur eñ hañs Stande soomer; Sie hañ vel ad sier um marga Hlute framar odrum, þa spiller hann miog so Agiæte sijnu, ef hann meinar þad verde ꜳgiætara fyrer Bwningsins Skulld, þvi Salomon i allre sinne Dijrd var ecke so skrijddur sem eitt af Akursins Liliu-Grosum, og vier vitum þo, ad Gud hefur meira virdt hinn Aumasta og Heimskasta Vesæling ꜳ medal vor eñ þau; Eñ vier eigum ad bera somu Virdingu fyrer Hlutunum, og hañ, sem þꜳ skapad hefur; Eñ sie nockur ei nema almennelega Kostum bwinn, og vill þo leita sier Fordilldar af Klædnadinum, þa er mikil Fꜳvitska i þvi. Eg veit ad einn Asne verdur þo alldrei Hestur, þo Meñ setie Gull-Sodul ꜳ hann, og so verdur einn Dꜳre alldrei vijs, hvernig sem hañ mꜳlar sig utann. Þesse Osidur fer miog so i Voxt i Lande voru smꜳmsamañ nu nockur Ar. Ambꜳttenn vill eins klædd vera og Hwss-Moodurenn, Þienarenn eins og Herrann, Sonurenn betur enn hanns gamle Fader. Formeguninn, Mannskapureñ og Vijsdoomurenn er i burtu wr Landinu, enn Bwningur og Klæda-Snid eflest Daglega: Einn Skoola Dreingur kostar ollu til þess ad fꜳ vænann Kiool, enn ad kaupa sier eina Book, hvar af hann nockud gott meige læra, þar hyrder hann ecke um. Og um alla Hlute fram, þa skulu vor Klæde skorenn vera epter Framande Þiooda Snidi, giætande lijted ad þvi, sem DRotttñ segier skie skule ꜳ sijnum Slꜳtrunar-Deige, ad hann vilie straffa alla þa sem bwast Utlendskum Bwnade, Zoph. 1. Hvad vill hier af verda um sijder? Eg ætla DRottenn þurfe ecke ad leggia Hondina ꜳ oss, vær erum vorer eigenn Bodlar i slijku, so ad lijkast er, ef þessu skal leinge fram fara, ad þad mune gꜳnga oss eins og þad gieck Judum, er þeir tooku upp Sidu Grickia, ad þeir urdu þeim ad Brꜳd, hverra Sidum þeir breittu epter, 2. Macc. 4. Fram-

Framveigis stendur hier um̃ þenna Munadar-Kropp, Ad hann hafe Eted Daglega Skijnande Kræser. Epter Textans Ordum er þad so: Hann hiellt sig Forkostulega Gladværann Daglega. Þetta mæ skilia, ad hafi vered i Mat og Dryck og odru Ohoofe, sem heyrer til Lijkamlegs Munadar. Nu er þad hier ad segia, ad DRottenn hefur ecke bañad ad hafa Iñdæle af sijnum Skiepnum i riettañ Tijma og med Hoofi og Sidseme. Siælfur var Frelsaren̄ ad Heimbode Manna æ sijnum Hierviſtar-Dogum i Cana i Galilæa, hiæ Simone Pharisæara, hiæ Zachæo, og optar: Hvar fyrer, þoott hann være hid fegursta Sparneytninnar og Hoofseminnar Dæmi, sem nockurn Tijma hefur skined i Verolldinne, þa var hann þo af Illgiornum Phariſæis Ofneytslu-Madur og Vijnsvelgur kalladur. Iæ, hann liet sitt blessada Hofud smyria med dijrmætu Salve, og þoott hann være allra Hluta DRottenn, bæde æ Himne og Iordu, þa munde hann þad ecke giort hafa, nema slijkt væri leifelegt nær þad er i Hoofi og med goodre Skickan brwkad. DRottenn baud siælfur i sijnu Logmaale um̃ Lauffskaala Hætijdena, Levit. 23. Þier skulud vera glader fyrer DRottne Gude ydar i Sio Daga, hvert Logmæl ad Moyses Itrekar, Devt. 12. Þier skulud eta fyrer DRottne Gude ydar og glader vera, þier og ydar Hyske, af ollu þvi sem þier rietted ydar Hond til af hvoriu DRottenn Gud hefur blessad þig. Og fram̃veigis i hinu Atianda Versi segier hañ; Ad þeir skule ecke eta iñañ siña Porta æ Lauffskaala Hætijdiñe sijnar Korn Tijunder, eda Tijunder af Mustiñe edur Oliuñe; enn hann segir; Þier skulud eta þad þar i þeim Stad sem DRotteñ Gud wtvelur, þu og þiñ Sonur og þijn Dotter, Þræll þinn og Ambæatt þijn, og Levitinn, sem er innañ þinna Porta, so skallt þu gledia þig fyrer DRottne Gude þijnum: Hvert Logmæl Nehemias og Hezras Kennemadur aptur innleiddu epter Herleidinguna, Nehem. 8. Er þeir budu Foolkenu æ Lauffskaala Hætijdinne: Eted hid Feita og drecked sætañ Dryck, og sendid þeim eiñ Part, sem eckert tilbwed hafa. Af þessu er audsært, ad hinn goode Gud hefur ei bañad ad gledia sig i Hoofi, þo so, ad Menn dyrdke hann med Virdingu, og gledie sig med Otta, sem David bijdur, Ps. 2. Vijn og Vister eru fyrer Mannenn skapadar, ecke forgiefens, helldur honum til Unadseindar og skickanlegrar Brwkunar, enn Vanbrwkuninn kiemur af Holldenu og af Fiandanum. Vid þetta Guds Epterlæte æ nu Metnadur og Ohoof ens Rijka Sælgiætings eckert skylldt. Hier stendur, ad hann hafe hallded sig Forkostulega Gladværann Daglega: Þad er ad skilia, hañ var allur sockenn i Munad Veralldar þessarar, hyrdte eckert um̃ Gud, eckert um̃ sijnar Synder, eckert um̃ hid komanda Lijf, edur sinn Dauda, helldur hafde hañ Magann fyrer sinn Gud, so sem Postulenn ad Orde kiemst, Philipp. 3. Iæ; Riett eins og Esajas segir i 56. Cap. Komum, læatum oss fylla oss af sterku Vijne og Morgun-Dagurenn skal þessum lijkur verda, og enn þa kostulegre: og vantar oss ecke þa i Lande voru, er hid sama giora mundu, hefdu þeir Ræd, eins og þesse. Eckert hyrda þeir um̃ sitt Embætte, eckert um̃ sitt Fram̃ferde, eckert um̃ Landsins Gagn, eckert um̃ sijna Sæluhiælp, eckert um̃ sijna Burtfor af Heiminum, so

sem hefdu þeir Feste-Brief af Andskotanum, ad þetta skule Efeñlega vara, Jaa, um̃ eingañ Hlut nema um̃ Muñ og Maga, og þad sem þeir kuñe ad hafa til ad þioona þeim med jafnvel þoott þad skule verda hripsad wt af Munne Naungans med Ofbellde og Raangindum. Nu voru þesser Lester hinns Rijka Sælkiera so vonder og fordæmannleger, sem allareidu er nockud um̃talad, enn þad jook ofmiklu aa, ad hinn Vesæle Lazarus, fullur Saara og Kauna, laa Hwngradur fyrer hanns Dyrum; Og er lijklegt, ad hañ hafe nærsta Klædfaar vered, þvi saa sem eckert hafde til ad sedia med siñ Hwngrada Maga, hañ mun ecke hafa miked haft til ad klæda hinn saara Lijkama. O! Hvilijk skielfeleg Hardydge var þetta? Eckert þurfte þesse Gudlause Kroppur ad missa af sijnu Borde, til ad sedia þeña Vesæling med, þvi hann gyrntest ad sediast af Molum þeim, er fiellu þar af; Eckert af sijnu Pelle og Purpura, þoott hann hefde kastad einne Flijk aa hann (sem hañs Þrælar villdu ecke bera) til ad hylia sijn Kaun med; Eñ þvi var ei so vared: Hundarner voru myskunsamare helldur enn hann, sem Gud hafde giefed Vit og Skyn, og þar ad auke Fullsælu Fiaar, þvi þeir komu og sleiktu Kaun hanns, og maatte lijklega segiast, ad þeir mundu fyrr inngaanga i þaa Himnesku Jerusalem, Openb. B.22. hefdu þeir þar til skapader vered, helldur enn þetta Villu-Dyr.

O! Gud giæfe, ad þeir sem hann hefur blessad med Audlegd Veralldar þessarar, þeir villdu þo, segie eg, einhvern Tijma hugleida, hvad miked þeir eru Guds voludum Limum skylduger. Seig mier, þu sem vellter þier i Maurunum, og varla veitst hvad þu skallt af þeim giora: Þegar þier var kastad inn i Heimeñ under eins og Faatækis Barnenu, hvad hafder þu til meira unned af Gude helldur enn þad? Voru þid ecke baader eins i Syndenne gietner? Barst þu nockud meira med þier inn i Verolldena helldur enn hann? Edur muntu meira i burtu bera? Hvar fyrer var Gud þa skylldugur til, ad giora þig rijkann enn hann faatækann? Ecke til þess, ad þu skuler kappala þinn syndugann Bwk, eins og þesse Daare, ecke til ad bwa þig i Skart eins og hann, ecke til þess ad upphefia þitt Hiarta edur festa þad vid Audenn, enn gleyma þijnum Broodur, sem ad naudstaddur er; helldur til ad dyrdka sig þar med, og leggia so miked af vid hann sem Gud krefur, þvi hann er Hwsbondenn, enn hañ krefur so mikels, sem hinum Volada maa verda hoolped med, og þu kañt vel ad missa, og þad jafnann nær þu sier edur heyrer einn naudstaddann; og nær þu þad sier edur heyrer, þa vit, ad þar er komeñ einn Skullda-Madur fraa Gude, til ad bedast þess, er hann laanad hefur, og þu hefur Ofmiked, enn hann maa vel biargast vid. Þegar þu krefur Skulldar þinnar hiaa Aumingia nockrum, og hañ hefur þad ecke til sem hañ skal giallda, edur hann maa þad ei missa, aan sijns stoors Baga, þa krefur hann þig under eins, i Guds Um̃bode, þeirrar Skulldar, er þu att honum ad lwka, enn hann hefur Vesælingnum giefed; Laater þu hana ecke til, þa verdur þu Skullda-Þriootur Guds, Jaa, Þioofur i hañs Auglite, þar þu stelur wr sialfs þijns Hende, og hinn straange Hwsboonde mun krefia þig Avaxtar Fiaar sijns i Tollbwdeñe hiaa þeim Rijka Mañe, nær þu uppvaknar i Helvijte og Kvolunum, eins og hañ, ne-

ma

ma þu brwker Raad Danielis, er hañ gaf Nebuchadnezar Konunge, Dan. 4. og afplaanir Raanglæti þitt med Olmusugiørdum vid Faatæka; Heyr þvi Salomonis Ord, er hañ seger, Ordsk. 3. Gleim ecke ad giora þeim gott, sem byriar, nær þijn Hond hefur Efne þar a; Seig ecke til þijns Naunga: Gack burt og kom aptur, a Morgun vil eg giefa þier, og þu hefur þad þo; Og laat þier þad sagt vera, ad hinn Volade hefur miklu meire Riett til þess, er þu eignar þier, helldur enn sialfur þu til ad brwka Guds Laan til Ohoofs og Metnadar, hvert hann margfalldlega bannad hefur. D Rotteñ seger fyrer Muñ Hoseæ, uñ Gydingaña Samkundu, Hos. 2. Hun veit ecke ad eg er hañ, sem gief henni Kornid og Mustina og Oliuna, og sæ heñi anægiañlega Silfred og Gulled, er hun giorer Baal af. Þetta a miog so vel heima hia þeim, sem Gud hefur feinged i Hendur alls Nægter Fiaar, enn þeir draga þad af hañs faatækum Limum, i hveriuni hañ skipad hefur ad dyrka sig, enn brwka þad til ad ala sinn Lauslaatann Kropp, til Nidur-Dreps hønum sem Raanginden lijdur, til ad hefna a Ovinum sijnum. Þesser giora Baal wr þeim Hlutum, sem gooder eru i sialfum sier, og setia hann i Guds Kyrkiu, sem vera atte Hiarta þeirra, þad er hina srgustu Svijvirdingu Foreydslunnar i þann Stad, sem ætte ad vera hinn allra Helgaste. O Gud betre vorar Tijder! Satan hefur Kaupmenn sijna i Guds Kyrkiu medal vor, þad er i Mañaña Hiortum, hveria hann giort hefur ad Ræningia-Bæle, ei sijdur enn Gydingar Fordum Musterid; Eñ hvad selia þeir þa og kaupa? Þeir selia hiñ Riettlaata fyrer Peninga, og hiñ Volada fyrer eina Skoo, þeir troda Hofud Faatækra i Saureñ, og uñturna Vegum þeirra Hæglaatu, Amos. 2. Eñ uñ sijder selia þeir sijnar eigiñ Saaler. Þess gietur Syrach i 10. Cap. med þessum Ordum: Eckert er Raanglaatara Fegiornum Mañe, seger hañ, þvi hañ lætur sala Saalu sijna; Þar fyrer seger Frelsareñ, ad lijted gagne þad Mañinum, ad hañ eigneft allañ Heimeñ, og lijde Topun a Saalu siñe: Hvar uñ þesse Rijke Madur maa øllum þeim liooft Dæmi vera, er elska Kroppeñ meir eñ Saalina. Ecke stendur hier i Gudspiallinu, ad hann hafe verid illa kominn ad Aud sijnum. Þad var hañs Fordæmingar-Søk, ad hañ brwkade hañ til Ohoofs, eñ gleimde hinum Naudstadda og Faaraada: Nu, ef hañ fieck so skielfilegann Doom, hvad vilia þeir þa segia a medal vor, sem ecke einasta stijnga wr sier Augun, nær þeir sia eiñ Þurfamann, edur añañ, sem viñur Bake brotnu fyrer þvi er þeir brwka til Metnadar sier, helldur og ryna Guds Volada Saude, og eta sitt Braud i þeirra Andlitis Sveita? Hvad munu þeir segia vilia? Hvers munu þeir vænta sier, nær þeir eiga ad skilia vid allt þad, er þeir med Raangindum hafa samañdreiged? D Rotteñ seger vid Konungeñ af Tyro, Ezech. 28. Þu seger; Eg em sterkur Gud: Eg by i einu Guddoomlegu Herberge: Eñ skomu sijdar verdur hønum sagt: Muntu nockud segia vid þiñ Veganda: Eg em sterkur Gud? Laangtum eru þeir miñi Maattar eñ Konunguriñ af Tyro hia oss, er sig giora nærri þvi ad Gudum, þegar þeir upphefia sig yfer Guds Ord og Konungsins Løg, þegar þeir fella hinn Saklausa, eñ hefia Skaalkeñ, og þyker so sem þad stande i sijnu Valldi, ad raada

fyrer

fyrer hvers Mañs Giæfu og Ogiæfu, enn þegar Daudenn kiemur so sem ein volldug Hetia og kastar þeim i Bana-Sængina, þegar Samvitskann tekur til ad bijta, þegar Minning Glæpaña tekur ad Ofbiooda þeim, þegar Satan, sem hefur flekad þaa til allskonar Odaada, þegar hann reider Svipuna til, og sýnir þeim Helvijtis Loga, hvar hiñ Rijki kvelst og kveliast mun um̃ Alldir Allda, eñ Guds Reidar-Þruma slær af Himnum ofañ, mun þa vesöl Mañeskia segia: Eg em sterkur Gud? Heyred þetta: O! þier sem vtsiwged Hws Eckna og Fodurlausra, og leited DRottins aa medañ hañ er ad finna. Hinir Agiornu og Ofrijkisneñirner eru med Toeñu Moote, sumer færa Foornir Neti sijnu, og brenna Reykelse fyrer sijnum Veidarfærum, þviad fyrir þau er þeirra Hlutur feitur ordinn, og þeirra Matur hinn besti, so sem Habacuc ad Ordi kiemst i 1. Cap. Þetta, eru þeir, sem reikna þad til sinni goodri Forsioon (riettara ad segia, Raangsleitne sinni og Underhyggiu) ad þeir eru rijkir ordnir, og feiter af añara Braude. Adrer eru þeir ed segia, Blessadur siertu DRottenn, þad eg em rijkur ordinn, eñ drepa þo Slaatur-Saudina med Ofbelldi, og einginn er saa sem ad fædi þaa edur brwki Medaumkan med þeim, eins og þesse same Spaamadur ad Orde kiemst: Þetta eru þeir, sem af Gudi og enu hærsta Valldi eru yfer adra setter, til þess ad þeim lijdi vel, eñ giora þo eckert þad sem Gud og Konungurinn bodid hafa, helldur eta i krijngum sig eins og Ulfar og Byrnir, og sijna þeim einga Mýskun er undir þeirra Valldi stynia, helldur kalla, ber hijngad, ber hijngad, og nær þeir hafa so druckid Blood Vesælingaña, þacka þeir Gudi so sem fyrir Riettfeinginn Sosn. Hverier af þessum verri sieu, er eige so audvellt ad segia, nema þad, ad Hræsninn giorir hina sijdari andstyggilegri i Guds Augliti, þvi af Tvennu illu þa er skaarra, ad eigna Hreckvijsi sinni Klækina helldur eñ Gudi. Hitt veit eg, ad hañ seger um̃ þessa hverutveggiu, Hab. 2. Vei þeim er safnar þvi sem ecki er hañs (hvar skal þad lenda) og þeim ed samañdraga hiñ þietta Leyr. Vei þeim sem er giefiñ fyrir raangfeingnum Abata fyrir Hws sitt, ad hann bwe Hreidur sitt i Hædunum, ad hann verdi frelsadur af Valldi hiñs Vonda, þu hefur eitt skam̃arlegt Raad tekid fyrir þitt Hws, og upprætt margt Foolk, og hefur syndgad aa mooti sialfsum þier, þvi Steiñiñ i Veggnum hroopar þad, og Kvisturenn i Trienu vitnar þar um̃: Eg veit þar er margur er seger, eg safna ecki til þess ad giora eins og þessi rijki Madur, eg helld mig sparlega, eg er ecki Eydslusamur; Þad er gott ef þu safnar riettilega, og giorir gott hinum Volada, enn ef þu safnar einasta fyrir Erfingia þijna, og þad med riettu og raungu, þa maa aalijka gyllda, hvert ad Moab liggur aa Dreggium sijnum, edur og ad hann fagnar i siñi Spyu, og verdur til Athlaaturs, Jer. 48. Þvi skylldi eg steipa mier til Helvijtis fyrir minn Erfingia, i þeirre Von, ad hañ skuli lifa vel epter mig daudañ, og eg veit þo ecki hvert af þvi verdur edur ei, þvi kañskie mijn Ogudleg Bwksorg giori hañ verri i þvi, ad hañ misbrwki þad til Ohoofs er eg med Raangindum safnade, og eg kyñi þar med ad leida hañ til Helvijtis med mier, þoott þad verdi ecki um̃ sama Veg og eg foor; Og hvernig sem þvi er varid, þa plagar Guds Straff ad fylgia

soddañ

soddañ rangfeingnum Aud, þar eru Þusund Meler i hveriu Alnar=Virdi, sem ecke verda i burtu tekner, nema Erfinginn giori sier Vini af þessum Ranglætis Mammona, og vil eg þa helldur giora þad sialfur medann eg lifi, so þeir medtake mig i eilijfar Tialldbwder, helldur enn eiga þad undir honum, sem þo ecki gietur leyst Saalu mijna wr Helvijti, med ollu þvi sem eg honum eptirliet. Þad segest uñ hiñ rijka Purpura Gyck, ad hann hafi Pelli klæddur verid; Þad verdur ecki so greinilega sagt a vora Twngu, hvad þad Ord þijdi, er i Textanum stendur; Enn uñ vidlijkann Vefnad skrifar Plinius, ad hann breñi ecki i Elldinum, þvi voru Lijk Konganna sveipud þar i, a hinni gomlu Brenni=Olld, ad ei blandadist þeirra Aska med Vidar=Oskuñi. Megi eg skiemta uñ hiñ Oskiemtilegasta Hlut, þa villdi eg segia, ad þessi Dari hefdi giort vijslega, hefdi hann tekid nockud af þessum dijra Vefnadi med sier til Helvijtis, hefdi þad matt hlijfa honum fyrir Loganum sem hañ kvaldist i: Enn Englarner voru fwsari til ad bera Lazari Saal i Abrahams Skaut, helldur eñ Dioflarner til ad færa hañs Pell og Purpura og allt annad Oflæti med honum. Lazarus skildi sinn Armood eptir vid Dyr hiñs Rijka, enn hinn Rijki sijna Fe=Dijngiu i sijnum kostulega Gardi, og hrapadi so Fwll og Felaus i þad Dijked sem rijkur af Elldi og Brennisteini: So munu og aller þeir giora, er lata hañs latum i þessum Heimi, enn forsma hinn Naudstadda og Dreigann, og lata hann jafnvel i Hwngri wt af deya, a medann þeir ala sinn giarlijfann Kropp til ad verda Helvijtis Ellds=Matur og Brenni=Foorn Andskotans. Og er so þannig wt=talad uñ hinn Rijka.

Nu eptirfylgir ad tala med faum Ordum uñ hinn volada Lazarum. Gudspialled minnist hanns a þennann Hatt: Þar Var Eiñ Purfa=Madur, ad Nafni Lazarus, Hver ed wti la fyrir hañs Dyrum, fullur Kauna. Allt þad Volædi, sem eiñi Mañeskiu kañ til ad falla, hefur a þessum Manni legid: Hañ var Fatækur, þad var mikil Vesolld, þad er þad, sem flester af oss veria sig hvad mest fyrir, og nockrir selia sijna Arfleyfd i Himninum, til þess, ad vera ecki Fatæker i Heiminum: Soddañ ein Hormung þyker Orbyrgdiñ Manna a medal, þvi segir Salomon, Ordsk. 15. Aller Dagar hins Fatæka eru iller. Textenn seger: Ad honum hafi verid kastad nidur hia Dyrum hinns Rijka, eins og odru Hræe, sem einginn hyrdti uñ, meir eñ þo daudum Hundi væri wtkastad. So breita Menn vid Guds Mynd, þegar hun bijr i liootu Hwsi, og virda Hwsbondann eptir Herberginu. Þesse Forsman hefur og matt auka miklu ofañ a Volæde þessa fatæda Manns, og hefur þad geinged hier eins og Salomon seger, Ordsk. 19. Brædur hinns Fatæka hata hañ, og Vinirnir vijkia i burt fra honum; Enn þad took yfir alla hañs Eymd, ad hann var fullur Kauna, og so Aumur, ad Hundar sleiktu hañs Saar. Maginn hefur kannskie verid Heilbrigdur, og þvi hefur hañ gyrnst ad sediast af Molum þeim, er duttu af Bordi hinns Rijka; Eñ aller adrir Lijkamans Limir so plagadir, ad hañ gat einga Biorg sier veitt, og hefur Magans Heilbrygdi ecki annad giort, enn afla honum þess meiri Pijslar med Hwnga-

rinu og Matar-Lystinni, þar hann feck eckert ad sedia sig af. Sœ sem heilbrygdur er, hann gietur unnid sier Mat, þo hann sie Fœtækur. Forsmœn Veralldariñar er ecki so þwngt ad lijda, þeim er hægt ad forsmœ Heimiñ, sem Heimurinn forsmœir, og er þad þa Kaup Kaups, sem Menn plaga ad segia. Þvi vottar og Pœll um̃ sig, Gal. 6. Ad h.nn sie krossfestur Heiminum og Heimuriñ sier, þad er, ad hver forsmœi añann: Eñ þad er hverium Mootgœngi meira, þegar Gud tekur so Heilsuna af nockrum, ad hann gietur ecki borid edur rœdid siœlfum sier, þad geingur nærst þvi, ad vanta Hugsvolun Guds Anda, og finna ei til hennar, nær Mann lœngar þar epter, þvi soddañ er Helvijtis Pijslum lijkast. Þessu gat Satan nærri Fordum Daga, er hañ sagdi vid Gud um̃ Job, Job. 2. Snert þu hañs Bein og hanns Kiøt, og siœ hvert hann bølvar þier ecke undir Auguñ. Skuli Meñ og satt segia, þa fieckst þessi Guds Madur ecki so miøg þar um̃, þoott hann misti Fiœr-Hluti sijna, Syni og Dœtur sijnar, edur þoott þeir af Saba og Caldœa veittu honum Yfirgœng; Enn þegar Gud leid Andskotanum ad slœ hann med hinum verstu Kaunum, frœ Hvirfli og allt til Ilia, þa took þessi DRottins Vinur, helldur enn ecki, ad lœta sier Hüg fallast. So var nu Lazarus aumur, sem sagt er, og øll hin þijngstu Mootlæti Veralldarinnar lœu œ honum, Ørbyrgd, Klædleyse, Hwngur, Forsmœn, og Lijkamans Vanheilsa. Eñ þu, syndugur Madur, sem ert heill og hraustur, hefur noog til ad klæda og fæda Lijkamann med, og ert af eingum Ovirdtur i neinu, munt þu ecki hafa Ordsøk til ad þacka hinum lifanda Gudi? Þegar þu œlijtur þetta vesæla Hrœ, nidurkastad fyrir Dyrum hinns Rijka, og eckert Auga miskunadi honum, ad hann so vel giørir til þijn, ad þig vantar eckert af þvi, sem hann allt vantadi: Munt þu nockud vera heilagri, helldur eñ hañ? Eg veit ecki hvilijkur hann verid hefur; Þad sie eg, ad hann hefur Guds Vinur verid, annars hefde ecki Sœl hañs verid boriñ af Englum i Abrahams Skaut: Enn hitt veit eg, ad ecki ert þu heilagre eñ Job, hver ed hefur Guds Vitni um̃ þad ad hann hefdi ecki sinn Lijka i Landinu, Job. 2. Hveriu mun þa vera ad þacka, ad þu ert ecki eins plœgadur sem Job og Lazarus, nema Guds Orañsakañlegri Giædsku og miklu Poliñmædi, sem med Rijkdoomi sñar Lœnglundar dregur þig til Ydranar? Seig þvi ecki eins og Ephraim: Eg em rijkur ordinn, allt mitt Erfidi nægir mier ecki, þeir ed syndga, bera Straff Syndarinnar, Hos. 12. Miklu helldur nær þu stijgur œ þijn hraustu Bein, þa hugsa til þess, ad Gud hefur ecki Velþocknan œ þeirra Styrkleika, helldur œ þeim, sem hann Ottast. Nær þu telur Fe þitt, edur skodar þiñ Klædnad, þa hugleid, ad Lazarus œ af þvi so mikid, sem hann vid þarf, og ef þu hefur tvenn Klæde, þa heyra hinum Nakta oñur til; Ef þu villt vera Johannis Baptistæ Lærisveinn, Luc. 3. Þegar þu hefur hid mesta Gaman af Skilningar Vitunum, sem Gud hefur giefid þier til naudsynlegrar Brwkunar, þegar Twngañ, Augunn, Eyruñ og adrer þijner Limer, eru þier til hinnar mestu Skiemtunar, þa lœt jafnvel þessa Guds Skapnadar Misbrwkan minna þig œ Lazarum, þar hañ liggur nidurkastadur, eins og annad Daudyfli fyrir Dyrum hiñs Rijka, og hefur einga

Værd

Værd fyrer Særum og Verkium. Þecktu hañ medañ hañ er hiaa þier, ad ecke þurfer þu ad kañast vid hañ fyrst, nær þu uppvaknar! Helviite og Kvolunum, sem þu ecke þeckia villder aa medañ þu liekst þier ad allre Fullsælu i Heiminum, jaa, medañ þu hefur hina mestu Skiemtan af syndsamlegre Glede þessarar Veralldar, þa laat þier i Hug koma, hversu ad hun sie eckert hiaa Sælu Lazari, þar hann badar nu i Abrahams Skaute, þvi hann sem best þecker þa eilijfu Dijrdar-Vist, hver og hefur keypt oss hana til Handa med sijnu dijra Bloode, hann bijdur oss, ad vier allann þennann Hiegooma skulum afsnijda, so vier kunnum ad eignast hana; Jaa, hugsa til þess, ad Sællijfe þessa Heims maa ei leinge vera, og þoott þu yrder allra Kalla ellstur, þaa skal þad þrioota, og þad er ecke laangvinnt, sem einhvern Tijma Enda tekur, segier Augustinus, enn Lazari Giestabod tekur engann Enda. Vijslega hefur hinn stoore Kongur þvi tilskickad, so sem ollu odru i sijnu Rijke, ad hann liet Pijsler Fordæmdra verda eilijfar, þvi være þar Endurlausn wr Helviite, þa efast eg ecke um, ad margur Gudlaus Dære munde vinna þad til stundlegs Munadar, ad fremia alla þa Ohæfu, er honum i Hug kiemur, þoott hañs Hreinsunar Elldur ætte ad vara um allann Heims Alldur; og so sem hann hefur i þvi vijslega giort, so hefur hann aa hina Sijduna Vægdarsamlega breytt vid þa, sem hañs Ok bera hier aa Jordunne, og halldner eru Afrak Veralldar, og so sem nockurskonar Hreinsunar-Foorn, efter Paals Ordum, þar hann ei elnasta losad hefur, ad þurka oll Taarenn af þeirra Augum, og ad Daudenn skule ecke framar vera til, og ecke Sorgenn og ecke Hrooped, og Mædann skule ecke vera framar, þviad þad umlidna sie i burtu, so sem Johañes ad Orde kiemst, i hanns Opeñberunum, i 21. Cap. Helldur þar ad auke skule þesse Arfur ecke skiemast kunna, ecke saurgast og ecke rotna, so sem Von er aa, þvi Christi Rijke mun engann Enda taka, Luc. 1. Enn vier munum med Christo lifa og rijkia, og med DRottne aavallt vera, so sem Guds Ande hefur oss heited fyrer St. Paals Munn, 1. Thess. 4. Þvi hefdum vier ecke þesse Guds Fyrerheit, þa mundu þeir bræddlega yfirgiefa sig, sem eru Guds Born, enn hiaa-Born Veralldarinnar. Takid ydur þad til Huggunar, DRottens Viner, sem erud Stallbrædur Lazari, þier erud fatæker eins og hann: Vardar miked um þad, nær þier erud i Tronne rijker? Hvad gyllder ydur Audlegd Veralldarennar, nær þier hafed hañ eignast, sem Gud hefur giefid oll Endemork Veralldareñar til Arfleifdar? Er eg þier ecke betre enn Tiju Syner? sagdi Elkana vid Konu sijna, Moodur Samuelis: Þegar þier hafed Christum i ydar Hiortum gieted, mun ydur þa nockud vanta? Mun hann ei verda ydur betre eñ oll Rijke Veralldarennar og þeirra Dijrd? Lazarus edur Eleazar, sem er hid sama Nafn, þad merker þann, sem Gud er til Adstodar. Barn mitt, ef Gud er med þier, hver kann þa ad vera aa moote þier? Mun nockud Jarned briota þad Staaled af Nordrinu, segier DRottenn vid Jeremiam, þegar hann heiter honum Lide si nu aa moote Jerusalems Ossa, Jer. 15. So vil eg segia med David: Þegar Gud er med þier, hvad vill þier Madurenn giora? Þeir vega aller miña eñ eckert, þeir kasta þier wt af Dyrunum, þeir

vilia ecke unna þier Vidtals, hvad þa? Munu þeir kuña ad banna þier ad tala vid Kongung Himnanna i Bænum þijnum? Munu þeir kasta þier wt af Dyrum Himnarijkis? A medann þeir ecke þetta gieta, Barned gott, þa ætla eg þu stander jafnriettur upp i Guds Augum, þoott þu ligger flatur fyrer Dyrum hinns Rijka. Hvad er nu framar? Þu ert forsmædur, lijdur Oriett, engenn vill kaṅast vid þig: Þad er ecke nijtt i Heimenum. Salomon, sem ecke visse af mikille Ovirdingu ad segia, haṅ giorer Ræd fyrer þvi, so sem hier ad framann er fyrer skoṁu sagt. Seig mier, af hveriu verdur þu Ovirdtur? Af vondum Moṅum: Þad er ecke þwngt ad vera hæddur af þeim sem jafnvel ad Gude hæda; og under eins þeir forsmæ þig, þa forsmæ þeir Skapara þinn og þinn Endurlausnara, hvers Ok þu ber: Þu verdur af heimskum Monnum Ovirdtur, þvi engeṅ er Fævitska meire enn sw ad forsmæ þann sem Gud hefur virdt med Teikne sijns Sonar: Þetta sijnest mier liett ad bera, þvi eg mun ei fæst miked par uṁ, þoott eiṅ Skiptingur hlæi ad mier: Þu verdur af so morgum Ovirdtur; Eg iæta þad, þviad fleyre eru Vonder eṅ Gooder, Heimsker helldur eṅ Vitrir: Eṅ þo ecke af ollum, nockrer eru þeir sem giæta Guds og sijns Overdugleika, vitande ad þeir hafa hid sama verdskulldad, og eins þeirra Doomur æ ad gyllda meira hiæ þier helldur enn alls hinns skynlausa Mwga: Þar eru gooder Meṅ i Verolldeṅe, er sama hafa til Bruṅs ad bera og þu, og gietur þu þa huggad þig med Postulans Ordum, ad þijner Brædur i Heimenum meiga lijda slijkt hid sama. Hversu længt mun Rykte þessarar Ovirdingar wtberast? Varla leingra eṅ uṁ þad Land er þu lifer i; Ef Rykte hiṅs stoora Alexandri, og haṅs Skoola-Meistara Aristotelis, ecke næde yfir uṁ Fialled Caucasum, edur Flooted Gangem, hvad lijtell Partur mun þad verda þa af Heims-Bygdenne, sem þijn Ovirding gietur floged uṁ? Hversu fæer eru þeir ed til heṅar vita, hiæ hinum Oteliande Skara Heilagra Engla og Utvalldra Manna, æ medal hverra þu munt Dijrdlegur skijna, ef þu lijdur þessa Stundar-Mijnkun þolennmoodlega. Eṅ hvad leinge skal hun vara? Allt til Grafarinnar. Hversu minna er þad enn eitt Augnablik, ef þad er samannbored vid Eilijfdena? Eg vil ei fæ mier til Orda uṁ so margra heilagra Maṅa og Guds Pijslarvotta Dæme, sem hlootu ad Ovirdingu Veralldar þessarar, eṅ þeirra Vegsemd og Heidur uppvaknade so epter Daudaṅ, ad Hiætrw fævijsra Manna hefur þæ nærre þvi ad Gudum giort, hveria Verollden ecke hiellt verduga til ad þurka sijna Skoo i Lijfenu, og var þo ecke þeirra verd, Heb. 11. So hlægeleg er nu Alldar þessarar Virding, edur Ovirding! Edur; seig mier, hver er nu meir lofadur i Heimenum, Lazarus edur hiṅ Rijke Magans Þræll? Eg trwe flester hroose Lazaro meir, og jafnvel þeir sem hinum eru hvad lijkaster. Nu kiem eg til þess sem flestum særast þyker, sem er Heilsubresturen, hann hefur margaṅ Kappa yfirbugad; Eṅ þier, sem Guds Hetiur erud, og strijded under Frelsarans Merkium, giæted þess, Born Drottenns, af hverium ydur er Siwkdoomuriṅ uppælagdur, sem er af ydar Skapara, haṅ hefur feinged Sælum vorum Lijkamina, so sem annad Herberge til ad bwa i, og æ hann friælst ad uṁbreita þvi, og jafnvel aldeilis nid-

urbriota epter Villd sinne. Hvad villt þu kieppa vid soddañ Hꝏtign? Og ecke miklu helldur þoleñmoodlega lijda hvad hellst hañ aleggur: Kañskie þu hafer og siꝏlfur vered Ordsøk i þiñe Vanheilsu med Giꝏlijfum og Ovørum Lifnade; Og seig nꝏer þa, hvad hefur þu ad klaga? Mun þa ei rꝏdlegast ad þu ydrest Synda þiña, og lijder þad med christelegu Umburdar-Lynde, er þu fyrer þeirra Skulld lijda mꝏtt, og lꝏter þannig, jafnvel Syndena, gagna þier til Sꝏluhiꝏlpar; Enn ef odruvijse er, þa vit þo, ad Gud leggur eckert a neinn fyrer sakleyse. Siert þu þvi ecke Ordsøk i þinne Vanheilsu med Ovarlegum Lifnade i Mat og Dryck, edur annare Hꝏttseme, er plagar ad kreinkia Heilsuna, þa hefur þu forþienad Siwkdoomeñ med ødrum Syndum; Þvi ef ad jafnvel hin miñsta Synd viñur til Helvijtis, vilie Gud hana tilreikna, þvi mun hun þa ecke viña til lijkamlegra Meinlꝏta, sem vara so skaña Stund? Enn Tilgꝏngur DRottens er allur añar a Stundum: Kañskie Sꝏal þijn sie vanheil, og hann plꝏage Lijkamañ heñe til Heilsubootar, og þvi skyllde eg þa reidast Lꝏknernum, þoott hañ skiere þad Sꝏar upp, sem fwed er? Heilsañ er alltijd good, enn þo er hun dijrust þegar hana vantar, og þyker mest til heñar koma, nꝏr hun er aptur feingeñ; þvi tekur Gud hana i burt a Stundum, til ad vekia vor doseñ og sofande Hiortu til Þacklꝏtis og Lofgiørdar vid sig, og tijtt legg-ur hañ Krossenn a þa sem eru hvad saklausaster, ødrum til Epterdꝏmis, ad sijna þeim hvad þeir forþienad hafe, og hvad mikla Ordsøk þeir hafe til ad lofa Gud, sem þyrmer þeim, sem meira hafa syndgad, fyrer þvilijkum Ørkumslum. Skañast þijn ecke þar fyrer ad vera settur ødrum til Þoliñmꝏdeñar Epterdꝏmis med Job, og vert gladur af þvi ad lijkiast Christo sem og hefur oss til Epterdꝏmis lided, 1. Pet. 2. Og fyrst þu skallt þad þo lijda, þa hugleid hvad miklu betra er ad lijda eins og Guds Barn og hreppa ei-lijfa Sꝏlu og Fognud til Launa, helldur enn ad briota Oked i sundur med Møglan og Oþoleñmꝏde, og ecke einasta sleppa af Laununum, helldur ad hrapa wr hinne Tijmañ-legu Eymd i þa Eilijfu, sem alldrei mun Enda taka. Eg vil ei hier tala um þad sem Ci-cero skrifar, ad engeñ Mootgꝏngur sie sa, ad Tijmaleingdeñ ecke line hann, þvi vier hof-um eina ꝏdre Huggun, ad vor Lijkame er alldrei so veikur, ad Guds Kraptur ecke sie i vorum Breiskleika mꝏttugre, þvi hann er trwr, og freistar einkis yfer Megn fram; Og um alla Hlute fram, þa hugga þig vid þa Sꝏlu-Von og Dijrdar-Auglijsingu Guds Barna, hverrar ecke verd eru þessa Heims Mootlꝏte; So nꝏr Verkerner stijnga þig, og þu stynur af Ofraun, þa hugsa hvad fagur ad sie Englanna Saungur; Nꝏr þu sier þinn Lijkama afmyndadann af Sꝏrum og Kaunum, þa hugleid þad, ad hann skal a sijdann verda Englunum jafn, ja, samlijkur JEsu Christi Dijrdlegum Lijkama; Nꝏr þier engeñ Hlutur er til Skiemtunar i Heimenum, þa lꝏt þier til Hugar koma, hvad fagur ad sie Abrahams Fadmur, ja, hin Himneska Jerusalem, hverrar Sool og Tungl ad Gud er, og hañs Dijrd upplioomar hana. Þangad ad komast, og þar ad bwa um eilijfar Allder, uñe oss hin heilaga Guddoomsins Þreñing, Fader, Sonur og H. Ande, Hꝏ-Blessud um Allder Allda, Amen.

# Annann Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 14. Cap.

I Þañ Tijma. JEsus sagde til eins af Phariseæunum, þessa Epterlijking: Nockur Madur var sa, sem giørde mikla Kvølld maaltijd, og kallade marga þar til, og sende wt sin Pioon um Kvølldmaals Tijmann, ad hañ segde þeim sem bodner voru: Komed, þviad nu eru aller Hluter til Reidu. Og þeir tooku aller til i einu Hlioode ad afsaka sig. Hiñ Fyrste sagde til hañs: Akur keypta eg, og hlijt eg ad fara wt ad skeda hañ, eg bid þig afsaka mig. Og hiñ Añar sagde: Fimm Pær Akneyta keypta eg, og fer nu wt ad reyna þau, eg bid þig, afsaka mig. Og eñ Añ.r sagde: Konu hefe eg mier festa, og fyrer þvi maa eg ecke koma. Og sa Pioonustumadur kom og kuñgiorde þetta sijnum Herra. Þa vard Hwsbondeñ reidur, og sagde til sijns Pioonustumañs: Far þu snarlega wt aa Stræte og Gøtur Borgareñar, og leid Volada, Vanada, Blinda og Hallta hier inn. Og Piooneñ sagde: Herra, þad er giørt hvad þu skipader, og þo er eñ meira Rwm. Og Herrañ sagde til Pioonsins: Far þu wt aa Piood-Brauter og Twn-Garda, og naudga þeim hier iñ ad gaanga, so ad mitt Hws verde fullt. Þvi eg seige ydur þad: Ad engeñ þeirra Maña, sem kallader voru, munu smacka mijna Kvølldmaaltijd.

## Exordium.

Undsokeñ til þessarar dijrmætu Efterlijkingar, sem JEsus framsetur i þessu Heilaga Evangelio, var sw, ad þegar hann var ad Heimbode med einum af Phariseæaña Hofdingium Brauds ad neyta aa Þvott-Deige, þa var þar einn af Bord-Giestunum, er sagde; SÆLL er saa Madur, Sem Etur Braud i Guds Rijke: Og er i henne sierdeilis Tveñt athugande, sem er: Hvad meint sie med þessare Kvølldmaaltijd, og i annann Maata, hverier þeir sieu, sem bodner voru. Fyrer Maaltijdena kunna vel ad skiliast aller þeir Andleger Velgiørningar, sem oss veitter eru i JEsu Christo, hvern Gud i Heimenn sende aa Kvølld Veralldar þessarar, og liet honum slaatra aa Krossens Alltare, og steikia i Bruna sinnar Heiptar Reide, i honum hefur hann allre Verølldu alla Hlute tilreidt, sem duga til þeirrar eilijfu Veitslu i Himnenum, sem fyrst verdur þeigenn hier i Naadenne, eñ sijdar mun fullkomnast i Dijrdenne. Hann er Lijfsins Braud, sem af Himnum er ofannkomed, Joh. 6. Hanns Holld er sannarleg Fæda, og hanns Blood er sannarlegur Dryckur, hvert vier ecke einasta

asta medtekum med Trwarinnar Muñi daglega, helldur og Lijkamans i heilogu Altarisins Sacramento: Enn fyrir þvi, ad DRottinn svarade þessum Gyding uppa sitt Tal med þessari Eptirlijkingu, þa er lijklegt, ad hann sier i Lage meint hafi þad himneska Bordhalld med Abraham, Isaac og Jacob, og lendir þo allt i sama Stad, þvi einn og hinn sami er Christur, hvern vier smeckum hier i Nadinni, eñ munum hañs algiørlega þar i hanns Dijrdar Rijki niootande verda. Somu eru Visternar, þad skilur alleina, ad þær eru ecki med sama Mooti framreiddar. Hier siaum vier fyrir Speigil og i Rad-Gatu, þar munum vier sia Auglite til Auglitis; Hier gaungum vier i Trwnni, 2. Cor. 5. Enn þar munum vier ganga i Siooninni. Trwinn er Vera þeirra Hluta, sem vier vonum epter, hver ed sijnir þad sem ecki sied verdur i þessu Lijfi, enn i hinu odru munum vier þeckia so sem vier þecktir verdum; Og so sem Foornir gamla Testamentisins voru ei nema Skuggi eftirkomandi Giæda, so er og For-Smeckur Himnarijkis i Hiortum Guds Barna i þessum Heimi, ecki nema ein Skugg-Sia þeirrar eilijfu Dijrdar, sem vid oss mun opinnber verda. Fyrir þa morgu, sem ad i Gudspiallinu seger, ad kallader sieu, eiga aller Menn ad skiliast: Þvi so seger Endurlausnarinn, Matth. 20. Ad Mannsins Sonur sie til þess kominn, ad wtgiefa Salu sijna til Lausnar-Giallds fyrer marga, hvad Paulus so wtleggur, 1. Tim. 2. Ad Christur hafi giefid sig til Endurlausnar fyrir alla: þo er lijkast ad hid Fyrsta Bod sie þad, sem kom til Gydinganna, sem voru Rijkisins Synir, ja, kannskie til þeirra Hofdingia Phariseanna og Skriftlærdra, þvi DRottinn hefur an Efa bendt þeim hier med, er til Bordsins satu; Og þad er auglioost, ad Stoor-Menni hefur þar verid samannkomid, þvi annars mundi hann ecki hafa talad fyrir þeim skomu adur i sama Sinn, ad nær þeir giordu Giesta-Bod, skylldu þeir kalla Fatæka, Veika, Hallta og Blinda, Luc. 14. Enn hinn Sijdari meina eg ad vera faviisann Almwga Gydinga, sem rafudu a Strætum og Gotum Borgarinnar, hveria sialfer Hofdingiarner kolludu bolvadann Lijd, sem ecki vissi af Logmalinu, Joh. 7. Enn hid Sijdarsta kalla eg ad heyri oss til Bornum Heidingianna, er satu a Þiood-Brautum og Twngordum, fiarlæger Israels Borgar Rietti, og an Guds i Heiminum, so sem Paulus talar: Ad þessu so fyrermæltu, vil eg giefa mig til ad hugleida Textann nockud gior, og af honum Tvennt yfirvega, sem er: 1. Hvad oss allra mest hindri fra ad þyggia þetta Heimbod. 2. Hvad oss eige mest ad leida til ad þiggia þad.

Stijr þu Mali mijnu, DRottiñ miñ, og Hiortum Barna þiña, til Lofs og Dijrdar þier, enn oss til Salar Nota, i JEsu Nafne, Amen.

## Utleggingeñ.

Hia Matth. i 13. Cap. upptelur DRotteñ fierdeilis Preñt, sem bægi Mañinum fra ad heyra Guds Ord med Avexti: Þad er, Sorg Veralldariñar, Audæfi og Gyrndir heñar: Og þetta Preñt segir sa Lærisveiñ, sem hann elskadi, ad Heimurinn sie fullur af, sem er drambsamt Lijferne, Fijsn Augnaña, og Gyrnd Holldsins:

sins, 1. Joh. 2. Allt þetta er ad sioa hioa þessum fœvijsum Mońum, er ecki villdu þyggia Mooltijd þessa, er i Gudspiallinu talar uṁ.

Hinn Fyrsti seger: Bœgard hef eg mier keyptañ, og hlijt eg ad fara wt ad skoda hañ. Þad kalla eg sama og Sorg Veralldarińar, sem Lausnariñ nefnir hioa Matthœum, eñ Johañes, drambsamt Lijferne, þui til hvers kaupa Meñ stoora Garda edur byggia þoa, nema ad þeir vilia sijnast odrum meiri, og auglijsa þar med, ad so sem þeirra Hiarta er stœrra eñ añarra, so skulu og þeirra Hybijli vera. Nebucadnezar Konungur stœrdi sig af hiñi miklu Babylon, er hañ hafdi byggia lootid til Heidurs vid siñ Herradoom, eñ þar fyrir vard hañ ad Villu-Dyri og oot Gras med þeim. So verda og allir þeir, er stœra sig af Yfirlœti Veralldar þessarar, þegar þeir vilia vera meiri eñ Meñ, þa verda þeir Hestum og Mwlum argare, og þeckia ecki Gud Himnaña, hveriu eingiñ er Fooisiña meiri. Þegar Meñirner uppreistu Babel, til ad giora sier Nafn oo Jordūñi, so sem þar adkvedur, Gen. 11. þa voru þeir straffader af Gude, so eiñ braut þad er annar bygde, Þeir villdu byggia hann upp til Himna, so sem þar seger, enn Himnanna DRottenn sloo þoa med Roodleysu, so þeir og þeirra Afkvœme skridu wt uṁ alla Verolldina. Þvi mun þad ei vera Vegurinn til Himnarijkis ad bwa sier fasta Boolfestu hier i Heimi. Þetta segi eg ecki þess vegna, ad allur Metnadur sie þar i foolginn, ad eignast Gootz og Garda, ei helldur, ad þad ecki leyfilegt sie, nær Meñ eru vel ad þvi komner, helldur tekur Lausnariñ til þessa, so sem eins hellsta, er Meñ plaga ad stœra sig af, jafnvel þeir ed odrum þykiast Hugprwdare, þvi þeim þykir ecki til þess koma, ad stœra sig af Hiegoomanum, so sem af fogrum Bwninge, af Hreyste Lijkamans, af Alite, af gofugu Forelldre, þvi þad sie einum nœrst sem hann sialfur er; Eñ þeir ed mikid Gootz og Garda eiga, þeir hafa optast Manna Forrood, og þykir i þvi Rijki nockud, enn marger af þessum hioa oss, eru so lynder, ad þeir vilia ad aller þeir, sem Lond þeirra byggia, skuli vera so sem þeirra Eignar Þrœlar, oon hverra þeir vœru þo ecki meira enn eiñ af þeim, þvi þeir eru þad sem ala Dramb þeirra oo Sveita sijnum, og skylldu hinir missa þad, þa mundu þeir snart brioota Odd af Oflœte sijnu; Þvi fœrster af þessum Veralldar Sonum hafa nockurn Tijma drepid Hendi sinni i kallt Vatn, mundu þvi koma til ad bidia, þar þeir ei duga til ad grafa, hvar uppoo Menn hafa og nockur Dœme, ef vel er leitad, enn hvernig sem þvi er nu varid, þa er varla nockur Syndare fiær Himna-Rijke, eñ eiñ Dramblootur. Mikilootur Madur kann ecke ad þeckia Synd sijna, þvi hann þykist allt riett giora, og oo medañ Syndinn er ecke þeckt, þa er ecki Von oo Himnarijki; DRottinn mootstendur Dramblootum, Jac. 4. Enn hvernig vill sioo iñgoonga i Himnarijki, sem Gud fyrer Ovin hefur, hver alleina oo þess Valld, eñ einginn añar. Hafi Andskoteñ verid rekiñ wt wr Himninum vegna Drambsemiñar, þa er lijklegt, ad sa muni ecki þar innkoma, sem honum vill i þessum skamarlega Glœp lijkur vera. Salomon seger, Ordsk. 16. Ad sioo sem er stoor i Hiarta sijnu, sie Andstygd fyrir Gudi, og þo hañ sloi Hond i Hond (þad er, þo hañ taki añañ med sier, og alldrei so marga), þa muni

hañ

hañ þo ecki Ohegndur verda. Og til hvers skal þa sa Þoottiñ, sem ei giorir nema afla Manninum Hegningar af Gudi, sa hverium Omogulegt er ad flija;? Nema þier verdid eins og þetta Ung-Barn, þa kunnid þier ecki inn ad ganga i Guds Rijki, segir Frelsariñ, Matth. 18. Nu vitum vier ad Smaa-Børninn eru ecki Dramblaat: Eins leikur Kongs-Sonuriñ sier vid Fatækis Barnid, sem vid sinn Lijka, ef hañ maa raada. O! hversu laangt er þa einn dramblaatur Asne fra Himnarijke, þegar honum þykir enginn standa Jafnfætis sier, hafi hann edur hañs Forfedur svælt nockud wt af ødrum. Sæler eru Hoogværer, þvi þeir munu Landid erfa, seger Frelsarenn, Matth. 5. Ad vijsu er þad i fyrstu meint uñ lijkamlega Farsælld, so sem sia maa af hinum 37. Davids Psalme, hvadann Ordinn tekiñ eru; Þvi þeir sem hæglaater eru, og ecki aaleitner vid adra, þeir hafa optast sitt i Kyrdum, jafnvel þoott misjafnt beri til uñ þad, nær Gud lijdur Fiandanum ad vada upp i Dramblæti Oflaatungaña, enn verdi þeir Arfi sijnum ræntir hier, lijda þad þo med Hoogværd, þa eiga þeir hann vijsañ a Landi Lifandi Manna, sem alldrei mun skiemast, 1. Pet. 1. Sicæ hiner til, ad þoott þeir blaase sig upp, eins og Nadrann, af þvi sem þeir hafa stolid fra Aumingianum, hvert þeir munu naa til ad verda Samarfar Christi, sem var Hoogvær og af Hiarta Lijtillaatur, Matth. 11. Þad Port er þraungt, sem til Lijfsins liggur, og Vegurinn er tæpur, sem þangad leider, hvernig meiga þeir ganga þar uñ, hverium ecki dugir allt Landid til ad bwa i, þoott ei sieu þeir ad Lijkamans Hæattum Fyrerferdar meire eñ adrer Meñ? Enn Hiartad er vaxid upp wr Skijunum, kiemst þo alldrei i Himnarijki, nema þad lijti Svip sinn i Mollduñi, adur enn þeir ad Mollldu verda. Hier uñ talar D Rottiñ merkilega hia Es. Cap. 5. Vei þeim er samanndraga eitt Hws til añars, og leggia einn Akur vid annann, þangad til ad þar er ecki meira Rwm, so ad þier bwed einsamler i Landinu, þad sama er fyrer Eyrum D Rottinns Zebaoth, seger hann.

Fiñ Þor Akneita Keypta Eg, Og Fer Eg Nu Ut Ad Reyna Þau, Eg Bid Þig Afsaka Mig, seger hinn Annar: Med þessare Grein af Eftirlijkingunni vill D Rottiñ teiknad hafa hina skadlegu Bwksorg og Oleifilegu Aura-Elsku, og ber hañ sialfur lioosast Vitni uñ þad, hvad mikiñ Farartaalma Audurinn giori þeim, er hafa fest Hiarta sitt vid hann, a Reysunni til Himnarijkis, er hañ sagde vid Lærisveinana uñ hiñ Rijka Yngis-Mañ, ad hægra være Ulfballdanum ad ganga i giegnum Naalar-Augad, helldur enn rijkum Manni inn i Himnarijki, Matth. 19. Og er þessi sami Ynglingur Eitt lioost Dæmi þar uppa, hversu ad Fegyrninn og Elskann til jardneskra Muna, banna Mañinum ad eptirfylgia Christo inn i Guds Rijki: Hann villdi frædast af D Rottni hvad hann giora skylldi, ad hann mætti eignast eilijft Lijf: Frelsarinn neitade ecke þvi, ad hann hefdi Bodordinn halldid allt i fra Barnæsku siñi; Enn er hann heyrdi, ad hañ skylldi selia allt þad hañ ætti, giefa þad Fatækum og fylgia sier eftir, þa vard hañ hryggur og gieck i burt. O! hvad goodu Bodi hafnadi þessi faavijsi Madur. Lijkur var hañs miøg so þessum Veralldar Sonum, er hier talar uñ i Gudspiallinu; Hvad

lenge ætti hann Audi sijnum ad fagna? Kann ſkie ecki til Morguns, og þo yfergaf hann hid gooda Hlutſkipted, og liet þeña Veralldar-Saur draga ſig fra Himnarijki i Satans Valld. Marcus ſkrifar, ad Lausnarinn hafi ſtart a þeñan Rijka Mann og elſkad hann, Marc. 10. Hvad nockrer wtleggia, ad hann hafi tekid vel a mooti honum, og hafa þeir nockud til ſijns Mals; Enn hvert ſem var, O Drottinn miñ, þa ſie eg hier þijna fodurlega Giædſku i þvi, ad leita allra Bragda vid Mañeſkiuna. So elſkader þu Saul, minn Herra, a medann hann gieck a þijnum Vegi; So varſt þu med Jehu, allt ſo lenge ad hann rak þitt Eyrende; So myſkunader þu Achab, er hann klæddeſt i Seck: Enn ecki er ad furda, Børn mijn, þoott O Drottenn hrygdeſt i Anda og talade ſo ſkoriñordt til Læriſveinaña hier uñ, er hann ſa þeña Veſæling adkomiñ Himnarijkis Dyrum, falla þadañ aptur i Satans Net, og hefur hann hier fært Soñur a Mal ſitt, er hann adur talad hafde, ad Omøgulegt væri undir eins Gudi ad þioona og Mamona, Matth. 6. Mamon er eiñ veſæll Gud, og þeir honum þioona, eiga aumañ Hwsbonda, hann gietur ecki halldid ſialfum ſier kyrrum, þvi hverſu opt ſiaum vier ad ſtoorar Fe-Dyngiur hrapa i einu, ſo Eiganden veit eckert af; So er hañ wtfws, þegar til vill, ad Prælar hañs gieta ecki halldid honum, og ei þoott þeir giori vid hañ eins og þeir i Tyro giordu vid ſiñ Afgud Herkulem, er þeim barſt i Drauma, ad hann villdi fra þeim hlaupa i Herbwder ens Stoora Alexandri, ad þeir bundu hañ med Hleckium. Þad er eins og Jeremias ſeger uñ Skwrgodenn, Cap. 10. Þeir giora þau fogur med Sylfri og Gulli, þeir feſta þau med Noglum og Hamri, ad þeir miſsi þau ecki. Enn Gud giæfe! Meñ villdu hugleida, hvad lijtid þeir hafa miſt, þegar þeir hafa tapad ollu þeſſu, ef Gud vill ſo vera lata, þvi þa hafa þeir feingid Ordſok til, ad varpa allri ſiñi Ahyggiu uppa Gud, ſem er alleina Rijkur, og vill ala þa er hann elſka, jafnvel ſofande. Þa munde Laban ecki renna efter Jacob, þo hañ vantade ſijna Afgude. Eg hefi talad nockud uñ þetta Efni fyrir Skomu, og þvi vil eg enda med St. Pals Ordum, er hañ ſeger, 1. Tim. 6. Þeir ed rijker verda vilia, falla i Freiſtingar og Snorur og margar Gyrnder heimſkulegar og ſkadvænar; Hvad langt eru þeir þa fra Himnarijke, ſem alla reidu faſtir eru i þeſsu Satans Nete? Og er hier af audſært, hverſu miøg ad Fe-Gyrndiñ og Ofmikid Aura-Safn bæge þeim fra Guds Rijki, er nalægt eckert annad ſtunda.

Konu Hef Eg Mier Feſta, Og Fyrer Þvi Ma Eg Ecki Koma, ſagdi hinn Þridie. Hann villde ecke hafa ſig undann þegenn, þvi hañ þootteſt løglega affſakadur; Hañ ſem Bwgarden hafde keypt, gat laated bijda til Morguns ad ſkoda hann, og hiñ ad reina Ak-Neytenn; enn fyrer þvi ad hier ma ſkiliaſt, ad Brwdkaups-Dagureñ hafe vered tilſettur, þa vill þeſſi Brwdgumi ecki eyda morgum Ordum til ad affſaka ſig, þar hañ hafdi til añars Geſta-Bods ad ganga, ſem honum væri hvad kiæraſt, og hañ mætti ecki forſooma. Lijklega lijtur þetta wt fyrer mañlegum Doomi, þvi O Drottiñ hefur boded, ad Madureñ ſkylldi jafnvel yfergiefa Fodur og Moodur, eñ ſamteingiaſt ſiñi Egta-Kviñu; Eñ þo mun þeſſe eins ſekur verid hafa i Guds Auglite og hiner. Hier ſtendur i Text-

anum, epter þvi sem eg hann skil: Ad þeir afsökudu sig aller med sama Giede. Þad er, ad hver þeirra villde hafa sijna Syslan meir metna enn þessa Kvolldmaaltijd. Nu villde þo Hws-Bondenn enga af þeim gyllda taka, og þvi vard sw Alyktunenn ad Sijdurstunne: Engenn Þeirra Manna Sem Bodner Voru, Skulu Smacka Mijna Kvolldmaaltijd. So er þa Meiningenn: Ad engenn Hlutur skule oss so kiær vera, ecke Virdingar vorar, ecke vor Audur, ecke Fader nie Mooder, ecke Systur nie Brædur, ecke vorar eigenn Konur, sem oss ættu hvad kiærastar ad vera, Jaa, ecke vort eiged Lijf, ad þad hindre oss fraa þeirre stooru Kvolldmaaltijd, sem hinn Alvallde Hwss-Fader hefur oss tilreidt i sijnum Syne: Þad vottar Frelsarenn sialfur skonnu sijdar i þessum sama Capitula, segiande: Ef nockur kiemur til mijn, og hatar ecke Fodur sinn og Moodur, og Konu og Born, og Brædur og Systur, og jafnvel sijna eigenn Saal, hann kann ecke minn Læresveinn ad vera. Hvad er þetta, Born M. Hann kann ecke minn Læresveinn ad vera? Þad er, hann skal ecke i mitt Rijke koma. Gud gaf Mannenum Konuna i fyrstunne honum til Epterlætis, og til ad fiolga Kyne sijnu, enn ecke til þess ad hann skyllde leyfa henne ad draga sig af Guds Veige, edur briioota aa moote Bode sijnu; Þvi segier hann og Devt. 13. Ef þinn Brooder, Sonur Moodur þinnar, eda þinn Sonur eda þijn Dootter, eda þijn Kona er þu fadmar, vill koma þier til ad dyrdka annarlega Gude, þa skal þijn Hond vera hin fyrsta ad þu deyder hana. Enn skodum nu oss, Brædur mijner, mun oss ecke verda vidlijka og Fodur vorum Adam, ad bera Skulldena uppaa Konuna, þo þad sie med odru Moote? Segied mier, þegar hinn Volade bidur umm Hialp, og hinn Naudstadde; þenkium vier ecke? Þad maa eg ecke fyrer Konu minne og Bornum, ad leggia miked af vid hann, annars munu þau kannskie fara aa Vonarvol. Þegar Guds Eyrende aa ad giora og briootast nockud i moote Satan og hanns Offinnum, laatum vier þa ecke Hug fallast? Jafnvel þeir sem hugprwdér vera þykiast, og segium med sialfum oss: Giore eg þetta, munu þeir sijdann Konu minne og Bornum allt Jllt giora; eins og Skaalkurenn sie ecke i Hende DRottenns, og hann kunne ei ad vernda sijna, þa er setia allt sitt Traust aa hann. Þegar vier nu þetta giorum, þa erum vier eingu betre enn hann, er sagde: Konu Hef Eg Mier Festa, Og Fyrer Þvi Maa Eg Ecke Koma. Eg vil ecke faa mier til Orda umm þeirra Hioonaband, sim locka hvert annad til Lasta og Synda, til Agyrne, Hofmoods, Ofundar, Hardydge, og eru samlynd i þvi, enn giæta eckert þeirrar Elsku, sem þau eiga aa Gude og Naunganum ad hafa, ei helldur þeirra Haattalag, sem ad i Egtaskapnum bwa samann eins og Hundar og Kietter, eda hinna, sem ad sonnu eru samannvijgd til Hioonabands, enn lifa þar inne riettum Skiækiu Lifnade. Laangt er fraa ad soddann Mannesk iur hlijde Postulans Bode, i þvi ad hallda Egtaskapenn heidarlegann, og Hioona-Sængena Ofleckada, Hebr. 13. og munu þeir þo hafa þykiast fulla Ordsok, ad ei kome þeir til DRottenns Kvolldmaaltijdar, þvi þeir hafe Konur sier festar: Og kann eg ecke annad ad segia, enn ad þesse Afsökun sie gylld, þviad Diofullenn helldur med þeim Sæng og Sess, enn Paulus segier, 1. Cor. 10. Ad vier kunnum ecke under eins ad drecka DRottens Ka-

leik og Diøflanna, og ecke under eins ad vera hañs Bords Hluttakande og þeirra. Take engenn so Mꜳl mitt, ad eg laste þessa heilogu Stiett; Hun er af Gude i Fyrstu Innstiptud; Frelsarinn hefur prijdt hana med sinni Nꜳlægd, med henni hefur hañ teiknad þa Guddoomlegu Ast, er hann hefur ꜳ sinne Elskulegre Brwde Christnenne; Eñ þad lasta eg, ad Menn gleyma Gude fyrer Lijkamans Munad, og lifa þar iñe þvert ꜳ moote hañs Bode, giørande Hioonabanded ad Frillulifnade margur hver. Frelsarenn vill og ecke Hioonabanded lastad hafa, þoott hann segie uũ hina Gudlausu Verølld fyrer Flooded ad þeir hafe gypt sig og gypta lꜳted, helldur hitt, ad þeir voru so druckner i Munudum sijnum, ad þeir ei hlijddu Predikun hinns riettlꜳta Noe. Og er nu so wt=talad uũ hid Fyrra er eg hiet ꜳ ad minnast.

Eñ hvad hinu Sijdara vidvijkur, þa er þad margt er øss ætte ad leida til ad taka þessu vegsamlega Heimbode. Hver er sꜳ, ef Konungurenn bijdur hønum til Bords, ad hañ þigge þad ecke allshugar feigenn, og munde Osviñur þykia, ef hann dræpe Hendenne ꜳ moote slijkre Sæmd: Enn hier er ecke nockur Jardneskur Herra, ecke Assverus, ecke Balthazar, ecke Alexander hinn Stoore, hverra Veitingar urdu ꜳ Stundum Giestunum ad Hefndar Giøf; Eñ hier er hinn nꜳduge Konungur Himens og Jardar, sꜳ ed hefur Konungaña Hiørtu i Hende sier, hann ed sedur allar lifande Skiepnur med sinne Blessan, og allt hvad Jardnesker Konungar veita sijnum Giestum, þad meiga þeir af hañs Orlæte þyggia, añars væru þeir ecke megnuger uũ ad fæda sialfa sig, auk helldur Fiølmenne so miked. Ecke sedia Veralldar Høfdingiar nema Lijkamañ alleina, hvers Fylle ꜳ Stundum verdur ad Sꜳlar Hwngre; eñ DRotteñ mettar Sꜳler vorar med so goodre og heilnæmre Fædu, ad sꜳ ed hennar nijtur, hann þeynker lijted uũ Veralldlegar Kræsingar, þvi hañ hefur þann Mat og Dryck, sem adrer sim ecke, Joh. 4. Þeir kuña ad hallda eitt Giesta=Bod i heila Viku edur leingur, sijdañ hwngrar þa og þyrster, er bodner voru; Enn hver sem etur og dreckur af þessum Vistum, hann skal ecke hwngra nie þyrsta ad eilijfu: Þad skiedur i Høfdingianna Giesta=Bodum, ad þeir sem ad Veitslunum eru, verda Mætte sijnum firnare þegar kallad er hvad best veitt, so þegar Vijned er roked wr Hofdenu, villdu Meñ þar alldrei vered hafa, og ecke betala þurfa þad sem til Gooda var giørt med þvi Illa sem ꜳ eptersylger. Eñ i þessu Heimbode munu Menn alldrei ofmiked eta nie drecka, þess meir þeir drecka, þess vijsare verda þeir: Engann skal hier Dryckiañ hvessa til Bræde; ecke hreifa hañ til Oþarfrar Mælge, ecke hvetia hann til Lauslætis edur nockurrar Fiblslegrar Hꜳttseme nie Gantaskapar, sem alltijd er, þvi verr, i sumra Manna Giesta=Bodum; Enn hier er Fridur og Fognudur i Heilogum Anda, sꜳ Fridur, sꜳ Fognudur, sem yfirgnæfir allann Skilning.

Eg hefe nockrum Siñum ꜳdur bored mig ad tala i þessare Book uũ þa Dijrdlegu Vist Heilagra, med Gude og hanns Englum, og mꜳ eg medkienna, ad þar verdur ecke uũtalad af mier ꜳ nockurn Veg, so sem verdt er, og ecke af nockurre syndugre Twngu, þvi ef Madurenn kann ecke ad siꜳ Gud og hallda Lijfenu, so sem DRottenn sagde vid

Moy

Moysen, Exod.33. Þa munu Meñ ei helldur kunna ad wtskijra hvad Vegsamlegt þad sie, ad sia hañ so sem hañ er, og þeckia hañ so sem vier erum af honum þeckter. J einu Orde ad segia; Þar um̃ verdur ecke annad sagt, enn þad sem Esaias, i 64. Cap. og Paulus, 1. Cor. 2. hafa lagt oss i Munn, ad þad hafe ecke Auga sied, og ecke Eyra heyrt, sem Gud hafe tilbwed þeim, er hann elska, og var þo Paall uppnumenn i hinn Þridia Himin, so ad lijkast er, ad engenn lifande Maña hafe gior sied þa Hiinnesku Vistar-Veru, þo mætte hañ ecke med Ordum wtskijra hvilijk hun var, þvi hañ segest hafa heyrt þar þau Ord, sem engenn fær wt-talad, 2. Cor. 12. Hvad seged þier nu, Brædur mijner? Finned þier nockra þa Assokun i Heimenum, er ydur gylld þyke til ad hafna þessu Giesta-Bode? Stoorer Hofdingiar laata bera Visternar og Dryckinn fram̃ i Gull- og Silfur-Kierum, þeir hafa marga Riette, og jmislegann Tilbwning, epter þvi sem Steikarans Kunnaatta gietur hræsnad fyrer þeirra Goom, sem bodner eru; Enn hier er ecke nema einn Riettur, þad saklausa Lamb Guds, hvert ed slaatrad er i fraa Heimsins Upphasi, hañ er steiktur a Krossens Altare i Guds Reide Ellde, a þeim Kolunum, sem brunned hefur af, sijdañ Adam braut, þad eru Synder vorar, sem erum Nydiar hañs: Hañ er Lækning þeim Siwku, Huggun þeim Angraadu, Rijkdoomur þeim Voludu, Uppreisn þeim, sem Verollden̄ hefur nidurdreped, Sadning þeim, sem Hwngra og Þyrsta efter Riettlætenu. Hvar faaud þier soddañ i einu Giesta-Bode, christner Meñ? Jaa, hañ er eins og Esaias um̃ hañ spaaer: Syn þeim blindu, Fætur þeim Holltu, Hreinsun hinum Lijkþraau, Heyrn þeim Daufu, Upprisa hiña Framlidnu, og þad sem ysirtekur, Naadar Bodskapur hinum Faatæku, hvern Spaadoom hann þijder uppaa sialfann sig, hiaa Matth. 11. Heyred þier mier nu, sem bwed i Lande þessu, erud þier marger Vitrir? Erud þier marger Forsiaaler? Erud þier marger Gofuger? Ef eg maa spyria ydur med St. Paals Ordum: Þier munud segia, Ney, ef þier taked Hende i ydar eigeñ Barm, og þo hefur hin Guddoomlega Elska laated oss Faatækum Gudspiollenn boda; Eñ hver giegner vorre Raust? Hver tekur þessu Bode? Hinn Vijse hroose sier ecke af Skynseme sinne; hinn Vollduge ecke af Vallde sijnu, og hinn Rijke stære sig ecke af Audesijnum, enn saa sem vill hroosa sier, hañ hroose sier af þvi, ad hañ þecke mig og skilie, ad eg sie Jehova, sa ed giore Goodgyrne, Riettiñ og Riettvijsena a Jordu, þvi þad lijkar mier, seger DRottenn, Jer. 9. O siaaed nu hier, þier sem hrokid ydur upp af þvi, sem eckert er i spuñed, eñ forsmaaed þessa miklu Kvolldmaaltijd, ad þar maa ecke stæra sig i Guds Auglite af hinum mestu Hlutum, Vite, Makt og Audæfum. Eñ hvad skulu Menn segia vid hina Dramblaatu Hwsgaangs Herra vor a medal? Þegar Vitfirringureñ hroosar sier af Danielis Speke; Þegar hañ, sem gietur nidurdreped þeim, sem er vesælle honum, þa ætlar hañ sig Konung vera, og þorer þo ecke ad geispa a moote þeim, sem honum maattkari er; Ef hann, sem einhvern Tijma laa vid Hwsgaangi, ef hann, segie eg, med folskum Kaup-Eyre, med Þrælslegre Hondlan, jaa, med allra Handa Svikum og Prettum, hefur dreiged under sig Goots Namunga sijns, og

sillt honum a Stundum, annadhvert sijna eigen Þorf edur Fáviesku, þá stærer hann sig af þeirre Audlegd, er hanns Frænsijne hafe aflad honum. Þetta er so Alment og Opennbert, ad ei þarf epter ad grafast, so sem DRottenn segier fyrer Munn Jeremiæ: Og þetta giorum vier, sem þo erum af odrum Þioodum lijtels virdter, um hveria med öllum Riette maa segia þau St. Pauls Ord, er eg fyrer skömmu las, ad vier erum ecke marger Vijser, ecke marger Forsiaaler, ecke marger Gofuger, og þo tiggiunst vier og tonn lunst innbyrdes, Jaa, bijtunst um þetta Volæde er vier mille Handa hofum, eins og Gadd-Hestar um illt Foodur; Enn þad er allra aumast, ad þad sem verst er a hinum farsælu Þioodunum, er lifa i þeim goodu Londunum, og þad sem Guds Bræde hvad mest uppæser, sem er, ad þær hyrda lijtt um Gud, og faa sier ei Stunder, fyrer Vellystarennar Saker, ad dyrdka hann sem byriar, þad, segie eg, skilur ecke helldur vid Eymder vorar, sem þo ættu ad neyda oss inn ad gaanga til þessa Giesta-Bods: Og so sem ad Nægternar og allra Handa Tijmannlegt Epterlæte, ætte ad draga adrar Þiooder til ad elska og prijsa Skaparans Giædsku; So ætte og vor Þorf og Orbyrgd ad reka oss til ad deast ad hanns Millde, ad hann i ollu þessu hefur unnt oss þeirrar Sælu, ef vier hana riett brwkudum, sem allar Þiooder mættu ofunda oss af og alla so mieg epterlaangar, sem er Fridur og Rooseme; Enn Gud giæfe! ad hier vantade ecke allt ofmiked a, og ad þeir sem hiaa oss eru odrum Fæte fremre, þeir ecke hæddu ad Guds Orde, forsmaadu og ofsæktu hanns Þienara! So laangt er fraa þvi, ad þeir leite Drottenns, edur kome þegar þeir bodner eru.

Þa vard Hws-Bondenn Reidur, segier Textenn, Og Sagde Til Þioonustu-Mannsins: Far Þu Snarlega Ut A Stræte Og Gotur Borgarennar, Og Leid Volada, Vanada, Blinda Og Hallta Hier Inn. Þesser munu vera Almwga Menn Gydinga, þeir ed skipudust vid Christi Lærdoom, þvi færster voru þeir af hinum, sem geingu honum til Handa; Þad er bert af Phariseæarana Ordum, er þeir sogdu: Trwer nockr af Hofdingiunum a hann edur af Phariseis? Enn þesse Almwge, sem ecke veit Logmaaled, er bolvadur, Joh. 7. Gydingum byriade og fyrst ad predika Guds Ord, so sem Paulus og Barnabas vottudu fyrer þeim i Antiochia, P.G. 13. Enn nær þeir raaku þad fraa sier, og hielldu sig Guds Rijkis Omaklega, þa hafa þeir snwed sier til Heidenna Þiooda, so sem þar stendur; Þvi segier og hier i Gudspiallenu; ad nær Þioonenn sagde, ad þar være enn meira Rwm, þa hafe Hwsbondenn sagt: Far Þu Ut A Þioodbrauter, Og Twngarda, Og Naudga Þeim Hier Inn Ad Gaanga. Hverier munu þesser vera, B. M? Nema vier Heidenna Manna Born, hverra Fedur voru aan Guds i Heimenum, Jaa, ecke vier sijdst, sem bwum hier under hinu ytsta Heims Skaute. A oss er ad fullu rættur Spaadoomur Guds, er hann segier vid Sonenn, Es. 49. Þad er Oslijted ad þu siert minn Þienari, til ad upprietta Jacobs Kyn, og aptur ad sækia þad tapada af Israel, helldur hefe giort þig til Lioos Heidenna Þiooda, so ad þu siert mitt Hiaalpræde til Veralldarennar Endemarka. Siaaed þvi og, þier Christner Menn, hvilijkann Kiærleika ad Faderenn hefur oss giefed, þad vier Guds Born kallader verdum, eingu sijdur

enn

eñ Rijkisins Syner. Þesse er JEsus Christur Sonur Guds lifanda, hañ sem er vor Fridur og giorer eitt af bædum, og Gyrdingu Mid-Veggiarins hefur brotid, so sem Paulus ad Ordi kiemst, Eph. 2. Hvad er oss þa til Hindrunar, Born mijn, ad framgaanga til Naadar-Stoolsins? Þar vier hofum frijanñ Tilgaang fyrer hañ, seger Postulenn til Hebræos. Trwed mier, ad þad er ecki lijtill Velgiorningur, sem vier þeiged hofum i Christne-Bodinu; Eg vil ei tala uñ þau gledilegu Umskipte, ad vera leyster undann Satans Vallde, enn setter i Guds Sonar Rijki; Enn hitt ætti oss alldrei wr Minni ad lijda, ad hiner nætturlegu Kvisterner eru afbrotner, enn vier innplantader, Rijkisins Syner eru wtrekner i hin ytstu Myrkur, enn vier eigum Kost a ad sitia til Bords med Abraham, Isaak og Jacob.

O! Born mijn; Eg grætbæne ydur fyrer JEsu saaru Kvol og bloodugar Under, ja, fyrer ydar eilijfrar Velferdar Saker! Takid Vara a þessare ydar Kallan, og lijkest ecki hinum i þvi, ad giora ydur Guds Rijkis Overduga. Þad er daasamligt ad horfa a hina Alvitru Guds Raadstofun i sijnu Naadar-Rijki: Fyrst setti hann Þeckingu sijns Nafns so ad segia midt i Verolldina; Þegar þeir ræku hana fra sier, þa hefur hun særst smaamsaman Nordur epter þessare Heimsins Alfu, so ad hun einnig er komiñ til vor hiña ytstu Heims Bwa, og varla er hina sonnu Guds Dijrkun ad fiña nu i Heiminum, nema i þessum nordustu Londum. Seged mier nu, christner Meñ, ef vier nu forsmaaum þessa Guds Giof, og ei þeckia vilium vorn Vitiunar-Tijma, hvert a Gud þa ad fara? Eda fyrer hverium a hann sitt Ord ad predika laata? A hann ad fara wt wr Heiminum? Edur predika laata fyrer Joklunum, Biarndijrunum og Refunum i Grænlande? Litlu munar, virdist mier, hia morgum hverium medal vor, þar Hiarta Mannanna er so freded, so Iskallt orded, ad þad braadnar ecke vid Guds straungu Hootaner, ecki vid hañs Naadar Bodskap, og ecki vid Minning hiñs sijdarsta Dooms, nær Hofud-Skiepnurnar munu af Hita braadna; Kiærleikureñ og Trwskapurenn eru burt wr Landinu, enn Agyrne og Fe-Draattur taka Yfirhond; Þeir sem meiga sier nockud, eta i kringum sig eins og Byrner og Leon, þegar þad tekur sijna Braad, og hiner Einfolldu dansa eptir þeirra Pijpu, og stockva yfer hvern Þroskulld, til ad uppfylla Hws Drottna siña med Raani. Og þoott vier meigum jaata oss hverre Þiood heimskare, þa erum vier þo noogu vitrer i Slægdenne, ja, falsker eins og Refar. Ein med hinum stærstu Syndum, hvar fyrir Gud rak sitt Foolk wt i Herleidinguna, var Flaarade og Otrwskapur; Heyred Jeremiam þar uñ talande, Cap. 9. Einginn trwe Vin sijnum, og eingenn trwe nockrum Broodur, þvi sierhver Brooder er eiñ Svikare, og sierhver Vinur umgeingst falsklegana, og tala ecki Sañleikañ, þeir kieña Twngu sinni ad tala Lygd, og þeir erfida sig þreitta i þvi, ad hondla svikfamlega. Seged mier; Ef Jeremias mætte lifna upp aptur, mundi hann kunna betur ad wtmaala vora Olld, eñ med þessum Ordum? Og hvad erum vier þess, ad vier skylldum vænta oss betra af Gudi, nær vier uppfyllum þeirra Mæling? nema vier ydrunst af Hiarta, og

legg,

leggium af Klæki þessa. O! hversu mikid hefur oss hnig.rad, ecki einasta i ollum Mañ-
skap og Hyggendum, helldur og i Sakleysinu og Rꝏdvendninni: Hvar er hin forna
Trwfesti, Stodugleiki, Roksemi, Vijsdoomur i Rꝏdslogunum, Hugprijdi i Utriett-
ingunum, Sannsøgli i Ordunum, Riettvijsi i Doomunum, sem ꝏ Dogum For-
fedra vorra var so miøg lofud og elskud? Þetta hofum vier i Utlegd rekid og forum
Dag vestnande, so ad þeir sem ecki eiga morg Ar til Baka ad telia, þeir þeckia ei Land-
id edur Stioornina hiꝏ þvi sem hun var, hvert ed sijnast mætti ad vera eitt vijst Teikn
til Undirgꝏngs og Eydileggingar. Guds Þolinnmædi vardveite oss frꝏ Jeremiæ
og Ezechiels Tijmum, hverier ed bꝏder sꝏu Ofarer Gydinga-Lands, og bꝏder
miog so hormulega klaga um þessa og þvilijka Stoorglæpe skoñu fyrer Herleiding-
una, og meigum vier kannast þar vid, ad Gud hefur bendt Forfedrum vorum med vid-
lijku Moote, sem eg þo voga ad segia, ad voru miklu betre enn vær. Utlegd hefur jafn-
ann halldinn verid hid mesta Volæde, enn eg veit ei hvad eg segia skal: Betra er hver-
vetna wtlægur ad vera medal Christenna Manna, enn ad lifa i þvi Lande, hvar Dygd-
inn er fyrer Skoñ halldenn, enn Klækirner i Forsvar tekner, jafnvel af þeim, sem
hvad mest ættu ad afstijra vondu Framferde. Nær eg hugleide þetta, þa giet eg ei
bundist ad taka under med Jeremia, er hann seger i Guds Orda Stad i 16. Cap. Tak
þier ei Konu til Egta, og al ecki Syni nie Dætur i þessum Stad. Þar fyrer O!
Guds Born, takid Vara ꝏ Velferd ydar, lꝏngt er sijdann þier Bodskapen heyrdud,
og enn nu er Rꝏdar-Tijminn, eñ eingiñ veit hvert þetta Bod stendur leingur eñ til
Morguns; Legged þvi af alla Illsku og Prettvijse og allañ Ohreinleik, eñ iklædist, so sem
Utvalder Guds, Heilager og Elskuleger, Hiartgrooiñi Myskunsemi, Goodgyrniñi, Lijti-
lætinu, Hoogværdiñi og Poliñmædiñi. Eñ hiñ nꝏdugi Gud virdist ad vardveita sijn
Born i Solli þessarar Ogudlegu Alldar, so þau Ostraffanleg fiñast mættu ꝏ þeim
Tilkomu Degi JEsu Christi; Bænheyre þad goodur Gud fyrer sijns Son-
ar wthellt Blood og sꝏru Pijsler, Amen, i JEsu Nafne, Amen.

# Þridia Sunnudag eftir Trinitatis.

Gudspiallid, Luc. 15. Cap.

I Þañ Tijma. Eñ aller Tollheimtarar og Bersynduger nꝏ-
lægdu sig til hañs, so ad þeir heyrdu honum. Og hinir Skrift-
lærdu og Pharisæi mogludu og sogdu: Þessi medtekur Ber-
synduga Meñ, og etur med þeim. Eñ hañ sagdi til þeirra þessa
Eftirlijking, so segiande: Hver sꝏ Madur af ydur, sem hefur
Hundrad Saude, og ef hañ glatar einum af þeim, yfergiefur hañ ecke
þꝏ Niju og Nijutygir ꝏ Eydimorku, og fer eftir þeim sem glatadist,
þꝏngad til hañ fiñur hañ? Og þa hañ hefur fundid hañ, leggur hann
hañ

þañ sama (med Fognude) sier a Herdar, kiemur heim, og kallar samañ Vini og Nabwa, og seger til þeirra: Samgledjest med mier, þviad eg hefi minn Saud aptur fundid, þann sem glatadur var, Eg sege ydur: Ad lijka so mun Fognudur vera a Himnum, yfer einum Syndugum, sem Ydran giorer, meir enn yfir þeim Niju og Nijutyger Riettlatum, sem eige þurfa Yferbootar vid. Eda, hver er sw Kona, sem hefur Tiju Peninga, ef hun tijnir einum, er eige so, ad hun kveikir Lioos, og soopar Hwsid, og leitar vandlega, þangad til ad hun finnur hann? Og þa hun hefur hann fundid, samannkallar hun Vin-Konur sijnar og Granñ-Konur, segiande: Samgledjest med mier, þviad eg hefi miñ Pening aptur fundid, hverium eg tijnda. Lijka so og sege eg ydur, þad Fognudur mun vera fyrir Englum Guds yfer einum Syndugum, þeim ed Yferboot giorer.

## Exordium.

Eg em auglijstur þeim, sem ecki spurdu epter mier. Eg em fundiñ af þeim, sem ecki leitudu ad mier. Eg sagde: Siaed mig, siaed mig, vid Foolk þad, sem ecki nefniist efter mijnu Nafne, seger DRottenn, Esa. 65. Þesse Spaadoomur a ad skiliast uñ heidnar Þiooder, þad Foolk, sem sat i Myrkrunum, og var an Christs, fraskildir Israels Borgar-Rette, Framandi i Sattmaalum Fyrirheitisins, hafande einga Von, og Gudlauser i Heiminum: So sem Paulus vottar, Eph. 2. hvar Postulinn meinar alleina þau Fyrerheit, sem Gydingum voru sier i Lage giefinn, so sem ad þar skylldi upprenna einn Kvistur af Root Jesse, og adrer þvilijker Spaadoomar, sem hondla þar uñ, ad Mesias skylldi fædast af Gydingum; Enn ecki hin Almennilegu, sem ollum giefinn voru, so sem þegar Gud hiet Abraham, ad i hanns Sædi skylldu blessast allar Þiooder, Gen. 22. Hvad lioost er ecki einasta af hinum mikla Framgange Evangelii, strax epter Himna-For DRottinns, er hann, ad sigrudum Dauda, Diofli og Helvijti, took Einvallds-Stioorn i sinni Kyrkiu uñ allann Heiminn, helldur og spaair Gud þar uñ fyrir Munn Hosea, 2. Cap. segiande: Ad Tala Israelis skuli verda so sem Siaafar Sandur, hvern enginn gietur mælt nie talid: Enn so sem a Dogum Hosea var Israel so langt nidursockenn i Gudleysisins Afgrunn, ad hann villdi þeim ecki framar myskuna, þad þeir ecki skyllu samann Herleidder yrdu. So og er ad Ottast fyrer a þessum verstu og sijdurstu Dogum, ad Christninn, hveria Guds Sonur hefur med sijnu Bloodi afrekad, hun mege verda kollud Loruchama, edur Nadarlaus, og ad margir hennar sijnileger Limer mune verda Konunge Myrkrañs ad Braad, nema Meñ bæti sinn Christinndoom og taki sier annad Hugtalag, helldur enn almeñlega tijdkast. Sneña hoof Bruñur Myskunar-

ennar ad auglijſa þad, ad eckert Manngreinar Alit væri hia ſier, þegar hañ took vid Berſyndugum og Tollheimtu-Monnum, hverier ed voru af Phariſæis bolvadar Manneſkiur halldnir, og einginn villdi med þeim Seſs nie Samneite eiga, eñ ecki ſkiedi þad þeſs vegna, ad þeir voru Berſynduger og Tollheimtu-Menn, þvi alltijd er Gud ſamur vid ſig i þvi, ad ei lijkar honum Ogudlegt Athæfi, hélldur hinns, ad þeim læ hvad meſt a, og þegar aller hofdu fordæmt þa, villdi hann ecki fordæma, ſem alleina hafdi Valld til ad riettlæta. So ſkulum vier og ecki meina, ad vier edur Fedur vorer hafi Myſkun hloted af þvi, ad þeir voru Heidingiar, þvi Heidingia og Tollheimtu-Menn leggur DRottenn ad Jofnu, Matth. 18. Helldur, efter mikilli Myſkunſemi ſinni, hefur hann oſs hoolpna giort, ſo ſem Paulus vottar, Tit. 3. Þad giorer JEſus bert i þeſsu Gudſpialle med Efterlijkingunni um hinn tapada Saud og tijnda Pening. Enn ef vier afrækium þeſſa Naad, er oſs ſo lenge hefur frambodinn verid, ſumum forgiefins kannſkie (hvad Gud nadi og betri!) þa dyliunſt ecki vid, ad vor Doomur muni þeſs þijngri verda, helldur eñ hinna nátturlegu Kviſtanna, ſem ad þeim helldur tilheyrdu Fyrirheitinn, enn oſs. Eg vil wt af Gudſpiallinu alleina hugleida i þetta Sinn: 1. Hverſu Naadugur ad Gud ſie i þvi, ad leita eftir oſs. 2. Hverſu treger vier ſieum i þvi, ad lata oſs finna.

Styrk oſs hier til Giædſkurijke Fader, med Krafti þijns Anda, fyrir JEſu Chriſti Forþienuſtu, Amen.

## Utleggingenn.

Eiñingiñ i þeſſum fogru Eftirlijkingum hlijdir ſier i Lagi uppa þa, ſem ſtoor-Synder hafa drijgt, eru fallner fra Guds Vinattu i hañs Oblijdu, og hañig forbrotid Guds Barna Riett, og hañs Faderne, ſem ſia ma af Eftirlijkinguñi um hiñ fortapada Son, er i þeſſum ſama Capitula ſtrax a eftirfylgir. Nu ef vier rañſokum vora Lijfernis Hattu, Chriſtner Menn, þa mun eingiñ vera ſa af oſs, ad ecki finni hañ i Samvitſku ſiñi, ad hañ hafi Guds Naad þraafalldlega af ſier brotid, og ad hañ þar fyrer ſie Daudans ſekur. Ecki er þad noog, ad vier ei drijgium þa Glæpe, ſem viña til Utſetningar af Kyrkiuñe; Þad er betra ad vera wtrekiñ af Samkunduñi, helldur eñ fra Guds Naadar-Stoole. Margur mun ſa iñſt i Kyrkiu, ſem ei mundi iñ fyrir Himnarijkis Dyr koma, ef hañ dæi i ſama Hattalagi. Hvad vardar um þad, þo eingiñ viti, ef þijn Samvitſka veit? Lijtid gagnar ad dyliaſt fyrer Monnum, þar allt er þo opid fyrir Guds Auga; Vilier þu þar fyrir ſia Guds Giædſku i þvi ad leita ad þier, og kalla þig ſyndugañ til Ydranar, þa ſkoda hvar fra þu fallinn ert, Opinb. 2. DRottiñ ſamlijkir ſoddañ tijndri Mañeſkiu glotudum Saud; Og er þad nærſta vel tilſundid, þvi hañ er ſa goode Hyrder, Joh. 10. Enn vier foorum allir villt ſem Sauder, ſeger Eſaias, Cap. 53. og forum daglegana. Saudunum erum vier lijker i Einfelldniñi og Faafrædinu, enn ecki i Meinleyſinu, Borñ Vitſkuñi, eñ ecki i Hreckvijſiñi, þvert a mooti þvi, ſem Poſtuleñ bijdur, 2. Cor. 14. Hier ma ſia i Gudſpiallinu, ad Mad-

urinn hefr halldid Hiørd siñ̄ a Beit i Eydemørku: Og hvad mun eiñ Volade Saudur Guds vera i Eydemørku Veralldar þessarar, ef hañ villist fra hinum gooda Hyrdir, hver ed geingur undañ sijnum Saudum. Þegar DRottiñ var reidur Jsrael fordum, og hiet ad wthella yfir hañ Brædi siñi, þa seiger hañ hia Hoseam i 4. Cap. Ad hañ vilie fæda Jsrael, so sem eitt Lamb a Vijdlendinu; Eñ hvad er eitt Lamb i soddañ Plaatzi? Eckert añad eñ Braad Vargaña; og þo er þeim midur farid, sem mz Syndum og Glæpum hefur giort sig vidskila hiñ Osijnelega DRottiñs Sauda-Flock, hverier ad þeckia siñ Hyrdir, og af honum þeckter verda, Joh. 10. Þad er hin saña Guds Christni og Søfnudur hañs riett-trwadra Barna. O! hvilijk er þa Giædska hinns blessada Hyrdirs, ad hañ virdist til ad leita ad soddañ tijndum Saud. Nakvæmlega wtmaalar DRottinn sitt Fødurlegt Hiartalag i þessare Efterliikingu. Ecke yfirgiefur Gud hina Riettlaatu; Ei þarf hañ helldur ad yfirgiefa þa, til ad leita ad þeim sem tapadur er; Enn uppa þad ad þu vita meigir, syndugur Madur, hversu giarna ad hañ vill ad hiñ Ogudleige snwi sier og lifi, þa jafnar hañ siñi breñande Elsku samañ vid þañ Mañ, sem lætur sier hvad saarast vera til þess sem villt hefur farid, ja, saarara til eins af þeim, helldur eñ til allra hiña sem vijsir eru. Þessa Guds fødurlega Giædsku ættum vier ad laata smellta Hiarta vort, þegar hañ leitar ad oss daglega i sijnu Heilaga Orde, oss, sem Daglega syndgust og ei viñum nema til Hegningar. Nær giørir hañ þetta? Þad giører hañ, nær hañ sijnir oss i Løgmaalinu, hversu miøg vier høfum vikid af hañs Vegi, þegar hañ lætur siña Bodorda, siña straungu Hootana Þrumu lemia uñ Eyru Syndarans, nær hañ daufheyrist vid hiñi blijdu Raust þess gooda Hyrdirs, og ecki vill laata sig med Guds Naadar Fyrerheitum leida a hiñ rietta Veg, þad giørir hañ nær Syndaranum vid þetta Reidar-Slag Ofbiooda sijnir Glæpir, og hañ seiger med David: Þar er eckert heillt a mijnu Holldi fyrir þiñe Ognan, þar er eingiñ Fridur i mijnum Beinum fyrir mijnum Syndum; Mijn Saar lykta illa og fliioota af Greftre fyrir miñar Heimsku saker. Þegar hin fraavillta Saudar-Kynd ecki rædur sier þañig, fyrir Ofbodi Helvijtis Pijsla, þa mun Guds Hiarta bresta i honum so hañ hlijtur honum Myskunsamur ad vera, Jer. 31. Þa mun Christi Ande bidia fyrir henni med Oumrædilegum Andvørpunum, Rom. 8. Þa mun hun og braatt heyra: Þoott ad þijnar Synder sieu raudar sem Blood, þa skal eg þær Snioohvijtar giøra; Og þoott þær sieu sem Purpuri raudar, skulu þær Ullhvijtar verda, Esaj. 1. Og þañig fer nu hiñ goodi Hyrdir ad leita eftir hinum tijnda Saud. O hvilijk fødurleg Giædska! O hvilijk breñandi Elska! O þad orannsakannlega Afgrunn DRottins Myskunar Ydra! Komid hijngad aller þier sem Erfidi drijgid, og Þwnga erud þiader, hann vill Endurnæra ydur, Matth. 11.

Þar Mun Verda Meiri Gledi J Himnenum Yfir Einum Syndara, Sem Ydran Giørir, Helldur Eñ Yfir Niju Og Nijutijgir Riettlaatum, seiger DRottiñ: Hia hverium mun su Gledi vera? Hia Gude og hanns blessudum Einglum; Þar munu

glediast Englar Fridarens, Esa. 33. Ad þeir sia sitt Erfide hefur ecke forgiefens verid: Þar munu fagna vorer Vardhallds-Englar, sem eru Þioonustusamer Andar, wtsender þeim, er Saaluhiaalpena erfa skulu, Heb. 1. Nær þeir merkia, ad þeirra Verk færer so goodann Avoxt, ad þeir sia aptur bættann þann Skada, er Satan vañ þeim, nær hañ droo Þridiung Stiarnañа, þad er, Englaña, þeirra Stallbrædra, i Afgruñ Myrkraña med sier, þa hann fiell af Himne, ad þeir sia hann bættañ, segie eg, med Fyllingu Utvalldra Guds Barna, sem Ydran giora; Þar gledst Engell hins mikla Raads, nær hañs dijra Blood þrijn aa einum saaraadum Syndara, sem Ydran giorer, hann reiknar ecke þau Bondenn, þau Hoggenn, þa Hraakana, þa Hwdstrokuña, þañ Þyrne-Kransenn, þañ Hrakningeñ, þa bitru Pijsl og Helvijtes Kvaler, er hann saklaus leid fyrer þverbrotenn Syndara, nær hann ydrast af Hiarta, og lætur af Glæpunum: Swo Gledeñ yfirgnæfer, ad hann hefur Saud siñ aptur funded þañ er glatadur var: Iaa, oll Guddoomsins Þrenning fagnar yfir Apturhvarfe Syndarans; Faderenn, þvi hann elskar oss i sijnum Elskulega Syne; Sonureñ, af þvi hann hefur oss verde keypta; Heilagur Ande, af þvi hañ er Pantur Arfleifdar vorrar; Þvi segier og D. Rotteñ, Hos. 6. A Myskunseme hefe eg Þocknan og ecke aa Offre: Til hvers Lyknar-Ords D. Rottenn vijsade Phariseunum, er þeir mogludu uñ þad, ad hañ æte med Tollheimtu Moñum, Matth. 9. Fared þier, sagde hann, og læred hvad þad er, Myskun vil eg, og ecke Offur, þvi ei kom eg ad kalla Riettlaata, helldur Synduga til Ydranar; Og hvad er þad sem auglijse meir Guds Guddoomlega Ast til Syndarans, helldur eñ þad sem hier stendur i Gudspiallenu: Og Þa Hann Hefur Hann Funded, leggur Hañ Þañ Sama Med Fognude A Herdar sier? Hann slær hañ ecke nie lemur, ei rekur hañ med hardre Hende undañ sier, helldur leggur hañ aa Herdar sier, þar til hañ nær til Hiardareñar, ad hañ ecke aptur tijnest. So er og Gud vid Syndarañ naadugur: Hañ gleimer ollu þvi sem undañ er fared, hañ skilur ecke hiñ villta Saud epter i Raadleysu og Hugar-Vijle, helldur sijner honum, med Vitnisburde Heilags Anda, ad hañs Syndum sie kastad i Haffsins-Diwp, so þeirra Miñing ei skule uppkoma ad eilijfu. Þessa Grunnlausu Ast wtmaalar D. Rottenn merkelega, Esa. 46. segiande: Heyred þier mier af Hwse Jacobs, og aller hiner sem epter eru af Hwse Israelis, þier, hveria eg ber i mijnu Lijfe, og med hveria eg geing, Iaa, eg mun bera ydur allt til Elle-Daga, og þaangad til þier graaer af Hærum verded, eg vil upphefia, bera og frelsa. Hvad opt lesum vier i Heilagre Ritningu, ad Gud hafe ydrad þess Illa, sem hann ætlade ad leggia edur hafde lagt aa Mañkyned (So wtmaalar hañ sijn breñande Myskunar-Ydur epter Mañlegum Plagsid), enn sialldnar skulum vier lesa, ad hañ hafe ydrad þess Gooda sem hann hafde giort, þvi so miklu yfirgnæfir Naadenn Reidena og Myskunsemeñ Riettlæted; Þar fyrer segier hann og fyrer Muñ Hoseæ, 13. Cap. uñ þa Naad, er hann hugde syndugu Mañkyne ad veita i Christo: Ydraneñ er huld fyrer mijnu Auglite; Þad er, eg skal þess alldrei ydrast. O hversu er Gud oss syndugum Moñnum þa Olijkur! Honum leidest alldrei

rei gott ad giora, enn oss alldrei ad fremia hid illa: Hann segier hia Joel, Cap.2. Er hañ wteys sijnum diwpu Myskunar-Ydrum ysir Syndarañ. Eg em Nadugur og Myskunsamur, mikillrar Goodgyrne, og sa ed ydrar þess Illa: Hvar hid Illa merker Guds riettferduga Hefnd ysir Glæpum Mañaña: Eñ Mañeskiañ lætur sig so lijtt ydra þeirra swlu Skama, er hun reiter hañ til Reide med. O hvilijk er þa Giædska O Rottiñs, ecke einasta i þvi, ad hañ hefur Þolinnmæde med Illgiordum vorum, helldur og leitar epter oss a allar Lunder, og tekur a moote einum syndugum sem Ydran giorer med allskonar Blijdu! Mikil var Ydran Jonæ Spamanns, og þo ecke minne hanns Trw, ad hann, epter þad hann hafde jatad Misgiord sijna, vogade þo ad lata kasta sier wt i hid brwsanda Haf; Eñ þo var eñ stærre Guds Fodurleg Giædska, er hañ sættest so bradt vid hann og so algiorlega, ad hann tilbioo honum Vist i Hvalfiskiarens Kvide. Þesse Guds undrunarleg Hiarta-Giædska, ætte ecke einasta ad leida oss til ad sættast vid hañ, so opt sem vier honum a moote briootum, helldur er þetta ein Obryggdul Huggun fyrer þa sem under sitt Andlat ydrast. Stoorlega hafde þesse Guds-Madur syndgast, þar ed hann þeckte Guds Matt, og talade vid hañ eins og Madur vid Mañ talar. Jon.4. og sette sig þo upp a moote hanns Bode; Enn hañ, er so bradlega tilgaf honum þessa Hrooplegu Synd, mun hann ei bæde kunna og vilia forlata þier þijnar Illgiorder, ef þu ydrast þeirra af Hiarta? Þoott ei hafir þu langañ Frest til Ydranar; Varla mun nockur Syndare vera meire Hæska vidkomenn eñ hann var þa, og þo vogade hann so a Guds Myskun, ad hann sagde, Cap. 2. Eg em wtkastadur fra þijnu Auglite, enn þo skal eg ecke lata af ad horfa a Mustere þijns Helgedooms. Hvert var þad Mustered? Þad var Guds Myskunar-Hiarta. Hvar var þad? Þad var jafnvel i Fiskiarens Kvide. Lat þier þvi sagt vera, ad þu ert alldrei i þeim Stad staddur, hverke a Sioo nie Lande, hverke i Vatne nie Ellds-Voda, ad ei sie hann þier Nadugur, nær þu af Hiarta Fridmælist vid hann; Og i einu Orde ad segia, þar er Mustere hañs Guddooms, sem þu akallar hañ i Anda og Sañleika: Eñ þessa Guds Nad att þu ecke ad brwka til ad draga sialfañ þig a Talar, so sem þu villder hafa þad fyrer Lijf-Atkiere Saluhialpar þiñar, ad Gud hefur epter sumum leitad alla Æfe þeirra, eñ fundid þa kannskie ecke fyrr enn a Dauda-Stundunne, og lagt þa so sier a Herdar, og borid inn a Land lifande Manna: Ertu þar fyrer Rangeygdur þoott hañ sie Goodgiarn? Þoott hann hafe so vid nockra giort, sem nu er mællt, þeirra Ordsaka vegna, sem hann sialfur veit; Er hann þar fyrer skylldugur ad giora eins vid þig, sem forsmaer Rijkdoom hañs Langlundar i Ostrauste hañs Nadar, af þvi þu veitst hann er myskunsamur? Spamadurenn, er eg strax umgat, hann var Guds Madur, hañ þeckte bædi Guds Giædsku og hanns Riettlæte, og þo honum yrde þad a ad syndga so stoorlega, þa vard honum þad og fyrer ad ydrast, strax sem Gud liet hann þeckia Synd sijna; Eñ þier mun bagara um ad giora so fliota Ydran, sem alldrei þenker nema um Glæpena, og hvernig þu kynner þeim best i Verk ad koma. Þad hender Guds Born, ad þau

 falla

falla i ſtoorar Synder, annadhvert af Gaaleyſe eins og Moyſes, af Bræddræde eins og David, af Otta eins og Petur; Þetta ſkiedur þegar Vilienn rædur fyrer Skynſemina, Andenn lætur ſigraſt af Holldenu, enn þau ydraſt aptur af Hiarta, þau væta ſijna Sæng i Taarum med David, og græta beyſklega med Petri; Enn ſaa Gudlauſe hefur einga Hvijld, hañ þenker ei annad eñ hvernig hañ meige hinu Illa framkoma, og eyder ollum Saalar og Lijfs-Kroſtum til ad fylla Gyrnd ſijns illſtvſa Hiarta. Þoott nu ad Guds Fodurleg Aſt til Mañkynſins ſie jafnann bwen til ad taka vid Syndaranum, nær hann ſnijr ſier til Yfirbootar, þa kann eg ecke ad ſegia, ad þeſsbaattar Manneſkium mune vera liett um Afturhvarf, þvi Guds Rauſt er miog ſo hardtolud ad moote þeim, er hann ſegier: Mich. 2. Vei þeim ſem hugſa Ranglæted, og þeim ſem ſtunda uppaa hid illa i Svefn-Hwſum ſijnum, ad þeir vilie framkvæma þad þegar byrter, nær ſem þad er i Vallde þeirra. Siaae nu þeir til, ſem aaſetia ad temia ſier þvilijkt Hugarfar allt fram i Daudann, hvert þeir mune eiga Hlut i þeſſare Guds Giædſku, um hveria eg læt nu ad ſo ſtoddu wt-talad vera, jafnvel þoott hun alldrei wt-tolud verde, edur nooglega prijſud um alla Eilijfd. Og vil ſo koma til hinns Sijdara, er eg hiet um ad ræda.

So er nu Gud nadugur til ad leita eſter oſs, ſem eg heſe ſagt; Enn hverſu erum vier nu audvellder til ad laata oſs finna? Gud hroopade aa Adam, er hann hafde ſyndgaſt, og ſagde: Hvar ert þu? Og enn nu hroopar hann aa oſs Daglega i ſijnu H. Orde, nær vier, ad Dæme þeſſa vors Fodur, briootum hañs Skipaner; þad ſaaum vier ad finna i hañs Tiju Laga-Bodordum, ſem vier aller læra eigum, ſtrax aa Unga Alldre. Adam og Eva foldu ſig er þau merktu Guds Rauſt i Alldingardenum, eñ ſtrax ſem hañ kallade Manneñ vid Nafn, þa anſade hañ og jaatade Synd ſijna. So er þad eñ nu fyrer oſs, ad aa Ungmeñis-Arum vorum heyrum vier ad ſoñu Rauſt Drotteñs i hañs Logmaale, vidlijkt og Adam Piteñ af hanns Ferd um Alldeñgardeñ, enn þa verdur oſs þad fyrer, ad ſkijla oſs aa medal Eikanna, þad er i Faavitſku Barndoomſins, og meinum ad vier kunnum ad dyliaſt fyrer Gude, ef vier gietum duleſt fyrer þeim, ſem oſs er til-trwad, og vid oſs eiga um ad vanda. So er nu Spilling Natturunnar fraabær i þvi, ad laata ſig ecke finna af Gude, þoott eſter Mannenum ſie leitad! Enn þeſs være Oſkande, ad þegar vier erum komner til Vits og Ara, og Gud kallar oſs med Nafne, ad vier þa ecke Etthlerar værum, helldur breitum eſter Fodur vorum i þvi, ad dylia ecke leinge med oſs Synd vora. Þu munt ad ſpyria, hvad þad ſie, ad Gud kalle einn med Nafne? Þad kalla eg ad vera, nær hann i ſijnu Orde ſtraffar þær Syndernar, ſem þu ert ſekur i, enn þu villt ecke vid þær kannaſt, annadhvert af þvi, ad þu kallar þad litla edur enga Synd, er þu vel maatt þeckia Synd ad vera, edur og ad þu ert ſo forherdtur i þeim ſtooru Syndunum, ſem aller Glæpe kalla, ad þu ecke ydraſt þeirra, Vanenn er vordeñ ſo rijkur i þinne ſpilltre Natturu, ad þu ei þecker Armood þinn og Faatækt i Guds Auglite, edur ad Gud er ſo ſmaar i þijnum Augum, ad þu ætlar hann mune ecke forſmaa þann ſem hann vanvirder, 1. Sam. 2. Þegar Menn hafa nu Grein af einhveriu þeſſu, erum

vier

vier þa ecki nærsta Torvellder til ad læta ofs fiña? Þegar vorer Fyrstu Forelldrar, af Gyrndinne til ad þeckia hid Jlla, neyttu þess Avaxtar, er þeim bañadur var, þa hlutu þau Osk sijna, enn þad fyrsta Jllt er þau þecktu, voru sialf þau og þeirra Fatleyse. Af þessare fyrstu Gyrnd hiñs fyrsta Mañs, er iñsmogiñ til allra Maña nockurskonar Þorsti ad vita þad sem Jllt er, hvadañ flestar Odygder og Lester spretta; Enn þess væri Oskande, ad fyrst vier Einusiñi hofum ratad i þetta Spillingarinnar Hættalag, ad ofs þa yrdi hid sama fyrir, eins og vorum fyrstu Forelldrum, ad vor Augu lykiust upp, so vier þecktum sialfa ofs og vora Blygdan, vorn Veikleika og vora Orbyrgd, og ad vier stadfaster værum i Hugleidingu þessarar vorrar Omyndar, þa mundi hiñ goodi Hyrdir ecki einasta finna ofs tijnda Saudi, helldur mundum vier leita hañs Andlitis strax sem hañ kallar, hañ mundi breita vid ofs eins og þau, og klæda ofs, ecki med Skinn-Klædum, eiñs og Forelldra vora, helldur med þeim Riettlætis Kyrtlinum, er hann wtvegade ofs, þegar hañ Hwdflettur var: Enn fyrer þvi ad vier erum so Toomlæter i slijku, þa fylger þad æ efter, ad vier sneidum Himiniñ þeirri Gledi, sem hann hefur af einum Syndara, sem Ydran giører, og sialfa ofs þeirra Samneyte sem i honum bwa, þar vier kioosum helldur ad eta Drafid af Svijna Trygkunum, jæ, ad hversa aftur eins og þau til Leyrvelltunnar, helldur enn ad leita til Hijbijla vors Fodur, og mettader verda med Abraham, Jsaac og Jacob, af Nægtum Guds Hwss Eilijflegana.

Þegar einn Syndare ydrast af Hiarta, og lætur af Glæpunum, þa kallar DRottiñ, ad hañ hafi Saud siñ fundid; Eñ hversu tregkomid ad sie til þess morgum Manni, þad er audsied af Glæpunum, sem Heimureñ er fullur af. DRottiñ seger fyrir Muñ Zophoniæ, Cap. 3. Er hañ talar um þæa Nææd, er hañ heiter ad veita ofs i JEsu Christo: Eg vil umbreita Vorum Foolksins, ad þær sieu hreinar; og skomu þar eftir segir hañ: Eftirleifar Jsraelis skulu ei Rææglætid fremia, og þeir skulu einga Lijge mæla, og i þeirra Munni skal ei folsk Twnga finnast. Þessi dijru Spaadooms Ord heyra og vorum Tijdum til, og mun ei þrkoota þar til Verolld þrijtur, þvi so leingi hefur Frelsarinn lofad ad vera hiæ ofs. Eñ hlustid til, hvernig DRottiñ i þessum Ordum, wtmælar hinn andlega Jsrael, christner Meñ? Munu þeir verda af þvi Sauda-Hwse, sem lasta Gud med Ordi og Verki, þeir sem eckert Lof sijngia honum med Muñi sijnum, þeir ed falska Eyda vinna vid hañs hrædilega Nafn, liwga, baktala, vægia og brugga Svik med Twngu sinni sijnum Broodur, sem med Guds Sonar Bloode er endurkeyptur? Læængt er fræ þvi, þeir eru eingu sijdur æn Guds i Heiminum, og fiarlæger Jsraels Borgar-Rette, helldur enn hiner verstu Heidingiar, um hveria Paulus talar, Rom. 1. Giorid þvi Ydran i JEsu Nafne, O þier hin fræsnwnu Borninn! Og leited Drottinns æ medann hann er ad fiña, so þier af honum fundnir verdid. Eckert er þad, sem meir hindrar Gudrækni vora, helldur eñ Undañdrættur Ydrunariñar. Hvernig kañ Guds Ast i honum ad bwa, sem ei daglega lætur sig þad ængra, ad hann hafi so nædugann Gud styggdann, hver ed i so morg Ar hefur leitad æ allar Lunder efter hanns

Vel-

Velferd, og viliad leida hann med Giædsku sinni og Rijkdoomi sinnar Þolinmæde til Apturhvarfs. Vier þeckium ad sonnu Glæpi vora, vors Guds fodurlegt Hiarta konnunst vier og vid, i þvi ad lijda þaa. Vier jaatum og vitum, ad ei verdur þeirra Sekt burt-tekinn, nema þeir verdi med beiskum Taarum afþvegnir: Enn hversu faaer eru þeir, ed giora soddann Ydran, sem þeim, ad nockru Leite, megi sambiooda! Vier erum nærri þvi eins lyndir og Guds Foolk, eptir þad Gud hafdi leidt þaa aptur wr Herleidinguni, umm hveria skrifad stendur, Hagg. 1. Þetta Foolk seger: Þar er ei kominn Tijmi til ad byggia Hws DRottinns; Enn hann seger: Er þar Tijmi til ad þier skulud bwa i þiliudum Hwsum, og þetta Hws skal so standa i Eydi? Oss hefur hinn goodi Gud af Omælannlegri Giædsku sinni frelsad fraa Diøfulsins Herteknungu i Endurgietningar Lauginni; Enn hversu tregir erum vier og hisknir i þvi, ad uppbyggia hanns Kyrkiu, sem er vort Hiarta, med Endurnijung vors innra Manns, Enn fyrir voru jardnesku Hwsi berum vier nooga Ummhyggiu, eg meina Kroppinn, þann Ham Saalarinnar, þar hun, sem er Hwsbondinn, fer þo i øllu Reidileyse. Enn hvad seger DRotteñ umm sitt Foolk skommu fijdar i sama Capitula: Þier saaid mikid og safnid litlu inn; Þier eted, enn einganñ Veginn til Sadnings; Þier dreckid og verdid ecki drucknir; Þier klædist og verdid þo ecki varmer; Og sa ed Laan tekur, hann leggur þau i rifinn Siood. Sama hendir þaa Haalf-christnu aa medal vor, þaa Volgu, umm hveria Guds Andi talar i Opinnberingar Bookinni, Cap. 3. Þeir vilia ad sonnu Guds Børn heita, enn þo forgiefins, nema þeir briooti nidur þaa Satans Capellu, i hverri hinn gamle Adam þioonar honum, og er hanns Prestur þar inni; Enn byggi Gud eitt nijtt Musteri i sijnum Limum med sanri Trw, lifande Trw, Saaluhiaalplegri Trw, hver ed verki fyrir Kiærleikann. Þeir saa mikid; Þeir lesa Guds Ord, heyra þad, enn þo med haangandi Hendi; Þvi safna þeir litlu inn, so varla nockud þar af verdur geimt i Korn-Hlødu Hiartans, þeim til Nota, nær aa þarf ad hallda. Þeir eta og drecka Holld og Blood DRottinns, enn ecki til Sadningar, miklu helldur til Fordæmingar. Christo hafa þeir ad sonnu Iklædst, enn affært sig honum aptur med gudlausu Athæfi og þverbrotnu Hiartalagi. Þeirra Christinndoomur er frosenn og hefur eingann naatturlegann Varma, og þau Laun, er þeir meina sig ad hafa fyrir Lijking sinna goodra Verka, hver þeir giora sialfum sier til Hroosunar, enn ecki Gudi til Dijrdar, þeim hella þeir i rifinn Siood, þvi hin sanna Audmykt Hiartans er laangt þar fraa, og so Trwinn, aan hverrar Omøgulegt er Gudi ad þocknast.

Breitum ei þannig, christner Menn, breytum ei þannig! Helldur laatum oss ydra þess, sem undannfarid er, sundurkremium vor Hiørtu med Angri og Trega aan Hræsnis, og ecki umm Stundar-Saker, helldur alvarlega, iduglega og daglega; Þvi daglega syndgunst vier, og vinnum aavallt til Hegningar, annars mun Christinndoomsins Nafn ad eingu gagna oss, eckert Heyrn Ordsins, og eckert vor Kyrkiu-Gaangur, vorar Ølmusur, nie onnur Goodverk, helldur mun þad verda eins og DRottinn seger fyrir Munn Haggæi, Cap. 2. Spyried Prestana ad, ef nockur ber helgad Kiøt i sijnum Kaapu-

Skauti

Skauti, mun hann Heilagur verda? Hverium Prestarner svorudu Ney, og eñ aptur sagde hann: Ef nockur sa, sem Ohreinn er af Daudyske, snerter eitthvad þvilijkt, hverium þeir svorudu: Þad mun Ohreint verda. Sama mun framkoma vid þa sem ei ydrast af Hiarta, og eru so Volgir og Toomlaatir i Verki Saalar siñar. Þad Ordid er þeir heyra, Guds Lijkami og Blood er þeir medtaka, Bænirnar er þeir flapra wt af Muñinum, Kyrkiañ i hverri þeir byrtast fyrir Guds Augum, munu ecki helga þaa, miklu helldur, þar þeir eru sialfer Ohreiner, og ecki þvegnir med Laug sañrar Ydranar, þa munu þeir vanhelga þessa helgu Dooma, til Fordæmingar sier og eilijfrar Glotunar, nema þeir betur vandi Ydran sijna og Apturhvarf fra Syndunum; Enn vid þessu dausheyrast Meñ almeñilega, jafnvel þoott þad sie Guds eiginn Raust i allri Ritninguñi. So tregt veiter heilogum Anda ad koma oss i Leitiña, þegar hinn goode Hyrder ad oss leitar. O hversu lett giora Menn sier Ydrunar Verkid! Vier meinum, ad Lygar, Stuldur, Hoordoomur, Gudlastaner, Meinsære, og hiner verstu Klæker og Skamir, sem Diosullenn fær tilbwed i Vantrwarinnar Bornum, verdi med einu Taari afþvegnar, og jafnvel þoott ei sie þad so miog af Grunni Hiartans; Eñ Ninive Borgar-Menn grietu Synder sijnar i heila 40. Daga. David, sem var hiñ kiærasti Guds Vinur, hann griet þo beisklega i Seck og Osku. Nebuchadnezar maatti af-þvo sitt Raanglæte med Sio Ara Ydran. Enn hvad meinar þu þier byrie ad giora, sem ert þier so margra Synda medvitande, og þo eru þær fleyre sem þu ecki veitst, ecki manst, og ecki athugad hefur, og sumar kannskie halldid fyrir litla edur einga Synd, eñ ert þo ecke viss uñ, ad þu hafir so laangann Frest til Ydrunar, sem ad Fiollda Glæpanna sambioode. Mun þier ei Þorf a ad laata þig finna af honum, sem ollum Stoorsyndurum, Tollheimtumonnum og Pwtum hefur til sijn bodid? Reid þig ecki uppa Olmusur Phariseaña, jafnvel þoott Olmusur sieu af Gudi skipadar; Þad heiter ad vilia kaupa Saattmaalans Blood. Med Ydran og sannri Trw a hiñ Krossfesta verdur þad feinged, eñ ecki med Femunum; Þvi oll Verolldiñ med allri siñi Dijrd er liettari, eñ Fis hia einum Dropa Guds Sonar Bloods, og duger eckert til ad endurkaupa Saal Mañsins, so sem Frelsarenn vottar, Marc. 8. Laat þier þar fyrer allra mest hier uñ hugad vera, þa munu hin wtvortis Verkiñ sialfkrafa a eptir fylgia. Ydraniñ og Trwiñ eru þær Tvær Hendur, er þu aatt ad breida a mooti þijnum Lausnara, nær hañ fiñur þig Villuraafande a Eydemorku: Gior so, þa munt þu Leidetamur verda til allra goodra Verka, þvi sa sem hefur plaagad Hiarta sitt med Minningu siña Illgiorda, hañ mun skyrrast vid, ad viña þad til hiñar raudu Vellingar, Gen. 25. er hinn slæge Bragda-Refur Diosulleñ vill kaupa hañs Frumgietningu med, ad standa wt ad niju slijka Plaagu, er Syndiñ hafdi aflad honum, edur ad pijnast eilijflega i Helvijte ad odrum Kosti, og hañ sem trwer a Guds Son, og er viss uñ ad honum eru so margar Synder uppgiefnar, hann elskar meir eñ so, ad hann laati sier fiñast hañs Bodord þwng, er hañ so heitt elskadi, ad hañ bar alla Guds Reide, þa hañ var Saklaus kvalinn fyrir hanns Synd-

er. Veit eg ad hverigt þetta stendur i voru Valldi; Enginñ kañ til JEsum ad komast nema hañs Fader drage hañ, Joh. 6. Og hier stendur i Gudspiallinu: Ad Madurinñ hafi leitad epter þessum tijnda Saud. So leitar nu JEsus ad þier, þad mundi hañ ei giora, nema honum være Alvara ad hiaalpa þier; Hañ leitar ecki forgiefins ad neinum, nema þeim sem ecki vilia laata sig fiña, eins og Pharisæi og Skriftlærder, þar fyrer leitade hann ad Tollheimtumoñum og Bersyndugum, sem voru tapader Sauder, þvi hañ var komiñ til ad frelsa þad sem tapad var. Hañ leitade ecki leinge ad Matthæo, aadur eñ hann liet sig finna, ecki ad Zachæo, ecki ad hinni Bersyndugu, ecki ad Hoorkonunni, er hañ afleiste i Musterinu. Eingum af þessum bægdu Syndernar fraa ad laata sig fiña, enn Pharisæi mootstoodu H. Anda, P.G.7. Þvi gengu Tollheimtumenn og Pwtur inn i Guds Rijki, þar sem þeir voru wtrekner. Madureñ took þeña Saud aa Herdar sier. Hvar fyrer? Þvi ad hañ hafdi so lenge raasad i Villuñi, ad hañ hefur ei sialfur gaanga kunnad. So giorer og Gud vid Syndarañ: Af þvi vier megnum eckert Gott af sialfum oss ad hugleida, auk helldur ad frañkvæma, þa ber hañ oss aa Hondum sier, eins og eiñ Madur ber sinn Son, sagde Moyses uñ Guds Foolk i Eydemorkunne. Nu þar vier hofum so naadugann Gud, ad hvar sem Syndenn yfergnæfer, þar yfergnæfer þo Naadenn miklu framar, og so milldañ, ad hann vill sialfur giefa oss Krapt ad þocknast sier, þaa laat alldrei Synd þijna so vaxa þier i Augum, ad þu efest uñ hanns Myskun, nie vanntreyst so þijnu Maattleysi, ad þu ei strax fylger honum epter, þvi hanns Kraptur er i breiskum maattugur. Satt er þad, ad O Rottne mislijkar Vondskann so miog, ad eingiñ Hlutur er odrum so gagnstædur; Vatned er Elldsins Vinur, og Ulfurinn Saudaña, hiaa þvi Hatre, sem Gud hefur aa þvi Illa, añars mundi hañ ecke hafa uñid þad til ad forlijka Heimiñ vid sialfañ sig, ad ofurselia siñ Eingietinn Son i so bitrar Kvaler; Þetta lætur hañ oss skilia er hann seger: Þo ad Moyses og Samuel stædu frami fyrer mier, þa være ecki mitt Siñi til þessa Foolks, Jer. 15. Eñ hier er ecki Moyses nie Samuel, O Rottiñ miñ, hier er eiñ faaraadur Syndare, ein ormædd Saal, einn harmþrwngiñ Andi, einn tijndur Saudur, er þiñ Sonur hefur þo aptur funded, hver ad er meire eñ Moyses og Samuel; Munt þu burtkasta honum, O Rottiñ, nær hañ framber þad dijra Gialld, er hañs Frelsare lauk fyrer hañ aa Trienu? Fiærri sie þad þier, Bruñur Giædskuñar, sem ecki villt Syndarans Dauda; Þad sie laangt fraa þier, Konungur alls Landsins, ad þu straffer hiñ Gooda med þeim Vonda, sagdi Abraham; Eñ eg em goodur ordiñ, þegar Sonar þijns Blood er wtruñid i mitt Taara-Flood: Þad er laangt fraa þier, sem eingann villt burtu reka þañ ed til þijn kiemur, ad þu laater mig ecki niota hañs Bæna, sem þu burt rakst þegar hañ kvalldest fyrer mijnar Synder; Eda munt þu taka Giolld af bædum ockur? Og þvi skyllda eg þa ei laata mig fiña, nær miñ Hyrdir leitar ad mier, þoott Syndir mijnar væru stærri eñ Sodomæ og Gomorræ Synder, þvi mun eg vantreista mier ad betra miñ Lifnad, til ad filgia honum epter, þar eg megna alla Hlute med Paulo, fyrir hañ sem mig maattugañ giorer, Christum? Phil. 4

Phil. 4. Og er viss um, ad hvers eg bid Fodurin i hans Nafni, þad mun han veita mier, Joh. 15. Þegar eg kiem fyrir Mangarans Bord, þa em eg þo ekki viss um, ad eg fae þad mig gyrner, jafnvel þoott eg hafi noog fyrer ad gjallda; Stundum skorter han Voruna, stundum verda Men ecki Kaupsætter, og þad ber til, ad annar bijdur meira en eg, vid þvi sem eg fala; En þegar eg kiem fyrir þijnar Nadar Dyr, Herra min, þa er ecki hætt vid þvi, ad eg fari Eyrendislaus. Þess eru ecki Dæmi, ad þær Bænir, sem eru i Himinin sendar, hafi toomar afturkomid: Eg kaupi þar med Skortinum; nær eg hefi eckert af sialfum mier fram ad leggia, þa fæ eg alla Hluti fyrir alls eckert; Þar brestur ecki þad hver gyrnest, þvi þar eru Nægter Guds Hws: þar skal engin hlaupa i Kaup vid mig, þvi þar er noog fyrir alla, eins fyrir Manassen, so sem fyrir David, eins fyrir Ræningian a Krossinum, so sem fyrir Guds Moodur under Krossinum, eins fyrer þann sem ecki hefur erfidad nema eina Stund, so sem hin er borid hefur Hita og Þwnga Dagsins, nær Menn biooda þad med Sundurknosudum Anda og Trwudu Hiarta, sem alleina fyrir Gudi gilldir, þad er hans Sonar Forþienusta, i hverium honum vel þocknast. Honum med Fodur og Heilogum Anda sie Lof, Prijs, Rijki og Makt, Styrkleiki og Dijrd, fra þvi nu er og ad Eilijfu, AMEN.

# A Jons Messu Skijrara.

Gudspiallid, Luc. 1. Cap.

OG þa ed sa Tijmi var komin, þad Elizabeth skylldi fæda, og hun fæddi Son. Og er Nagranar henar og Frændur heyrdu þad, ad DRottin hafde miklad Myskun sijna vid hana, samglodduſt þeir heni. Og þad skiedi, ad þeir komu a hinum Attunda Deigi, ad umskiera Sveinin, og nefndu hann sijns Fodurs Nafne Zacharias. En Mooder hans svarade og sagde: Aungvannveiginn, helldur skal han Johanes heita. Og þeir sogdu til henar: Þar er þo engin i þinn Ett, sem ad heitir þessu Nafne. Enn þeir bendtu Fodur hanns, hvad han villdi ad han hieti. Enn han beiddist Knefa Spiallds, skrifadi og sagdi: Johanes er hans Heite. Og þeir undrudust aller. En jafnsnart laukst hans Munur upp, og Twnga hans leidrettist, og han taladi, lofandi Gud. Og Otti kom yfir alla þeirra Nagrana, og um allar Fiall Byggder i Judæa vijdfrægdust oll þessi Ord. Og aller þeir ed þad heyrdu, settu þad sier i Hiarta, og sogdu: Hvor grunar þig ad þessi Sveirn verdi? Þvi ad Hond DRottins var med honum. Og Zacharias Fader hanns

fylltist af heilogum Anda, Spaade og sagdi: Blessadur sie DRottiñ Gud Israels! Þviad hañ vitiadi og giørdi Frelsan sijnu Foolke. Og hañ uppreisti oss eitt Hiælpar-Horn, i Hwse Davids Þioons sijns. So sem hañ hefur talad fyrir Muñ siña Heilagra Spaamaña, fra Alldødle. Hañ frelsadi oss fra Ovinum vorum, og af Hendi allra þeirra sem oss hata. Hañ giørde og Myskunsemd vid Fedur vora, og miñtest a siñ Heilaga Saattmaala. Og at þad Saeri er hañ soor Fodur vorum Abraham, ad hañ giæfe oss þad. Ad vier leyster af Hende Ovina vorra, þioonudum hønum an Otta, i Heilagleika og Riettlaete fyrer hønum sialfum, alla vora Lijf-Daga. Og þu Sveirn munt kallast Spaamadur hins Haersta, þviad þu munt fyrer-renna Auglite DRotteñs, og tilbwa hañs Vegu, ad giefa hañs Foolke Skilning Saaluhiælpareñar, i Fyrergiefningu Synda þeirra, fyrer Myskunar Ydur Guds vors, i hverium hañ vitiade vor Upprune af Haedum; Ad lijsa þeim sem i Myrkrum og Daudans Skugga sitiá, til ad greida Faetur vora fram a Veg Fridarens.

Exordium.

SJa, eg mun senda minn Engel fyrer mier, saa er tilreide Vegenn undann mier, segier DRottenn hia Malach. 3. Cap. Ad þesse Spaadoomur hlijde uppa hinn Fyrsta Nija Testamentesins Spaamann, Johannem Skijrara (Hvers Miñing vier i Dag holldum), Þad er audvitad af Vitnisburde sialfs Frelsarans, er ritadur stendur hia Matth. Cap. 11. Hvar hann berlega þijder hiñ sama uppa hañ; Þad er og ljoost, ad eins og Morgun-Stiarnañ geingur undann Soolunne, so rann þesse Guds Vinur undann sijnum HErra, Lausnara Heimsins. Hañ var aadur gietenn i Moodur-Kvide, og aadur i Heiminn faeddur; Þvi lijser Engillenn, er hañ bodade Moodur DRotteñs Gietnadeñ, Luc. 1. Med þessum Ordum: Sia þu, ad Elizabeth Fraendkona þijn hefur og Barn gieted i Elle sinne, Og þesse er Siotte Maanudur hennar, Sem kollud var Obyrja. DRotteñ var i Heimenn faeddur af Hreine og Oflekkadre Meyu, og þoott þad vaere hid mesta Furdu-Verk, sem Gud hefur nockurn Tijma giort i ollu Naatturunnar Rijke, þa var og þad miøg so undarlegt, ad Johannes var alenn med þeirre Konu, er so miøg var til Ara komenn. Johannes skijrde med Vatne til ad bwa Christo Veg, sem epter a kom og skijrde med H. Anda og Ellde, Matth. 3. Johannes hoof sinn Laerdoom med Ydrunar Predikun og Fyrergiefningar Syndanna, þar hann sagde: Giøred Ydran, þvi Guds Rijke er naalaegt; Þetta var og Iñtaked i ollum Christi Laerdoome, er sijdann a epterfylgde, og so mun þad verda allt til Enda Veralldarennar; Þvi sagde hann Fordum vid Laeresveinana, Luc. 24. So er

þad

þad skrifad, og so byriade Christo ad lijda, og upp aptur rijsa a Þridia Deigi, og predikast lata i sijnu Nafne Ydran og Syndanna Fyrergiefning hia øllum Þioodum; Hver Nædar Bodskapur ad einnig er til vor kominn. Nu giefur Frelsarenn þessum sijnum Forgaungu Manne þann Vitnisburd hia Matth. Cap. 11. Ad hann sie meire enn nockur Spamadur. Og mætte þad sijnast, ad DRottinns Alvijsa Forsia hafe sett þetta Stoora Lioos i øndverda Christs Kyrkiu, þad er, i Fordyre Nya Testamentisins, til ad sijna øllum þeim, sem þar inne eru, edur inngánga vilia, hversu Veglegt ad sie Embætte Forlijkunarennar, sem Guds Þienurum er tiltrwad. Vil eg þvi a þessare blessudu Hatijd taka mier fyrer Hendur ad yfirvega: 1. Hversu Vyrdugleg ad þeirra Þioonusta eige af øllum halldenn ad vera. 2. Hversu miøg þeir eige sialfa sig ad vanda. Hialpa oss hier til goode Gud, fyrer JESUM Christum, AMEN.

## Utleggingenn.

NOG Þu Sveinn Munt Kallast SPamadur Hins HAErsta: Þetta Embætti var miøg so veglegt a Døgum Gamla Testamentesins, so þad fylgde Kongdoomenum a Stundum. Moyses var Spamadur, og þo Hofdinge yfer Guds Foolke, David var Konungur yfir øllum Israel, og þo Spamadur, sem lioost er af hanns Psalmum: Þeir voru og miøg so Tignader af Gudhræddum Konungum; So var Nathan i Hávegum hia David, Hazaria hia Aza Konunge, og Esajas hia Ezechia. Nu eru þad Guds Kienne-Menn i Nija Testamentenu, sem adur voru Spamennerner; Þvi þetta Ord, ad SPA, merker ecke alltijd ad segia fyrer Okomna Hlute, so sem giørdu þeir a Gamla Testamentesins Døgum, helldur i þvi, ad flytia Guds Eyrende og vijdfrægia hanns Nafn. Hver mun giefa mier, ad allt þetta Foolk kynne ad spa, sagde Moyses, Num. 11. Syner ydar og Dætur munu spa, sagde Joel, Cap. 2. Þad er: Gud dijrka, lofa og vegsama. Johannes Baptista verdur hier nefndur Spamadur ens Hæsta, og þo gietur ecke umm þad ad hann hafe fyrersagt Ovordna Hlute. DRottenn segier, Ad Hann Sie Meire Enn Nockur Spamadur: an Efa, medal annara, þess vegna, ad aller Spamenn spadu til Christum, Enn Johannes bendte til hanns med Fijngrenum, og sijnde Mønnum Guds Son Holldenu Iklæddann. Hanns Epterkomendur eru vorer Kienne-Fedur, þeir boda oss JEsum Christum dauenn fyrer vorar Synder, og uppriseñ oss til Riettlætes, þeir sijna oss hann i Ritningum fyrer Augunum afmaladann med øllum hanns Astgiøfum og Velgiørningum. Hver er sw Foorn Gamla Testamentisins, er jafnast meige vid hanns dijrmæta Holld og Blood, sem hanns Þienarar wtdeila i Heilogu Altaresins Sacramento? Hvert er Valld so miked a Jordu so sem ad leysa Syndena hia þeim ydrande, og ad bynda hana hia þeim, sem ecke vill ydrast nie af henne lata? Joh. 20. Sia med þa, Brædur mijner, hversu veglegt ad er þetta Embætte, sem þo af mørgum Dára verdur lijtilsmeted. Ecke took Spamanns Embætted so mikla Virdingu af Valldstioornenne, þoott eg fyrer skommu segde, ad Gud

hefde sæmt hana med þvi, nær honum so lijkade. Hverutveggiu eru hanns Umbods-Menn a Jordunne, og eiga honum þar inne ad þioona, epter þvi sem hann hefur hverium boded: þar voru og flester af Gamla Testamentesins Spamoñum, sem engeñ mikel Menne voru fyrer Heimenum. Eliſæus var fra Ploognum tekeñ, Jeremias var Unglingur, þa hann var kalladur, Amos ſegier i ſinnar Bookar Cap. 7. Ei var eg Spamadur og ecke Spamanns Sonur, helldur var eg Nauta-Hyrder, og leitade epter Morberjum. Þvi tekur þetta Veglega Embætte engañ Myndugleika af nockurs Maños Perſoonu, Ætt, Atgiorfe, Rijkdoome nie ødrum Veralldar Hlutum, þvi þar i er oll Sæmdenn foolgenn, ad þeir eru DRottenns Þienarar; Allur Rijkdoomureñ, ad hañ vill vera þeirra Arfur, Num. 18. Allur Myndugleikenn i þvi, ad þeir eru Raads-Meñ hañs Leyndardooma: Og er þad ecke lijted, Børn min; Hver sem alijtur þad Okomna meir enn þad Nærveranda. Eg þykeſt vita, ad þar er engenn af ydur ſa, er ei hallde Guds Son alls Heidurs verduganu. Enn hvad ſegier Chriſtur vid Poſtulana? Hver hann forſmaer ydur, hann forſmaer mig. Ad vijſu er þad ſatt, ad vorer Kienne-Fedur na ei Taanum þangad, ſem þeir hoſdu Hælana, ſo ſem vier pløgum ad ſegia. Miked ſkorter oſs a vid þeirra Hugprijde, Polenmæde, Kiærleika, Bindinde, Roggſeme, og adrar Kiennemañlegar Dygder, og þo eru þeir ſamt Chriſti Þienarar, og þeir ed vaka yfir Saaium ydrum, nær þeir giora ſitt Embætte, epter þeirre Raad, ſem þeim veitt er, med Koſtgiæfne. Nun þvi Chriſtur ecke hallda þañ ſaklauſañ, ſem vanvirder hañs aumaſta og veikaſta Þienara, þvi hann ſtendur og fellur ſijnum HErra. Og vil eg nu i þetta Siñ ecke ſpa mier til Orda, hverſu vier eigum þa ad elſka og virda fyrer þeirra eigenn Perſoonu, þvi eg hefe einhveriu Siñe adur uñ þad talad; Þeim er þad og fyrer minſtu, ad þeir af ydur dæmder verde, edur af Mannlegum Deige, DRotteñ er ſa ſem dæmer þa, 1. Cor. 4. Þeirra Ovirding hia Monnunum er þeim Heidur hia Gude; Þad Hatur, ſem Verolldenn leggur a þa, aflar þeim Elſku i Himnenum; Sa Afdraattur, er þeim ſkier i ſijnum Tekium, hañ verdur Rijkdoomur i Guds Fie-Hyrdſlu; Eiñ Peningur, ſem þa vantar hier, aflar Hundrad Peninga þar: Eñ uñ hitt vil eg nu tala, ad þier ecke forſmaed þeirra Þioonuſtu, þoott þeir ſieu lijtelmootleger i ydar Augum ſumra hverra, þad er Kieñingarnar og Ordſins Predikun, þvi ef þier ſo giored, þa forſmaaed þier ecke þa, helldur þañ ſem þa ſende; Og ef þier hated þa fyrer Sañleikañ, þa hated þier Saaler ydar, og ſtofned þeim i hiñ meſta Voda. Eg bid ydur Brædur, ſegier Paulus, 1. Theſſ. 5. Ad þier þecked þa ſem erfida a medal ydar, og ſtanda fyrer ydar Auglite og kieña ydur, ad þier hafed þa yfirmaata kiæra fyrer þeirra Verks Saker. Hvert er þad Verked? Chriſtner Meñ! Þad ſegier oſs Zacharias hier i Gudſpiallenu: Ad Tilbwa Hañs VEgu: Hvers þa? Hinns Allra Hæſta, þeſs Drottnarans, nær hañ kiemur til ſijns Muſteris, ſem er þitt Hiarta, þad er, nær hañ krefur þeſs og hin Heilaga Guddoomſins Þreñing vill þar iñganga og Viſtarveru hia þier giora. Til þeſs eru Guds Þienarar ſetter. Seig mier: Eru þeir þa Ills verder fyrer

sitt Verk, nær þeir giora þad trwlega, og vilia sca þier soddañ Gieste til Hysingar? Eñ þetta skilst ecki hiñi vantrwudu Kynslood; Hun er eins og Skiækañ, sem Terentius giætur uñ i Skroksøgunni, eins og hun sagde uñ hinn dramblæta Strijds-Mann, ad ei hefdi leyfst vid hann ad tala, nema þad sem hann hefdi ædur fyrermællt. O jæ, taled þad sem oss er þocknañlegt, epter þvi sem Eyrun klæa! Er ecki þad hid sama sem Drottenn seger hiæ Amos, Cap. 2. Þier hafid fyrirboded Spæmoñunum, segiande: Þier skulud ei spæ? Þesse Guds Madur mætti og af þvi segia, Amos 7. þegar Amazia Jeroboams Prestur i Bethel sagde vid hañ: Þu Siæande, far burt i Gydinga Land og et þar Braud, og spæ þar, enn hallt ecki æfram ad spæ i Bethel, þvi þad er Kongsins Helgidoomur, og hanns Hws. O þier Villudyr! Þegar Leoned oskrar, hver mun ecki skielfast? Og þegar DRottenn skipar, hver mun ecki predika? Amos 3. Enn hann skipar so opt, sem ad hañs Þienarar siæ, ad ydar Glæper og Ogudlegar Athafnær taka Yferhønd; Enn hver af hañs trwlyndum Þienurum mun skielfast fyrir ydar Oþocka edur Reide-Svip, nær Meñ eru visser uñ hañs Vinættu, i hvers Hendre þier erud, eins og hid frwna Spæmañsins Bellte, sem þo alldrei hafdi i Vott komid? Eg skal giora mijn Ord i þijnum Munni so sem Elld, enn þetta Foolk so sem Trie, þau eta hann eyder, seger DRottenn fyrer Muñ Jeremiæ, Cap. 5. Enn þad Orded, sem gudhrædder DRottins Þienarar hafa i Munninum, þad er og hanns Ord. Eñ so sem þad ad Jerusalem ecki strax uppbrañ vid Spæmañsins Ord, samt var Bæal-Elldureñ ecki længt i burtu. So vite hiñ gudlause Heimur, sem ecki vill leysa þessum Ellde Jñgæng i Hiarta sitt, til ad brenna þar upp Sorp og Endeme holldlegra Gyrnda, viste hañ, sege eg, ad hins eilijfa Loga mun skamt ad bijda, sem uñ Allder mun breña þæ, nema þeir ydrest af Hiarta. Aller lætunst vier til Kyrkiuñar koma, aller heyrum vier Orded, og brwkum Sacramentenn, og, so sem ein Herme-Kræka, giorum oss Læte i Christinndoominum, eñ-nær vier þetta hvad mest giorum, þa giæfi Gud, ad ecki ætti heimu hiæ sumum af oss, þad sem DRottenn seger uñ Juda fyrir Muñ Jeremiæ, Cap. 5. Þar byrtast ræangsnwner Menn æ medal mijns Foolks, þeir sem liggia til Lagis, og setia Snørur fyrer Foolkad ad veida þad, so sem þad Fuglarenn giører med sijnum Veide-Brellum, og þeirra Hws eru af Prettum full, eins og eitt Fugla-Bwr er fullt af Tæl-Fuglum, þar wt af verda þeir mektuger og rijker, feiter og fricelsleger, þeir fara med Jllsku-Þor, þeir hallda eingiñ Riettinde, þeir framkvæma ecki Mælefni hinns Fodurlausa og þad luckast þeim. Og Almwgeñ er æ Stundum ecki betre ad sijnu Leiti. Þad er ad sønnu grætlegt til ad vita, ad heiler Safnader heyra so margar Predikaner, so margar Aminningar af Guds Ordi, enn þegar Menn krefia ad þeir giøri Grein æ Trw sinni, þa er varla Tijunde hver, sem kyñi ad giora þad, so sem christnum Mañi byriar; Þad er eins og einn Okuñugur Hlutur fyrer þeim, og eins og Draumur Nebuchadnezars, Dan. 2. er hann sagde: Ad Ordid væri horfid sier. O! Hversu lijtid er þetta ad virda Embætti Forlijkunarinnar? Þu seger, ad Orded sie horfid

þier,

þier, þu gietur þvi ecki i Miñi halldid, med þessu dæmir þu sialfañ þig, Barn mitt; Enginn er so Minnissloor, ad hañ af so morgum Predikunum, so morgum Fortolum, hvar hid sama verdur optsinnis Jtrekad, ad hann ei gieti so mikid miñst, ef hañ vantar ecki Eptirtektina, sem ad duga megi honum til Saaluhialpar, helldur vallda þvi Umsvif Veralldarinnar, og holldleger Þeankar, ad Menn ecki Jtreka med sialfum sier, edur briina fyrer siinum Bornum og Hiwum þad sem sagt hefur verid; Þvi kiemur Diofullinn og stelur Ordinu wr Hiartanu, so undir eins og þu fliigur wt wr Kyrkiunni, so fliigur þad wr Huga þier. Nær mun Tunglkomu Hatiidenn liida, ad vier kunnum ad selia Fædsluna? Sogdu Gydingar fordum, Amos. 8. Eñ þess væri Oskande, ad nockrer Saarungar segdu ecki i Hiarta siinu, nær þeir undir Guds Orda Heyrn sitia: Nær mun þesse Ord-Snaapur hætta, so vier meigum fara ad skiemta oss med vorum Liikum? Hversu vel verdur Predikunar Embættid virdt af soddañ Vitstola Mañeskium! Giætid þess, Christner Meñ, ad þau Diirinn voru i Gamla Testamentinu einasta hrein kollud, sem ad joortrudu; Sien þu og til, ad þu helger Hviildardagiñ; eñ hvernig verdur hañ helgadur? Ecki er einn Dagur af sialfum sier odrum helgare, helldur verda þeir so eptir Guds og Yfervalldsins Bodi; Eñ þu helgar hann, ef þu helgar sialfann þig, ecki einasta med þvi, ad heyra Guds Ord, helldur og hinu, ad Jtreka þad med sialfum þier, er þu heyrt hefur, og velltir þvi fyrir þier eins og Diiriñ Foodrinu i Maganum og Muñinum, og vilier þu til fulls hallda þvi og alldrei sleppa, þa breit eptir þvi i Lifnadinum. Laat þad vera hia þier so sem eitt Moot, hvar i Giorder þiinar jafnann steyptar sieu; Þa mun þad vera so sem Stafur saa sem aa Bookfell er ritadur og þiinar Giorder munu hroosa þier, so sem eitt Biilæti wr Gulli steypt, og nær þu so giorir, þa kalla eg, ad þu af Alvoru virdir og elskir þetta heilaga Forliikunariñar Embætti; Og hvad stodar þad Manniñ, ad hann Ordid heyri, nema hañ olldungis leggi þad uppaa Hiartad, og lifi þar epter? Edur, mun þetta heilaga Embætte vera iñstiptad fyrir Sida-Saker? Edur eiga Guds Þienarar ad vera ydur eins og Born, þau aa Strætum saatu og kolludu til hinna: Vier hofum fyrer ydur i Piipur blaased, og þier hafid ecki dansad; Vier þuldum ydur Harma vora, og þier hafid ecki graatid? Luc. 7. Þeir Guds Ord heyra Athugalaust, og ecki hyrda uñ ad færa Avoxt þar af, þeir draga sialfa sig magnlega aa Taalar, ecki einasta i þvi, ad þad mun riisa upp i Doominum aa mooti þeim aa siidarsta Degi, Joh. 12. hvad þo er hid skielfilegasta, og vill giora þeirra Fordæmingu miklu hrædilegri eñ Sodomæ og Gomorræ, helldur eru þeir daarleger i þvi, ad þeir lia Eyru siin til ad heyra þañ Hlut, sem þeim er hiñ mesti Leidi aa, alleina til ad hræsna fyrer Monnum, og hafa þess þo eingenn Not i þessum Heime, sem er þeirra Himnariike, enn eiliif Giolld annars Heims, so sem eg fyrer skomu sagde.

Giætid ad hvad þad er, sem Zacharias seger framvegis uñ þenna unga Svein: Og Til Ad Giefa Hañs Foolki Skilning Saaluhialpariñar Til Fyrergiefningar Synda Þeirra: Til þess hins sama eru ydur Kiennendurner setter, Br. M. Ecke þad, ad

þeir

þeir giefi ydur Skilningenn, helldur enn Johannes. Hann skijrdi med Vatni alleina, so giora og þeir: Pꝏll mꝏ planta so sem hañ vill, og Apollo vokva, 1. Cor. 3. Eñ þad er þo forgiefins, nema ad Gud Avoxtinn giefi: Enn samt fæda þeir Sꝏler ydar ꝏ þvi heilnæma Lijfsins Ordi, sm̃ ad er Kraptur Guds til Sꝏluhiꝏlpar ollum þeim sm̃ trwa, og þegar Guds Andi samteingist þvi i Klett-trwudu Hiarta, þa kañ Manneskiann ecki ad fara ꝏ mis vid þad, ad vaxa eptir fullkomnum Mælir Christi Alldurs, sem Paulus ad Ordi kiemst, Eph. 4. Og þyker mier so sem ad hann ecki miog elski Sꝏlu sijna, sem ecki vill þad vinna til, ad henni hoolpid verdi, ad þyggia naudsynlega Uppfræding af Presti sijnum, og heyra hann i Guds Stad talande, med hinni mestu Athygle: Ecki liggia Syndirnar miog þrongt ꝏ honum, sem ad ecki med allri Sꝏlar og Lijfs Audmykt og christilegum Undirbwninge framkiemur fyrer Gud i Skrifta-Stoolenn, til ad þyggia af honum Kvittun Synda sinna fyrer Medalgaungu hanns Pienara; Enn Gud nꝏde! Ad þar er varla nockur Hlutur sꝏ, ad sumer Menn hafe ꝏ þvilijkañ Vidbiood, so sem ꝏ þessare heilsusamlegu Pioonustu; So nær ed annadhvert Hræsnenn edur Otteñ dregur þꝏ under Guds Orda Heyrn, þa er þad so sem þeir ættu ad gꝏnga til Pijslar, adgiætande þad lijted, ad þeir eiga þar ad finna Sꝏlum sijnum Foodur, so þeir megi umflya eilijfar Helvijtis Pijsler. Eñ seged mier þo; Ef Cain, Achitophel, Judas og hiñ rijki Sælgiætingur mættu eiga Kost ꝏ ad hverfa wr Kvolunum, og sitia undir einni Predikun, mundu þeir ecki kalla þad hiñ stærsta Velgiorning, og Oska ad sw Predikun alldrei þriti? Hvilijkur Dꝏraskapur er þa ad frꝏfælast þad medañ Nꝏdar-Tijminn er, fyrer hvert Madur gietur kvittur ordid vid þær Oumrædilegu Hormungar, er þeir nu pijnast i. Hlijdid þvi Raustu Hroopandans i Eydimorku; Giorid Idran, þviad Guds Rijki er nꝏlægt; Þockum Gudi, ad hañ hefur ecki sendt oss Engla af Himnum til ad fræda oss, hverra Nꝏlægd vier mundum ei standast, helldur syndugа Meñ, vora Lijka; Þar fyrer, sꝏ sem elskar Sꝏlu sijna, hañ elske siñ Sꝏlusorgara, og þigge hanns Pioonustu med allri Hoogværd og Undirgiefni. Og er þad nu so um̃ hid Fyrra wttalad.

Af Johañe hafa aller Christi Pienarar þad Fyrst ad læra, ad forsmꝏ Heimiñ med ollu þvi sem i honum er, og sierdeilis Aud og Mannvirdingar. Johannes var noogu Ættstoor, Burder hañs voru til þess, ad hañ kunne ad verda Rijkur Hofdinge medal sijns Foolks. Fader hañs var eiñ Kieñimadur, Jꝏ, ecki einn almennilegur Kiennimadur, helldur af Rod Abiæ (so sem Lucas hier um̃ skrifar, Cap. 1.) hver ed var hinn Attunde medal Nidia Eleazars Aarons Sonar Hofud-Prests, so sem þar um̃ mꝏ lesa 1. Chronicu Bookariñar C. 24. Hañs Mooder Elizabeth var og af Aarons Dætrum, so sem Lucas einnig vottar, hverium Ætt-Lid ad Kiennimañsskapurinn fylgde, sem var ein stoor Tign medal Gydinganna. Nu þoott hañ væri so Ættgofugur, sem sꝏgt er, þa wtvallde hann helldur ad þioona Gudi i Eydimorku, helldur eñ ad bera Tign Fedra siña; Ad vijsu er þad satt, Brædur mijner, ad eingiñ er skylldugur til þess, ad hafna

ollum tijmannlegum Munum, eins og Johannes, því hañ var sier i Lagi kalladur til þess Embættis. Gud hefur breitt vægdarsamlega vid oss, og leist oss ad bwa i Landinu medal Brædra vorra, og hafa þess Not, er hann og Konungurinn hafa oss wthlutad, eñ þo ecki ad seilast þar fram yfir. Johannes yfirgaf alla Hluti fyrir Christi Sakir, þad sama giordu og hañs Postular, so sem Petur vottar, Marc. 19. Eñ þess være ad Oska ad ei finndust þeir ꝏ medal vor, sem yfergiefa Christum fyrir veralldlega Hluti; Þessu vil eg til þeirra vikid hafa, er lijtid edur eckert hyrda uñ sitt Embætti, enn eru aller socknir ofañ i Fiꝏr-Ploog og Aura-Safn, brwkande jafnvel sijns Embættis Myndugleika til sijns eiginn Abata, enn ecki Christs Kyrkiu til Eblingar; So hætt er vid, ad þar finnest eins marger Judæ Lijkar, þeir ed selie sinn Herra fyrir fꝏeina Peninga, so sem Petri Stallbrædur, þeir ed yfirgiefi alla Hluti hanns vegna, og ad þad mege vid nockra segia, er D Rotteñ talar hiꝏ Micheam, Cap. 3. Nær þeir hafa ad tiggia med Tonnunum, þa hroopa þeir Fridinn, eñ þeim sem ecki lætur upp i Muñ þeirra, boda þeir Strijd. Þeir eta Synder mijns Foolks, seger D Rottenn, fyrer Muñ Hoseæ, Cap. 4. og þeir reysa Hug sinn vid þeirra Rꝏnglæti. Med sama Mooti talar Drottiñ uñ þessa Leigulida og uñ Daglaunaraň, Devt. 24. er hañ seger þeir reisi Hug siñ vid Launinn: Og er þad nærsta vel sagt; Þvi eiñ hyrdulaus Kieñimadur, nær hann hefur þad hañ eta skal, þa skeiter hann lijted uñ Foolksins Synder, þvi reisir hañ Hug sinn alleina ꝏ mooti Launinum, eñ leggur ad litlu hañs Umboot edur Framſor, sem hañ þiggur Launiñ af, og fagnar jafnvel af vondu Athæfi, ef Syndariñ vill þad leysa med nockru Prestsins Gagni, giorande so Bethel ad Bethaven, þad er, Guds Hws ad Hiegooma-Hwsi. Enginn brwki þad fyrir Assokun, ad hann neydist til þvilijkt ad giora fyrir Van-Esna og Fꝏtæktar Saker; Hver er sꝏ af ydur, ad hann lꝏti aftur Dyrnar, fyrer eckert, edur kveiki ꝏ mijnu Altari fyrir eckert? Segir D Rottiñ vid Kiennimennina, Mal. 1. So mꝏ og uñ oss segia; Enginn er sꝏ ed þiooni Christo Okeypis, þoott ei sieu margra Laun so rijfleg, so sem Kyrkiu-Þienaranna i Gamla Testmentinu, og vanti hier nockud, mun þad Þusundfalldt apturgialldast i Upprisu Riettlꝏtra: Edur hvad mun verda af þeim Laununum, er þier ætlid ydur af Christo fyrir ydar Starf, ef þier takid þau fram fyrir Hendur ꝏ honum i þessu Lijfi? Trwid mier til, ad þad mun ecki verda audvelldt, ad vera Judas hier, enn Petur þar, og er þa betra hier lijtid ad hafa, og þar fullrijkur ad vera, ef annadhvert vera skal; Fyrer þvi lꝏtum oss þad sagt vera, er Johannes sagde Strijdsmoñunum, þeim er komu til hañs Skijrnar, og þad þess helldur, sem vier erum Christi Strijds-Menn; Giorid eingum Ofrijki, og pretted eingann, helldur verid ꝏnægdir med ydar Mꝏla, Luc. 3.

2. Þad annad sem Guds Kiennimeñ eiga ad nema af Johanne, er hañs skynsamlegt Vandlæti i hañs Embætti. Þar komu til hañs Skijrnar Tollheimtumeñ, Luc. 3. sem halldnir voru hid versta Foolk, þeim sagdi hann med Hæglæti, ad þeir skylldu eckert giora fram yfer þad sem bodid være: Þar komu til hanns Strijdsmenn, þeim sagdi hañ og med

med Spekt þad sama, er eg fyrer ſkömu umgat: Enn þar komu og til hanns Skijrnar Phariſæi, ſem halldner voru hiner Vijſuſtu, hiner Heiloguſtu, og Saducæi, hiner Riettlaatuſtu, þeſſer voru enger Smælingiar, þvi allt Foolked hnie ad þeſſum Tvennum Flockum, voru og marger Hoföingiar Gydinga af þeim; Eñ af þvi ad þeir voru Hræſnarar, þa vogade þeſſe Guds Madur ad ſegia vid þa: Þier Nödru-Kyn, hver hefur kieñt ydur ad umflija tilkomande Reide? Giored þvi verduga Avoxtu Jdranenne, og ſegied ei med ſialfum ydur, Abraham hofum vier fyrer Fodur: Hann vogade ad ſegia hinum Gudlauſa Herodi Konunge: Þier byriar ecke ad hafa þijns Brodur Egta-Kvinnu. Teliande munu þeir nu vera medal vor, Brædur mijner, ſem ſo alvarlega tale til þeirra, er ſig kalla Hofdingia aa medal vor; Jafnvel þott ad Misſmijdenn ſieu ſo morg i Fari ſumra þeirra, ad ecke þurfi Sioonhagann Mann til ad þeckia þau. O Gud vere oſs Lijknſamur, og giæfe ad Menn villdu til þeſs hugſa, hverſu Landed er fullt af Svijvirding! Agyrnd, Ranglæte, Gripdeilder, Foroktun Guds, Forſmaan hañs Orda, Lauslæte, Hatur til Naaungans, Lygar og Roogur gaanga Skyunum hærra og hroopa i Himinenn, ſo ad nærre þvi ſijneſt liggia, ad hinn Almaattuge mune itreka þau Ord fyrer Eyrum vorum, er hann i Fyrſtu talade vid Ezechielem, Cap. 7. Haf Snoruna til Reidu, þvi Landed er fullt af Hofud-Giorningum, og ſialf Borgenn af Ofrijke. Og þetta verdur þo annadhvert ecke, edur med haangande Hende ſtraffad, af þeim, ſem þo eiga ad giora Reikning hinum Alvallda Doomara fyrer Saal hinns Ogudlega aa ſijdarſta Deige, allra ſijdſt hiaa þeim, ſem megtuger eru, jafnvel þoott þeir annadhvert ſieu fremſter i Flocke, bæde ad æſa þvilijkt, edur og ad forſvara þa ed þad giora. Þier ſegid; þad gyllder ecke, ei ad ſijdur heyra þeir oſs eins og Dvergmaal Fiallanna. Enn hvad vited þier af þvi, Brædur mijner? Hafed þier til þeſs reynt? Hafid þier hlijdt Bode Paals i þvi, ad kalla i Akafa og vægia ecke, ad Straffa, Ogna og Amiña i Tijma og Otijma, med allre Polennmæde? 2. Tim. 4. Nema þier ſo giored, þa vited þier ecke hvad Gud kann fyrer ydar Þioonuſtu ad vtrietta. Ætlid ei til, ad þad ſie noog ad leggia Hondena aa Ploogenn, enn lijta þo aftur til þeſs ſem til Baka er; þeir ed ſo giora, eru ei hæfir til ad leida ſialfa ſig nie adra til Himnarijkes. Gud vill ecke laata hætta vid ſitt Verk þoott lijted aorkiſt. Skodum Dæme Eliæ, ſkodum Jonæ Dæmi! Gud vill laata ſitt Ord Vondum og Goodum predika, ſo þad annadhvert Frelſe edur Fordæme. Heyred hvad hañ ſeger vid Ezechielem, Cap. 2. Eg mun ſenda þig til þeirra, og ad þu ſegier þeim: So ſegier DRottenn, hvert helldur þeir heyra þad, edur þeir Mootſtodu veita, þvi þeir eru eitt Þverbrotid Hws; Ottaſt ecki, þoott þeir ſieu mootvilinger, og Þyrnum vaxner, og ad þu bwer aa millum Hoggorma. Enn Gud giæfi, ad Ottenn edur Fiegyrnenn hiellde ecke Sverde Andans i Skeidunum hiaa oſs aa Stundum! So Menn ecke vanhelgudu Gud fyrer eiñ Hneſa Bygg-Miols, og einn Bita Brauds, og ſaumudu ſo Kodda under hvern Armlegg, eins og hinar folſku Spaakonur giordu under Jeruſalems Eydeleggingu, Ezech. 13. Til ad teikna þar med

Frid,hvar þo engenn Fridur var. O! Brædur mijner,þvi skylldum vier þo hrædast þa riwkande Elldebranda, og ecke miklu framar hinn lifanda Gud hvers Umbod vier a Hende hofum. Latum oss heyra þad hann segier vid Jeremiam, Cap. 1. Vert ecke Ottasleigenn fyrer þeirra Augum,ad eg ei sundurmerie þig i þeirra Auglite. Hvert er þa nu betra,ad sia Skalkenn ygla sig, og hañ fare þo engu til Vegar komed,ellegar ad mæta Guds Oblijdu, og ad hañ sundurmerie oss ad þeim asiaendum? Gud kann ad troda Andskotann under Fætur hinns miñsta Vesælings,sem honum treyster,og giorer Verk sinnar Kallanar i hanns Otta, auk helldur þa Sma-Pwkana, sem vier hofum ad beriast vid; Upphefium þvi vorar Radder sem adrar Basunur, segium Israel til siña Synda, og Jacob til sinna Misgiorda,so ei verde þeirra Bloods af oss krafest a hinum mikla Deige alls Hollds, nær hver eiñ mun hafa noog med sijnar Synder,þott ei giore hann sig Hluttakande i Annarlegum.

3. J Þridia Maata hefur Johañes med sijnu Dæme kieñt oss, ad vier skulum vera arvakrer og kostgiæfner i Lærdoomenum. Hanns Kyrkia var Eydemorkenn, þvi Jerusalems Mustere hofdu þeir giort ad Ræningia-Bæle; hann foor i krijngum allt þad Land er la vid Jordan, og predikade Skijrn Ydranareñar til Fyrergiefningar Syndanna,Luc. 1. Ut þangad foor til hanns Jerusalem og allt Gydinga-Land, so sem Matthæus vottar, Cap.3. Þetta var stoor Sookn, Brædur mijner,fyrer einn Mañ, og skulum vier ecke meina,ad hanns Verk hafe einasta vered ad skijra? Þvi Lucas segier, so sem eg strax aamiñtest,ad hann hafe predikad Ydranar-Skijrnena, þad skilst mier ad sie,ad hañ hafe wtlagt og wtlistad fyrer þeim, er komu til hañs Skijrnar, hvilijkur ad være sa Lærdoomur, uppa hvern þeir skijrdust, og hverneg epter honum ætte ad lifa: Þad sijna þesse Ord af hañs Predikun: Giored Ydran, þviad Guds Rijke er nalægt; Item: Giored verduga Avoxtu Ydranenne. So er eg viss uñ, ad hann engann hefur til siñar Skijrnar teked, af þeim sem komner hafa vered til Vits og Ara, sem ecke hefur vered fullnuma i þessum Lærdoome; Næsta Olijkur þeim af oss, sem setia vid Bord DRottenns i Heilagre Kvolldmaaltijd, ecke einasta Unglinga, helldur og Afgamla a Stundum, sem ecke kunna ad reina og proofa sialfa sig, nie giora Skil a Lijkama DRottenns og annare Fædu. Stoor var þesse Sookn Johannis, Brædur M. Og gaf hann þo ollum i riettañ Tijma hvad þeim byriade, añars munde DRottenn ecke sagt hafa,ad fra hañs Dogum hefde Himnarijke lijded Ofrijke,Matth. 11. Vorar Sookner eru langtum miñe, þo vantar þær a Stundum hvad þær naudsynlega vidþurfa. Þier segied, hvad vantar þær? Eg vil hier til svara, ecke ollum, eñ þo morgum: Þær vantar sialldann Sacramentenn, þo vita Menn, ad af þvi ber a Stundum hia sumum hverium, eñ þa vantar Kostgiæfna Undervijsun, bæde uñ Sacramenteñ og uñ adrar Trwarennar Greiner, sem eru Omissande til Saaluhialpar. Zacharias spaer uñ siñ Son,ad hann mune giefa Guds Foolke Skilning Saaluhialpareñar til Fyrergiefningar Synda þeirra. So eigum vier ad giora, añars er Verked Onijtt. Hvad gagnar þeim

þeim Skijrneñ, sem vier hofum veitt hana? Nema vier grandgiæfelega wtskijrum fyrer þeim heñar Krapt, nær þeir dragast œ Legg, minnum þa œ hvad þeir hafa þar Gude lofad, kieñum þeim ad endurnya þañ Giædskurijka Nœdarennar Sœttmœla Daglega med sijfelldre Ydran og Endurnyungu Lijfernesins. Hvad stodar þeim Holld og Blood DRotteñs? Nema vier fyrer hañs Adstod iklædum þa einu Brwdkaups Klæde, œdur enn þeir framkoma fyrer so skielfelega Hœtign: Kiennum þeim ad ydrast Syndaña; Ad vita hvad þeir þar medtaka; Ad trwa þvi, og ad brioota ecke framar Endurnyung sijns Skijrnar-Sœttmœla Vijsvitande. Þetta, og annad þvilijkt, er ad giefa Guds Foolke Skilning Sœluhiœlparennar; Og nema vier þetta giorum, þa vanhelgum vier þessa dijru Dooma, so ad þeir verda til Fordœmingar, bæde þeim, sem þa handtiera, og hinum, sem vidtaka. Þu villt kann skie segia: Eg em ecke fæddur med H. Anda eins og Johannes, þvi er ei Von, ad eg so miklu af Stad kome. Eg jœta þad, þar heimtist og ecki so mikid af nockrum einum af oss, so sem af honum, vier mundum og skamt komast med ad afkasta so miklu; Samt hofum vier aller Heilagañ Anda medteked, og aller hofum vier Vit og Skyn þeigid af Gudi, oss hafa Forelldrar vorir til Menta sett, so vier kynnum odrum ad kienna. Hefde Gud fyrersied ad til Mannaña Sœluhiœlpar þyrfte sier i Lage Andans Gœfur, eins og Johannes og Postularner hofdu, þa hefde sw Andans Gœfa jafnann samfara vorded Christnenne; Enn hennar Meistare, sem best veit hvad þessare Byggingu hagar, hann vill nu lœta sijna Þioona nægiast med almennelegar Nœtturunnar-Gœfur, hveriar hann þo jafnann styrker med Krapte sijns Anda, þar sem Astundan og Arvekne er fyrer. Segied mier; Hver er sœ af oss, ef hann hefur einhvern kostgiæfenn Eyrendes Reka, ad ecke legge hañ honum allt i Hendurnar, til ad framkvœma þad Eyrende? Vilium vier þa ætla, ad Brunnur Giædskuñar, sem so miog elskade Sœluhiœlp Mañaña, ad hañ gaf siñ Son i Daudañ fyrer oss, hann mune lœta sijna Þienara vanta sijn'a Adstod, nær hann sier þeirra Kostgiæfne? Eñ þad er grœtlegt til ad vita, hversu toomlœter ad sumer Meñ eru i þessare Ydiu, og lœta sier um allt annad meira giefed vera, enn giora Guds Verk ad Hiœverke. Jœ, þad er aumkunarverdur Hlutur; So Almwgeñ, sem ad ecke veit Gude Riettinde, hañ fær þau ecke ad heyra sumstadar af Fœvijsum edur Hyrdulausum Ordsins Þienurum; Fare þeir villt, þeir verda ei leidrietter; Syndge þeir, þar verdur ei adsunded; Forherdest þeir i Syndunum, þa verdur þo ecke þeirra forstockad Hiarta sundurmared med Guds Orde, hvert ad er einn Elldur og einn Hamar, segier hañ fyrer Muñ Spœmañsins, sem ad Kletteñ i sundurmolar, Jerem. 23. Dygdenn verdur œ Stundum hotud, Lostunum hroosad, edur þeir verda assakader, sierdeilis sieu þeir giørder oss i Vil. Mun þad ei vera hid sama og DRottenn segier, Ezech. 13. Foolked bygger upp einn Vegg af Leyr, og þeir klijna hann med Onijtu Kalke; Vei þeim heimsku Spœmoñum, segier DRotteñ, er gœnga epter sijnum Anda, þijner Spœmeñ eru lijker Refum œ Eydemorku, O Israel! Segier hañ. Gud giæfe, ad þesse Pestilentia ecke dræpe

vi sier nidur hia oss! Þad mä kalla, ad þeir fylge sijnum eigeñ Anda, er tala hvad þeim i Hug kiemur, þad er þeir alldrei i Ritninguñe sää, edur jusu upp af Israels-Brunne, helldur þeirra eigeñ Drauma; Og þo skamast þeir sijn ecke ad segia: DRottenn hefur sagt þad, þo DRottenn hafe þad alldrei talad, segier Ezechiel Spämadur, Cap. 22. So kalla og þesser Guds Ord, hvad sem þeir rugla, ef Munnurenn alleina freider, eins og ä Skeidmæddum Heste. Refarner eru sollter i Eydemørkunne; So räfa og nockrir Kiennendur um þurra Stade, og finna ecke hvar med þeir kunne sitt edur annarra Lijf ad næra; Þeir snijkia wt wr Ohorfum og fäviisum Bookum, þad sem eingum er til Nota, Skrok-Søgur, heimskulegar Samlijkingar, og rängar Utleggingar ä Stundum, til ad tefia af Tijmann, so þad verdur ei vared, ad Meñ meiga heyra þær sumar Predikaner, af hverium engenn er nockru nær i sijnu Säluhiälpar-Verke.

O Guds Menn! Läted ydur þo einhvern Tijma til Hugar koma, ad fooſtra Hiord DRottenns, er hañ afrekad hefur med sijnu eigenn Bloode, og yfir hveria H. Ande hefur ydur Tilsioonar-Menn setta, P.G. 20. Pharao villde ecke giefa Israels Sonum Hälm edur Mwr-Stein til ad giora þad Verk, hann hafde boded þeim, og þo heimte hann Verked af þeim; Eins virdast mier lynder þeir Kiennemenn, er eckert hyrda um Christi Arfleyfd, sem þeim er til Voktunar fengenn; þeir heimta af Foolkinu, ad þeir lifi Christelega, og giore Kiærleikans Verk, enn ecke kienna þeir þeim Adferd slijkra Hluta, og ecke gänga þeir undann ødrum i þvi, sem þeir bioda, Jä, sumer jafnvel þvijnga af þeim þad, sem þeir kynne ad giora Verk Kiærleikans med. Er þetta ad vera Christi og hanns Postula Efterbreytare og Efterkomare? Af hveriu vier þo stærum oss. Läted ydur þad ecke helldur noog þykia, Brædur mijner, þoott þier hafed þeiged goodar Gäfur til ad kienna, edur þoott ydar Kienningu sie hroosad af Mønnum; Þad er ad sonnu stoor Guds Astgiøf, og hanns Þienurum miøg so þorf, til ad uppbyggia hanns Kyrkiu. Enn läte Menn sier þad i Hug koma, er sagde fordum hiñ goode Hyrder vid sijna Læresveina: Fagned ei yfir þvi, ad Dioflarner eru ydur undirgiefner, helldur af þvi, ad ydar Nofn eru skrifud ä Himnum, Luc. 10. So vil eg og segia i vidlijkum Hlutum, þo ecki olldungis hinum somu; Fagnid ecke yfir þvi, ad Meñ hroosa ydur; þvi ydur kynne ad henda hid sama og Herodem, hvern Engellenn sloo, af þvi hann gaf ei Gudi Dijrdena, P. G. 12. Helldur fagned af þvi, ef Safnader ydar leidriettast, ef þier med christelegu Dæme og Roggsamre Kienningu leidid nockurn ä Guds Veg, so ad þier sieud visser um, ad þeir med ydur, og þier med þeim, munud Guds Rijke erfa: Gledieſt af þessu, þvi til þess erud þier setter, þar i eiga aller ydar Atburder, aller Sälar og Lijkamans Kraftar ad reyna sig, og ecke til ad wtvega Hroos Mäl-Snyllinnar hiä Moñum; Þvi eigi gagnade þad hinum vondu Phariseis, þoott Christus segde, ad Meñ skylldu giora efter øllu þvi sem þeir tolldu; og ei ad sijdur voru þeir blinder, blindra Leidtogarar, Hræsnarar, Eitur-Ormar og Nodru-Kyn. Þvi kalla eg ecke þañ ad vera hiñ besta Prest, sem hefur hid mesta Alþijdu-Lof af siñe Tals-

Gäfu,

Saafu, helldur þañ, sem hefur hina bestu Tilheyrendur, og best til Himnarijkis uppfrædda, sem elski Gud og Naungann, og vardveiti sialfa sig Flecklausa fra Heimi þessum; Hann les sitt Festi-Bref fyrer Himnarijke, so opt sem hañ sier, ad hañs Tilheyrendur gaunga a Guds Vegi, og verka sijna Saaluhialp med Ugg og Otta. O þu mikle Hyrdir Saudanna! Bid þu þinn himneska Fodur fyrir oss, ad bædi Kiennendur og Tilheyrendur mættu so taka Vara a Saalu sinni hier i Lijfi, ad vier i Lambsins Brwdkaup til samans innleidder verdum; Þad bænheyri hiñ naaduge Gud fyrer Sonarins Forþienustu, Amen.

# Fioorda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 6. Cap.

OG JEsus sagdi til sinna Lærisveina: Verid Myskunsamer, lijka sem ydar Fader er Myskunsamur. Aungvañ skulud þier dæma, so ad þier dæmist eige: Fordæmid ecki, so ad þier fordæmist eigi. Fyrirgiefid, og þa mun ydur fyrirgiefid verda. Giefid, og þa skal ydur giefast. Gooda, Sambryckta, Velskiekna og Yferfliootañlega Mæling munu þeir giefa i ydar Skaut. Þviad med þeirri hiñi somu Mælingu, hverri þier mælid wt, mun ydur iñ aptur mælt verda. Og hañ sagde þeim eina Eftirlijking: Hvert kañ nockud Blindur Blindañ ad leida? Falla þeir ecki bader i Grofina? Lærisveirniñ er eigi yfer sijnum Meistara, Eñ hver hellst sem Fullkomiñ er, hañ mun vera sem hañs Meistare. Hvad sier þu Ognina i þijns Broodurs Auga? Eñ ad þeim Bialkanum, sem i þijnu Auga er, giætir þu eige. Eda hvernig mættu segia Broodur þijnum: Broodir, leif þu ad eg i burt dragi Ognina wr þijnu Auga, þar ed þu sier ecki sialfur Bialkañ i þijnu Auga? Þu Hræsnare! Drag fyrst wt Bialkañ wr þijnu Auga, og sia þu þa svo til, ad þu fair wtdreigid Ognina, sem er i þijns Broodurs Auga.

Exordium.

DÆmid rietta Dooma, seger Gud til sijns Foolks, hia Zachariam, Cap. 7. Hvernig segir þa DRottinn hier i Gudspiallinu? DÆMid Ei, Svo Þier Ei DÆMdir VERDid, FORdæmid Ei, Svo ÞJer VERDid Ei FORdæmder. J þessu ber þad ad athuga, ad þegar DRottinn bijdur sijnu Foolki ad dæma rietta Dooma, þa er audsied, ad hann giorir Raad fyrer þeim, sem raanger eru, og bannar þa; So giorir Frelsarinn hier i Gudspiallinu. Guds er Doomarinn, seger DRottinn. Þad hefur jafnann vered Hattur Andskotans, sijdann hañ

datt wr Heidrinum, ad apa epter Guds Hætign, og so vill hann og setia sig a Doom-Stoolenn a Stundum, so sem Gud situr a millum Gudanna i Doomunum, Psal. 82. So er ecki trwtt um, ad Fiandinn megi stelast þar inn; Eg vil ecki segia, ad hañ gange þar berlega, þoott ei verdi hann siedur lijkamlegum Augum; Samt meiga Menn þo sia hanns Verk, þegar so ber vid, þvi af þeirra Avoxtum skulud þier þeckia þa, seger Lausnarenn: Og þetta tekst honum epter þvi, sem þeir eru Lynder til, sem Doomana sitia, og ad þvi Leite, sem þeir hafa Gud fyrer Augum sier, og Ottast hiñ Alvallda Himins og Jardar Doomara. Doomurum er missarid eins og ødrum Monnum: Þar situr Moyses a Doom-Stoole, þar situr og Eli, þar sat Salomon, þar sat og Achab, þar sat Lycurgus, þar sat og Pilatus, og eru þau Dæme O-þriootande. Gud giæfi Menn hefdu færri af Eli, Achabs og Pilati Brædrum, enn hiner væru fleire! Pa mundum vier ecki so berlega sia þad Teikn hinns sijdarsta Allsheriar Dooms, sem Lausnarenn seger oss fyrer, hia Matthæum, Cap. 24. Ad fyrer þvi, ad Ranglætid vex, þa koolne Kiærleiki margra, so sem þad nu sia ma af øllum þeim, sem ad þvi giæta, enn finna hvad mest af þeim, sem fyrer þvi verda. Þar eru og Doomar ymisleger. 1. Er þar Doomara Embætte, sem tilheyrer Kyrkiunnar Pioonustu-Monnum, hverium alvarlega bannad verdur, ad segia hid Illa Gott, Esa. 3. og skipad, ad þeir adgreine hid Laka fra þvi Dijrmæta, ad ei bode þeir Frid, hvar einginn er, til ad villa Saalernar. Þannig dæmde og fordæmde Lausnarenn Ogudlega Phariseos. 2. Er þad hinn almennilege Laga-Riettur, hver af Gude er tilsettur, Mannkyninu til Gooda og Vidurhallds. 3. Eru þeir, ed Menn almennilega kalla Dag-Dooma, hveria Frelsarenn sier i Lage bannar hier i Evangelio; Um hveria eg vil nu i þetta Sinn nockud framar tala, eptir þvi, sem Gud giefur Naad til. Enn þu alls Hollds Doomare, HErra JEsu Christe, styrk þu mig hier til med Naad þijns Anda, fyrir þijna Forþienustu, Amen.

## Utleggingeñ.

Þesser skadlegu Dag-Doomar verda med morgu Moote, og margra Ordsaka vegna. 1. Fyrst þegar Meñ nidra þvi, sem Naunganum er vel giefid, og meiga ei þola, ad þvi sie a Lopt halldid; Þetta Illgrese sprettur af þeirri fwlu Drambseme og Ofund, er liggur i Bloodinu hia oss Adams Sonum, sumum meir, eñ sumum minna; Vel sie þeim, sem gieta drepid þetta Eitur med Þeckingu sijns eiginn Overdugleika, adur enn þad blæs upp Saalina, henni til eilijfrar Glotunar, sem vijs er þeim ed hroka sier upp, og þyker ad eingiñ standi sier jafnfætis; Þvi Gud mootstendur Dramblatum, seger Ritningeñ; og hvar vill sa Heimvon eiga, sem hefur Konung Himnaña fyrir Ovin, nema med honum sem DRotteñ steipte af Himne i eilijfar Pijsler, vegna hinnar fyrstu Drambseme. Heyr þu mier, Molld og Aska, þu vesæll Orma Seckur! er nockud añars Agiæti þijn Ridran? Ef þu ert Kostum bwiñ, a ecki Gud frialst ad giora añañ þier jafnañ, edur fremre, ef hañ vill? Þvi hrækir þu þa Gudi i Andlitid, og smánar

nar hañs Mynd, sem er Dygdiñ, med þiñi saurugri og Ohlutvandri Twngu? Eñ munt þu naa þvi, sem þu eptir leitar, Kiæri, og ecki helldur tapa Virdingu þiñi med annars Nidran, hverri þu ella mundir halldid hafa? Ad vijsu. Ef Rafninn þegdi, þa misti hann ecki Brædina aa Stundum. Þegar eg heyri einn lasta þad sem vel er giørt, þa flijgur mier strax i Hug; Hvad mun þesse Madur vilia losad hafa, fyrst hann lastar gooda Hlute? Eg giet ecki annad meint, eñ ad hann kuñi ecki Grein Jlls og Goods, edur ad hañ tali af Hatri, þar hañ ecki añ Naunga sijnum Sañmælis, edur og i Þridia Lagi, ad hañ uggir fyrir ad hønum sie hroosad framar sier, og sie eg þa, ad hañ er fremri, jafnvel ad sialfs hanns Doomi, þoott ecki vilie hañ Doominn uppsegia. Svo skierdir nu hanns Mælgi Virdingu hañs, ad minni Hyggiu, aa hveria Lund sem þetta tekid er, hvern eg ella hefdi kañskie fyrir goodañ Mann halldid. Enginn leite epter þvi sem hanns er, helldur epter þvi sem añars er, seger Paulus, 1. Cor. 10. Rangt eru þeir fraa þvi, er vilia taka Sæmdina fraa ødrum, til ad auka sijna med; Einn Þioofur er vidurstyggilegur i Mañaña Augum; Og verdur ei mooti þvi sagt, ad þetta er nockurskonar Þioofnadur i Guds Auglite, þvi hañ sem nidrar ødrum, hañ stelur Virdinguñi fraa Naunga sijnum, og er þad so miklu argari Þioofnadur, sem Heidurinn er Fienu dijrmætari. Hann sem lastar þad sem vel er giort, hann er Lygari, þvi hañ seger Hlutenn ødruvijse eñ hann er; Eñ hvad seger Syrach, Cap. 20. Betri er eiñ Þioofur eñ eiñ sijfelldur Lygari, þo munu þeir bader Olucfuna hreppa. Hafi hver añañ sier i Virdingu Ædra, seger Paulus eñ aptur: Vel giora þeir þad, sem verda nærri þvi siwkir, ef adrer eru aagiætter jafnframt þeim! Þad er vel tilfunded aa vora Twngu, ad Meñ giefa þvilijku Siwkdooms Nafn, þvi Menn kalla þann Ofundsiwkañ, sem plaagadur er af þessum Diøfli. Eingu eru þeir betri, sem þegia yfer þvi sem Lofs verdt er, þeir ræna eins Dygdina sijnum Launum, sem er Heidurinn; Og væri hun ecki sijn egiñ Verd-Laun, þa mundi hun verda eins og Verka-Madur saa, er leidist ad vinna Okeypis; Þad er Einslags Lagaleysi og Riettar Neitun, ad vila ecki hroosa þvi sem Lofsvert er, og ecki skilur þetta Tvennt ødruvijse, enn þad ad dæma raangt, og ad neyta Riettarins, og er hvertveggia Svivirding bædi fyrir Gudi og Mønnum, so varla maa upp aa millum siaa, hvor Skomiñ ad hærra situr i Fiandans Rijki.

2. J Odru Lagi eru þeir, sem drepa wt hinar miñstu Naungans Avirdingar, og giora Ulfallda wr Mijflugunni, þad er, Stoor-Glæpi wr lijtilli Yfersioon. Um þessa raangsnwnu Dooma talar Frelsariñ hier i Gudspiallinu, þar hañ segier: Hvad Sier Þu Ognina J Þijns BRoodurs Auga, Enn Þañ BJaalkañ, Sem J Þijnu Auga Er, Adgiæter þu ecke. Varla er nockur Løstur tijdari i Heiminum eñ þessi; Meñ eru so giesnir fyrir ad leita upp añarra Misgiørder, so Grandskigner i ad siaa þær, So Maalsnialler i ad drepa þær wt, þar vier erum þo sialfer Lijtum hladner, ef vorar Hugsaner, Ord og Giørder ættu ad stikast aa hinn riettvijsa Allsheriar Kvarda, edur hver er saa ed segia kuñi: Mitt Hiarta er hreint? Verda maa ad þu siert ecki so laginn aa

 þañ

þañ Lest, er þu so lastar a ødrum, eñ elur kannskie adra verri, og samsinnir þeim, sem eru þijnir Stall-Brædur i slijku. Pier þykir vænt uñ þijna eiginn Klæki, eins og Apiniuñi uñ Unga sijna, þoott þeir sieu allra Kvikenda liootaster (ef þad ma nockud lioott kalla, sem DRottenn skapad hefur); Og þo ecki sie añad, þa er þetta Glæpur noogu stoor, ad þu giorir þijns Naunga Avirding so stoora, eñ affakar þijna eigiñ, sem kañskie er miklu stærri. Hinn Dramblaate lijtir hiñ Agiarna, enn sig kallar hañ Hugprwdann: Hiñ Agiarne lastar hinn Eydslusama, sig nefnir hañ Forsiaalañ; Hiñ Eydslusami bryxlar hinum Adsiaala, eñ hañ vill Orlaatur heita: Og so þyker hverium af oss siñ Fugl fagur, og ecki einasta þetta, helldur þad sem vier erum siaalfer hvad mest giefner fyrir, þad drepum vier wt a ødrum (sem er stakt Blygdunarleyse), jafnvel a goodum Moñum og Heidvirdum, ef þa kañ eitthvad þvilijkt ad henda, sem vier siaalfir høfum giort ad Handverki og daglegri Idiu, til þess, ad giora þa eins svarta og oss, og ad þeirra Dæmi skuli bera Skuggann a vora Glæpi: Enn faaer hyrda uñ ad draga fyrst wt Biaalkann wr sijnu Auga, ad þeir megi sijdann wtdraga Oguina wr sijns Broodurs Auga; Pad er, ad vanda og temia fyrst siaalfann sig, ad Madur sijdann megi avinna sinn Broodur med þess meira Frelsi og Averti. Hier uñ talar Paulus røggsamlega, Rom. 2. segiandi: J þvi ad þu annann dæmir, þa fordæmir þu siaalfann þig, þvi þu giorir hid sama, sem þu dæmir; Enn meinar þu, O Madur, sierhver sa er dæmir þa ed þvilijkt giora (seger hann) og þu giorir hid sama, ad þu munir uñflija Guds Doom? Hvert ad er samhliooda þvi sem hier stendur i Gudspiallinu: Dæmid Ecki, So Pier Verdid Ecki Dæmdir; Og er þad merkilegt, sem Postulenn hier seger: J þvi ad þu dæmir annann þa fordæmir þu siaalfann þig, þad er, med þvi ad þu giorir þig ad Doomara i annars Avirdingu, i hverri þu þo siaalfur sekur ert, þa aflar þu þier Fordæmingar, þvi Gud vill þijnar Synder dæma i Reidi sinni, fyrir þessa Hlutsemi þijna, þar þu fellur iñ i hanns Embætti, sem Doomurinn alleina tilheyrer, so sem Jacob vottar, segiande, Cap. 4. Einn er Log-Giafareñ, sa ed kañ ad frelsa og tortijna, enn hver ert þu, sem annañ dæmir? Og þetta skiedur optast i þeim Hlutum, sem oss aldeilis ecki vidkoma. Eg kann ecki ad segia, ad mier leyfist ei ad kalla þad illa giort, sem mier er tilgiort, ef þad er illa giort, þa vil eg helldur laata Løginn dæma milli mijn og mijns Mootstødu-Mañs, helldur en leggia siaalfur Doom a hañs Tilgiørd, þvi hverki gylldir miñ Doomur mikid, nema ad giora mig sekañ fyrer Guds Doomi, so og tek eg hann frañ fyrer Hendur a Valldstioorninni, hver ad er sett Goodum til Forsvars, enn Vondum til Hegningar; Eñ hvad a eg med, ad dæma uñ þad mig ei snertir i ennu miñsta? Hvad vardar mig uñ ad dæma þa sem fyrir utañ eru? Segir Paulus uñ Heidingiana, 1. Cor. 5. Syndgar nockur, þa syndgar hañ mooti Gudi, og mooti siaalfum sier, mooti ødrum, eñ mier ecki, Eg vil dæma hann ad so miklu Leiti, ad eg varist hañs Dæmi, og aminna hañ, og leidrietta, ef eg sa þvi vidkomid, þo so ad eg dragi fyrst wt Biaalkann wr mijnu Auga, enn ecki vil eg wthroopa Synd hañs, og allra sijst giora hana stærri enn hun er; Hvar fra

Gud

Gud vardveiti mig! Helldur affaka, ef hun er þañig ad hun verdur affokud: Og ſa odruviſſe dæmer ſinn Næunga, hann tekur Guds Riett fra honum, og giører ſig ad þeſs Herra ſem hann dæmer, þar hann er þo ecke nema Samþioon. Merkelega talar Paulus hier um̃, ſegiande, Rom. 14. Hver ertu ſem fordæmer annarlegann Þioon? Hañ ſtendur og fellur ſijnum Drottne. Jacob ſegier, Cap. 2. um̃ þa ſem fara i Mannvirdingar, ad þeir ſieu vordner vondra Hugſana Doomarar; eñ eckert er Manngreinar Alit verra edur Heimſkulegra eñ þad, ad kalla ſig horſkañ og heilagañ, jafnvel þo vier aller hrøſum i morgu, enn nijda ſijna Brædur fyrer ſomu Lijte, ſem vier leikum oſs ad, eins og ødru Table, edur kañſkie ødrum verre; Velldur þad þvi, ad Meñ giøra ſier ſo annt um̃ ad hnijſa eftir Næungans Giørdum og Avirdingum, ad Menn faa ecke Toom til ad rannſaka ſijnar eigenn, til hvers DRottenn bender hier i Gudſpiallenu, þvi ef Textans Meining er riett athugud, þa heiter þad ſo: Þu Starer a Kviſtenn, Sem Er i Þijns Broodurs Auga: Enn Þann Biaalkann, Sem i Þijnu Auga Er, Hugleider Þu Ecke. Þad er; Oſs verdur ſo Starſijnt a þad, ſem vier lioott ſiaaum a vorum Næunga, og høfum ſo miked Omak fyrer ad giøra þad enn þa liootara a Stundum, ad oſs kiemur ecke i Hug ad eins, ad vier ſieum i hinu ſama vallder, ſo laangt er fra þvi, ad vier rañſokum vorn Lifnad, edur leitum i Filſnum vors Hiarta efter þvi, ſem þar kyñe fooſged ad vera, og fyrer þvi vier horfum riett afram̃, þa ſiaaum vier ecke Skreppuna, ſem a Bakenu haanger (ſo ſem i hinum Griſka Ordshætte ſeger): Velldur þeſſu hin bølvada ſiaalfs Elſka, er liggur i voru ſpilltu Bloode; Og þeſſe Grein af Dag-Doomunum, er nu þeſs ſkadlegre, ſem hun er almeñare, og varla fyrer nockra Synd halldeñ ... a medal. Meñ koma ſamann til ſoddann Dooma, ſo ſem til annars Gieſta-Bods, og i ſiaalfum Gieſta-Bodunum hygg eg ad þeſſe Riettarenn ſmacke hvad beſt a Stundum; Enn þad er ad ottaſt fyrer, ad Satan hafi tilbwed þeim einn Riett i Myrkra-Salnum, er ſkiemta ſier ad þeſſu, þad er, ad þeir ete ſijnar Twngur wt af Ofraun, Open. 16. ſem þær brwkad hafa til ſlijkra Næungſnwenna Dooma, nema þeir þecke Synd ſijna, ydreſt heñar, og laate af henne, a medann enn þa er Tijme til ad dæma ſiaalfann ſig. Hlijdum þvi Rauſtu Jacobs, er hann ſegier, Cap. 4. Taled ecke hver a moote ødrum; Saa ed talar a moote ſijnum Broodur, og ſaa ed fordæmer Broodur ſinn, hann talar a moote Løgmaalenu, og fordæmer Løgmaaled, enn ef þu fordæmer Løgmaaled, þa ert þu ecke Løgmaalſins Geymare helldur Doomare.

3. Jhinne Þridiu Rod eru þeir, ſem laſta og wthroopa þa Glæpe, ſem bæde eru opennberer, og ſo hrooſpleger, ad þeirra Liootleik gietur ad ſonnu engenn affakad, og engenn Heidvirdur Madur vill þeim hrooſa, er ſlijkt adhafaſt, enn þad giøra ſumer ecke af þvi, ad þeir hate ſoddann Leſte, edur til ad lagfæra þañ, ſem ad þeim fundenn verdur, edur ødrum til Vidvørunar, helldur þeſs vegna, ad eitt illt Skap hefur Gaman og Inndæle af ad laſta, og fagnar hverre Ordſok, er hañ kañ ad faa þar til; So laangt er fra þvi, ad hann Mannenn elſke edur leidrietta vilie, edur og i Þridia Lage, ad hann med þeſs

Fordæmingu, sem illa breiter, vill smijda sialfum sier nockurskonar Agiætis edur Afbrygdis Mynd i annarra Paunkum, so hann giete sagt: Eg em ecke so sem þesse Tollheimtu-Madur, Luc. 18. So længt er hann fra þvi, ad bera miked af þeim, sem hann dæmer um̃, þvi hañ, sem þarf añarra Saurenda med til ad fegra sig, hañ ma ecke vera miøg biartur sialfur. Þu Gudlaus Madur! Hafer þu Gaman af ad lasta Avirdingar þijns Naunga, þo þær stoorar sieu, hvernig ert þu þa betre enn hañ? Þad hefur og Andskotenn, og er hañ þo verre eñ hiñ argaste Syndare. Sa sem drygt hefur eiñ Glæp, hañ kañ ad ydrast, þvi mattugur er Gud ad reisa hañ, segier Paulus, Rom. 14. Þad sie eg af Dæme Manassis, Davids, Peturs, hiñar Bersyndugu, og Hoor-Konuñar, er DRottēn afleyste i Musterinu. Eñ hvernig villt þu, Satans Engell, um̃flya Guds Reide og Fyrerdæminguna, þar þu hefur Skiemtan af añarra Løstum, þoott ei dryger þu sialfur þa? Hver verdur so hneixladur, ad eg stikne ecke? segier Paulus; þad sagde hann þess vegna ad hann hatade Løstena, enn elskade Meñena; Enn hver verdur so brotlegur, ad þu fagner ecke? Þu elur Flugu Hatursins og Ofundarennar a Preck añarra, og geingur þannig i Lid med Flugna-Hofdingianum Belzebub, og sver hønum Trwnad, enn skytst undañ Merke þijns Frelsara (Ihvers Hollde Gud fordæmde þijna Synd, sem Paulus vottar, Rom. 8.) med þvi ad þu fordæmer þinn Broodur, hvern Gud hefur skipad þier ad amiña og leidrietta, enn alldrei fieck hann þier nockurn soddañ Doom edur Valld yfir hønum. Ja, þar eru þeir til, er so rijkt Um̃bod hafa teked af Fiandanum, ad þeir locka Naungann fyrst til ad syndga, ad þeir sijdann hafa meige þad, þeir kuñe ad lasta og dæma um̃: Þesse er Diofulsins Atferd; so giorde hañ i Ondverdu vid vora Moodur Evu, eñ sijdañ hefur hañ ei lated af ad brixla Guds Her-Flockum, og æsaka þa: So klagade hañ Job fyrer Gude; So stood hann til Hægre Handar Josua hinum Ædsta Preste, til ad mootstanda hønum, Zach. 3. Og þetta sparar hañ ecke eñ nu i Dag, ad wtrietta fyrer sijna Um̃bods-Meñ, Vantrwareñar Born, i hverjum hañ er kroptugur. Eñ Gud straffe þig Satan! Hañ lifer eñ nu, sem Babylons Kongung vog a Vigt, Dan. 5. Mattugur er hañ enn i Dag, ad þrijfa sijna Branda wt af heñar Ellde, eins og Josuam, enn troda þig under Fætur vora, Hundureñ þiñ! og ad stockva þijnum Salldar-Flocke. So er nu þesse rangsnwna Dooma-Adferd ein Satans Ydia, og þeir ed sier temia hana, meiga þar um̃ visser vera, ad hann gielldur þeim i Skileyre, þad er, med eilijfum Brijxlum og eilijfre Sman, nema þeir gange wr Þienustuñe a medañ þar segiest enn þa i Dag, þvi annad hefur hañ ecke sijnum Mønnum i Mala ad giefa. Fleyre eru ad sonnu Greiner þessarra Dag-Dooma, eñ eg vil hier med kyrt lata i þetta Sinn. Enn hvad skulu Meñ þa hier til segia? Eiga Menn alla ad josnu ad leggia, og eckert um̃ þad hyrda, hvernig Naungeñ skickar sier? Fiærre sie þvi. DRottēn JEsus giefur oss hier i Evangelio þin skijrustu Log, epter hverium Naunganñ a og ma ad saklausu dæma, segiande: Þu Hræsnare, Drag Fyrst Ut Biælkann Ur Þijnu Auga, Og þa Munt Þu Sia Til, Ad Utdraga Kvistenn Ur Þijns Broodurs

urs Auga. Sem villde hañ sagt hafa: Medann Kvistureñ er i þijnu Auga, þa ert þu ecke so skarpsyñ, ad þu gieter sied hvert þad er Biꜳlke edur ei, sem er i Auga Broodur þijns. Ecke bañar hann, Jꜳ, hañ bijdur ad Madur skule ꜳtelia siñ Broodur, þegar hañ syndgar, og astelia hañ þeim Løstum, sem hann er giarn ꜳ, og kañ skie þecker ei siꜳlfsur, edur hyggur ecke so lioota ad vera, þvi vier fyrergiefum siꜳlfum oss jafnann meira eñ ødrum., og þvi er þad Velgiørningur, og Gude þægt Verk, ad vanda um̃ vid sinn Broodur i slijku, enn þo so, ad Doomurenn byriest fyrst ꜳ voru eigenn Hwse; Og þvi segier hann: Drag Fyrst Ut Biꜳlkañ Ur þijnu Auga. Hvad mun einn, sem veikur er i einhveriu, leidriettast vid þad, þoott eiñ Glæpa-Madur deile ꜳ hañ? Mun hañ ecke lꜳngtum helldur giefa honum Ordsøk til, ad brijxla sier um̃ sijnar eigeñ Skam̃er? Hinn Heil-Fætte spotte hiñ skacka, og sꜳ sem hvijtur er, Blꜳmañeñ, segier hid Latinska Skꜳlld. Hid sama er ad segia um̃ hañ, sem ødrum vill segia til Glæpa siña: Þoott engeñ af oss sie Heilagur, og þar vante miked ꜳ, þa skal hann ad søñu Rꜳd-sviñare vera, sem añañ vill ꜳmiña, helldur eñ hiñ, edur ad miñsta Koste ecke i þeim Leste fundeñ, sem hañ ꜳtelur um̃, annars mun hañ brꜳdlega heyra: Lækner, hiꜳlpa siꜳlfum þier, og Paulus segier honum beiskann Sannleika, Rom. 2. Þu kienner ødrum, segier hañ: Þu predikar, ad ei skule stela, og þu stelur. Þu segier: Ei skule Hoordoom drijgia, og þu dryger Hoor; Þu hefur Andstygd ꜳ Skwr-Godum, eñ stelur Helgum Doomum; Þu hroosar þier af Løgmꜳlenu, eñ vanvirder Gud med Løgmꜳlsins Yfirtrodslu. Af þessu siꜳum vier hversu Omissande þad er, ad vanda siꜳlfañ sig, fyrer þañ, sem vid añañ vill um̃vanda, og giører hañ med þvi Tvo Hlute gooda, sem er, ad hañ vardveiter sig Ostraffañligañ, og ꜳviñur Gude eina Sꜳl til Himnarijkis, hveriu engeñ er þægare Foorn honum, og ei þoott eiñ bitade allar sijnar Eigur nidur fyrer Fꜳtæka, 1. Cor. 13. So naudsynleger og Gude þecker eru nu soddann Doomar! Og hvad segier Løgmꜳled, Lev. 19. Þu skallt ecke vera eiñ Last-Munnur, eda Baktalare medal þijns Foolks, og ei helldur skallt þu hata þiñ Broodur i þijnu Hiarta, helldur skalltu ꜳtelia þiñ Broodur, ad þu berer ecke Skulld hañs vegna. Hier sijnest mier, ad hañ, sem rañsakar Nijrun, kalle þad ad hata siñ Broodur i sijnu Hiarta, ad segia honum ecke til Vam̃a sinna, ef Madur sier þa, og ad hver einn giøre sig hluttakande i þeirre Synd, er hañ sier ad strijder ꜳ Nꜳungañ, eñ vill þo ecke vara hañ vid. Þessa bid eg þeir giæte, sem giøra einn nærre þvi ad Gude, medañ hañ heyrer til, enn tala um̃ hañ allar Skam̃er, jafnvel liwgande, nær hañ snijr vid Bakenu. Eñ hvernig sem þvi er vared, þa siꜳum vier, hversu vel ad þesse Løgmꜳls Grein kiemur samañ vid hid algiørda Nya Testamentisins Løgmꜳl; þad hid fyrra, sem er Lastmælge og Ohroodur, þad bannar DRottenn hier i Gudspiallenu med þessum Ordum: Fordæmed ecke, So Þier Verded ecke Fordæmder; Eñ hid sijdara, þar hañ segier: Drag Sijdañ Kvisteñ Ut Ur Þijns Broodurs Auga. Frelsarenn giefur oss eitt Bodord, Matth. 18. segiande: Ef þinn Brooder syndgar ꜳ moote þier, þa far og ꜳtel hann millum þijn og hañs, ef þiñ Brooder heyrer þier, þa hef-

ur þu maunned þiñ Broodur. Ef nu DRottenn bijdur ad Menn skule so giora, nær einn brijtur ødrum a moote, hvad miklu helldur mun hañ vilia þad skule skie til ad leidrietta þañ sem fer villur Vegar, og oss giorer þo eckert a moote i þvi sem hañ syndgar? Þad er so miklu meira Kiærleiks-Verk øllum ødrum Kiærleiks-Verkum, sem ad Saalenn, med Guds Sonar Bloode Endurkeypt, er øllu ødru dijrmætare.

Eina Vareigdarseme hefi eg a ad miñast, adur enn eg skilst vid þetta Maal, sem er, ad hvad hellst sem vier i þessu giørum, þa framkome soddann Doomar af Elskunne til Naungans Velferdar, og ad þeir bere hana efter sier. Dæmum og ecke helldur efter Albijdu-Roome, edur um þad sem vier ei skynium, helldur um þa Hlute sem oss alþeckt ir eru, og vier høfum Vitsmune a. Margur fer villt i þessu; Sumer aatelia einn, af þvi þeir vilia taka sier til nockurskonar Valld yfir honum, og sijna þar med Stoormeñsku sijna; Þad aflar opt Forsmaanar og Athlaaturs alleina: Nockrer eru beiskslundader og hardmællter, jafnvel þoott þeir vilie vel; Enn þad skilur ecke hinn, sem vid a ad taka: Menn verda ad fara med einn villtañ Syndara, þañ sem ecke er forherdtur i Vondskuñe, eins og med hraatt Egg, sierdeilis þa sem Luckañ hossar i Verølldeñe; erte Menn þeirra illt Skap med Beryrdum, þa verda þeir eins og Hws þad er hrynur, ad þad brotnar siaalft, enn brijtur i sundur allt þad sem under þvi verdur. Þetta vil eg þeim sagt hafa, sem Gud hefur ecke sier i Lage umboded ad segia Jacob til sinna Synda, og Israel til sinna Misgiørda; Hiner, sem Guds Umbod er tiltrwad, þeir hafa Frelse til ad Straffa, Ogna og Aminna, allrahellst hina þverbrotnu, og þegar Illskann og Ogudlegt Athæfi tekur til ad drottna i Landenn (og þo vill Paulus ad Guds Vandlæti skule vera med Skynseme, Rom. 12.) Þvi þeir giora slijkt i Guds Stad, enn ecke under siñe Persoonu, og trwe eg ad engenn sie so daarligur, ad hann þyckist vid Guds Ord, þoott þad være frambored af einum aumasta Vesæling, nema sa, sem villde Engil fyrer Prest hafa, og giore eiñ Drottens Madur þad ecke, þa mun hañ braadlega heyra med Jeremia; Þu skallt ecke hrædast fyrer þeirra Auglite, ella mun eg sundurmeria þig fyrer Augum þeirra: Og mun eg øllu helldur kioosa, ad sia Skaalkenn ygla sig, eñ ad Guds Reide tortijne mier, ad hønum aasiaanda. Edur hvad segier Paulus, Gal. 1. Hefde eg hijngad til Mønnum þocknast, þa være eg ecke Christi Þienare; Enn hinum ødrum, sem ecke hafa neinu þvilijku ad skista vid añañ, þeim vil eg giefa þad sama Raad, er gaf fordum St. Paall þeim i Galatia, Cap. 6. segiande: Brædur, ef nockur Madur verdur yfirstijgeñ af einhverre Hrøsun, þier sem Andleger erud, leidriettid þann sama med hoogværum Anda: Giegne einn Veralldar Sonur þvi med Hofmood og Forse, so sem þeirra er Venia til, og segi eins og hinn Hebreske vid Moysen, Exod. 2. Hver hefur sett þig Doomara i millum ockar? þa vardar þad litlu, eg hefe samt frelsad Saalu mijna, enn hanns Blood er yfir hañs Hofde, er ei villdi þola Heilsusamlega Aminning, Ezech. 33. So hugleided nu þetta, Christner Menn, og laated ydur Maal mitt i Eyrum loda! Aller erum vier synduger, og engenn sa ed gott giøre og ecke einn, laatum þvi Doom-

iñ

Doominn byriast fyrst a sialfum oss, og munum vier siidur adra dæma, sie þad-Endir vorrar Ydiu a Kvølldum, og stondum upp til þess sama a Morgna, Doomariñ stendur fyrer Dyrunum, hver mun standast fyrer hanns Doomi, ef hann vill i Doom gaanga vid Þræla sijna, enn hann vill alla þa dæma i Brædi sinni, er sinn Broodur dæma, þvi seger hañ: Dæmid ecki So Þier ecki Verdid Dæmdir; Annadhvert vill Gud dæma þa, er vier tokum oss Dooms-Valld yfir, ellegar hañ vill þa ecki dæma; Vilie hañ dæma nockurn, þa gylldir vor Doomur eckert, nema til ad fordæma sialfa oss, þvi hañs er Doomurinn, Vilie hañ ecki dæma, þa er þad hrædilegt ad vilia dæma þañ, sem Gud helldur Saklausañ, og honum er þad gioerer, er Fordæmingiñ so vijs, sem hinum er Myskuneñ. Athugum þetta, enn gleimum þo ecki ad aminnast innbyrdis med hoogværum Anda, til Leidriettingar og Uppbyggingar, og Samvitskum vorum til Frelsunar, ad ei giorum vier oss Hluttakara i annarlegum Syndum, edur hofum Samfelag med Ofriooßomum Verkum Myrkrañа. Enn þu stoore Allsheriar Doomare, þu sem dæmir Verolldina med Riettvijse, þu sem alleina munt Riettlaatur fundiñ verda, nær þu dæmist! Gief þu ad vier so dæmum sialfa oss, ad vier ecki verdum af þier fordæmder, helldur inngaungum fra Daudanum til Lijfsins. Bænheyr þad, myskunsame Gud, fyrer þijns Sonar, alls Hollds Doomara, Forþienustu, Amen.

# A Vitiunar Dag Mariæ.

Gudspialled, Luc. 1. Cap.

A Þeim Dogum, stood Maria upp, og foor med Flijtl til Fiall-Bygda i Borgina Juda, iñgieck i Hws Zachariæ, og heilsadi Elizabeth. Og þad skiedi so, þa er Elizabeth heyrdi Heilsun Mariu, ad Barnid spratt upp i heñar Kvidi. Og Elizabeth uppfylltest af heilogum Anda, kalladi hárri Roddu, og sagdi: Blessud ertu a medal Kveña, og blessadur er Avortur Kvidar þijns. Og hvadañ kiemur mier þetta, ad Moodir DRottiñs mijns kiemur til mijn? Sia þu, þa er Rodd þiñar Kvediu kom mier til Eyrna, spratt Barnid upp af Fognudi i mijnum Kvidi. Sæl er hun sem trwdi, þviad þad mun fullkomnast, hvad heñi var sagt af DRottni. Maria sagde: Mijn Aund miklar Drottiñ, og miñ Andi gladdist i Gudi Heilsugiafara mijnum. Þviad hañ leit a Læging Ambattar sinnar. Sia, af þvi munu mig hiedañ af, allarÆtter Sæla kalla. Þviad hañ giordi vid mig mikla Hluti, sa sem Mattugur er, og hañs Nafn er heilagt. Og hañs Myskunsemi varir fra eirni Kynslood til annarar,

arar, yfer øllum þeim sem hañ Ottast. Hañ framdi Makt med sijnuum Armi. Sundurdreisdi hañ Dramblątum i þeirra Hiartans Hugsan. Vollduga setti hañ af Stooli, og upphoof Lijtilląta. Hwngrada syllti hañ Giędum, og hinum Rijku sleppti hañ Orbyrgum. Hañ endurminntist Myskunar siñar, og medtook siñ Ploon Israel. So sem hañ taladi til Fedra vorra, Abrahams og hañs Afkvęmis ad eilijfu. Og Maria var hiá heñi so nęr sem uñ Priá Mánudi, og foor sijdañ aptur til sijns Heimkyñis.

## Exordium.

HAd var Sidur á Døgum Gamla Testamentisins medal Guds Foolks, ad þegar hañ hafde giørt eitthvert merkilegt Dáasemdar Verk á medal þeirra, þá prijsudu þeir hañ med Lof-Saungum, til þess, ad Epterkomendurner kyñu med þeim sømu ad tigna hanns Dijrdarfulla Nafn, þegar þeir mintust á soddañ Guds Stoormerki. Þegar Moyses hafdi leidt allann Israel i giegnum Hafed Rauda, þurrum Footum, enn dreckt Pharaoni og øllu hanns Lide þar i, þa prijsadi allur Israel Gud med niium Lof-Saung, og Maria Spáakona, Syster Aaronis, took sier Bumbu i Hønd, og allar Konurnar geingu wt eptir henni med Bumbum og Hlioodpijpum, og hun saung fyrir þeim: Sijnged Lof DRottni, þvi hann hefur stoorlega miklad sig, Hestinum og Riddaranum hefur hann i Siooinn nidurkastad, Exod. 15. Stoort var þetta Furdu-Verk DRottins, er hann giordi vid Israel, þo er þad mikłu meira, sem hin blessada Mey og Moodir ad Christo, Jwngfrw Maria, prijsar hier i þessu heilaga Evangelio, med þeim dijrdlega Lof-Saung, er vier strax heyrdum i Gudspiallinu. Moyses leidde Israel wt af Egyptalands Prældoomi. Guds Sonur hefur oss af Syndarinnar og Diofulsins Prældoomi wtleyst. Gud steypti Pharaoni og hañs Her-Mønum i Siooinn. Enn JEsus hefur hiñ Sterka Hervopnada Diofulaffklędt sinni Hardneskiu, og troded hann undir sinna Barna Fętur. Siooriñ klaufst i sundur þegar Israel foor af Egypto. Enn i Holldtekiu Guds Sonar eru Himin og Jord Samteingd, og øllum Guds Børnum i hønum tilbwinn einn nijr og lifandi Vegur, ecki inn i Canaan, helldur til Himna-Rijkis, á þad Land Lifandi Manna, hvar ad er Gnoogt Fagnadarins og gledilegt Lijferni til Fødursins hęgri Handar. Anna Elkanę Hwss-Frw saung Gudi einn Þacklętis Saung, fyrir þañ Son er hun hafdi feingid med Bęn af Gudi. Enn Guds Moodir prijsar Nafn ens Allra Hęrsta, fyrir þann Son, er hverki hun nie nockur syndugra Manna kunni uñ ad bidia. Þa Jacobs Hwss-Frw sagdi Fordum, er Silpha Ol henni Asser: Nu munu allar Konur mig Sęla kalla; Enn Maria seger hier med øllu meira Riette: HJEdann Af Muny Mig ALLar ETTer SÆLA Kalla, þvi hun bar þann i sijnum Kvide, i hverium allar Ættkvijsler Jardar Blessadar eru. Og fyrer þvi,

Brædur

Brædur mijner, ad vier høfum einnig af hañs Fyllingu medtekid, þa læatum oss nu fagna med Moodur DRottiñs, og skoda œ þessu Stundarkorni hvad œagiætt þad sie, ad mikla hann, og ad gledia sig i Gudi sijnum Heilsugiafara. Hver Ord eg vil nu alleina hugleida i þetta Sinn. Styrk oss hier til, O! þu Bruñur alls Fridar og Fagnadar, med Næad þinnar Giædsku, i JEsu Nafni, Amen.

## Utleggingeñ.

Dyrdiñ og Vegsemdiñ er so stoor Hlutur, ad flester gyrnast hana framar ødrum Hlutum, jafnvel þeir, sem ekkert Lofsverdt viña, þeir vilia þo læata tigna sig; Og so er Mañeskiañ giefiñ fyrir Heidrinum, ad sumir tapa hinum rietta Heidre, til ad wtvega sier fæanijtt Hroos, enn sumir villia læata sier hroosa, jafnvel af Odigdunum: So er þo Ærugirndinn rijk i vorri Melld og Øsku! Eñ einginn af øllum þeim, er eptir Vegsemdiñi kieppast, er þo verdur heñar fyrir sialfañ sig, ef Menn skulu Sañleikann tala. Þier ber Dijrdiñ og Heidurinn, seger Spœamaduriñ, undir allra Maña Persoonu, ad eingum fræaskildum, enn oss ber Bligdan vors Andlitis; Þad er ad søñu skylldt, ad hroosa Dygdum og Mañkostum, eñ eingiñ œa þo sialfum sier i þvi Vegsemdar ad leita, helldur Fødur Lioosanna, fræa hverium ad kiemur øll Good og øll Fullkomiñ Giøf, Jac. 1. Enginn er meira Lofs verdur, eñ eiñ goodur Konungur, sœa ed Ottast Gud, og vel stioornar sijnum Londum og Rijkium, enn allra hellst Guds Kyrkiu; Um hann mœa eg segia þad, sem Pœall sagdi fordum um þœa Ølldungana, sem vel forstoodu, œadur enn Guds Søfnuder høfdn christna Veralldar Høfdingia, ad þeir sieu Tvøfallds Heidurs verduger: Enn þo fellst eg œa þad, er sagde hiñ gamle Tobias: Leinda Dooma Konungsins er gott ad dylia, enn Guds Verk ad byrta og jæata, er heidarlegt, Tob. 12. Konungaña Ræad verdur ad dylia, þvi jafnvel þoott þeir sieu øllum ødrum Møñum ædri, þa eiga þeir Jafningia, adra Konunga sijna Lijka: Eñ Konungur Konungaña œa eingañ sier jafnann, og þarf þvi ecki ad dylia fyrir neinum hvad hann œtlar ad giøra, so hann vill segia til hiñar mestu Heims Maktar, þad sem hann sagde Fordum til sijns Foolks, Sach. 1. Þau Ord og Setningar, er eg umbaud Þienurum mijnum, Spœamønnunum, hafa þau ecki næad ydar Forfedrum, so ad þegar þeir aptur sneru, søgdu þeir: So sem DRottenn hugsade ad giøra oss eptir vorum Vegum, og eptir vorum Athøfnum, so hefur hann giørt. Hvern skylldum vier þa helldur prijsa enn hann, er so Mœattugur er og so Alvalldur, ad hann situr i Himninum og giørir hvad hañ vill? Ps. 115. Þvi hroosar Moodir DRottinns hier i Gudspiallinu, segiande: Hañ Giørde Vid Mig Mikla Hlute, Sem Ad Mœattugur Er. J hveriu giørdi hañ þad? J þvi, Ad Hann Leit œa Læging Ambœattar Sinnar. Þad þyker ecki mikid, ad giøra mikid af Miklu: Þad er ei ad undra, þoott sœa gieti byggt mørg Hws, sem œa marga Skooga, þo hañ briooti mørg Lønd undir sig, sem mørgum hefur œa ad skipa; Eñ þad mœa guddoomlegt þykia, so sem þad og er, ad giøra allt af eingu, so sem Gud giørdi i Øndverdu

J Skøp-

Skopunar, enn þoott þad sie eckert lijted, sem ad hañ giorir, þa var þad þo lijtid, so stoort sem þad er, hiaaþvi, sem Maria prijsar Gud fyrir i þessum Lofsaung, þad er, ad Gud vard Madur; Og fyrir þvi ad hinum Alvallda hafdi þocknast, ad læta þad skie i hennar Kvide, sem var ein Umkomulaus Stulka, þa prijsar hun Gud med þessare Saung-Vijsu: Hann Giordi Vid Mig Mikla Hluti, Sem ad Mættugur Er: Þess hefur allt syndugt Mañkyn notid; Þad var verra enn eckert, eptir þad Maduriñ hrapadi i Afgruñ Fordæmingarinnar, þvi betra var alldrei fæddur ad vera, enn eilijflega ad kvellast. Eñ hañ mintist sinnar miklu Myskunsemdar, og i sijnum diwpu Myskunar Yðrum vitiade hañ vor, Uppruni af Hædum. Þessu er verdt ad hroosa fram yfer allar Astgiafer DRottinns; Jaa, þoott ad allar Engla og Maña Twngur sleu skylldar ad vegsama þeña Omælannlega Velgiorning Drottiñs, þa er þad oss þo skylldugt framar morgum odrum, hverra Fedur ad voru Myrkur, enn vier, þeirra Synir, erum ordnir Lioos i DRottni, Eph. 5. aller þeir, sem gaanga vilia eins og Lioossins Bornum hæfir. Jomfrwiñ sijngur hier i Gudspiallinu: Hañs Myskunsemi Varir Fraa Eiñi Kyn-Slood Til Annarar Yfer Ollum Þeim, Sem Hañ Ottast. Þad maatti Israel jaata, er hanns Guddoomlega Trwfesti reynt hafdi aa Fedrum sijnum, allt fraa Heimsins Skopun, allt til þess JEsus kalladist JESUS, og so æ sijdañ, ecke einasta yfir Abrahams Sonum eftir Holldinu, helldur yfer ollum þeim, sem nu kallast hiñ andlegi Israel, hveria Gud hefur Abraham af Steinum uppvakid, þad er, af þeim, sem dijrkudu Stocka og Steina, og voru þeim sialfer lijker, sem David vottar, Ps. 115. Oss, sem ad ei vorum hanns Foolk, enn hann hefur þoo kallad so sem sitt, hverier ecki eiga Kyn sitt ad rekia til Israels. O! hversu meigum vier glader undirtaka med hiñi sælu Guds Moodur! Þar hann hefur oss samannsafnad af Austri og Vestri, enn Rijkisins Synir eru wtreknir i hin ytstu Myrkur, so ad vier jaata meigum, ad þad hafi aa oss sannast, sem David segir um Gud, Ps. 103. Ad hanns Myskunsemi vari ecki einasta fraa eiñi Kyn-Slood til annarar, so sem Guds Mooder hier seger, helldur fraa einni Olld til annarar, yfir ollum þeim sem hann Ottast. Þyki ydur nu nockud koma til þessara gledilegu Umskifta, jaa, þyki ydur so sem Himin og Jord, jaa, allar Engla og Manna Twngur sieu of smaar til þess, ad fullþacka DRottni fyrir so hæleitann Velgiorning, þa lætum oss þykia þad gledilegt ad þacka DRottni, og Lof sijngia þijnu Nafni, þu hinn Allra Hæste; Þvi þad er þad einasta, sem hann af oss krefur, ad vier dijrkum hanns Nafn med Ordi og Verki. Veralldleger Konungar skilia sier wr sijnum Londum og Rijkium þaa Hluti, sem eru saagiæter, og nockrar Mætur eru aa, er vier kollum Regalia, edur Konungs Giersemar, og er þad ecki um Eign þeirra, sem Dag og Noott hafa Umhyggiu fyrer so margri Saalu, og þar ad auki eru prijdder med nockurskonar Lijkingu Guds Hatignar; Enn Konungur Konunganna hefur sier alleina Dijrdina skilid; Hañs Þegn-Skyllda var eingiñ onnur af Israel, enn ad þeir skylldu Ottast hann og elska, Devt. 10. Og so er hun eñ i Dag af hinum Andlega, þvi med soddann Mooti verdur honum riettilega

lega Dijrdenn giefiñ. Allt hvad Vegsamlegt er a Himne og Jordu, þad er hañs vegna veglegt, sem er sialf Dijrdeñ, og eckert utañ Dijrd og Vegsemd: Hiñ Vijse hroose sier ecke af sijnum Vijsdoome, og ecke hiñ Vollduge af sijnu Vallde, og hiñ Rijke hroose sier ecke af sijnum Rijkdoome, helldur hver sem vill hroosa sier, hann hroose sier af þvi hann skilie og þecke mig, ad eg sie Jehova, sa ed fremie Goodgyrnina, Riettinn og Riettvijsena a Jordu, þviad þar i hefi eg Velþocknan, segier DRottenn, Jer. 9. Hver vill þa eiga Tiltolu til nockurrar Vegsemdar fyrer utañ hañ, fyrst þeir meiga ecke hroosa sier, sem ad eru hvad Vegsamlegaster kallader hier a Jordu? Þessare Vegsemd, þessare Goodgyrni, og þessare Riettvijse hiñs gooda Guds, hroosar Maria i Lofkvædenu, er hun segier: Dramblaatum Hratt Hann Af Stoole, Enn Upphoof Lijtelaata. Skoded hier ydur i Speigle, O þier stolltu Giædingar Veralldar þessarar! og hversu saniþter þier erud, nær þier vilied troda Lijtelmagnann under Footum, þann sem Gude treyster. Vited þier ecke, ad þier særed Her DRottne a Hendur? Biooda ecke Log vor, ad einn Fiarhallds Madur skule veria Sok Omaga sijns, og sækia, ef vidþarf? Ætled þier, ad Guds Fyrerheit mune binda hañ minna helldur enn Logeñ skulldbinda ydur, hver þier riwfid, nær sem ydur bijdur so vid ad horfa, fyrer Haturs edur Aviñings Saker? Enn hversu oft lofar ny DRotteñ i sijnu Orde, ad hann vilie vera Forsvar hinns Munadarlausa? So ad aller underþryckter, aller þeir ed Ranngindenn lijda, þeir eru Omagar DRottens. Er þar nockur Limur a vorum Lijkama, er oss sie vidkvæmare eñ Auguñ? Og þo sagde Gud um sijna Vesælinga, sem stundu under Ofrijke Heidingianna i Babylon, sem er Lijking ydar Fooſtur-Moodur Veralldarennar: Hver ed snerter ydur, hann snerter Siaalldur mijns Auga, Sach. 2. Hugleided nu med ydur, O þier hin skynlausu Bornenn! vid hvern þier eiged ad skifta; Ecke vid hann, sem þurfi ad setia sig nidur og reikna, hvert hann med Tiju Þusundum giete mætt þeim, sem kiemur a moote honum med Tuttugu Þusund, Luc. 14. Þviad allar Saaler eru hanns; Helldur vid hann, vid hvers einasta Bendingu ad Sodoma brann til Osku, Jericho hrapade, Jerusalem vard ad Stein-Hrwgu, Tyrus hrundi i Gruñ nidur; Hver ed dreckti Pharaoni med hañs Lide i Hafinu Rauda, hver ed droo hañs Epterkomara wt wr sijnu Fliote, med ollum þeim Fiskunum sem loddu i hanns Hreistre, Ezech. 29. Hver ed setti sinn Krook i Senacheribs brennande Naser, hver ed hañs Efterkomara, Konungana af Assyria, þeir ed voru eins og einn kostulegur Vijn-Vidur, so ad allar Eykurnar i Gardenum Heden osundudu hañ, hver ed þa, segie eg, upprætte a einne Stundu; hver ed sedur Fugla Loftsins og Dijr Merkurinnar med Hollde Ovina sinna, og uppfyller Dalina og Vatnsfollenn med þeirra Blood, Ezech. 32. Og þoott þier ætla kunned, ad þetta ei mune frañ vid ydur koma, þa maa ydur þad alkunnugt vera, ad hann er sa, sem Valld hefur til ad kasta Lijfi og Saalu i eilijfann Elld, sem ber so langt af þeirra Hormungum, sem þier nidurdreped med Ofrijke ydar, so sem Guds Barna Sæla, sem þeim er ætlud, ber af allre ydar Fullsælu. O! hversu erud þier þa savijser, nær

þier hefied Orlog œ moot i sliikum Herra? Vei ydur, þier munud Öskra og Ylfra, þier munud eta ydar Tungur wt af Ofraun, Openb. 16. Nær hiner munu skijna so sem Sool i Rijke siins Fodur. O, hversu gott være ydur þa, ad Lijkamer ydar, hveria þier so kappsamlega aled hafed œ Bloode hinns Volada, ad þeir, segie eg, alldrei uppriisi til Doomsins! Enn nu er þvi ei so vared; Þvi Gud segier fyrer Munn Ezechielis, Cap. 32. Ad ydar Rangglæte ligge i ydar Beinum efter Daudann. Heyred þvi Ord DRottens, þier sem meined ad þier hafid bwid ydur Hreidur i Skyunum, heyred, segie eg, Ord DRottenns af Davids Munne, sem var miklu megtugre enn þier, og þo miklu lijtelœtare: Giefid DRottne Dijrdena, þier Syner hinna sterku, giefed DRottne Dijrdena og Priisenn, giefed DRottne Dijrdena hanns Nafns, bugtid ydur, segiande: DRottne sie Heidur i Priidenne siins Helgedooms, Jœ, giore so oll Verolldinn, Hœer og Lœger! Hinn lijtelmootiege Brooder hroose sier i sinne Upphefd, þad er, i þvi, ad Gud hafi hann þess virdt, ad lijkia hann Syne siinum, hver ed giordest Fœtækur þar hann var þo Rijkur, segier Postulenn, 2. Cor. 8. Enn sœ hinn Rijke i Audmijkt sinne: Þvi eins og Bloomstur Grasʒens mun hann forgœnga, segier Jacob. Og þanig giefum vier best DRottne Dijrdena, christner Menn. Ecke er þad noog ad siingia honum Lof med Munnenum, enn afneita honum med Verkunum. Eg elska Riettenn, segier DRottenn; Eg hata Rœned, þad sem teingest vid Breñefoornena, Esa. 61. Engenn af oss, sem vill Hlut sinn vanda, hañ skeiter miog um̃ þad, ad honum sie hroosad af einhveriu Orœdvondum; Og hvad mun Gud þa dijrkadur verda af Skœlkinum, ef hañ þylur honum eina Saung-Viisu, kannskie siœlfum sier til Gamans, og til ad skiemta sier med Raustenne, sem eg hygg, þvi verr, ad oft mune henda, jafnvel þa, sem ecke miog vonder eru, enn Hiartad er þo ecke alltijd bwed til Guds Dijrdar. Lof siing þu Ond miin DRottne, og allt hvad i mier er hañs heilaga Nafne, segier David: Þad er, allt hvad oss fylger, og Gud hefur oss giefid, þad œ ad priisa Gud; Hiartad med Elskunne, Munnurenn med Ordunum og Raustuñe, hiner adrer Limirner med wtvortis Utriettingum, so ad allt hvad vier giorum med Ord og Verk, þad giorum vier i Nafne JEsu Christi, og þockum Fodurnum fyrer hann. Jafnvel hiner ungu Hrafnarner œkalla DRotteñ, seger David, Ps. 147. af þvi hañ hefur skapad þa; Og munum vier þa ecke vera margra Hrafns-Unga Virde, sem ecke einasta vorum efter Guds Mynd i Fyrstu skapader, og eigum Kost œ ad endurnijast efter heñe, helldur og med hañs Sonar Dauda frœ Helviite Endurkeypter? A þessa Skylldu vora minner oss Pœll segiande: 1. Cor 6. Þier erud Verde keypter, dijrkid þvi Gud i ydrum Lijkama, og i ydrum Anda, hverier ad eru Guds: Nu þar vier erum Guds Eign, bæde efter Riette Skopunarennar og Endurlausnarennar, þa erum vier hiner mestu Drottinns Svikarar, ef vier ecke af fremsta Megne kostgiæfum ad fylla þessa Skylldu vora: Eñ hvad er þa ad dijrka Gud i siinum Lijkama? Þad segier hañ oss, Col. 3. Deyded ydar Jardneska Limu, Saurlijfi, Ohreinleika, vonda Gyrnd og Agyrne, sem er Skurgoda

goda Dijrkan; Og i einu Orde ad ſegia, ad Menn ſtijnge wt þad Augad, og affnijde þa Hond edur Foot, ſem hneixlar, þad er ad deyda fyrer Andann Holldſins Gyrnder. Hvad er ad dijrdka Gud i ſijnum Anda? Hier meinar Poſtuleñ Saalena, þvi hun maa fyrſt og ſijdarſt heita Verde keypt, heñar Dijrdkun ſkilur Gud ſier hvad meſta; þvi ſegir hin heilaga Mey: Mijn Aund Miklar DRotteñ. Hun giorde þad og ſo bæde med Orde og Verke; þvi nema ſo vered hefde, þa munde ecke hinn alſkigne Gud hafa valed hennar Lijkama Syne ſijnum til Bwſtadar. Hun ſegier: Þvi Hanns Nafn Er Heilagt. Jhugan þeſſara Orda gagnar oſs til Tveggia Hluta, ſem baader eru chriſtnum Manne Omiſſande. Þad er vitañlegt, ad med þeſſum Guddoomſins Haatignar Eigeñlegleika, Heilagleikanum, wtmaalar Ritningenn optlega hañs Yfirburde yfir allar hañs Skiepnur: Þar fyrer kallaſt hañ ſaa Heilage i Jſrael; Þeſs vegna eru aller Hluter, ſem hønum vidkoma edur eignader eru, heilager kallader, ſo ſem er hanns Ord, hanns Kyrkia, hanns Frumburder i Gamla Teſtamentenu, þad er alltſamann heilagt kallad. Guds Dijrdarfullu Herſkarar, ſem þar uppe eru, þeir hafa eingann Lofſaung, ſem vier afvitum, fegre enn þeña: Heilagur, Heilagur, Heilagur ert þu DRottenn Gud, Eſa. 6. Nu, þar hann er ſo heilagur, ad ſyndugra Manna Skynſeme fær þad ei griped, þa aa þeſſe Jhugan ad gagna oſs til ad dijrdka hañs Haatign med Bligdan vors Andlites, og af þvo Daglega vorn Saurugleika med Taarum Ydrunar vorrar, þar vier Daglega framkoma ſkulum med vorar Bænar Foorner fyrer þenna Fortærandа Elld, vid hvern eckert ſaurugt maa bwa. Og i ødru Lage, þar hann ſo heilagur er, ſem aadur er ſagt, þa meigum vier kañaſt vid Skylldu vora, ad oſs byriar af fremſta Megne ad burtkaſta øllum Ohreinleika, ef vier vilium hañs Pioonar vera, ſem ſo yfirmaata hreinn og heilagur er, og ad vier lifum Hoofſamlega, Riettvijslega og Gudrækelega i Heime þeſſum, Tit. 2. Hann Endurminnteſt Myſkunar Sinnar, Og Medtook Sinn Pioon Jſrael; ſegier Guds Mooder. Þad giorde ſaa bleſſade HErra, þegar hañ ſende ſinn Son i Heimeñ til ad frelſa þad ſem tapad var, til ad giøra hina Blindu heilſkigna, til ad lækna hina Holltu, hreinſa hina Lijkþraau, til ad giefa Daufum Heyrn, og til ad uppreiſa hina Daudu, enn allra hellſt til ad predika Faatækum Evangelium. Laatum nu og ſiaa til, ad vier minnunſt vorra Heit-Orda, er vier giørdum i Skijrnar Saattmaalanum, ad trwa aa hina Heiløgu Guddoomſins Þrenningu, enn afneita Diøflenum og øllum hañs Svikum og Vielum. Ef vier nu þetta med allre Koſtgiæfne og Alvøru hølldum, ad ſo miklu Leite, ſem vier afkaſtad faaum fyrer Adſtod H. Anda, þa vegſømum vier Drottenn riettelega i vorum Lijkama og i vorum Anda, og eigum fulla Von aa, med Jomfru Mariu, ad gledia oſs i Gude vorum Heilſugiafara, hvar um framveigis er nockud ad tala.

Minn Ande Gledſt J Gude Heilſugiafara Mijnum: Þetta er Saalarennar Glede, Børn mijn, enn ecke Lijkamans Sælgiæte, þad er i Gude, ſegier hin bleſſada Mey, hver ad er Brunnur og Uppſpretta allrar Sælu, og ſiaalfur alleina ſæll; Þvi kalla eg þann alleina fullſælann, enn engann añann, ſem ſmackad hefur hvad ſætur ad hann er.

Hvad eru nu vorar. Osker i Heiminum ? Margar eru þær, flestallar Heimskulegar, Skadsamar, fullar af Sorg og Armædu, enn allar lwta þær þangad, ad vier bidium um þa Hlute, sem oss efterlangar. Enn hvad segier David ? Haf þijna Unadsemd i DRottne, og mun hann giefa þier hvad þitt Hiarta gyrnest. Hvad er þad, Born mijn? Eckert añad eñ hañ sialfur: Þvi so sem Holldlegar Gyrnder verda alldrei sadd-ar, Fyllenn aflar þeim, er þær elska, æ meira Hwngurs; So er og Laungunenn epter DRottne þvert a moote sijn eigeñ Sadning: Og þeir ed vellta sier i Holldlegum Mun-ade, þeir gyrnast nu þetta, nu hitt; þegar Sadningeñ ablar þeim Leida a einum Hlut, so langar þa i annañ; Enn sa sem er i Gude gladur, og til fulls hefur smackad Krapt epterkomande Alldar, Hebr. 6. Hañ gyrnest ecke añad eñ Gud, hañs Matur og Dryck-ur er ad giora hañs Vilia, sem hañ elskar umfram alla Hlute, þvi þar er allur sem uner, segier Ordshattur gamall. Verolldenn kallar Aud, Metord, Sælgiæte, og añad þvi lijkt, hina mestu Sælu, eñ eg hefe aadur nockrum sinnum med Rokum synt, ad i þessu er engeñ riettkollud Sæla, helldur blondud med Angre, Erfide, Hugsijke, Otta, Prældoo-me, og jafnvel hiñ mesta Saalar-Hætska vidteingslud. Eñ hvad segier David? Psalm. 1. Sæll er sa Madur sem hefur sijna Lyst i Logmaale DRottenns, og talar um hañs Vegu Daga og Nætur. Hvar fyrer, Brædur mijner? Þvi hann sem ad Guds Ord og hanns Riettinde so miog idkar, og so miog kiær hefur, hann gietur ecke fared a mis vid þad ad elska Gud, hia hveriu allur annar Fognudur og Gladvære er Sorg og Ar-mæda ad reikna; Þvi sa er þessu Hlutskipte naad hefur, þeim heiter Lausnarenn, ad hann og hanns Fader vilie til hañs koma, og Vistarveru hia honum giora, Joh. 14. O! Hverneg ma þar vanta alla Gnoogt Fagnadarens, hvar þvilijker Giester eru ad Heimbode, jafnvel þott einhver være i Daniels Leoona Grof. Þeir Hebresku Svei-nar Chananja, Misael og Hazaria, hverier ad Leyfe Stallarans i hinu Babyloniska Hofe neyttu alleina Jardar Avaxta, so ad ecke britu þeir a moote sijns Guds Logmaale, þeir urdu þo sællegre og fegre Ilits enn adrer, Dan. 1. So eru og þeir, sem i Hiar-ta sijnu lijta Guds Asioonu, yfir hverra innra Mañ hun fegur skijn, enn nockur Oreyn-dur kañ nærre ad gieta, jafnvel þo þa vante Epterlæte Heims þessa, og sijnest Aumer og Sorgbitner, samt bwa þeir vid hinn mesta Fognud og Rooseme Hiartans, sem engeñ ma af þeim taka. Þegar DRottenn Gud sætte Mannkyned vid sialfann sig i ann-ad Sinn, þa tilbioo hann sinn Boga i Skyenu, til eins Saattmaals a mille sijn og Jardarennar, Gen. 9. Þad er, allra þeirra, sem a Jordu bwa. Ezechiel segir, Cap. 1. Ad Lijking Dijrdar Drottiñs, er hañ sa vid Fliootid Chebar, hafe vered ei-ns og Bogi sa, sem verdur i Skyunum, þegar rigner. Dijrdleg var þesse Openberan, er Spaamadurin sa, eñ miklu er sw Veglegri, Ædre, og Indælic, sem byrtest i Christ-eñs Mañs Hiarta, nær hañ sier Gud nadugañ, nær hañ gledur sig i þeim Saattmaal-anum, sem giordur er a millum hanns og DRottens i Guds Eingietnum Syne, hvers Bwninge Johañes Regnboganum samlijker, Open. 10. Hver ed giorer hañ þess fullor-

uggañ,

ugganñ, ad hanns Synder sieu honum fyrergiefnar. DRottiñ seger, Gen. 9. Ad hañ vilie miñast sijns Sættmæala, þegar Boginn siest i Skyinu; Enn hversu feiginn mun Syndarinn verda, DRottinn miñ, þegar hañs Augu rigna Tæarum Ydrunariñar, og þinn Nææadar Sættmæali myndast i þessu Skye fyrir Verkan H. Anda, sem ber hanns Anda Vitni-um̃, ad hann sie Guds Barn, sem kallar Abba, þad er Fader, sem hroopar: Vert þu Hughraustur, Sonur, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar! Þegar Guds Menn sææu þessar dijrdlegu Sioonēr, þa urdu þeir Mætt-Þrota, so þar var ei Megn i þeim framar, so sem Daniel um̃ sig talar i hanns Mæala-Bookar 10. Cap. Eñ þegar Guds Nææadar Lioomi skijn i ydrandi Manns Hiarta, þa fær hann nijann Dug, þad geingur honum eins og þad gieck Ezechiel, er hann sææ þessa miklu Syn, er eg fyrir skom̃u um̃gat, ad hann lifnadi vid aptur, og stood upp ææ sijnar Fætur, þegar Drottiñ baud honum; Eins bregdur sannydrandi Manni vid Guds Anda Blijdlætis Avarp, nær hann telur honum Trw um̃, ad hvar sem ad Syndinn yfirgnæfir, þar yfirgnæfir þo Nææadiñ miklu framar. Hiñ Nye Madur sprettur upp af Fognudi i hañs Hiarta, eins og Johañes i Moodur-Kvidi, nær honum til Eyrna kiemur þessi Kvedia, og kann enginn jardneskur Fognudur ad komast i nockurn Samjofnud vid þessa him̃nesku Gledi: Eg mææ vel kalla hana himneska, ecki einasta þess vegna, ad hun fra Himnum kiemur, helldur og hinns, ad meiri Gledi er i Himninum yfir einum Syndara sem Ydran giorir, helldur enn yfir Niju og Nijutyu Riettlæatum.

Moodir DRottinns seger hier Ordsokina til þessa guddoomlega Fagnadar: Þvi Hann Leit ææ Læging Ambæattar Sinnar. Stoora Ordsok hafdi hun til þessa, þvi margar munu hafa gofugri og meiri-hættar verid eñ hun, sem ecki var meir metiñ af Heiminum eñ so, ad hun ei fieck añad Rwm i Giesta-Herberginu, helldur enn einn Stall, til ad leggia i Himins og Jardar Skapara; Hun mætti segia eins og Gedeon Fordum sagdi vid Engilinn: Doom. B. 6. Hvernig skal eg frelsa Jsrael, þar mijn Ætt er hin minnsta i Manasse Kyni, og eg hinn minnsti i Hwse mijns Fodur. Ecke er þad Offogum sagt um̃ hinn Mættuga Gud, sem Petur seger, ad Dramblæatum mootstendur hann, enn upphefur Lijtilæata. Hversu morg Dæmi hofum vier þar uppa, ad hann hefur wtvalid þad, sem eckert er fyrir Heiminum; So sem hann valde Gedeon, til ad frelsa Jsrael af Hendi Madianitanna, sem var hinn minnsti medal sijns Foolks, so kiori hann og þessa orsnauda og fææræda Stulku til Moodur allrar Veralldarinnar Frelsara, og var þvi oll Von, ad hun fagnadi slijkri Upphefd, hiaa hverre allrar Veralldariñar Hofdingsskapr er sem Þrældoomr ad reikna. Eñ hvernig sem þessu er varid, þa hugsa med þier, syndugur Madur, hversu audvirdileg ad sie Sææla þijni Guds Auglite, þegar þu giorir hana ad Þræl Andskotans med Jdkun verstu Glæpa og Misgiorda, sem upptendra Guds riettferduga Reidi. Gud nææadi! Ad hun gietur ei sagt, eins og Maria vid Engilinn sagde: Eg Em Ambæatt DRottinns, Verdi Mier Eptir Ordi þijnu: Helldur verdur hun ad jææta; Eg hefi verid Fridla Satans, og

drygt

drygt Hooraner med morgum Elskuga, straffa mig ecki i Reidi þinni, og typta mig ecki i þinni Brædi. Seig mier, hver er þa so laag sem Saal þijn, og hver hefur meiri Uppreist hlotid enn hun, nær hann seger til heñar? Kom þu aptur til mijn, þoott ad Synder þijnar sieu raudar sem Blood, þa skal eg giora þær hvijtar sem Snioo, og þoott þær sieu Purpura raudar, skal eg þær Ullhvijtar giora, Esa. 1. O hversu miklu meiri Ordsok hefur þu þa til ad glediast i Hiarta þijnu, helldur eñ Guds Mooder, af þvi ad hun var hanns Lijkamleg Mooder! Hun var alltijd Guds Barn, þu hefur optlega giort þig ad Diofulsins Barne; Hañ var heñar Holldgietiñ Sonur, eñ hann bijdur þier, ef þu villt læta af Illu, og læra gott ad giora, ad hann vilie myndast i þier aptur ad nyu, sem Paulus ad Ordi kiemst, Gal. 4. So þu verdir hañs andleg Mooder; Og er þesse Fognudur ædri ollum Skilninge, ef þu kannt vid ad taka og med ad fara so sem Guds Barn; Þetta vottar hann sialfur, er hann sagdi Fordum vid Konuna, er prijsade Sælu Moodur hañs: Hvad uñ þad! Sæler eru þeir sem heyra Guds Ord og vardveita þau. Nu so sem þesse Fognudur i Gudi er so gott Hlutskipte, ad eckert er þvilijkt, þa er þad ecki i hvers Manns Hiarta ad finna, þvi Trwinn er ecki allra, seger Paulus, 2. Thess. 3. Jafnvel þoott þad standi i ollum til Boda, sem vilia þad til þess viña, ad hafna Gledi Veralldarinnar, og ecki selia þessa Sælu fyrir stundlegt Eptirlæti Syndariñar. Þad er ecki noog, christner Menn, ad vilia naa þessum Fognudi: Mikid skal til Mikils vinna, seger hinn forni Ordskvidur. Kieppist vid ad gaanga iñ uñ hid þraungva Hlidid, seger Frelsarinn, Luc. 13. Þvi eg sege ydur; Marger vilia þar iñgaanga, og faa þad ei komist. O! hversu miog syndgum vier, jafnvel i voru Gudræknis Verki, margur hver! Ef ad Gud veiter oss einhvern Lijkamlegann Velgiorning, sem hann daglega giører, þa elska þeir hañ kannskie, og þacka honum þar fyrer, sem Gudhrædder vera vilia, og er þad skylldugt ad sonnu; Eñ þau himnesku Daasemdarverkiñ, so sem Utsending hanns Sonar, Astgiafer Heilags Anda, Fyrergiefning Syndanna, þetta allt, segi eg, so mikid sem þad er, sem þo er yfir allann Maata mikid, þad orkar ecki so mikils hiaa oss, ad vier fyrer hanns Skulld, er oss allt þetta hefur giefins veitt, vilium forsmaa alla Veralldar Muni. Hvad ætli þier ad hinn Alskygni, hvad ætli þier ad Hiartnanna og Nyrnanna Rannsakare muni dæma uñ soddañ Gudrækni? Eg vil segia þad eg meina, ad hann vill segia vid þaa, sem alleina finnst til þess sem Kroppnum gagnar, og duger til ad lifa vel og rijkmannlega i þessum Heimi, eñ meta lijtils þad sem þar uppi er, þau Stoormerki guddoomlegrar Elsku, sm ei maatti afreka nema med hañs Sonar Dauda, vid þaa vill hann segia, segie eg, eins og vid Phariseos aadur, Matth. 23. Vei ydur Skriftlærdum og Phariseis, þier Hræsnarar, þier ed tijunded Myntu, Anis og Cumen, enn gleimid þvi sem meira er i Logmaalinu, Trwnni, Doomnum og Myskunseminni, þetta byriar ad giora, enn hitt ecki eptir ad skilia. So eigum vier Gudi ad þacka, hann ad elska og dyrka fyrer lijkamlega Hluti, og þad af allre Alwd, enn þo laangtum framar ad mikla hann, elska, heidra, og gledia oss i honum fyrir þau dijru Stoor-

merke

Merki hanns fodurlegrar Giædsku, fyrer hver hañ hefur þrised Sæler vorar wt af Andskotans Vallde. Heyred hvad DRottenn seger fyrer Munn Hoseæ, Cap. 7. Þeir ækalla mig ecki af Hiarta, þegar þeir emia i Svefn-Hwsum sijnum; fyrer Kornid og Mustina samannsafnast þeir, enn eru mier þo Ohlijduger: Hid sama er ad segia um̃ alla adra Guds Þionustu, er vier lætunst veita honum, alleina fyrer tijmanlega Mune; So blanda Menn samañ Guds Þioonustu og Mam̃ons, Vatne og Vidsmiøre, sem alldrei kuña ad þijdast hvert añad. Meñ sveria vid Nafn DRottiñs, og þo undir eins vid Malcom, eins og Judar, og dijrkum Gud i hañs Kyrkiu, enn sierhver færir Foorner sijnu Skwrgodi æ Hædunum, eins og þeir, þad er sierhverium þeim Hlut, er hañ metur meir edur jafnt vid Gud. Soddann Christinndoomur er lijkur Footunum æ Nebuchadnezars Lijkneskiu, er sumpart var af Leyr, og sumpart af Jærni.

DRottiñ sagdi vid Ezechiel, Cap. 44. Þessar Dyr (hañ meinti hiñs allra Helgasta) skulu læstar vera, eingiñ gængi iñ um̃ þær, þviad DRottiñ Israels Gud hefur þar um̃ inngeingid. Þu skallt og miñast þess, sem ert eiñ andlegur Israels Madur, hvad Gud lofad hefur um̃ siñar Kyrkiu Vijgslu, sem er þitt Hiarta; Eg skal giefa ydur nijtt Hiarta, og einn nijann Anda skal eg setia medal ydar. Þetta endir Gud ad vijsu vid alla þæ sem honum eru helgader i Skijrniñi, og ecki saurga aptur hanns Musteri med Ydrunarlausu Fram̃ferdi; Enn sijdañ þu hefur hanns Hæsæti, og Stad hanns Foota, Ezech. 43. Þad er Guds Rijki, iñi hiæ þier, þa lwk þeim Dyrum aptur, hvar hañ inngieck, og leyf eingum þar iñ ad koma til Gistingar, nema honum og hañs Christo, sem er hiñ ædsti Prestur, og hañs Um̃bods-Moñum (þvi hinum ypparsta Presti, og hañs Um̃bods-Mañi, leyfdist inn ad gænga i þad allra Helgasta): Læt þar þvi innkoma Gudrækilegar Aminñingar, og holla Lærdooma Guds Ords Þienara og añarra Gudhræddra Manna: Med þvilijkum Giestum mæ hañ giarna Sess eiga. Þu munt kañskie segia: Hvernig mæ eg sæ þvi vidkomid, ad hugsa eckert annad eñ um̃ Gud, æ medann eg ber eptir mier þetta veika Holld? Hallt kyrru um̃ Stund, Barn mitt. J Jerusalems Musteri voru Stader Heidingiunum ætlader, fyrer utann þann Mid-Veggiñ, er DRottiñ nidurbraut, þegar hann kom til sijns Musteris, þar var og Stadur fyrer þæ, sem Gydingar hofdu giorst, fyrer Foolked, og fyrer Levitana og Kienni-Mennena, sem voru af hinni lægri Rod, enn hinn ypparsti Prestur, edur og hanns Um̃bods-Madur, gieck alleina inn i þad Allra-Helgasta; Þar eru og i Guds Musteri, sem er þitt Hiarta, margar Verur: Þar kañ ad vera fyrir Hiegooma Veralldarinnar, er þu daglega heyrer; Læt hañ alldrei komast inn fyrir Mid-Vegginn, helldur hallt hann fyrer einn Heidingia, sem ei megi saurga Guds Musteri; Þar er og Stadur fyrer naudsynlega Um̃hyggiu þessa fallvallta Lijfs, fyrer Næunganum, og fyrer Embættis Utriettingum vorum, enn hid innsta af Hiarta þijnu skallt þu DRottni helga, þad skallt þu daglega hreinsa med sannri Ydran, þad skallt þu uppfylla med Reykelse Bænarennar, þad skallt þu prijda med Skarte Vonarennar, Trwarennar, Kiærleikans; Enn um̃

alla Hiarti fram med Elskunni til hanns, þa vill hann til þijn koma, og Vistarveru hiaa þier giora, þar munt þu sia hanns Dijrd, so sem i nockurskonar Skugg-Sia, þar mun hann laata þig smacka hvad sætur hañ er, og þar mun hann jafnvel i hinu mesta Volædi kienna þier, ad Mootlætingar þessara Tijma sieu ecki verdar þeirrar Dijrdar, sem vid oss mun framkoma i eilijfu Lijfi; Hverrar niootandi ad verda, oss unni og veiti hinn Naadugi Konungur eilijfrar Dijrdar, fyrir JEsum CHristum, AMEN.

# Fimta Sunnudag eptir Trinitatis.

Gudspiallid Luc. 5. Cap.

I Þañ Tijma. Og þad skiedi, þa ed Foolkid flyckteft ad hønum til ad heyra Guds Ord, og hañ sialfur stood vid Siooinn Genezareth, og hañ leit Tvø Skip standa vid Siooiñ: Enn Fiskararner voru stigner af Skipunum og þvodu Netiñ. Hañ stie þa uppaa añad Skiped þad sem var Simonar, og bad hann ad draga nockud fraa Landi. Og hann sat og kiendi Foolkinu af Skipinu. Og sem hañ gaf upp ad kieña, sagdi hann til Simonar: Drag þu wt aa Diwpid, og leysid upp ydar Net til Fiskidraattar. Simon svaradi, og sagdi til hañs: Meistare, i alla Noott høfum vier erfidad, og feingum eckert: Eñ i þijnu Ordi mun eg Netinu wtkasta. Og þa er þeir høfdu þetta giørt, innluktu þeir mikla Mergd Fiska, so ad þeirra Net rifnudu. Og þeir bendtu sijnum Føløgum. sem voru aa hinu ødru Skipinu, þad þeir kiæmu þar, og hialpudu þeim. Og þeir komu og hloodu bædi Skipiñ full, so ad þau sucku ad mestu. Þa ed Simon Petur saa þetta, fiell hañ til Kniaaña JEsu, og sagde: Gack fraa mier, Lavardur, þviad eg em Madur syndugur; Af þvi ad Felmtur var yfir hañ komiñ, og alla þaa, sem med honum voru, af þeim Fiskidrætti er þeir feingu til samans, lijka og eirniñ yfir Jacobum og Johañem, Sonu Zebedæi, sem ad voru Lags-Meñ Simonar. Og JEsus sagde til Simonar: Ottast þu eigi, þviad hiedañ i fraa skalltu Meñ veida. Og þeir droou sijn Skip ad Landi, yfirgaafu alltsamann, og fylgdu honum eptir.

Exordium.

N Lessan DRottiñs giører Rijkañ fyrir utann Mædu, segier Salomon, Ordsk. 10. Ecki meinti hiñ vijsi Konungur þad, ad ei skylldu synduger Menn hafa Omak og Erfidi fyrir Næringu sinni; Þad var ecki hanns, ad rasta þvi Løgmaale

le, er hinn Alvallde Konungur sette strax epter Synda-Falled, ad med Erfide skyllde Madurenn sig af Jordunne næra, og i Sveita siins Andlitis Brauds siins neyta, Gen. 3. Hitt er hañs Meining, ad hvert sem hiñ goode Gud lætur einum Aud edur Armood tilfalla, þa sie hañ samt Rijkur, ef hañ ottast DRotteñ, leitar hanns Blessunar, og Næringar sinnar i hanns Nafne; Hinn Rijke ad sonnu, þvi þoott honum Audur hlotnist, þa fester hañ ecke Hiarta sitt þar vid, so sem David bijdur, Ps. 62. Ef hañ er Guds Barn, helldur stundar epter ad vera Rijkur i goodum Verkum, so sem Paulus fyrer mæler, 1. Tim. 6. Og etur so Braud sitt med Glede, og goodre Samvitsku, hañs Erfide fellur honum liett, og hann þiggur Blessan DRottenns med Audmykt og Packlæte, af hanns Orlætis Hende: So giørde Abraham, Isaac og Jacob Forfedur, og marger af þeirra Nidium hafa fetad i þeirra Spor. Eins er hinum Fatæka vared, ef hann elskar Gud; Hañ stundar ad verda i honum Rijkur; þegar hañ hefur DRottenn, þa skeiter hann hverke uñ Himen nie Jord, honum þyker sier borged vera, þegar hann hefur eignast hann, sem alla Verolldena hefur ad Erfdum teked, Christum, Psalm. 2. Þvi temur hann sier med Paulo, bæde Haar og Lagur ad vera, bæde noog ad hafa, og Skort ad lijda: Þannig hroosar hinn Audvirdelege Brooder sier i Upphefd sinne, og hinn Rijke i sinne Nidurlægingu, Jac. 1. Dæme uppa soddann Rijkdoom og Fatækt hofum vier i þessa Dags H. Evangelio, a St. Petri og hanns Fielogum; Þar þeir hofdu alla Noottena erfidad, og eckert feinged, enn sijdann innelucktu þeir mikla Mergd Fiska. Hier wt af vil eg Tvennt athuga i þetta Siñ. 1. Ad oss byrie Þolennmoodum ad vera i Orbyrgdeñe. 2. Packlaatum og Audmiwkum i Velgeingninne. Hialpa oss til ad hugleida þetta so sem ber, þu alleina Rijke Konungur, og Skapare Himins og Jardar, fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

Alla Noott Hofum Vier Erfidad, Og Feingum Eckert, segier Petur. Texteñ brwkar hier þad Ord, sem merker ad erfida sig þreittañ, og fyrer þvi hefur sa Guds Madur hier nockra Afsokun, og villde so sem hafa sig undañ-þeigeñ ad reina til framar, nema DRotteñ hefde honum þad boded. Vidlijk Freistne hender jafnvel margañ þañ, sem vill Ottast og elska Gud, þegar hañs Erfide og Athafner luckast ecke. Hañ þeinker med sier: Eg viñ Bake brotnu, eg bid Gud mier til Hialpar, eg slæ engeñ Vind-Hogg i mijnum Atburdum, so eg skyniad fæe, og er fraa sneiddur allre Oraadvendne, ad eg vilie taka mijns Naunga Brayd fra hanns Munne, edur eta mitt Braud i annarra Sveita, þo luckast ecke mitt Verk: Eñ añarra, sem midur bera sig ad, hefur goodañ Framgang, og þeim aorkast þoott þeir yrke ecke, og hiñ Almaattuge hañ elur þa sofande; Gud mun mier aan Efa reidur vera, og hañ setur mijnar heimuglegar Synder fyrer sitt Augliti. Þvilijkt kañ Moñum i Hug ad flwga, jafnvel þoott Guds Viner sieu, þegar ecke verdur frañgeingt, þad þeir hyggia sier til bestu Nota. Eñ læred þad af Dæme Peturs, christner Meñ, og hañs Verkanauta, ad þier ei laated slijka Þaan

ka koma i ydar Hiortu. J odrum af þeſſum Fiſke-Baatum var Petur og Brooder hañs Andreas, eñ i odrum þeir Zebedæi Syner, Frændur DRottens, Marc. 1. Hverſu dIatt hañ hafe elſkad þeſſa Fiſkara, þad gaf ſijdar Raun Vitne um̃, og medal añarra, þegar hann þvode Fætur þeirra, þegar hañ talade fyrer þeim hina Hiartnæmu Predikun, ſem ritud ſtendur, Joh. 14. 15. 16. Cap. epter Kvølldmaaltijdena, þegar hann leyſde þeim ad ſofa og hvijlaſt, þa hann ſveitteſt Bloodenu under þeirra og allra Manna Syndum, þegar hañ bad þeim Ordlofs wr Mordingia Høndunum, þegar hañ leitade ad þeim, uppriſeñ af Dauda, er hañ þo ſkomu aadur yfirgiefed høfdu, og ſierdeils Petre, er meſt hafde tiluñed; Þo lætur hann þa hier alla Noottena forgiefens erfida. Og ef hañ breitte ſo vid þa, þvi meigum vier þa kuña hiñ Alvijſa fyrer þad, ad hañ ſijner oſs ſomu Naad, ſem hinum kiæruſtu Vinum ſijnum, hverra Skoo-Þveinge vier erum ei verduger upp ad leiſa, edur ad þurka af Dupt Foota þeirra! Ætle þvi engenn, ad ſaa mune vera hiñ beſte Guds Vinur, ſem hañ laanar meſt af Veralldar Munum, eñ ad hañ hafe ſkoted hinum fraa ſier, er hañ lætur þa vanta; Añars badade Nabal i Guds Skaute, eñ David, ſem nærre þvi foor aa Vonar-Vøl med Sveit ſiñe fyrer Ofrijke Sauls Konungs, hañ være wtrekeñ fraa hañs Auglite, Lazarus være burtkaſtadur, eñ hiñ Rijke Sælkiere iñtekeñ i Guds Vinaattu. Dæmum þvi ecke epter Holldenu, Joh. 8. Chriſtner Meñ, helldur lærum af þeſſum Guds Hetium ad varpa allre vorre Ahyggiu uppaa hañ, þvi hañ mun þvi vel til Vegar koma, Pſ. 37. Hvad ſem hañ lætur oſs til Handa bera. Þad hiaalpar ecke til ad hlaupa, ad vera ſkiootur, ecke til Bardaga, ad vera ſterkur; ſo hiaalpar þad og ecke til Rijkdooms, ad vera Ahyggiuſamur; Þvi þad er ſatt ſem Syrach ſegier, Cap. 11. Ad Lucka og Olucka, Lijf og Daude kome af DRottne, og hañ giefur þad hverium hañ vill. Hver vill ſegia vid hañ: Hvad giører þu? MEiſtare, J Þijnu NAfne Mun Eg NEtinu Utkaſta; ſtendur i Gudſpiallenu: Þetta Ord, MEJSTARE, þijder Verkſtioora, epter Textanum, edur og Høfdingia, edur Forraada Mañ: Ef hañ er Herrañ, maa þa baña hønum ad ſkipa mier ad erfida, jafnvel forgiefens, ef hønum ſo lijkar? Eg aa ecke meira af Jdiu miñe, helldur eñ hañ mier ſkamta vill, ſo ſem ødrum Verk-Þræl, eñ eg veit ad hañ er trwr, og freiſtar einkis yfir Megn fram̃, og ecke maa eg ſo vid hañ breita, ſo ſem ſiuner af vorum Verka-Mønnum vid Hwſs-Bændur ſijna; Nær þeir þykiaſt þreytter vera, vilia þeir eckert Verk framar viña: Ecke maa eg helldur ſo Raangeygdur vera, ad ſiaa Oſſioonum yfir þvi, ad hañ lienar ødrum meire Hamingiu i ſijnu Erfide, þvi hañ took þad ecke af mijnu, ſem hañ gaf hønum ſrekar eñ mier, ſierdeilis þar eg veit ecke hañs Tilgaang; Hañ hefur Tijma og Hentugleika ſett i ſijnu Vallde, P. G. 1. eñ ecke mijnu; Hver hefur nockurn Tijma hañs Raadgiafe vered? Rom. 9. Hitt ſie eg af Dæmunum, bæde Førnum og Nyum, ad Gud lienar Auden ſumum Moñum, til þeſs, ad hañs Þoleñmæde og Giædſka drage þaa til Ydranar; Eñ nockrum, þad er þeim Feitingium, ſem upp hafa fyllt Mæler Syndaña, til Straffs og Hegningar, ſo ſem Menn ala einn Uxa til Slaaturs. Apt-

ur

ur mꝏ þad þeckia, ad Gud sviptir sijn Børn þessum Veralldar Hiegooma, til þess ad deyda þar med Holldsins Gyrnder, til þess, ad reina Stødugleik Trwar þeirra, eins og Jobs; Ecke fyrer þvi, ad hann þecke hann ecke sialfur best, helldur ad þeir sem hann elskar, lære ad þeckia sialfa sig, og treysta ecke so miøg Mætte sijnum i Andlegum Efnum, og lære ad segia med Paulo: Þa em eg Velkur, þa em eg Mꝏttugur. Þad giører sꝏ blessade HErra og so til þess, ad venia oss af Briostum hinnar flærꝏdu Skiækiu Veralldarennar, og ad Menn þecke, ad allt þad sem i Heimenum er, þad er ecke añad enn Fysn Holldsins, Lysting Augnanna, og Drambsamt Lijferne, 1. Joh. 2. Og læra ad skynia þad sem þar uppe er, og ad vor Borgar-Riettur er ꝏ Himnum, hvadann vier væntum Frelsarans JEsu Christi, Phil. 3. Hver þoott hann være Rijkur, segier Postulenn, giørdest hañ Fꝏtækur, so ad vier fyrer hañs Fꝏtækt rijker yrdum, 2. Cor. 8. Þvi skyllda eg møgla ꝏ moote honum, sem ad veit alla Hlute, aller eru þeir opner og nakter fyrer honum, segier Postuleñ; Eru ecke þetta Guds Sonar Ord, hiꝏ Matth. 6. Ydar Himneskur Fader veit ad þier hafed alls þessa Þorf? Og ecke einasta veit hann þad, helldur og skorter hann ecke Mꝏtt til ad hiꝏlpa; Er hañs Hønd nockud stutt ordeñ, so hañ ei hiꝏlpa kunne? Esa. 59. Jordeñ er hañs og allt hvad þar i er, Jardar-Krijnglann, og aller þeir ed ꝏ heñe bwa, Ps. 24. Nær hañ talar, so skiedur þad, nær hañ bijdur, verdur þad, Ps. 33. Edur mun hañ Giædskuna bresta til ad vilia hiꝏlpa? Hafe hañ skapad Sꝏl og Lijf, og furdulega þeim vidhallded allt til þessa Dags, og giesid oss þad besta er hañ ꝏtte, siñ Eingietenn Son, til ad frelsa oss wr Kvølunum, siñ H. Anda til ad helga oss, ad hañ sie Pantur vorrar Arfleysdar og eilijfs Lijfs; Mun hañ þa ecke giefa oss þad vier vidþurfum til þessa Lijfs Næringar, þoott hañ lꝏte stundum Misbrest ꝏ þvi verda, þeirra Ordsaka vegna, er hañ sialfur veit, eñ vier fꝏvijsar Mañeskiur skyniwm ecke? Eda segier ecke Postuleñ berlega: Hañ sem gaf oss Soneñ, mun hañ ecke giefa oss alla Hlute med honum? Hañ hefur sialfur lꝏted oss bwa vid þañ Kost er hañ vill, er oss skapad, endurleyst og helgad hefur. Ef hañ nu elur Fuglana under Himnenum, so ad eiñ Titlingur af þeim fellur ecke ꝏ Jordu ꝏn hañs Vilia; ef hañ prijder Grased, þad i Dag er ꝏ Akre, framar eñ Salomon i allre sinne Dijrd, og verdur þo ꝏ Morgun i Ofn kastad, Matth. 6. Munde hañs Giædska þa neita oss þess, er vier skulum ñeyta og klædast med, oss sem fyrer hañs Songr dijra Blood og sꝏru Kvøl, erum hañs Børn ordner? Munde hañ, segie eg, neita oss þessara Hluta, nema ad hañ visse ad oss gagnade ꝏ Stundum ad missa þa, og jafnvel þoott hanu tæke Lijfed af oss, med hveriu moote sem honum þocknast, þa verum þess fullorugger, ad hañ giører þad til þess, ad vier skulum finna þad eilijflega, þvi þad skal skie, ad hver hann trwer ꝏ Soneñ, þoott hañ deye, þa skal hañ samt lifa, Joh. 11. Og høfum þad fyrer vijst, ad hverke Lijf nie Daude, hverke Englar nie Hofdingia-Dæme, hverke hid Nꝏlæga nie hid Epterkomanda, hverke Hæd nie Dypt, nie nockur añar skapadur Hlutur mune sꝏ oss skiled vid Kiærleika Guds, sem ad er i Christo JEsu DRottne vorum,

Rom.8. Hversu Ovænlega sem oss horfa þyker; Eñ þo ad Gude þockneſt ad læta vort Erfide og Aſtundan misfalla, christner Menn, þa letiunſt ecke i þvi, ad hvad vier giorum, þad giorum vier i Nafne JEſu Chriſti, og þockum Fodurnum fyrer hañ.

Þoott Petur hefde ecke fiſkad alla Noottena, nie hanns Fielagar, og voru ſo afſtigner Skipunum, Urkala Vonar uñ frekare Fiſke-Veidar i þad Sinn; Samt heyrdu þeir Guds Ord, og hina ægiætu DRottenns Predikun. Breitum og þannig! Þo vort Erfide luckeſt ecke æ Stundum, þa gleymum ecke Gude, þvi eitt er Naudſynlegt, leitum þar fyrer hañs Rijkis, og hañs Riettlætis, þa mun oſs allt añad til-leggiaſt, Matth. 6. Ef ecke ſo ſem vier vilium, þa ſo ſem hann vill, hvers Vilie ad vier daglega bidium ad verda ſkule, og giorum Verk vorrar Kallanar i Otta DRottenns epter hanns Bode; So giorde Petur: J Þijnu Orde, þad er, epter Skipan þinne, Vil Eg Netenu Utkaſta. Mættugur var JEſus ad læta Fiſkana hlaupa lifande upp i Skiped, ecke ſijdur eñ ad læta Petur fiña Peningenn i Fiſkiarens Muñe, Matth. 17. Þo ſkipade hañ honum ad draga wt æ Diwped, epter þad hañ hafde hlijdt Guds Orde. Tveñt er hier ad læra: Eitt þad ſem eg fyrer ſkomu æminteſt, ad Meñ byrie oll ſijn Verk i Guds Nafne, og ad honum med ſier tilkolludum; So giorde Petur, þvi æ Virkum Deige hefur þetta vered, annars hefdu þeir ecke fared til Fiſke-Veida: Hitt Annad, ad Meñ brwke þau Medol, ſem Gud hefur kieñt og boded, i Utvegum Næringar ſinnar, eñ griipe ecke til Oleifelegra Hluta, þegar ecke vill ærkaſt. J Þijnu Orde Vil Eg Netenu Utkaſta. Net þijder marga Hlute i H. Ritningu: Þad merker Svikræde og Vielar Orædvandra og Gudlauſra Maña, þeir ed Stela, Liwga, Svikia, Ræna, Kwga, Hræſna og æ Tælar draga einfalldar Sæler, til Abata ſier: Þeſſer kaſta Netinu wt i Andſkotans Nafne, og þo þad meige luckaſt uñ Stund, þa munu þeir uñ ſijder Oluckuna veida, Uñ ſuma af þeim talar Salomon, Predik. 29. Sæ ſem hræſnar fyrer Vin ſijnum, hañ breider Net fyrer hañs Gæng. Eñ David ſegier hver Utforenn mune verda, Pſ. 9. J þvi Nete, er þeir falled hafa, er þo Footur þeirra fæangenn. Þad merker og Ofbellde þeirra, er draga alla Hlute til ſijn, med Vallde og Ofrijke; So ſegier Ritningeñ uñ Konungeñ af Babylon, Habac. 1. Ad hañ hafe fært Foorner fyrer Nete ſijnu; Þad er, hañ hafe þackad Makt ſiñe og Atburdum allañ ſinn Sigur, og þad Valld er hañ feinged hafde yfir odrum Konga-Rijkium, hver ed hañ droo til ſijn, ſo ſem þegar Fiſkar veidder eru. Þeſſer kaſta Netinu wt i ſijnu eigeñ Nafne, og eru hinum fyrre eingu betre, þvi þeir gleyma Gude Himnanna, fræ hverium ad Sigureñ kiemur, eñ treyſta æ Mætt ſiñ og Meigeñ. Þetta Ord þijder og Guds bræda Hefnd yfir hinum ſtolltu Veralldar-Sonum, hver ed yfir þa kiemur æ Stundum, nær þeir minnſt hyggia, ſo ſem Net yfir Fiſkenn, ſo ſem Jood-Soott yfir Olietta Konu, 1. Theſſ. 5. Þetta Net er vijſt ollum þeim er upphefia ſig æ moote Gude, og ecke giefa honum Dijrdena, þeſs gietur hañ hiæ Ezech. 17. Þar ed ſegier: Eg ſkal wtþenia mitt Net yfir hañ, og hañ ſkal i mijnu Nete fæangeñ verda. Þvi vil eg nu i hinum ſijdare Part-

enum

enum med færstu Ordum hügleida, hversu ad vier eigum i Medlætinu audmiwkir og Þacklaatir ad vera.

Gudspiallid seger: Ad þegar þeir feingu þenna mikla Fiske-Draatt, þa hafi Petur Kropid Ad Knicam JEsu. Þetta var Packlætis Merki hanns; Aññad hafdi hañ ecke Guds Syni ad giallda, aññars krefur hañ ecki helldur af neinum, þvi hañ er einkis Purfe: Þad sijndi hann optlega, jafnvel i hanns Lægingar-Standi, þegar hañ villdi brwka Valld sitt, og þad ecki sijdst med þessari dijrdlegu Jardteikn. So sem þad Gud seger fyrer Davids Munn, Ps. 50. Ad hann vilie ecki segia Manneskiunni til ef hann hwngrar; Þviad allt Silfur og Gull sie hañs, og øll Trien a Mørkinni og øll Dijrinn a Skooginum: So er af þessu Dæmi lioost, ad DRottiñ JEsus hefur, eptir Manndoominum, þegid af sijnum Fodur Valld yfer øllum Skiepnum Guds, og allt hvad vier medtøkum af Guds Hendi, þad veitist oss fyrir hanns Skulld: A honum þar fyrir skylldugar Packer ad giallda, og i hanns Nafni ad bidia uñ allt þad vier þyggia þurfum af hinni almaattugu Hendi; Þar fyrir segir Paulus, 1. Thess. 5. Bidied Oaflaatannlega, og giørid Packer i øllum Hlutum, þvi þad er Vilie Guds fyrir Christum JEsum i øllu vid ydur. Petur var so þacklaatur vid DRottinn fyrer einn Fiske-Draatt; Enn hvad marga høfum vier nu þeged? Satt er þad, ad hinn Stoori Allsheriar DRottenn hefur laatid eitt edur Tvø Ar a Stundum vorar Fiski-Veidar misfalla (eins og Peturs i þetta Sinn, uñ Noottina fyrir þetta mikla Happ), eñ sijdañ hefur hann yferfliootañlega a mørgum Arum uppfyllt oss med Blessan siñi af Sioonum, so ad, hefdum vier haft Framsyni Josephs, og safnad a þeim goodu Tijmunum, þad oss og Naunganum hefdi kunnad ad hiaalpa a þeim vondu, er vier so køllum, þa hefdu ecki þær hinar møgru Kyrnar uppetid þær feitu: Enn hvert Packlæti høfum vier nu golldid Gudi þar fyrir? Þad finnur hver einn, þegar hann athugar grandgiæfilega med sialfum sier, hversu lijtt honum hafi verid hugad uñ, ad Offra DRottni Lofgiørdinni, þegar hann hvad mesta Blessan hefur af hanns Hendi medtekid, jafnvel þoott ad allir christnir Menn viti, ad þeir sieu skylduger til ad þacka honum, eins vel fyrer Mootlæti sem Medlæti. Seged mier: Er hann nockrum nockud skylldugur? Hver hefur honum giefid? Hver hefur honum laanad ad Fyrra Bragdi? Og hvad sege eg; Ad Fyrra Bragde; Hver hefur honum nockud nockurn Tijma giefid? Þvi þad er vier laatunst wtilaata vid þaa er hañ skipad hefur, þad tøkum vier þo ecki af voru, helldur af hanns, sem bædi a oss, og allt þad vier køllum vort. Hvilijk er þa sw Faasinna, ad vier ecki daglega skulum ad Guds Knicam krwpa, til ad Offra honum Packlætinu, fyrir þær Ometanlegu Velgiørder, er vier a hverri Stundu þyggium af hanns Orlætis Hendi, ecki einungis lijkamlegar, er oss þikir mest tilkoma, helldur og andlegar, sem eru miklu dijraxi, ef vier hefdum Rækt edur Vitsmuni mooti ad taka?

Ecki þockti DRottni so mikils verdt uñ þeña Fiske-Afla, þvi hiet hañ Petri ødru sem var miklu agiætara, er hann sagdi: Hier eptir skalltu Menn veida. Eg skal giora

yckur ad Manna Fiskurum, sagdi hann skömu siidar vid þa Zebedei Sonu, þad er, ad þeir skylldu bædi sig og siina Tilheyrendur hoolpna giora, so sem Paulus sagdi vid Timotheum, 1. Tim. 1. Þessa hofum vier adnotid, þar Hlioomur þeirra er og oss til Eyrna kominn; Vier, sem bwum hier a Utskiækli Veralldarinnar, Utlæger, so ad segia, fra ødrum Londum. Og þar fyrir eigum vier hinum gooda Gudi hvad mestar Þacker ad giallda, og ecki einasta ad heidra hann fyrir Kornid og Mustina, þad er fyrir Mat og Dryck, eptir hveriu ad leita heidnar Þiooder, Matth. 6. Helldur fyrer þad Liffsins Braud, sem er af Himnum ofannkomid, og fyrir þad Vatn, eptir hvert ad einginn mun þyrsta, þann sem af þvi dreckur, Joh. 4. Þad er sialfur JEsus, sem Gaafur hefur Monnunum giefid, uppfarinn i Hædirnar. Enn þad er ecki noog ad laatast þacka Gudi med Munninum alleina, Hiartad a ad filgia med, og hin mesta Audmykt og Undergiefni Andans. Þegar þeir Petur hofdu feingid þenna mikla Fiski-Draatt, þa stendur i Gudspiallinu, ad hann hafi sagt vid JEsum: Vijk Fraa Mier, Laavardur. Mundi hann nockud kvedia honum Bygd, so sem Gadareni, Matth. 8. edur yfergiefa hann, so sem Capernaums Borgar Menn, Joh. 6. edur wthijsa honum, so sem hiner Samariska, er hann ferdadist til Jerusalem giegnum Bygd þeirra? Fiærri er þvi. Hin mesta Hiartans Audmykt og Þecking siins Overdugleika hefur þrijst honum til ad tala þesse Ord; Þad er audsært af Ordsokinni, er hann færir hier til: Þvi Ad Eg Em Madur Syndugur. So er nu mannleg Naattura veik, ad hun stendst ecki Guddoomsins Naalægd: Hun aalijtur helldur i fyrstu sinn Overdugleika, helldur enn Lausnarans Forþienustu. J heillt Ar hafdi Petur þeckt JEsum, og heyrt hans Kienningar, þegar þesse dijra Jardteikn var gior, og þo var hier so sem hann mistreysti i Fyrstunni hanns Naad, er honum þo skömu aadur hafde so Naadugur verid. Þu ert inngeinginn til mijn, Guds-Madur, sagdi Eckiann i Sarepta, til ad minnast Raanglætinga minna, og deyda Son minn, 1. K. B. 17. Hvar fyrer? Þviad hun taldi sig Overduga, vegna Synda sinna, og þooktist ecki so lifad hafa, sem hæfdi Guds Sendiboda. Manoah sagdi vid Hwsfreyu sijna, Dom. 13. Vid munum vissulega deya, þvi vid hofum sied O Rottinn. Hvad velldur þessu? Þviad Samvitskann, nær hun er skielfd og aangrud vegna Syndanna, þa gleimir hun Forþienustu Medalgaangarans, enn hugleidir Gud alleina, so sem straangann Doomara og Hegnara Raanglætisins: So meinti og Petur i þetta Sinn, ad Riettlaater einer mættu bwa med Christo, hinum ødrum væri hann einn fortærande Elldur, jafnvel þoott hann væri i Heiminn kominn til ad kalla Synduga, og ecki Riettlaata til Ydrunar. Þetta verkar nu Umþeinking Syndanna og Riettlætisins i Fyrstunni hia Guds Bornum; Og þoott ad i slijku sie Veikleiki nockur, þa þienar hann, so sem allt annad, þeim til Gooda sem Ottast Gud. Fyrer þvi, nær þu framkiemur i þinn Bæna-Stad, til ad þacka Gudi fyrir Velgiorder sijnar, edur ad bidia nockurs af honum, þa ber samann hans Haatign og þitt Volædi, hans Giædsku, og þijna Vondsku, hanns Riettlæti, og þijnar morgu Synder, hans Þolinmædi og þijna Þvermoodsku;

sku, hanns Almætti og þinn Vanmꜳtt, og mun brꜳdlega Felmtur yfir þig koma, ecki sijdur eñ þa Petur, og þitt Hiarta smellta i þier, so sem annad Vax, af Tilfiñingu Guds Reidi yfir Syndunum og Helvijtis Kvala, sem þær hafa unnid til, og nær þu þannig staddur ert ꜳ millum Vonar og Otta, þa muntu heyra med Petri, af Guds Alsu: Ottast ecki, jꜳ, vertu hughraustur Sonur, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar. O vor Gud! Nær hin kallda og bitra Daudans Stund oss ad Høndum ber, og Samvitskañ tekur ad ꜳklaga oss, Minning Syndanna ofbijdur oss, Diøfullinn hrellir oss, med þeirra Minningu, og giorir hvad mest wr þeim, enn lijtid wr þijns Sonar Verdskulldan, sem þo er øllu meiri, þa lꜳt þinn H. Anda mæla þesse føgru Ord i Hiarta voru, og bera vorum Anda Vitnisburd þar uñ, ad vier sieum Guds Børn. Bænheyr þad, himneski Fadir, fyrir JEsu blessada Forþienustu, Amen.

# Siøtta Sunnudag eptir Trinitatis.

Gudspiallid, Matth. 5. Cap.

J Þañ Tijma. JEsus sagde til siña Lærisveina: Eg sege ydur, nema svo sie, ad ydvart Riettlæti yfirgnæfi meir enn þad hiña Skriftlærdu og Phariseaña, þa munud þier eigi iñgꜳnga i Himnarijki. Þier hafid heyrt hvad sagt er til þeirra Gømlu: Eigi skalltu Mañ vega. Eñ hver hañ vegur Mañ, sa verdur Dooms sekur. Eñ eg sege ydur þad, hver hañ reidist Broodur sijnum, sa verdur Dooms sekur. Eñ hver sem ad segier til Broodur sijns, Raka, hañ verdur Rꜳds sekur. Eñ hver sem ad segier: Þu Afglape, hañ verdur sekur Helvijtis Ellds. Þar fyrir nær ed þu Offrar þijna Gꜳfu fyrir Altarinu, og þier kiemur þar til Hugar, þad þinn Brooder hafi nockud ꜳ mooti þier, þa lꜳttu þar þijna Gꜳfu fyrir Altarinu, og far ꜳdur ad sætta þig vid Broodur þiñ, og kom þa ad Offra þijna Gꜳfu. Vertu snarlega Samþyckur þijnum Mootstødu-Mañi, ꜳ medañ þu ert eñ ꜳ Vegi med hønum: So ad eigi selie þig þiñ Mootstødu-Madur Doomaranum, Doomariñ selie þig Þienaranum, og verdir so i Dyblissu kastadur. Sañlega sege eg þier: Ad eigi muntu þadañ wt fara, þꜳngad til þu hefur borgad hinn sijdarsta Pening.

## Exordium.

HJer villist, þar þier vitid ecki Ritningarnar, sagdi DRottinn vid Saducæos, Matth. 22. Med vidlijku Mooti ꜳvarpadi hann Pharisæos, Marc. 7. Þier Onijtid Guds Bodord, so ad þier halldid Setninga ydar: Og þad giorir hañ Satt, bædi i greindum Capitula Marci, og so hinum 23. Matthæi. Þad er hveriu

Ordi sannara, sem Paall skrifar, ad holldlegur Madur skynie ecke hvad Guds Andar er, og þad sie honum Heimska, 1. Cor. 2. Þad er lioost af Dæmi hinna Skriftlærdu, er kolludu sig ad hafa Lykil Vitskunnar, enn wtlogdu þo Ritninguna eptir sijnum egin Þootta Þad auglijser hinn stoori Biskup med þa Vellærdu Twnguna i þessa heilaga Dags Evangelio, þar hann sialfur wtleggur Logmalid langtum odruvijs enn Gydinganna Vitringar hielldu: Hver hanns Utskijring ad mestu Leiti er vidtekinn af flestum þeim er Christnir kallast, þo er þar i ein Grein, sem ecki kiemur ollum samann um, þad er þessi: VERtu SNARlega SAMþyckur ÞJJNum MOOtstodu-MAñi, a MEDann Þu Ert Enn a VEJgi Med HONum, So Ad Eigi Selie Þig þinn MOOTstodu-MADur DOOMaranum, Og DOOMArinn SElie Þig ÞJEnaranum, Og VErdir Þu So J DYblissu KAstadur. Ut af þessum Ordum DRottinns hafa Einþycker og Skinhelger Menn þad spunnid, ad ei leyfist christnum Monnum ad eigast Log vid fyrir sijnu Yfirvalldi, og, þvi verr, ad i Landi voru eru þeir, ed leggia þad wt a hinn versta Veg, ef nockur er Vandlætingasamur i þvi, ad sækia Guds og Konungsins Riett, ad forsvara Virdingu sijna og Fiaar-Hluti fyrir Asælni vondra Manna, ad styrkia Malefni Eckiunnar, og hinns Fodurlausa, og kalla, ad þad komi ecki einum vid, og jafnvel þoott ad Lograningurinn sie honum Vandabundinn, og nefna slijkt Oroa og Fridar-Spiller. Enn eg mun med faam Ordum sijna, ad ei sie þad Lausnarans Meining, ad banna christnum Monnum ad sækia Riett sin, og þar hia, ad vor Riettargaangur eigi ad vera aan alls Haturs og Reidi.

Þu rettlaati Fridarins Gud, gief oss Naad þijns Anda þar til, ad þetta Eyrindi vel luckast megi, fyrir JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingin.

Hott ad ecki væri adrar Roksemdir til þess, ad Lausnarin ei tali hier um Veralldlegan Riett, helldur um þad Riettlæti, sem fyrir Gudi gylldir, þa er sw noog, ad hann seger i Ondverdu Gudspiallinu: Nema Ad Ydar Riettlæti Yfirgnæfi Framar Eñ Hiña Skriftlærdu og Phariseaña, Þa Kuñid Þier ecki Jñ ad Gaanga i Guds Rijki. Vitañlegt er þad af Gudspialls Sogunum, ad ecki hofdust þesser Skynhelgu Meñ þaa Hluti ad, sem Veralldar Riettur kyñi ad fella þa fyrir; Eñ fyrir þvi, ad Guds Doomar eru ecki eins og Mañaña Doomar, þeir dæma eptir Sognum og Vitnum, eñ hañ ecki eptir þvi sem hañs Auga sier, edur hañs Eyra heyrir, helldur rannsakar hañ Hiortuñ og Nyrunn, Ps. 7. Fyrir þvi, sege eg, tekur Lausnarin til ad wtskijra hid Fimta Bodord fyrst, og sijnir, ad ecki einasta Mañdraap edur wtvortis Misþyrmingar sieu fyrir Gudi Saknæmar, helldur og Reidiñ i Hiartanu, og Ovirdingar Ord þau, er framkoma af Muñinum. Ef Meñ nu þetta fyrir satt hallda, sem eg hygg ad allir giora muni, sem þessa Ritningu vel rannsaka; Hver vill þa segia, ad Frelsarin meini i þessum Capitula fyrr edur sijdar, Veralldlegañ Riettar-Gaang? Ad þessu lijtur þad, er sijdar stendur i Gudspiallinu: Nær Þu Offrar Þijna Gaafu Fyrir Altarinu

renu, Og Pier Kiemur Þar Til Hugar, Þad Þiñ Brooder Hafi Nockud A Mooti Pier, Þa Lꜳttu Þar Þijna Gꜳfu Fyrer Altarenu, Og For Adur Ad Sætta Þig Vid Broodur Þinn, Og Kom Þa Ad Offra Þijna Gꜳfu. Segid mier: Hver ꜳ ad þyggia Offrid, Gud edur Sijslumadurenn? Hvada Doomare mun þꜳ meintur i þessum Ordum: Ad Ecke Ofurselie Hann Þig DOOmaranum? Eg meina Gud; þvi ꜳ Myskunseme hefur hann Þocknan, og ecke ꜳ Offre, Hos. 6. Enn Veralldar Hofdingiar, þvi verr, þeir hafa margur-hver Þocknan ꜳ Offre, enn ecke ꜳ Myskun, nær þeir taka Fie til ad riettlæta hiñ Rꜳngloꜳta, enn fordæma hiñ Saklausa ... allrar Vægdar og Myskunar. Og so sem þad DRottne ecke þocknadist Offur hiña Heimsku, Eccl. 5. odruvijse eñ so, hañ segier, Esa. 66. Ad hver hañ slꜳtrar Naute, þad er sem hañ slæ Mañ i Hel; Hver hañ loogar Saud, þad er sem hañ afhofdade eiñ Hund; Hver hann færer Foorn, so sem offrade hañ Svijns-Bloode; Sꜳ ed Reykelse breñer, so sem hañ giæfi þad Skurgode: So vill og Frelsareñ segia, ad oll Guds Þioonusta þess, sem er missꜳttur vid siñ Nꜳunga, þañ er hañ hefur afgiort vid, hun sie Audstygd fyrer Gude, ef hañ mꜳ añars Sꜳttum nꜳ, og þvi ꜳlyktar hañ med þessare Grein: Vert snarlega Sambyckur Þijnum Mootstodu Mañe, A Medañ Þu Ert Eñ A Veige Med Honum, So Ad Eige Selie Þig Þinn Mootstodu Madur DOOmaranum, etc. Ad Doomarenn sie Gud, allsheriar Konungur, þar er engenn Efi ꜳ; hañ eiñ ꜳ Valld ꜳ ad kasta þeim hann fordæmer, i þad Fꜳngelsed, hvadann ecke er Endurlausn, sem er Helvijte; Og ad þad sie hier meint, vottar Epterlijkingeñ um hiñ vonda Þioon, er ritud stendur, Matth. 18. Hann ꜳ og alleina Himnarijkis Valld. Fyrer hvers Riettlæti vier inngaungum i Guds Rijke, er alkunnigt; Ecke Phariseanna, ecke vort eiged, edur Heilagra Manna; helldur hañs, sem er Jehova vort Riettlæte, Christus, enn hanns Riettlæte mꜳ engeñ nꜳ fyrer utañ þad, ad hañ sie vid siñ Broodur sꜳttur i sijnu Hiarta, ad miñsta Koste, og vilie ofgiort hafa þad afgiort var. Nu er engeñ Heilvita Madur sꜳ, ad ef hañ hefur misgiort vid nockurn, ad hañ ecke helldur leite Sꜳtta til hanns, helldur eñ ad mæta fyrer Doomaranum, hver ed, auk Þegnsins Riettar, feller ꜳ hann Konungsins Sok, sierdeilis þar Konungarner hafa efterlꜳted slijkar Sꜳtter, nær Mꜳlum er so hꜳttad, ad ecke snerter Guds Æru, nie Tign þeirra. Nu hygg eg sw sie Meining DRotteñs i þessare Grein: Þad sem Framsijne þyker i Veralldlegum Mꜳlum, þvi skyllde þad ei þykia i Efni Sꜳluhiꜳlpar ydar? Frꜳ Veralldlegum Doome mꜳ komast ꜳ einhvern Hꜳtt; Einhver kañ ad gꜳnga i Borgun fyrer mig, mier kann Arfur til ad falla, so eg giete loked Skulld mijna; Viner og Nꜳungar gieta fridstillt miñ Mootstodu Mañ: Eñ frꜳ Guds Doomi engañvegiñ, nema eg verdi sꜳttur vid minn Mootstodu-Mañ, ꜳ medañ eg er eñ þa ꜳ Veige med honum, þad er, ꜳ medañ eg lifi, ꜳdur eñ eg kiem fyrer hiñ strꜳnga Allsheriar Doom, og verd i Myrkvastofu kastadur, hvadañ eg mun ecke utfara, þꜳngad til eg hefi borgad hiñ sijdarsta Pening; Þad er, alldrei, þvi ur Helvijte er engeñ Endurlausn. Þar fyrer er einsætt ad sættast vid Nꜳungañ

ungan medan Tijmen er, fierdeilis þar eg veit ecke hvad miked er epter Vegarens; Gud rædur mijnum sijdarsta Nætur-Stad, og ecke sialfur eg; Og hier af hygg eg þad audsært, ad ei tale Frelsaren i þessum Stad um Veralldlegan Riett. Veit eg ad DRottinn segier i þessum sama Capitula: Ef nockur vill vid þig Log þreita, og þijna Yfirhöfn af þier taka, lát hönum og þinn Kyrtil epter. Eg vil nu ei fá mier þad til Orda, ad marger Lærder Menn leggia þetta so wt: Vilie nockur kieppa vid þig um Yfirhöfn þijna, þad er, ad taka hana af þier med Ofbellde; Eg vil láta hitt standa, samt hefur þo DRottenn ecke i þessum Ordum Laga-Riettenn fyrerboded; Þad var ecke hans ad banna Mönnum Log og Riett, sem ad er Höfundur Riettar og Laga, hvers ad er Doomurenn, hver og er medal Doomaranna i Doomunum, ad Vitne Josaphats Konungs, 2. Chron. 19. Helldur þeirra, sem neita Mönnum riettra Laga, tradka Málum Manna med Flækium og Rangsleitne, spilla Loglegum Vitnum og Stefnum ad Raunarlausu, hveria DRottenn vill sijdann dæma.

Enn eg vil aftur taka til hinns Fyrra Máls, Engum bannar DRottenn i þessare Grein ad beidast Riettar sijns: Þad er alkunnugt, ad Frelsarenn talar i Ordskvidum og Epterlijkingum þrálega i Kienningum sijnum (Hann samlijker Christnena Vijn-Garde, Akre, Brwdkaupe; Þo er Christnen hverke Vijn-Gardur, Akur, nie Brwdkaup. Hann kallar Herodem Ref, munde hann þar fyrer Refur vera? Þá Johannem og Jacobum Þrumu-Syne, mundu þeir þa ecke vera Zebedæi Syner? Hann segier ad hægra sie Ulfalldanum ad ganga i giegnum Nálar-Augad, helldur enn Rijkum Manni inn i Himnarijke, Matth. 19. Nu er þad Omögulegt; Hvar munu þa Abraham, Isaac og Jacob vera? J þessum sama Capitula Matthæi segier hann: Ef þijn Hönd edur Footur hneixlar þig, þa snijd þau af, og snara þeim frá þier: Mun hann þa vilia ad Menn skule meida sig edur vana eins og Baals Prestar? Og ecke miklu helldur, ad þeir skule krossfesta sitt Holld, og deyda sijna Jardneska Limu, so sem Paulus ad Orde kiemst, Col. 3. Hann segier i sama Capitula: Ef nockur slær þig á þijna Hægre Kinn, þa snw ad hönum hinne Annare; Enn ef hann slær á hina Vinstre fyrst, þa hefur þu ecke adra vinstre Kynn ad biooda, segier Augustinus, og Lucas gietur hverke um hægre nie vinstre Kynn): Þvi meiga Menn ecke alltijd hanga i Ordum Ritningarennar, helldur leita ad Meiningunne, hver ad i þessum Ordum er engenn önnur enn sw, ad Menn ei skule hefna sialfer sijn, helldur lijda Oriettenn med Þolinmæde, og Hatурslaust; Þad vil eg satt giora med Frelsarans eigen Dæme, hver þegar hann var Kynn-Heste sleigenn, Joh. 18. Þa baud hann ecke hina adra Kynn, helldur ávalde med Hooværd þann er hann sloo; Ei helldur St. Páll, nær Presta-Höfdingenn baud ad slá hann fyrer Doome, helldur beitte hann Logum fyrer sig, og sagde: Gud straffe þig þu forsgagade Veggur, þu situr og dæmer mig epter Logunum, og bijdur ad slá mig á moote Logmálinu, P.G. 23. Sama vil eg nu segia um þad, ad láta þeim sinn Kyrtel epter, er vill þrátta vid nockurn um hans Yfirhöfn, þeirra Orda er engenn Meining önnur enn sw, ad minne Hyggiu, ad nær

Madur

Madur lijdur nockurn Oriett, skule hañ ecke hefua sijn sialfur, helldur skuli vera so Skapefarenn, ad hann sie bwen til ad þola añann stærre, Reide og Haturslaust, ef hañ nær ecke Riette hia Valldstioornenne, þviad af Sialfs-Hefndenne kiemur Tijdum stærre Olucka. Ellduren verdur ecke med Ellde slocktur, helldur med Vatne; So er þad engeñ Lækning Oriettarens, ad giallda Illu Illt, helldur ad leita Valldstiettareñar, hveria Gud hefur sett hinum froomu til Forsvars, eñ ranglaatum til Hegningar, enn þo Reidelaust, þvi Madur a ad smwa Vranganum i Hiartanu, og ecke a Hofdinu: Fyrer þvi bannar Frelsareñ i þessare Grein, ecke Loglegañ Riettargang, helldur eñ Paulus, þoott hann segie, 1. Cor. 6. Vogar nockur af ydur, sa ed a Sok vid einhvern, ad eiga Doom under ranglaatum, og ecke under heilogum? Ad sonnu er Brestur hia ydur, ad þier hafed Dooma medal ydar, þvi lijded þier ecke helldur Oriettenn, þvi take þier ei helldur Skada? Ecke bannar Paulus hier Riettar-Gangenn, helldur ad eiga Sok fyrer ranglaatum (so kallar hann Heidingia, enn Heilaga nefner hañ hier Christna Meñ, eins og vijdar), so vill hañ þa ecke allañ Riettar-Gang bannad hafa, helldur ad eiga Maal fyrer Heidingium; Hvar fyrer? So ad eingum giæfu þeir neina Hneyxlan, ad Pioonustugiorden ei lostud yrde, 2. Cor. 6. Og þeirra Hoogværd kuñug ollum Moñum, Phil. 4. Eñ Vitne til þess, ad hañ ecke villde hafa Riettar-Gangenn afmaadañ, er þad, ad hañ ei bañar ad eigast Log vid fyrer Christnum, og sijnest laata þad epter, ef vid þarf, þar hañ segier: Er engeñ sa a medal ydar sem Vited hefur, sa ed kunne ad dæma millum Brædra sinna? Og fyrer þvi, ad christner hofdu þa eckert Valld til ad dæma Opeñberlega uñ Veralldar-Maal, þa sijnist, ad hañ vilie ad þeir nefni Meñ af sialfum sier, til ad dæma Maal sijn, helldur enn ad bera þau under Vantrwada, edur þola Oriettiñ ella, helldur eñ ad giora Prætur sijnar auglioosar þeim, er hotudu Christeñdoomeñ, og logdu þeim allt til Lijta, er þa Trw og Pioonustu teked hofdu: Og so sem Frelsareñ segier hier i Gudspiallenu: Nema Ydar Riettlæte Yfirgnæfe Meir Enn Hinna Skriptlærdu Og Phariseaña, Pa Kuñid Pier Ecke Iñ Ad Ganga J Guds Rijke; So vill og Paall, ad hiner christnu skijna skule so sem Lioos a mille Rangsnwennar Heidingiaña Kynsloodar. Þesse same Guds Madur segier i odrum Stad: Laated ei sigrast af hinu Illa, helldur yfirvinned hid Illa med Goodu, Rom. 12. Enn hver vogar ad kalla Skipan hinns Almaattuga vonda? Edur er Valldstioorneñ ecke af Gude sett? Er hun nockud so sem annad Bijlæte innsett i Christs Kyrkiu, til Prijdis alleina? Laangt er fra þvi; Helldur til ad skipa Riettindum Maña. Fyrir þvi kalla eg þañ sigra hid Vonda med Goodu, sem nær Riette sijnum fyrer Loglegum Doome, enn þoler an Haturs og Moglunar, þoott af þvi bere. D Rotteñ segier i Logmaalenu, Exod. 21. Auga fyrer Auga, Toñ fyrer Toñ: þar fyrer hefur hañ þo ecke leist þeim er Augad miste, ad stijnga wt Augad a honum er stack, ecke helldur hefur hann teked Sverded af Doomaranum, þoott hañ banne þad Þegnenum. Eckert nijtt Logmaal hefur Christur sett i þessum Greinum, þvi Sialfs-Hefndenn er bonnud i Logmaalenu; sa sem fagdi

Doomaranum, Devt. 19. Þitt Auga skal ecke þyrma honum, Lijf fyrer Lijf, Auga fyrer Auga, Tonn fyrer Tonn, Hond fyrer Hond, Foot fyrer Foot: Hann hefur og sagt hverium einum þar fyrir utann, Lev. 19. Þu skallt ecke sækia epter Hefndinne, og ecke vera minnugur Oriettarins. Hann ed segier i greindum Capitula Devt. Um̃ hiñ falska Vott: Þier skulud aldeilis giora honum so sem hañ leitadest vid ad giora sijnum Brood ur: Hinn same hefur talad fyrir Munn Salomonis, Predik. 20. Þesse Ord, um̃ alla þa sem ecke hafa Guds Umbod i Doomara-Sæte: Þu skallt ecke segia; Eg skal endurgialda Illt, bijd epter DRottne, hann mun frelsa þig. Þessu er Pæll samþyckur, er hañ segier, Rom. 12. Þier eiged ecke ad hefna sialfir ydar, þvi skrifad er: Mijn er Hefnd inn, eg vil endurgiallda: Enn þegar Valldstiettenn hegner vondra Verka a þeim, sem giort hefur a annars Hlut, þa frelsar Gud hinn saklausa, þvi hun er hanns Þienare til Hegningar, þeim er Illt adhafast, Rom. 13. Hvervetna þar sem hinn stoore Allsheriar Doomare hefur Valldstioornenne Riettiñ i Hendur feinged, þar hefur hann med þad sama leyst sierhverium, sem vanhalldenn er, ad sækia Riett sinn fyrer henne, þvi hun ber ecke Sverded forgiefens, segier Paulus; Og Petur bijdur ad Menn sieu undergiefner Stioornendunum, so sem þeim af Konunginum eru sender, til Straffs hinum Glæpafullu, eñ til Lofs hinum sem gott adhafast, 1. Pet. 1. Mun nu ecke þessa vidþurfa, christner Meñ? Edur er Verollderin so Einlit, ad ecke finnest i henne bæde Svart og Hvijtt? so heilog, ad ei finnest bæde Vonder og Gooder? Þvi er einsætt fyrer þa sem Ranginden̄ þola, ad leita Forsvars hia Valldstiettinne; Edur munde ecke Paulus leita Lids i Logunum, þegar Lysias villde hafa refst honum? P. G. 22. Munde hann ecke skioota sier undir Keysarans Doom, þegar hann ottadest Ofbellde Gydinga? Eg þore framar ad tala: Þad er ecke Gude þægt, og gagnar ecki til hanns Dijrdar, ad Menn alltijd giefi Riett sinn epter; þvi þad giorer Ohlutvanda Menn oftast þess verre og ósvæfnare, so ad þad maa sijnast, ad saa efle Illsku þeirra, sem lætur Hlut sinn fyrer þeim, ef hann maa naa honum med Logum og Riette: Saa sem vill taka fraa mier Æru mijna og gott Mannord, mun þad Gude a moote, ad eg forsvare mig Loglega fyrer A-austre hanns? Hann lijgur uppaa mig Lijtum og Skömum, sem eg aldeilis ecke er valldur af; Mun mier ei leifilegt ad bera Hond fyrer Hofud mier, þar so astendur? Einhver ræner mig Fiaar-Hlutum mijnum, Odolum og Arfa-Gotzi, edur odru þvi, sem eg er vel adkomenn, og þad añadhvert med Ofrijke, edur Yfirvarpe Laga og Riettinda, so eg lijd Skort a Forsorgun minne, og þeirra sem mier eru Vandabundnir, Konu, Barna og Hiwa, hefi ecke þad eg meige Fatækum giefa, og biarga Naudstöddum med, enn hann brwkar Fe mitt til Ohoofs og Ofmetnadar, þvi so giora þeir oftast er laata Þienara sijna stockva yfir hvern Þroskulld, til ad fylla Hws DRottna sinna med Raane og Svikum, Zoph. 1. Mun Gud bañа mier ad veria mitt med Logum a moote slijkum Ofstopa? fiærri sie þvi: Añars hefde hañ ecke gyrdt i krijngum Frelse mitt, og Eigur mijnar med Laganna Mwr. Ecki sie eg ad Ritningeñ legge þad Nabot til Lijta, þoott hañ neitade Achab um̃ siñ Vijngard

gard; Enn sa giorir hid sama, sem ver sig med riettum Logum. Gud hefur bodid mier, ad eg skuli elska minn Naunga sem sialfann mig, enn ecki framar. Oskandi være, ad Menn giætu þad vel halldid! Þad heyrir Gudi einum til, ad elska hann framar ollum Hlutum, og jafnvel Lijfinu, þad a og ad giora vid Brædurnar, segir Johañes, hanns vegna, 1. Pist. 3. Enn sw Elska er i þvi foolginn, ad hialpa honum og forsvara fyrir Omilldum Moñum, eñ ecki i þvi, ad lata Skalkinn ræna sig og Fefletta, ef eg ma Laganna niota; Þad er eingu betra, eñ ad forsma Guds Gafur, er hañ veitir mier til Uppihelldis, eñ eg vil þad ecki nijta: Eg veit og, ad eg er skylldugur ad styrkia Maal Eckiuñar og hiñs Fodurlausa, mun eg þa ei meiga ganga i Riett fyrir þau, kuñi þeim þar med hoolpid ad vera, ef mier þad Loginn leifa?

Af ollu þessu hygg eg nu audsært vera, ad þad ecki einasta er leifilegt, helldur og gott Verk a Stundum, ad leita Laga og Riettar, a mooti Arasum vondra Manna: Eñ þad a ad skie med allri Hoogværd, an Haturs og Reidi, svo sem adur er sagt; Þvi hann sem Riettinn sett hefur, hañ hefur og sagt; Elskid Ovini ydar, Matth. 5. Og nær þad ecki sijdur til Riettargangsins, helldur enn til hvers añars Vidskiptis vors, og Umgeingnis i Heiminum. Sa sem elskar Ovin siñ, hañ elskar sialfann sig, þvi undir eins og hañ fyrirgiefur sijnum Broodur hañs Misgiorder, þa auglijser hann sig þar med ad vera Barn sijns Fodur, sem a Himnum er; Hañ tekur undir eins Aflat og Kvittun af Gudi fyrer sijnar eiginn Synder, ef hann giorer þad af Hiarta, Marc. 11. Drottinn hefur ecki bannad sialfann Hlutinn, helldur ranga Atferd Hlutarins, þad er, ad brwka Riettinn til ad hefna sijn, eñ ecki, til ad na Rietti sijnum: Ad bera Fe i Dooma, ad wtvega folsk Vitni, ad brwka Laga-Krooka, og adskiliannlega Rangs-Leitni, ad erta upp illt Skap med Briglum og Skwt-Yrdum, jafnvel i riettu Maali, til þess, ad sa meiri Hefnd yfir sijnum Mootstodu-Mañi, enn hann i fyrstu hafdi tilunnid; Allt soddann er af hinum Vonda, þad hefur Gud og alldrei leift i neinum Riettar-Gangi ad brwka, helldur streingilega bannad, eñ allra hellst ad hatast vid siñ Mootstodu-Mañ, og sa þad giorir, hañ verdur eins sekur fyrir Gudi, so sem hiñn, þoott alldrei eigi hann so gott Maal; Og hvad hefi eg þa gott af þvi, ad eg spilli Mykun Guds yfir mier, til ad hatast vid hann, er vid mig afgiordi, þvi Gud kann ad mykuna honum, ef hañ ydrast, eñ eg a eingrar Vægdar Von, so leingi sem eg el Hatur til hanns. Drottinn segir og ad sonnu hier i Gudspiallinu, ad sa sem hefur giort a annars Hlut, hann skuli sættast vid Broodur sinn, adur hann offrar Gafu sijna; Eñ um hinn sem misgiort er vid, segir hañ med alijka Mooti, Marc. 11. Og þegar þier standid bwnir til ad bidiast fyrir (þad er ad offra Gudi Bæn siñi) þa tilgiefid, ef þier hafid nockud a mooti einhverium, so ad ydar Fader, sem a Himnum er, forlati ydur ydar Misgiorder; Skyllda eg þa bera Hatur til hanns, sem eg a Maal-Stad vid, þoott alldrei ætti eg um so sart ad binda! Þad væri Ærs Manns Ædi, og ecki þess, sem Heilvita er i sijnum Christinndoomi, þar eg a daglega ad bidia þessa Bæn: Fyrirgief Oss Vorar Skullder, Svo Sem

Vier

Vier Fyrirgiefum Vorum Skulldunautum, og veit, ad eg ecki fæ Kvittun Synda minna, ꜳ medann eg høndla ecki Reidilaust vid minn Nꜳunga, hvert þad er i Riettar-Gꜳngi, edur utann Riettar-Gꜳngs: Þad er vijst, ad vor besti Riettur er eingiñ Riettur fyrir Gudi, ef hann vill dæma eptir sijnu Riettlæti; So seger Job, Cap. 9. Eg veit vel, ad eingiñ Manneskia kann Riettlꜳt ad standast fyrir Gudi; Og þvi skyllda eg þa hata Ovin minn, fyrst hañ hefur skipad mier ad elska hann, sem ꜳ so mikil Rꜳd ꜳ mier, ad hañ gietur fordæmt mig, nær hann vill. Þess er og ad giæta, ad ecki hlaupe Menn til Doomarans uñ hvern Hiegooma; Þad kieñir Agyrni og Orooa, ad vilia þrꜳtta uñ Smꜳmuni, og sæmir ecki þeim, sem vill lꜳta sig Hugprwdañ kalla, auk-helldur Riett-christnum Mañi, hverium ad byriar ad vera liwfum ꜳ ad sættast, jafnvel med nockrum Skada sijnum, helldur eñ ad draga siñ Moot-Part fyrir Doomarañ, honum til meire Skada, og Hneisu þeirrar, er hiñ hefur ecki Gagn af, þoott ei hafi Meñ alltijd halldinn Hlut, sierdeilis ef ad kieppa er uñ þꜳ Hluti, sem Lijfs-Næringu ei vidvijkia, hveria Paulus sijnist ei vilia hafa undir Doom Heidingiaña, 1. Cor. 6. Einkum þar Frelsariñ hefur bañad oss ad syrgia fyrir heñi, Luc. 21. og brwkar þad sama Ord i þeim Stad, sem Postuliñ hier, og þvi ꜳminnir hañ alla christna Meñ med þessum Ordum, Col. 3. Iklædist, so sem Utvalldir Guds, Heilagir og Elskañlegir, Hiartgrooinni Myskunsemi, Lijtillætinu, Hoogværdiñi, Poliñmædinni, Umberande hver annann, og fyrergiefande hver ødrum, ef nockur hefur ꜳ mooti einhverium Akiæru; So sem Christur hefur ydur fyrirgiefid, so giørid og þier. Gud giefi øllum sijnum Børnum þetta Hiartalag ad stunda, og þvi fast ad hallda, þar til vier komum fyrir hinn stoora Allsheriar-Doom, hvar vorir stærstu Oviner, Synd, Daude, Diøfull og Helvijte skulu oss eckert Mein giøra, auk helldur nockur Veralldar-Makt; Þvi hver vill færa Kiæru-Mꜳl i giegn Utvølldum Guds? Þar Gud er sꜳ sem Riettlætir, Christur er sꜳ sem Dꜳinn er, jꜳ, enn framar, Upprisenn, hver og er ꜳ hægri Hønd Gudi, hver og er Medalgꜳngare fyrir oss, Rom. 8. Þessa Hlutskiptis unn þu oss ad niioota eilijfe Konungur Dijrdarinnar, fyrer hanns Forþienustu, sem er alls Hollds Doomare, JEsus Christus, Amen.

# Siøunda Suñudag eptir Trinitatis.

Gudspialled, Marc. 8. Cap.

A Þeim Døgum. Þa þar var eñ margt Foolk komid samañ, og hafdi ecki til Matar, kalladi JEsus sijna Lærisveina til sijn, og sagdi til þeirra; Mig aumkar yfer Foolkid, þviad i Þriꜳ Daga hafa þeir hiꜳ mier verid, og eckert til Matar haft. Og ef eg læt þa fastandi heim til siin fara, þa vanmegnast þeir a Leidiñi: Þviad sumir voru lꜳngt ad komnir. Og hañs Lærisveinar svøradu hønum: Hvadañ fꜳum vier þau Braud, hier ꜳ

a Eydimorku, so ad vier faum þar mettad? Og hañ spurdi þa ad: Hversu morg Braud hafid þier? Þeir sogdu honum, Sio. Og hann skipadi Foolkinu nidur ad setiast a Jordina: Og took þau Sio Braudin, þackadi, braut, og fieck siinum Lærisveinum, ad þeir legdu þau fram. Og þeir logdu þau fram fyrir Foolkid. Þeir hofdu og faeina Smaa-Fiska, og þa hina somu blessadi hañ, og baud fram ad leggia. Enn þeir neyttu og urdu metter. Og þeir tooku upp þad yfir var, Sio Karfer med Afgangs Leyfar. Enn þeir, sem neytt hofdu, voru nær Fioorar Þusunder, og hann liet þa i burt fara.

## Exordium.

MAdurinn mun ecki lifa af einusamann Braude, helldur af sierhveriu Orde, sem framgeingur af Guds Munne, sagde Moyses vid Jsrael Fordum, Devt. 8. Þessum somu Ordum kastadi Frelsarinn Andskotanum i Naser, þegar hann freistadi hañs, til ad giora Steina ad Braudum, Matth. 4. Þau eru og sonn, so sem aller adrer Guds Vitnisburder; Þvi þad maa ei Lijf kalla, sem er aan Guds Orda, jafnvel þoott einn hafi Holld og Hamsa, og lijti noogu Sællega wt. Christi Ord eru Lijf og Andi, og aan þeirra er Madurin, eins og Paall seger um Eckiuna, þa i Gyrndum lifer, hañ er lifandi daudur, þo hefur Gud giefid Manninum Fæduna, so sem annad Medal, til ad lifa af, þar fyrer stendur hier: Ecki Af Einusamann Braude. Vitañlegt er þad, ad Gudi er ecki um Megn ad hallda Lijkomum vorum vid aan Matar og Dryckiar; Þad siina oss Dæmi Moysis, Dæmi Eliæ, Lausnarans, er fostudu i heila 40. Daga, og maa siinast, ad þeir Moyses og Elias hafi verid DRottinns Fyrirmyndan i þessu: Og þvi skylldi hann ei kunna ad ala Mannenn aan Fædslunnar, sem ad i Eydimorku saddi 5000. Mañs med Fim Bygg-Braudum og Tveim Fiskum, Joh. 6. Og i þessa Dags H. Evangelio heyrum vier, ad hanns mikla Almættis Hond mettar 4000. med eins litlum Kosti. Ut af þvi Fyrsta Krapta-Verkinu hefi eg nockud aadur talad i þessari Book, um þad, hvernig vier i Guds Otta eigum ad leita Næringar vorrar, hvad eg Oska ad finni goodann Stad i Hiortum þeirra sem þad lesa edur heyra! Enn nu vil eg wt af þessu H. Gudspialle alleina þar um tala, hvad oss eigi ad styrkia i Trwnni til ad treysta Gudi, og varpa allri vorri Ahyggiu uppaa hann, nær oss vantar þessarar Veralldar Muni. Hialpa oss til þessa, DRottinn minn, fyrir þitt dijra Nafn og Sonarins Forþienustu, AMEN.

## Utleggingenn.

ÞAd er Graatlegt til ad vita, hversu ad Naattura Mannsins eptir Spillinguna er baag til ad treysta Gudi, þegar þad er ecki fyrir Augunum sem eta skal. Moyses sloo a Klettiñ i Horeb, og þar flaut Vatn wt af, so ad allur Jsrael drack, Exod.

17. Enn er Gud baud honum i Eydimorku Zin ad giora hid sama i annad Sinn, þa efadist hañ og sloo Tvisvar a Biargid, 4.M.B. 20. Hann sa daglega, ad Gud fæddi þa med Manna af Himnum ofann; Eñ er Foolkid mogladi, og beiddi uñ Kiot, enn hañ bar þad fyrir Gud, sem hiet ad giefa þeim Kiot ad eta allt til Leidinda, þa var þo ecki Trwiñ sterkari hia sialfum Moyse, eñ so, ad hañ sagdi, 4.M.B. 11. Þetta Foolk er Sex Hundrud Þusund Mañs, og þu seger: Eg skal giefa þeim Kiot, so þeir eti i heilann Maanud. Læri sveinarnir hofdu sied þad mikla Krapta-Verk, er JEsus hafdi giort skomu adur enn þesse Jardteikn skiedi, nærri þvi i þessum sama Stad, er hann sadde 5000. Mañs med Fim Bygg-Braudum og Tveim Fiskum, Joh. 6. Þa taldi Philippus Tormerki a Spurningu DRottinns, og sagde: Braud fyrer 200. Peninga næger þeim ecki. Enn hier foor ecki betur, nema midur væri. Hvadann Faaum Vier Þau Braud Hier A Eyde-Morku, Ad Vier Faaum Þaa Mettad? Og epter þad þeir hofdu sied bædi þesi Krapta-Verk, og morg onnur fleiri, þa ætludu þeir hañ mundi Brauds Þurfe vera, er þann took þeim Vara fyrir Swr-Degi Herodis og Pharisæanna a Skipinu, so sem lesa maa i þessum sama 8. Cap. Marci; Af hverium og raada maa, ad þad hafi skied strax eptir þessa dijrdlegu Jardteikn. Gud betri! Ad þad hendir oss a Stundum christna Menn, sem Lausnarinn segir uñ Heidingiana, Matth. 6. Hvad eigum vier ad eta? Eda hvad eigum vier ad drecka? Edur hveriu eigum vier ad klædast? Enn þar til verdur ei betur svarad, enn sialfur hann svarad hefur; Er ecki Lijfid meir enn Fædslann, og Lijkaminn meir enn Klædnadurinn? Seig þu mier, Guds Barn! Skoop hann þig ecki daasamlega i Moodur-Lijfi? Gaf hann þier ecki Saal og Lijkama? Endurleysti hann þig ecki med sijns Sonar dijra Bloodi? Hefur hann ecki Endurgietid þig daudañ i Syndunum? Hefur hann ecki foostrad þig med sijnu H. Ordi? Hefur hann ecki alid þig a sijns Sonar Holldi og Bloodi? Helldur hañ ecki ollu þessu vid Makt enn nu daasamlega, og undrunarsamlega a Stundum? Eg vil taka til þess sem dijrast og daasamlegast er. Hafi hañ giefid oss Soninn, þvi mun hañ þa ecki giefa oss alla Hluti med honum? Og ef hann giefur oss alla Hluti, þa giefur hañ oss eirnig Forsorgun Lijkamaña. Hafi hañ alid Oñ fyrir oss, bædi i Moodur-Lijfi, og allt upp þadañ, i andlegañ og lijkamlegañ Maata, mun hañ þa Onijta sitt eigid Verk? Nema ad Mañeskiañ giordi Guds Almætti vanmaattugt a sier med Trwarleysuñi; Eins og Lærisveinarner, er þeir gaatu ecki læknad hiñ Twngl-Siwka. Þu seger: Eg fiñ opt Brest a Atvinnu minni: Hwngur og Dijrtijd meiga Meñ Stundum þola, hvad velldur þvi? Spyr Ezechiel ad; Hañ mun svara þier Ordum DRottiñs: Ef eitt Land syndgar mig og a mooti mier, þa vil eg wtrietta mijna Hond yfir þad sama, og i burtsvipta Brauds Nogtunum, og eg vil senda þaangad Hallæri, og upprickia þar iñi bædi Moñum og Fenade, Ezech. 14. Mun þad nockud raska Sañsogle DRottiñs, þoott Meñ giori sig hanns Orlætis Overduga? Þegar ad allra Handa Lester og Klæker, Guds Ords Forogtun, Vanbrwkun hanns Hvildar-Dags, Ranglæte, Meinsæri, Lygar, Þioof-

Pioosnadur, Agyrne, Drambseme, Ofbellde, Agg, Reide, Præta, Svik og Underferle, og añad þessulijkt: Þegar allt þetta geingur Fiollunum hærra i Landenu, er þa ad furda, þott hann apturlyke sinne milldu Hend ꝏ Stundum? Eda segier ecke Paulus: Ad fyrer þess hꝏttar Glæpe kome Guds Reide yfir Born Vantrwarennar, Col. 3. Hver vill þa skyllda hañ til, ad hañ skule Nꝏdugur vera? Leitum þvi DRottens ꝏ medann hañ er ad finna, kollum ꝏ hann ꝏ medann hañ er nꝏlægur: Sꝏ hiñ Ogudlege lꝏte af sijnum Veige, og Illvirkeñ af siñe Huxan, og snwe sier til DRottens, þa mun hañ myskuna honum, og til Guds vors, þviad i hiꝏ honum er mikil Fyrergiefning, Esa. 55. Eg skal endurgiallda ydur þau Areñ, sem Gras-Hoppañ, Kꝏl-Ormureñ, Tre-Madkureñ og Gras-Madkureñ hafa frꝏ ydur teked, segier DRotteñ, Joel. 2. O minn Gud! Hver hefur þier nockurn Tijma giefed? Hver hefur þier lꝏnad, þad þu skyllder honum endurgiallda? Þad meigum vier jꝏta i þessu fꝏtæka Lande, ad hafe Gud einhveriu Siñe straffad Synder vorar med Oꝏran nockurre, þa hefur hañs Millde oss þad endurgollded med mikille Ar-Giædsku, bæde til Sioos og Lands. Eñ hvad filger ꝏ epter hiꝏ Spꝏmañenum i sama Capitula? Nær þier eted ꝏnægiañlega, og erud mett-er, þa munud þier losa Nafn DRotteñs Guds ydar. Eñ sꝏum til, hvert Fader Myskunsemdaña mune ecke hafa funded Skort ꝏ þessu hiꝏ morgum af oss, og hvert þad mune ecke miklu helldur eiga heima hiꝏ sumum, er stendur hiꝏ Hoseam, Cap. 13, Under eins og þeir metter urdu, þa er Hiarta þeirra upphafed, og hafa gleymt mier?

Einhver vill segia: Eg finn ecke þessa Glæpe hiꝏ mier: Eg Ottast Gud og elska, so sem mier er mogulegt, og giore honum Þacker, samt mꝏ eg og mijner þola Hungur og Þorsta, Kullda og Klædleyse. Heyr mier um̃ Stund, Barn mitt. Muntu vera sꝏ einaste af Guds Bornum, sem hann leggur þvilijkt uppꝏ? Mꝏttu ecke þeir Abraham, Isaac og Jacob verda Land-Flootta fyrer Hungurs-Saker? Gen. 12. 26. og 46. Mꝏtte ecke Elias fasta i 40. Daga? 1. Kong. 19. Hvad margt segiest Pꝏll hafa mꝏtt Illt þola fyrer Evangelium? Enn þetta mꝏttu þeir lijda til þess, ad þeir vissu, hvad þeir væru, sem er, syndugar Manneskiur; Hvar þeir væru, þad er i Heimenum, i Utlegdenne, og ecke i Fodur-Landenu; Hverneñ þeir vera skylldu, sem er, stoduger i Trwnne, þolennmooder i Hormungenne, og glader i Vonenne: Sama giorer hañ vid þig, þvi ecke er hiꝏ honum Mañgreinar Alit, P. G. 10. Þykest þu nu betre enn so, ad þier sie fullgott ad hafa lijkañ Kost med þessum Guds Koppum, þvi ꝏngrar sig þa Sꝏla þijn, og þvi er hun Orooleg i þier? Vona þu ꝏ DRottenn, þvi þu munt eñ nu prijsa hañ, Ps. 42. Edur villtu ecke helldur hafa Þvijngan med Guds Foolke, eins og Moyses, helldur enn lifa i allskins Sælu med Heimenum, og fyrerfarast med honum? Hversu betra er þier, ad þu gyrnest ad sediast af Molum þeim, er detta af Bordum hiñs Rijka hier i Heimenum, eñ ad þig lꝏnge epter einum Vatns-Dropa af Fijngre Lazari i Helvijte og Kvolunum? Og hvad veitstu, hversu leinge DRotteñ vill lꝏta þenna þinn Skort vara? Hañ er einn stoor Konungur, ecke er hann leingur Rijkañ eñ Fꝏtækann

ad giora. Jacob foor med einn Staf wt af sijns Fodurs-Hwse, Gen. 32. Eñ hvad mikenn Fiollda Nauta og Sauda, Geita, Asna, Præla og Ambaatta kom hann heim aptur med! Dæme þessa Foolks maa furdannlegt þykia nu aa þessare Kolldu og Vantrwudu Olld; Þeir fylgdu Christo epter aa Eydemorku, til ad heyra Kienningar hanns, jafnvel Heidingiar af Tyro og Sidon, og eckert tooku þeir med sier ad neita, so sem sia maa af Evangelio. Einhver mun segia, ad þeir hafe ei bwest vid so langre Dvol aa Eydemorkunne; Þo sañst engenn sem aptur snere, so Menn vite, og ad vijsu voru hier 4000. Mañs, sem neyttu; Þad maa sijnast, ad DRottens Ord hafe so vel smackast þeim i Hiartanu, ad þeir hafe ei funded til Hwngurs i Maganum, og valla gietur þad odruvijse vered, enn ad þeir hafe treyst þvi, ad JEsus munde aa einhvern Haatt sia þeim Farborda; Þar til hefur ann Efa hiaalpad hid fyrra Krapta-Verked, sem enn þa hefur ollum i fersku Minne vered; Eñ i þvi gietur Johannes ecke um Tijmaleingdena; Hier af kalla eg þad satt, er David segier, Ps. 32. Augu DRottens lijta til þeirra, sem hañ elska og vona aa hañs Giædsku: Og þo fiñast þeir, æ þvi verr! aa medal christeña Maña, sem vidlijkt eru lynder og Hofuds-Madurenn i Samaria, er sagde: Þo ad DRottenn giore Glugga aa Himeneñ, þa kann þetta ecke ad skie, 2. Kong. 7. Annars mundu Meñ bijda epter DRottne, enn ecke hlaupa til ad ræna, stela, liwga, svijkia, hrissa Brauded wt af Naungans Munne, og brwka adskiliannlega Rangsleitne i Kaupum og Solum, og annare Vidhondlan.

Mig Aumkar Yfir Foolked, segier DRotteñ: Þvi J Þriaa Daga Hafa Þeir Hiaa Mier Vered, Og Ecke Til Matar Haft. Margur fastar skiemur, aadur hañ verdur Oþoleñmoodur. Mig Aumkar Yfir Foolked, segier hin eilijfa Giædska: hañs Myskunar Ydur komust vid i honum, so sem i Hofud-Sprokenu stendur, so hañ hlaut þeim Naudugur ad vera: Þad segier ecke hier, ad þeir hafe kvartad um Hwngur, hañ visse vel, ad þeir hofdu þessa Þorf: Eñ segied mier nu, Born mijn; Munu Ydur hañs Myskunar umbreitt vera? Mun hin rijka Orlætis Hond stutt vordeñ? Fiærre sie þvi, samr er Gud og hañ hefur vered; Eñ ef vier vilium somu Medaumkunar nioota, þa lærum Tveñt hier af: Eitt af Foolkenu, añad af Lausnaranum. Af Foolkenu, ad heyra Guds Ord liwflega, meta þad ollu tijmañlegu framar, og ad treysta Gude, og þacka honum midt i Skortenum og Orbyrgdeñe. Af Frelsaranum, ad sia Aumur aa hinum Volada og Naudþurftuga; Ad brioota Hwngrudum vort Braud; ecke af Fordilld, edur ad wtvega oss Nafn þar med, so sem Hræsnarar, þeir ed giora Olmusur sijnar fyrer Moñum, helldur af Trwñe, af Christelegre Medaumkan, af Elskuñe til Guds og Naungans. Breyte nu nockur þañveg, ad hañ heyrer Guds Ord, og vardveiter þau, treyster Gude i ollum sijnum Vandrædum, og leitar Næringar siñar i Guds Otta, þa vil eg þad segia, ad fyrr munu Englarner færa honum Braud af Himnum ofañ, fyrr munu Hrafnarner bera honum Fædslu, fyrr munu Steinar ad Braudum verda, og Fiskarner flytia honum Gull og Silfur i Muñenum, Jaa, Christur maa fyrr afneita sialfum sier, hvad Paulus kallar O

mogu

mogulegt, helldur enn ad hann læte Saal hinns riettlæta Hwngur þola, Ordsk. 10. Nema hann vilie reyna hann þar med, og síæ honum þad fyrer einhveriu Goodu verda. Minn Matur og Dryckur er, ad giora hanns Vilia, er mig sende, sagde Frelsarenn, Joh. 4. enn ef þad er hanns Vilie, ad þu lijder umm Hrijd Skort aa Næringu þinne, þa vert eins lyndur og þinn Lausnare var, og ætla þig ecke yfirgiefinn, þoott þu meiger ad Guds Vilia nockud Illt lijda, er vier so køllum; Enn þad er alldrei Illt, sem Gott af sier giefur. Ecke verda Vijn-Berenn samannlesenn af Þyrnunum, edur Fijkiurnar af Þistlunum, Luc. 6. Giæt ad Dæmum Heilagra. Hversu saarlega klagar Job i sijnum Mann-Raunum, er hann segier, Job. 30. Þu ert ordenn hardwdigur aa moote mier, epter Styrkleika Handar þinnar brwkar þu grimt Hatur i giegn mier. Munde Gud þar fyrer hafa yfirgiefed hann? Fiærre var þvi. Hinn Fertugaste og Fyrste Capitule somu Bookar, hann ber þar umm lioosast Vitne, og sialfur Guds Madur jaatar Veikleika sinn og Faavitsku i þvi, ad þeckia Guds Raad, nær hann endurvitkadest, og kom til sialfs sijns aptur, med þessum Ordum, Job. 42. Eg auglijse, ad eg skyllda þad ecke, þad var furdanlega hætt fyrer ofann mig, so eg gat ecke þeckt þad, þvi ydrar mig i Molld og Osku. Eins var David lyndur, þvi segier hann, Ps. 77. Mun DRottenn þa eilijflega burtkasta, og einga Naad framar audsyna? Enn nockru þar epter vegsamar hann Gud med Fagnade, segiande: Ps. 103. Hann hefur frelsad mitt Lijf wt af Fordiorfunenne, og mig med Naad og Myskunseme koronad. Þvi skyllde eingenn orvænta umm Guds Vinaattu, þoott ei leike allt i Lynde, þar vier siaum hier, ad hanns bestu Viner hafa mætt þvilijkt reina. Edur meined þier, Christner Menn, ad Faderenn hafe minna elskad sinn Son, þegar hann hroopade aa Krossenum: Gud minn, Gud minn, þvi hefur þu yfirgiefed mig; helldur enn þegar Christur stood aa Jordanar Bockum, og Roddenn af Himne sagde: Þesse er minn elskulegur Sonur i hverium mier velþocknast? Matth. 3. Nei, Brædur mijner, þa hafde hann i honum hvad mesta Velþocknan sijna, er hann aa Gaalganum hieck, þvi fyrer hanns Dauda erum vier vid Gud forlijkter, segier Paulus, Rom. 5. Fyrer hanns saaru Kvøl og bitrann Dauda, hefur hann elskad oss i sijnum elskulega, Eph. 1. Gud hafde Velþocknan aa sijnum Syne fraa Upphafe Vega sinna, og i øllum Christo, fraa hinu fyrsta Augnablike Gietnadarens fyrer Einingu Guddooms og Manndooms; Enn fyrer Christi Dauda aa øllum þeim, sem aa hanns Nafn trwa, hverium hann hefur og Makt giefed Guds Bornum ad verda, segier Joh. Cap. 1. Og fyrst hann hefur nu þannig yfirgiefed hann umm Stundarsaker, enn sijdann aptur med Dijrd og Heidre koronad; Vilied þier þa læta ydur þad undra, þoott hann breite med sama Hætte vid ydur, sem i honum, og þo fyrer hann erud Arfleidder til eilijfs Lijfs? Nei, Christner Menn, ecki þoott ad Mootlæted og Skorturenn ætte ad vara alla Æfe vora: Þvi hun er so lijted ad reikna hiaa Eilijfdenne, og þad vier lijdum hier ad Guds Vilia, þad verdur oss endurgollded med Omælannlegrar Dijrdar eilijfre Þijngd, 2. Cor. 4. Mootlætingar þessara Tijma eru ei verdar þeirrar Vegsemdar, sem vid oss mun framkoma i eilijfu Lijfe. Þad

er vijst, ad hinn Náduge Gud spenner alldrei sijn Børn fyrer sijns Sonar Ok, nema til þess, ad þau drage þad a þa Leid, sem til Himnarijkis liggur; þess meiga og øll hanns Børn fullorugg vera, ad añadhvert burt=tekur hann Mootlæted, edur linar þvi, edur giefur oss Krapta til ad bera þad, þvi hann er trwr, og freistar einkis yfir Megn fram, 1. Cor. 10. Segied mier; Er hann þa Amælis verdur fyrer þad, ad hann snijr eilijfre Fyrerdæmingu i tijmannlegañ Krossburd, til ad afreka oss eilijfa Glede? Einn Fader sender Son sinn i eitt framande Land; Ein Mooder lætur Barn sitt i Skoola, til ad lijda Illt, so þad verde ad Manne; Munu þau þar fyrer hafa gleimt þeim? Kann nockud Mooturenn ad gleyma Barne sijnu, Avexte sijns Kvidar? Og þo hun gleyme, þa skal eg samt þier ecke gleyma, segier Afgrunn Myskunarennar, hia Esajam, Cap. 49. Gull=Smidureñ kastar Malmenum i Elldeñ, so hann hreinsadur verde, og giører þar af sijdann hinar kostulegustu Gersemar; So breyter Gud vid sijn Børn: Hañ situr og bræder, og Silfred hreinsar, og hrein giører Børn Levi, Mal. 3. Þad er hinn andlega Kieñemañskap, so ad Reynsla Trwar vorrar mikilu dijrmætare fundeñ verde Gullsins Reynslu, hvert ed forgeingur, og verdur þo med Elldenum reint, til Lofs og Dijrdar og Heidurs, nær JEsus Christus opennberast, 1. Pet. 1. Þetta er nu so talad til Huggunar þeim, er lijda Skort a Atviñu sinne, og meina sig þar fyrer vera af Gude yfergiefna, vegna Synda siña og Overdugleika. Eñ þar eru nockrer, sem ecke eru anægder þar med, ad þeir hafa þad þeir skulu eta og drecka, og þad þeir meiga klædast med, hvad þo Paulus bijdur christnum Manne, ad hann skule lata sier nægia, 1. Tim. 6. Vid þessa vil eg fatt eitt talad hafa.

Þad er satt sem hinn vijse Syrach skrifar i 11. Cap. Ad Audlegd og Fatækt kome af DRottne; Ef þau koma af Gude, hver vill þa segia vid hann, hvad giører þu? Segier nockud Leyr=Kiered til Smidsins, þvi giørder þu mig so? Rom. 9. Vill nockur efast um Vitsku hanns, ad hann ei skyne, hvad hanns Børnum er hagleagast, edur klaga yfir hanns Riettsyne, þad hann giøre einum Oriett? Visse Gud þad, ad þier gagnade Rijkdoomurenn betur eñ Fatæktenn, þa munde hann þig audugann giørt hafa. Rañsaka Skap þitt, hvert þu munder hæfare vera til Guds Rijkis, þoott þu hefder meira eñ daglegt Braud? Gud giørde vel, ad hañ gaf ecke Ægum Uxa Horn, segier i Ords=hættenum; Margur munde brwka Audenn til Ofmetnadar, Ofrijkis, Ohoofs, til ad hefna sijn, og briota adra under sig, ef hann rijkur være, sem ad lætur hægt, af þvi hañ er Fatækur. Eñ þoott ad Gud giefi Audeñ vondum Moñum a Stundum, hvad kiemur þad vid þig? Fylg þu Christo epter, hver, þoott hann rijkur være, giørdest hañ Fatækur, 2. Cor. 8. Villtu viña þad til Audsins, ad vera so sem einn af þeim? Visse Gud ad þier Audur gagnade, segie eg enn aptur, munde hann ecke giefa þier hañ, sem hefur glefed þier þad sem er langtum betra? Einn Nadugur Gud, good Samvitska, heilvita Saal, Otte DRotteñs med þvi Hugarfare, sem lætur sier sijna Lucku nægia, er þad ecke noogu stoor Audlegd? Adrer ottast fyrer þvi, ad þeir kuñe ad missa Fiar=Hlute sijna

na; Eñ kynni nockur þessar Guds Gꜳfur af mier ad taka, þa villda eg fyrst grꜳta, þa villda eg bera mig hørmulega, þvi ꜳ medann eg þad hefi, þa hefi eg allt, og nær eg misse þad, þa misse eg allt, jafnvel i Allsnægtum, þvi seger David, Ps. 34. Hina Rijku brast, og þeir sulltu, enn þꜳ sem ad DRottni leita mun eckert Gott vanta. Lꜳte Gud mig ecki eta hvern Dag skynandi Krꜳser, þa er eg þo Osolltinn, og uni betur vid daglega Fædu, helldur enn Sælkierinn vid hanns wtvølldu Rietti. Skorturinn giørir mier ꜳ Stundum Matinn sætann, eg þarf ecki ad kaupa hann dijrt; Enn Fylliñ giører hønum þad leidt, sem hann kostadi til dijrum Doomum. Vefie Gud mig ecki i Pell og Purpura, þa er mier eins heitt i minni Klæda-Vod, so sem hinum i sijnu Skarlate. Fꜳtæktinn hefur stoort Fyrirheit i Guds Ordi; Er sꜳ ecki noogu rijkur, sem hefur Gud fyrir Fiꜳrhallds-Mann? Enn hvad seger David, Ps. 9. Hann er Forsvar hiña Fꜳtæku, Forsvar i Neydinni, hann gleymir ecki Hroopi hinns Fꜳtæka. Hvad segir hann, enn þa aptur? Hañ mun frelsa hinn Fꜳtæka nær hañ kallar, og hinn Auma, þann er eingañ Hiꜳlpar-Mann hefur, Ps. 72. Og so seger siꜳlfur DRottenn, Ps. 132. Eg vil blessa Fædslu þeirra, og þeirra Fꜳtækum ꜳnægiannlegt Braud giefa. Gud giæfi, ad Menn villdu skilia, hvad mikill Skattur ad er ein Ærleg Fꜳtækt, þeim sem una vel vid þann Kost, er DRottinn lætur þeim hlotnast; Hun varnar vid mørgum Synnduin, Drambseni, Ohoofi, Siꜳlfhælni, Reidi, Ofrijki, og siꜳlfri Agyrndinni, þvi alldrei verdur hinn Rijki saddur, sꜳ ed fest hefur Hiarta sitt vid Audinn, vid Bwkforg og Ahyggiu, sem draga Mañinn frꜳ Gudi i Snørur Diøfulsins, og þyngia Hiarta hanns med Ottanum ad missa Eigur sijnar, þvi sꜳ griet alldrei fyrir Gull, sem ecki ꜳtti þad; Hun giørir Reikningskapinn audvelldari fyrir hinum ædsta og strꜳnga Doomara, þvi jafnvel þoott ad øllum verdi hann noogu Torvelldur, þa ecki þeim þo sijdst, sem hafa gleimt Gudi og Nꜳunganum i Velmakt sinni, enn sett Gull-Hnøttinn fyrir sitt Athvarf. O þu eilijfi Gud, Dijrdarinnar Konungur! Hiꜳlpa oss ꜳ þeirri straungu Tijd, lꜳt oss ei þyngia Hiarta vort med Sorgum þessarar Næringar; Metta oss med þeim Molum, er detta af þijnu Hꜳ-Bordi, dryckia oss med Sætleik eptirkomandi Alldar, so ad ei vanmegnunst vier ꜳ Veginum til Fødur-Landsins, og nær vier erum ad Þrotum komnir, og tøkum hin sijdurstu Andvorp, þa dreip þu ꜳ vora Ormædda Saal med þvi Vatninu, eptir hvert eingann mun þyrsta ad eilijfu. Bænheyr þad, nꜳduge Fader, fyrer Lausnarans JEsu Christi Skulld,

AMEN.

# Attunda Sunnudag eptir Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 7. Cap.

I Þañ Tijma. JEsus sagde til siña Lærisveina: Vakted ydur fyrir Fals-Spamoñum, siñ koma til ydar i Sauda-Klædum, enn hid Iñra eru þeir glepsandi Vargar. Ut af þeirra Avoxtum meged þier þeckia þa. Verda nockud Vijn-Beriñ samañlesiñ af Þyrnunum, eda Fijkiurnar af Þistlunum? So ber og hvert gott Trie goodañ Avoxt, eñ hvert rotid Trie vondann Avoxt. Gott Trie gietur ecki bært vondañ Avoxt, og ei helldur gietur rotid Trie bært goodann Avoxt. Og hvert þad Trie, sem ecki giorir goodañ Avoxt, skal upphoggvast og i Elld kastast. Þar fyrer megid þier wt af þeirra Avoxtum þeckia þa. Þeir munu ei aller, sem til mijn segia: DRottiñ, DRottiñ! Iñganga i Guds Rijki, helldur þeir sem giora Vilia mijns Fodur, þess a Himnum er. Marger munu til mijn segia a þeim Dege: HErra, HErra! Hofum vier ecki spad i þijnu Nafni, hofum vier ecki i þijnu Nafni Diofla wtrekid, og giordum i þijnu Nafni morg Krapta-Verk? Og eg mun þa jata þeim, ad alldrei þeckta eg ydur: Farid fra mier aller Illgiorda-Meñ.

## Exordium.

Spamadur nefnist i H. Ritningu, ecki einasta sa, sem ad Oordna Hluti fyrirseger, helldur og sierhver eiñ, sa ed kieñir riettann Lærdoom: So sagde Gud vid Abimelech um Abraham: Hann skal bidia fyrir þier, þvi hann er Spamadur, Gen. 20. Sa er spaer, hann talar fyrer Monnunum til Uppbyggingar, til Aminningar og Huggunar, seger Paulus, 1. Cor. 14. Þeirra Apar voru Fals-Spamennirnir, hveria Frelsarinn bijdur ad Menn varast skuli hier i Gudspiallinu, þvi þeir komi i Sauda-Klædum, enn hid innra sieu þeir glepsandi Vargar; Og er enginn Efe a þvi, ad Skriftlærder og Phariseæi hafa ad nockru Leiti att Sneid þessa, enn þo ecki ad ollu, þvi ecki voru þeir af Christi Sauda Hwse, helldur meinar og DRottinn hier med þa, er sijdar uppkomu, og spilltu Kienningu Guds i Christinndoominum, þa nefnir Paulus falska Brædur, 2. Cor. 11. Og til Galat. Cap. 2. talar hann um heimuglega innsmogna falska Brædur, sem ad villdu reyna Frelse þad, er þeir Trwudu hofdu i JEsu Christo, so ad þeir hnepptu þa i Þrældoom. Soddann Illgresi sadi Fiandmadurinn nidur medal Hveitisins i Christi Akri fram eptir Olldunum, so sem af Christinndooms Sogunum liooft er, og saer enn nu vijda i Heiminum; Enn þar fyrir maum vier alldrei Gudi fullþackad, ad vier vitum ecki so af slijku ad segia, Engenn er sa, ad leitest vid ad spilla riettri Trw i Lande voru; Þad er stoor Velgiorningur DRottinns, ad hann hefur unnt oss ad verka Sealuhialp vora i Einfalldleika vors Hiarta, þvi vil eg ecki hier um framar tala i þetta Sinn, helldur take

mier

mier fyrer Hendur, ad wtskijra þa Grein af Evangelio, sem øllum ætti Hugfost ad vera, sem er þesse: ÞEir Munu Ecke Allir, Sem Til mijn Segia, HErra, HErra, Inngꜳnga J Guds Rijki, Helldur Þeir, Sem Giøra Vilia Mijns Fødur, Þess A Himnum Er: Og af henni Tvennt Hugleida. 1. Hvad þad merki ad kalla, HErra, HErra. 2. Hvad þad sie ad giøra Guds Vilia.

Styrk oss hier til, minn Gud, fyrer JEsum Christum, med Nꜳd Heilags Anda, AMEN.

## Utleggingenn.

ÞAd er ꜳgiætt, sem ad Bernhardus Lærifadir segir i einum Stad: Christnir hafa af Christo Nafn feinged; Þad væri mikils verdt, ad so sem þeir eru Erfingiar Nafnsins, so væru þeir og Heilagleikans. Einginn Nafnboot er fegri, einginn stærri, enn ad heita Christiñ, ef nockur ber hana riettilega. Christiñ og Heilagur var sama Nafn, ꜳ medann Christinndoomuriñ var eñ þa i Blooma sijnum; Heilsid øllum Heiløgum, seger Paulus, þad er, øllum Christnum: Enn ef eingenn Renta fylgir þessu veglega Nafni, þa er sꜳ ecki heilagri sem þad ber, helldur enn Vijnid edur Vidsmiørid, edur einhver Matur, vard heilagur, af þvi i Gamla Testamentinu, þoott ad einhver snerti þad, sa ed bar helgad Kiøt i Kiool-Lafi sijnu, Hagg. 2. Sꜳ sem ecki hefur Christi Anda, seger Paulus, hann er ecki hanns, Rom. 8. Hver ed prijder sig med hinu fagra Christinndooms Nafni, enn lifir þo ecki christilegu Lijferni, hann er lijkur Eik þeirri, er hefur græn Blød og frijd, enn Avexti einga; Þvi seger Lausnarinn i Gudspiallinu: Af Þeirra Avøxtum Skulud Þier Þeckia Þꜳ. Og so sem DRottinn formællti Trienu, þvi er eingar voru Fijkiur ꜳ, og ecki nema Bløðinn toom, Matth. 21. So vill hañ og til hinna segia, er Rꜳnglætid æfa, ꜳ hinum Effta Degi: Alldrei þeckta eg ydur, so sem hier stendur i Gudspiallinu. Þeir Munu Ecki Allir Sem Til Mijn Segia, HErra, HErra, Inngꜳnga i Guds Rijki, seger DRottinn. Þegar ad Ritningin tvijtekur eitt Ord, þa vill hun lꜳta skiliast eitthvad merkilegt þar med. Þeir segia: HErra, HErra! So eru þeir ꜳkafer i hinni wtvortis Þioonustu. Ecki vantade Gud nie hanns Christ fagra Titla hiꜳ Gydingum; Þeir nefndu Fødur hañs siñ Gud, enn þecktu hann þo ecki, þeir kølludu DRottinn Rabbi, edur Meistara siñ, eñ sooktu þo eptir ad lijflꜳta hañ, þeir tijdkudu lꜳngar Bænir i Samkundunum, og ꜳ Gatna-Mootum, eñ undir Hylmingu þeirra wtsugu þeir Hws Ecknа og Fødurlausra, Matth. 23. Þad verdur varla med Ordum sagt, hversu ad Hræsniñ giørir alla Guds Þioonkan Onijta i hañs Augliti; Þeir føstudu Tvisvar i Viku, og gꜳfu Tijunder af øllu þvi þeir ꜳttu, enn lietu þad Ogiørt, sem þijngra var i Løgmꜳlinu, Doomiñ, Myskunsemi og Trwna, Matth. 23. Þad olli þvi, ad so sem þeir afmyndudu Asiꜳner sijnar, nær þeir føstudu, til þess, ad lꜳta siꜳ, ad þeir væru fastande; So afmyndadi Hræsninn þeirra bestu Verk fyrir Gudi, so ad Frelsarinn segir: Ad þeir hafi sijn Laun i burtu tekid, Matth. 6. Þad er, ad þeir Hlutir, er i siꜳlfum sier goodir voru, og høfdu

mier lijkar Andvirded, enn Brooder edur Systir eru Naudstodd, so þau gieta ecki ean hanns verid, og eg brwka Neyd þeirra Voru minni til Gylldis, þa er þad stor Synd, og eingu betri enn þad, sem ædur er upptalid, þvi þad heitir ad selia einum Þorf sijna; Enn hvernig kann hañ ad giøra Hlutinn betri edur dijrmætari i sialfum sier, helldur enn hann væri þar fyrer utann? Kann nockud Hwngur Naungans ad giora þiñ Mat betri, og ef ecki betri, þa ecki helldur dijrmætari, edur hanns Berleiki, þad Fat, er þu selur honum, kostulegra? Þetta er nockurskonar Hæglætis Ofrijki, og Ulfur undir Saudar-Giæru: Þvi hvert eg svijk Fe wt af einhverium, sem ecki mæ ræna mig þvi sem honum æliggur, edur og ræni hann Fe sijnu, þvi er eg hefi eingann Riett til, þad er allur hinn sami Oriettur i Guds Auglite. J þessum Flocki vada þeir, ed kaupa upp alla Voru, þa sem hinn Fatæki mæ ecki æn vera, nær þeir hafa noog i Hondunum, enn selia hana so dijrt aptur, sem sialfer vilia þeir, nær Naudinn þreinger: Og þo eru hinir hvad verster, sem hafa æ Bodæangi gyrnilega Hlute, og þo aldeilis Oþarfa, enn læta þæ so dijrt, sem Agyrndiñ bijdur, nær Dæarinn sparar ecki fyrir ad giefa, til þess ad slockva Gyrndina uñ Stundar-Saker, enn svelltur sijdañ. Þetta er ad selia einum Synd sijna, sem er hiñ versti Kaupmañ Kapur; Þetta er ein Andskotans Svipa, af morgum Streingium, morgum Syndum fliettud, þvi fyrst kaupir hañ þesshættar Voru til ad leggia Tæl-Beitu fyrir hiñ Heimska, sijdañ flettir hann Fe sijnu, og eptir æ hædir ad honum, enn prijsar sialfann sig og Kiænsku sijna, og þad er ecki ollu betra enn Bileams Ræd, hver ed liet Jsraels Sonu glæpast æ Mooabitanna Konum, 4. M. B. 31. Allir Heilvita Meñ, sem þetta lesa edur heyra, þeir munu nærri gieta, hvar uñ eg tala, og er allt ofmargt af þessu Illþijdi i Landi voru. Þetta er nu so talad uñ hann ed selur, enn þott ad Kaupandi og Seliande sieu nærri þvi hid sama, þar einginn selur nema hañ kaupe, og einginn kaupir nema hiñ selie, þa giora Menn þo Mismun þann i daglegu Mæli, ad sæ heitir Seliande, er hefur Voru til Kaups, enn hiñ Kaupande, er ad honum kauper, og þvi hefur hann og nockurs ad giæta. Einhver kañ æ Stundum ad selia þad hañ ecki veit hvad kostar, og er þeim þa vant, sem ad honum kaupir, ad ecki æsfælist hañ siñ Naunga i sinni Hondlan; Jæ i Sañleika, giefi hann minna fyrer Hlutinn, eñ ad hañ verdur er, þæ er hañ eins sekur i Guds Auglite, so sem hinn, er seldi þeim ofdijrt nockurn Hlut, er ei veit hvad hañ kaupir. Eiñ neydist til ad selia Eigu sijna fyrer Hwngurs Saker, edur einhvern Atviñu Brest, so hañ gietur ecki bedid eptir þeirri Tijd, sem hann kuñi ad sæ Lijfs-Næringu med odru Mooti. Fæi hañ ecki Jofnud af þeim er kaupir, þæ giorir Kaupmaduriñ stoora Synd, og er eins sekur og hinn, er selur odrum Þorf sijna: Bægter allt þvilijkt upp ad telia i stuttu Mæl; Eñ giæti Meñ þess, er DRottiñ sagdi Fordum: Hvad hier vilied ad Mennerner giore ydur, þad sama giorid þeim einnig, Luc. 6. So og þess Syrach skrifar, Cap. 27. Eins og Fleigurinn kleñist æ millum Mwr-Steina, so þreingist Syndinn æ millum Kaups og Sals. Fyrir þvi er þeim einsætt, er giort hafa slijka Hondlan ad Handverki, kannskie leingur eñ skiemur sumer-

hver-

hverier, þeim er einsætt, segie eg, ad rannsaka nockud Atferd sijna i þessu, og ef þeir finna Ranglæte hia sier, ad bæta þad med sañri Ydran, eñ hun er alldrei af Alvöru, nema Meñ giefe þad aptur, sem ranglega var teked; Hvar uñ eg hefe nockud talad i nærst fyrerfarande Predikun, og vil þad ecke hier aptur Itreka; Alleina vil eg rannsaka Tvennslags Afsakaner, sem Menn plaga ad giora sialfum sier i þvilijkum Tilfellum.

Ein er su, ad nockrir lataſt giefa Olmusur af þessu rangfeingna Gotze, og þurfi þvi ecke aptur ad leggia; Eñ giæt þess, ad þad sem Fatækum er giefid, þad kallast Gude lanad, eñ Gud vill ecke Þioofs-Nautur vera, þad sem hønum er gefed, ma velfenged vera, ef þad a honum ad lijka: þvi er þad riett er Syrach skrifar, Cap. 34. Sa sem fær er Foorn af Eigu hiñs Fatæka, þad er so sem hañ slatre Synenum i Augsijn Fodursins: Braud hiñs Þurftuga er Lijf hins Fatæka: Sa ed svijkur hañ, sa er Bloodgijrugur. Olympias, Mooder hiñs Stoora Alexandri, hun helgade Af-Gude sijnum þad Sverd, er Madur hennar Philippus Konungur var drepenn med. Alexander Phereus giorde hid sama vid Lensuna, med hverre hann vo Fodur-Broodur siñ Polyphronem, og somu Atferd hafde Keysarenn Antonius Caracalla, er hañ lijfliet Broodur sinn Getam. Aller Meñ kalla þetta illa giort; Eñ ecke mun vera so stoor Munur a þessum Odada-Verkum i Guds Auglite, og hinu, ad svijkia Naungans Braud wt af hanns Muñe i Kaupum og Solum, enn lataſt giefa Gude þar af aptur, edur hañs Vesælingum, so miked sem þeim sialfum lijkar. Þad geingur nærst þvi, ad kasta Bloods-Verdenu inn i Kyrkiuna med Juda; Enn þo vil eg segia þad sem eg hefe adur sagt, ad ef Madur fær ecke aptur skilad þeim sama, er nockur hefur Oriett tilgiort, þa er ecke annad Raad, enn ad giefa so mikid Fatækum, sem einn meinar sig, epter smasmuglegt Rannsak Samvitsku sinnar, ad hafa med Oriette teked. Nylieſt og engeñ vid þad, ad Syndenn verdur ecke tilgiefenn, nema aptur sie gollded hid rangfeingna; Þvi so segier O Rottenn fyrer Munn Ezechiels, Cap. 33. Ef hinn Ogudlege giefur Panteñ aptur, og lætur Raned af Hende, og geingur epter Lijfsins Bodorde, og giører ekkert Oriettvijst, þa skal hann lifa og ecke deya: Med þessum Skilmalum hefur Gud Syndaranum Væ᷎zdenne heited, enn annars ecke. Hier uñ hefur Augustinus Læresader vel talad i einum Stad: Ef ad annars Fie (af hveriu Syndenn kiemur) kann aptur ad gialldast, enn verdur þo ecke gollded, þa er þad ecke sonn Ydran, helldur Læte heimar; Syndenn verdur ecke fyrergiefenn, ef ei er aptur fært þad burt var teked.

Onnur er þeirra Afsøtun er segia, ad ei meige þeir aptur lata, þad þeir med Raungu teked hafa, sokum Ovirdingar þeirrar, er af þvi fylger, og ad Fiar-Hluter sieu miña verder, eñ gott Mañ-Ord: Eñ þesse er og so nærsta Ogylld. Fyrst er þad, ad slijkt verdur alldrei af nockrum Ærlegum nie Gudhræddum Mañe misvyrdt, enn Doom hiña Oradvøndu ma sa ad litlu hafa, sem ætlar sier Guds Barn ad verda; Hann ma segia med Paale: Þad er mier fyrer minnstu, ad eg af ydur dæmdur verde, edur af Mannlegum Deige, O Rottenn er sa sem dæmer mig, 1. Cor. 4. Þar ad auke, eru so margir

Veiger til ad bæta þeim er Ráangindenn lided hafa, so ei verde þad Heyrum kunnugt: Og hvernig sem þessu er vared, þa er betra ad missa Virdingu sijna hier i Tijmanum, helldur enn Eilijflega. Þegar D. Rotteñ rak wt Seliendur og Kaupendur wr Musterenu i Fyrra Siñe, Joh. 2. Þa giorde hann Svipur af Streingium, er hann brwkade til þessa Vandlætis: Hann vantar enn nu ecke Svipur til ad reka wt þa, er med soddañ Hætte kaupa og selia i hañs Kyrkiu a medal vor: Þar er Svipa Logmaalsins, er segier: Þu skallt ecke stela; A henne er einn Hnwtur rideñ med þessum Hætte: Bolvadur sie sa ed ecke helldur allt þad i Logmaalenu ritad stendur, Devt. 27. Þar er ein Svipa jafnvel i Evangelio, er slær med þessu Hogge: Giored Ydran, þvi Guds Rijke er nalægt, hvert þad Trie sem ecke ber goodañ Avøxt, skal upphoggvast og i Elld kastast, Matth. 3. Þar er hin skarpa Svipa hañs Hegningar, sem er tilbweñ þeim ed eria a Hrygg hinns Vesæla og Naudstadda, og eta Ranglætesins Braud i hanns Sveita. Eg segie enn þa aptur, D. Rotteñ rak wt wr Musterinu þa er selldu og keyptu: Þad var Stundlegt Vandlæte, margur af þeim somu mun sijdañ hafa a hann trwad sier til Myskunar; Eñ ad vera wtrekeñ wr þeirre Himnesku Jerusalem, þad er eitt Straff ollu þijngra, þad er eilijf Smaan, og Obætannlegur Skade; Fra hverium oss og alla Christna Menn vardveite hinn goode Gud fyrer Sonarens Forþienustu, og giefi oss so ad rækia þetta Jardneska, ad vier ecke afrækium þad Himneska, helldur stundum epter hinu gooda Hlutskiftenu, sem engeñ ma af oss taka; Þess giefi oss niootande ad verda hinn myskunsame Gud, fyrer JEsum Christum, Amen.

# Ellefta Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 18. Cap.

A Þeim Dogum. JEsus sagde til nockra þeirra sem treystu uppa sialfa sig, lijka sem mundu þeir Riettlatir vera og forsmadu adra, þessa Eftirlijking: Tveir Meñ geingu upp i Mustered ad bidiast fyrer, eiñ var Pharisæus, eñ añar Tollheimtu Madur. Pharisæariñ stood og badst nu þañeñ fyrer med sialfum sier: Gud, eg þacka þier, þad eg em eige so sem adrer Meñ, Ræningiar, Oriettvijser, Hoordooms-Meñ, eda so sem þesse Tollheimtu-Madur. Eg fasta Tvisvar i Viku, og eg gief Tijunder af ollu þvi eg a. Og Tollheimtu-Madureñ stood laangt i burtu fra, og villde ecke upplypta sijnum Augum til Himins, helldur barde hañ sier a Briooſt, og sagde: Gud vertu mier Syndugum Lijknsamur. Sañlega, segie eg ydur: Þesse foor Riettlatur framar hinum i sitt Hws. Þviad hver sa sem sig sialfañ Upphefur, hañ skal Nidurlægiast; Og hver sem sig sialfañ Nidurlæger, hañ mun Upphafiñ verda.

Exordium

## Exordium.

INgeñ Hlutur er so Vidurstyggelegur i Guds Auglite, so sem Dramblatt Hiarta, og engeñ so þægur honum, so sem Audmiwkur Ande. Dramblatum hratt hann af Stoole, enn upphoof Lijtelata, segier Guds Mooder i Lof-Kvædinu, Luc. 1. Gude alleina tilheyrer Tignenn, hann hefur sinn Stool a Himnum settann, enn Jordenn er hanns Foot-Skor, þar situr hann uppi, og sier a þad Laga, Jehova er hanns Heite, og sijna Dijrd vill hann engum giefa, Esa. 42. Allt hvad Vyrduglegt er, hvad Gott er, hvad Aglætt er, hvad Prijdelegt er, hvad Heilagt er, þad kiemur allt fra honum: Enn vilie nockur tileinka sialfum sier nockud af þessu, so sem sialfum sier, þad er, sem villde hann ræna Gud sijnu, þad er riett ad stela Helgum Doomum, og þad er Afguda-Dijrkan; Þvi valla veit eg hvert þad er meire Synd i Guds Auglyte, ad falla frañ fyrer Trie-Stobbanum, helldur eñ ad gisra sialfann sig ad Gude, og segia med Pharao: Hver er Jehova, þad eg skule Ottast hann? Exod. 5. Edur med hinum blindu Judum: Gude skeitum vier ecke, og hvad villde oss Konungur eñ giora? Menn hallda sumer, ad þad hafe vered Svijvirding Foreydslunnar, sem DRottenñ talar um, Matth. 24. Ad Bijlæte hinns Romverska Keysara hafe sett vered inn i Jerusalems Mustere; Enn þad er Svijvirding Foreydsluñar, riett kollud, þegar Madureñ setur sitt eiged Bijlæte inn i Guds Kyrkiu, sem ætte ad vera hanns Hiarta, eins og Phariseus þesse: Soddann Manne er Glotunenn bweñ, nema hann audmyke sig bradlega under vollduga Guds Hond, þvi Gud mootstendur Dramblatum, og þarf sa ecke ad vænta sier annars verra, sem hefur Konung Himnanna fyrer Ovin. DRotteñ talade Efterlijkingu þessa, segier Lucas, Til Nockurra Þeirra, Er Treystu a Sialfa Sig, Enn Forsmadu Adra: So sem eckert er Vidurstyggelegra i Guds Auglite, eñ Hofmoodureñ, so er honum valla nockurt þægra, enn Audmiwkur Ande; Þad sijna oss Dæme Ephraims, Dæme Manassis, og ecke sijdst Davids Konungs, allvijda i hanns Psalma Book. Eg jatade DRottne Synd mijna, og þa fyrergafstu mier þad, segier hann, Ps. 32. Og enn aptur: DRotteñ vardveiter Lijtelmagnana, eg audmykte mig, og þa vard eg frelsadur: Og þad sijner oss Dæme Tollheimtu-Mannsins, hvern Lausnareñ sijnist frañsetia hier i Efterlijkingunne, ollum Sorgbitnum Afbrota-Monnum til Huggunar. Vilium vier þvi Tvennt af Gudspiallenu hugleida.
1. Einn Skijnhelgann Hræsnara. 2. Einn Ydrande Syndara.
Styrk oss hier til, DRottenn miñ, i JEsu Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

INngangur til þessa Maals hia Gudspialla-Manneñum, er þañveg. Eñ hann Talade Til Nockurra, Er Treystu Uppa Sialfa Sig, Ad Þeir Væru Riettlater, Eñ Forsmadu Adra, Þessa Efterlijking. An alls Efa eru hier med Phariseri meinter, þar fyrer setur DRotteñ eiñ Phariseum i Efterlijkinguñe, so sem Dæme

eins Siálfbyrgings, er ei þyrfte miked af Gude ad þyggia; Þess vegna eru þeir i Grein þessare med sijnum eigen Lit afmaalader: Þeir villdu vera frááskillder ødrum Moñum; Þad sijner þeirra Nafn, Pharisæus, þad merker Adgreindañ edur Frááskileñ. J morgu var þetta soolged, sem ecke er naudsynlegt hier upp ad telia, enn þo var þad hellsta, ad þeir þoottust ødrum Heilagre; Þad dylur ecke þesse þeirra Brooder, er hann segier: Eg Þacka Þier Gud, Ad Eg Em Ecke Eins Og Adrer MEñ! Þvi kolludu þeir Almwgañ Jardareñar Foolk, eñ sialfer þoottust þeir Himnesker vera, og Borgar-Menn Heilagra, so sem Paulus nefner christna Menn. Edur hvad var þad þeir sogdu i Raadenu Fordum, þegar Nicodemus villde hafa mælt Frelsaranum Lids-Yrde? Joh. 7. Trwer nockur af Hofdingiunum aa hann, edur af Phariseis? Enn þetta Foolk, sem ecke veit Logmaaled, þad er bolvad. Þeir villdu ecke Samneyte eiga med Tollheimtu-Moñum og Syndurum, þvi lostudu þeir Frelsarann, ad hann giorde so, Matth. 9. Jaa, Þeir meintu ad þeir saurguduft, er snertu þaa. So sagde Hræsnareñ Simon Fordum, þegar hin Bersynduga sat græætande vid Fætur DRottenns, Luc. 7. Ef þesse være Spaa-Madur, þa munde hañ vita, hver og hvijlijk ad þesse være, er hañ snerter, þvi hun er syndug. Um þvilijka Drambseme, þvilijka Skinhelge, talar Esajas under soddañ Maña Persoonu, Cap. 65. Kom ecke nærre mier, og snert mig ecke, þvi eg em þier Heilagre. O minn JEsu! Er ecke þetta ad giora sig Gude lijkann, nærre hverium eckert saurugt maa koma? Ecke breitter þu so, DRottenn miñ, þegar þu aatst og drackst med Tollheimtu-Mønnum og syndugum i Hwse Matthæi, Matth. 9. Þegar þu giorder hann jafnvel ad þijnum Læresveine, þegar þu mælteft ad Fyrrabragde til Dag-Verdar af Zachæo, þegar aller Tollheimtu-Meñ og Bersynduger flycktust ad þier, til ad heyra þig, og þu maatter lijda Brixl Phariseaña þar fyrer, Luc. 15. Þu varst Guds Mynd, sem er eiñ fortærande Elldr, Devt. 4. þo hiellstu þad ei fyrer Raan, ad þu Gude jafn varst, helldr lijtelæckader sialfañ þig, tookst aa þig Þræls Mynd, vordeñ Moñum lijkur, Philipp. 2.

Tveir MEñ geingu Upp i MUsterid Ad Bidiast Fyrer, Eiñ var Pharisæus, Enn Annar Tollheimtu-Madur. Vier vilium fyrst hugleida Phariseærans Bæn (Af þvi hañ þootteft vera Madureñ meire), og hvad hañ talde sier til gylldis fyrer Gude. Hann Stood Ut Af Fyrer Sig: Þess var og oll Von, ad hañ munde vilia ødrum fraasneiddur vera i þessu, sem ollu ødru. Hvernig badst hañ þa fyrer? Eg Þacka Þier Gud, Ad Eg Em Ecke Eins Og Adrer MEnn. Hvilijkur var hañ þa? Ad vijsu betre morgum ødrum i wtvortis Lijfernis Haattum; Enn hid Jnnra morgum verre i Guds Auglite: Þad sanna eg med Ordum Frelsarans, er hañ sagde, Matth. 21. Tollheimtu-Meñ og Skiækiur munu fyrr iñgaanga i Guds Rijke enn þier, þvi Johannes kom til ydar med Veg Riettlætesins, og þier trwdud honum ecke, eñ Tollheimtu-Meñ og Skiækiur trwdu honum. Þetta er Dagsanna, þvi Tollheimtu-Moñum sagde Johañes, Luc. 3. er þeir komu til hañs Skijrnar: Taked eckert framar enn þad sem boded er; Enn vid Phariseos sagde hañ: Þier Nodru-Kyn, hver hefur synt ydur ad umflija tilkomande Reide?

di? Fyrir þvi, Giorid verduga Avoxtu Ydraniñi, Matth. 3. Eñ þad giordu fæster af þeim. So var Hug-Þoottinn rijkur i Giedi þeirra! Hvad er nu framar? Hañ segest ecki vera eins og Ræningiar: Ecki talar Frelsarinn um̃ einn, helldur enn annañ i þessu Maali, helldur er einn settur til Dæmis fyrir marga, so sem i hverri annari Eptirlijkingu; Munu þvi aller hafa aatt Oskiled Maal af þessum Flocke. Enn þvad er þad þa, sem Frelsarinn seger, Matth. 23. Ad þeir utsiugi Hws Eckna og Fodurlausra, under Hylmingu laangra Bæna? Er þad ecki hid versta Raan? Hvad er þad hann aptur seger: Ad hid Iñra sie hiaa þeim allt fullt af Raani og Ohoofi? Verda maa ad sumer af þeim hafi ei verid so miog sekir i þessu, enn faaer af þeim munu hafa skyrrst vid ad segia Naudstoddum Forelldrum: Þad er Corban, edur Gaafa, sem eg kynni ad hiaalpa þier med, Marc. 7. Eins og ad honum, sem eingum vill segia til, ef hann hungrar, hafi þægari verid Gaafa þeirra, helldur enn Hlijdni hanns Bodords, ad heidra Fodur og Moodur. Hann segest ecki vera eins og Oriettvijser; Þad kann ad vera: Enn hversu Riettvijser voru þeir, þa er þeir fordæmdu Guds Son allir, aflijfudu Hertoga Dijrdariñar, þegar þeir grijttu Stephanum i Hel, P.G. 7. og villdu Paal hafa af Dogum raadid? Ecki segist hann vera eins og Hoordooms-Menn. Verda maa ad hann hafi i Verknadinum Saklaus verid; Eñ mun hañ alldrei hafa litid eina Konu til ad gyrnast hana? Matth. 5. Edur hvad var þad, ad þeir skom̃udust sijn, og geingu i burtu, þegar DRottenn afleysti Hoor-konuna i Musterinu, og sagdi vid þaa: Hver ydar sem er aan Syndar, hañ kasti fyrstur Steini aa hana, Joh. 8. Þesse Oflaatungur sagdist ecki vera so sem Tollheimtu Madur þesse: Þad er satt, þvi miklu var hañ verri ad Doomi sialfs Guds Sonar, sem sijdar mun sagt verda: Tollheimtu-Meñ voru halldner hid versta Foolk medal Gydinga, og ecki munu þeir Raadvandir verid hafa, þvi Drottinn tekur þaa samann vid Heidingia; Eñ alldrei var þeim um̃ þad kiennt, ad þeir færu i krijng Land og Sioo, og giordu einn ad Gydinge, enn sijdann ad Helvijtis Barni, ei helldur ad þeir boñudu Moñunum iñ i Himnarijki, Matth. 23. Nu þoott ad allt þad hefdi satt verid, sem Pharisæus þesse taldi til Gylldis sier, þa var þo einn Losturinn, sem spillti ollum Kostunum, þad var Drambseminn og Sialfhælniñ i Guds Augliti; So hafdi hun blindad þeña vijsa Mañ, ad hun hafdi giort hañ ad Ovita, og lijkann Smaa-Bornunum, hver ed plaga ad rijfa þad i sundur, er þeim vænt um̃ þykir. Þvi vilium vier nu skoda i hveriu honum aafaatt verid hafi. Hañ þoottist vera Logspakur, treystande þvi ad hañ væri Leidtoge Blindra, og Lioos þeim sem i Myrkrunum eru, Typtunar-Madur Faafroodra, Læri-Meistari Heimskra, hafandi Form Skynsemiñar og Sañleikans i Logmaalinu, og kiendi so odrum, eñ sialfum sier kiendi hañ ecki, þvi hañ vantade þad sem mest aa reid i Undirbuningi Riettlætingariñar, sem var, ad þeckia Gud og sialfañ sig. Ecki þeckti hañ Gud, þvi audsært er, ad hañ ætlad hefur, ad hañ munde aanægdur vera med hina utvortis Helgi, Fostur og Tijunda-giorder: Eñ þad þeckti hann ecki ad Gud rañsakar Hiartad, Ps. 7. Ecki helldur þad, hann hefur allt undir Ohlijdniñe

kvni-

iñeluckt(þad er,undir Þeckingu Syndariñar) ſo ad hann myſkunade ollum, Rom. 11 og hann finnur jafnvel Breſt hia Englum ſijnum, Job. 4. Siaalfann ſig þeckti hañ ecke, þvi jafnvel þoott hann væri froodur i Ritningunne, þa hafde hann gleymt þeſſum Ordskvid Salomonis, er ritadur ſtendur i 21. Capitula: Manninum þykia ſijner Veger rietter, enn DRottenn vegur Hiartad; Edur þeſs ed David ſeger: Ad fyrir Gude ſie engenn Mañа Riettlaatur, aller ſieu þeir af-fallner, þar ſie enginn ſaa ſem Gott giore, og ecke einn, Rom. 3. Nu þeſſe Hræſnare hafa þokt verа undannſkilenn þeſſum Davids Doomi? Hann var fraaſkilenn odrum Monnum til ad æfa ſig i Logmaalſins Skilninge, og þeſs Utſkijringu: Enn miog ſo vard honum aa i þvi, ad hann hlioop yfir þeſſar Greiner, og adrar miklu fleire i Gamla Teſtamentiſins Bookum, er ſakfella allann Heiminn fyrir Gudi, Rom. 3. Og þar ad auke forſmaade hann, Jaa, hann fordæmdi ſinn Naaunga. Edur So Sem Þeſſe Tollheimtu-Madur: ſeger Hræſnarenn. HErra Gud! Hvad mundi hinn gamli Paall hafa ſagt, hefde hañ þetta heyrt, munde hañ ecki hafa brotiſt wt med þeſſum Ordum, Rom. 2. Meinar þu, O Madur! Er dæmir þaa er þvilijkt giora og giorer þad þo, ad þu munir Guds Doom umflija: J þvi þu annañ dæmer, þa fordæmer þu ſiaalfañ þig; Hver ert þu ſem añarlegañ Pioon dæmer? Hañ ſtendur og fellur ſijnum Herra. Eg Faſta Tviſvar J Viku, ſeger Phariſæus þeſſe. Ecke hafde Gud boded þad ad ſoñu: Eiñ Foſtudag hafde Gud boded aa Are i Logmaalinu, þad var hiñ Tijunde Dagur hinns Siounda Maanadar; Þo kuña Meñ ecke ad neita þvi, ad þetta var vel giort, hefde þad framkomed af Trwñi, þvi Faſtañ er Gude kiær, og maa miked hiaa honum: Þvi ſagdi Frelſareñ: Þetta Diofla-Kyn verdur ecke wtreked, nema med Foſtu og Bænahallde: Og hia Zachariam, Cap. 8. er gietid um Foſtu aa hinum Fioorda, aa hinum Fimta, Siounda og Tijunda Maanude, ſem DRottinn ſpaaer ad ſkuli umbreitaſt i Gladværdar Haatijder, enn þo bijdur hann þar jafnframt, ad þeir ſkuli Sañleikañ og Fridiñ elſka; Þvi ſeger hañ hiaa Eſajam, Cap. 58. Hver ad ſie ſw Faſtañ ſem hañ wtvelur, ſem er, ad Meñ wthlute hinum Hwngruda Braudi ſijnu, og leidi hina Faatæku, ſem wtreknir eru, i Hws ſitt, ad Meñ klæde hinn Nakta, þa Menn ſiaa hañ, og byrgi ſig ecki fyrir Holldi ſijnu: Enn hvert ad Phariſæi edur þeirra Lijkar hafa giætt þeſſa, þad ſijnir Vitnisburdur Chriſti, er hann ſeger, ad þeir wtſiwge Hws Eckna og Fodurlauſra, Matth. 23. Hann ſeger: Eg Gielld Tijunder Af Ollu Þvi Eg A. Ei hafdi DRottinn helldur þetta boded i Logmaalinu. Hann baud ad giallda Tijunder af Korni, Vijni og Vidſmiore, af Nautum, Saudum og Eplum, 5. M. B. 12. Enn ecki af odru þvi er Ox i Aldingordum; Þetta var þo i ſiaalfu ſier vel giort, ad þeir tijundudu allt hvad þeir aattu, hefdu þeir ecki viliad reikna til Skylldar hiaa Gudi þar fyrer; Eñ þegar fara aa betur enn vel, þa fer oft verr eñ illa, ſeger Maaltæked, þvi ſeger Frelſarinn, Matth. 23. Vei ydur Skriftlærdum og Phariſæis, þier Hræſnarar, ſem tijunded Myntu, Anis og Cumen, eñ undañfellid þad ſem þijngra er i Logmaalinu, Trwna, Doomiñ og Myſkunſemina, þetta byriar ad giora, eñ hitt

ecke

ecke epter ad skilia; Vakte þeir sig, hverra Gudhrædsla ad er alleina þar i foolginn, ad gaanga i Kyrkiu, ad tala margt um̃ Gud, og hanns Ord, og christilegar Dygder, enn under Skyni þessu fremia þeir aa mooti Samvitskuune og Ydrunarlaust marga þa Hlute, sem Gud bañad hefur. Enn lærum nu af þessum Siaalfbyrging, Christner Menn, ad þegar vier giorum vort Ydrunar Verk, þa berum oss ecki samann vid adra, sem oss verre þykia, epter vorum Doome, þvi hver einn mun sijna Byrdi bera, seger Postulenn: Munu nockud añars Glæper þvo mijna af, edur Ranglæti hanns riettlæta mig, þoott eg være ecke so morgum Lijtum hladinn? Fiærri sie þvi, og allra sijdst ef eg forsmaade hañ hiaa mier: Þvi maattugur er Gud ad reisa hann: Þad er eins og ad skoda sig i Ohreinum Speigle, ad vilia sia Mynd siña Athafna i añarra Giordum; Guds Ord og hañs Løgmaal eru su Skuggsiaa, er vier eigum ad skoda oss i; þad er Lioos a vorum Vegum, og Lampi Foota vorra. Þess er og ad giæta, Born mijn, ad ef þesse Madur var fordæmdur vegna þess, ad hann hroosade sier af Goodverkum sijnum, hvad mun þa um̃ hina verda, sem hroosa sier af Klækiuum, og þykir vænt um̃ þa? Ef hiñ Riettlaate verdur naumast Saaluhoolpiñ, hvar mun þa hiñ Ogudlege og Syndareñ byrtast, seger Petur, 1. Pist. 4. Þar eru ecke marger, sem gieta stært sig af miklum Fostum og Bindinde, hiner eru fleire, sem gledia sig i Ofaate og Ofdryckiu siñe, edur ad miñsta Koste þyker þad lijtil Synd vera, jafnvel þoott Paulus sege, ad þeir ed slijkt adhafast erfe ecke Guds Rijke, 1.Cor 6. Ecki ætla eg Menn þurfi ad hroosa sier miog af Tijundargiordum i Landi voru, laangtum helldur er þad forullt sumum Moñum, ad svijkia Gud og hanns Volada, og Konungenn, so vel sem Guds og hanns Þienara, med raangri Tijund: Og þykest sia goodu bættur, sem hvad mestu gietur undannskotid, jafnvel þoott varla sie meiri Bolvan vid nockra Synd løgd i Guds Løgmaale, enn vid þessa: Eg vil ei faa mier til Orda, hvad margur Daare ad hroosar sier af þvi, ad hañ hafi Feflett añañ, edur uñid Sigur aa honum med raungum Doome, Laga-Flækium, og folskum Riettargaange, þvilijker Snaapar eru fleire eñ telia mege, um̃ hveria David sijnist talad hafa, er hañ seger: Ps. 52. Hvad stærer þu þig af Illsku þiñe, sem mektugur ert i Ranglætinu. Ei vil eg helldur margt tala um̃ þaa Gaarunga, er stæra sig af Lauslæte sijnu, þad er, hroosa Synd siñi eins og Sodoma, Es. 3. Og jafnvel litvga aa sig Skomunum til ad vanvirda adra. Hafi Phariseiñ giort oll sijn Good-Verk Ogylld med Hroosenu, þa vite þesser Gudlausu Menn, ad þeirra Fordæming er vijs, nema þeir ydrest af Hiarta, og ad Ydranenn verdi þeim so beisk, sem aadur var þeim Syndiñ skiemtileg. Þykest nu nockur vera sekur i þessu, og vill þad Ofgiort hafa, hann læri sannann Veg Ydrunarennar af Tollheimtu-Manninum, og gaangi hann, ef hann vill hoolpinn verda: Og vil eg so nockud þar um̃ tala i hinni sijdare Greininne.

Þesse Tollheimtu-Madur gieck i Musterid, so sem Textiñ vottar, ecki fyrir Sidasaker, ecke til ad laata skoda sig edur skoda adra, nie ad sijna þar Fordilld sijna i Klædaburde, so sem kañskie nockrer giora medal vor: Ecki er þad alltijd Gude edur Helgenne

til Virdingar giort, ad Menn bwa sig hvad mest i Skart og þeim Dogum, edur til ad minna oss og þad, ad vier eigum ad klæda oss eiginum nijum Manne. Hvert var hañs Eyrende þa? Til Ad Bidiast Fyrer, seger Textiñ: Ecki eins og Phariseiñ, til ad hroosa sier i Bæniñe: Pad sijna oss Ord hañs og Atvik, sem hier uppteiknud standa. Hañ hefur adgiætt Logmaals-Toblurnar, sem hiengu i Musterinu, og yfirvegad þær odruvijse enn Skriftlærder og Pharisæi, sem hiengu i Bookstafnum, og logdu hann wt eftir eiginn Pootta sijnum: Þar fyrer Onijttu þeir Logmaaled fyrer Setninga sijna, so sem D Rottenn segir. Spaameñirner voru lesner hvern Sabbatsdag i Musterinu, so sem Paulus vottar, er hann flutte Guds Eyrende til þeirra i Antiochia, P. G. 13. Þar hefur hañ maatt heyra Utskijringu Logmaalsins ad miklu Leiti: Og er hañ þar af berlega sied hefur, ad Gud fordæmir Okur, Raangindi, Undirferli, Raangsleitni, Gripdeilder, Hardydgi og Myskunarleyse, og hann vissi sig i ollu þessu sekann, þa hefur honum ofboded Stærd Syndanna, og Guds Heiptar-Reide, ja, honum hefur Ognad hvad morg volud Saal ad mundi hroopa i Himiniñ yfir sier, og Ottast ad þeirra Hroop mundi iñgeingid vera i Eyru D Rottinus Zebaoth; þessi þunga Byrdi hefur og hanns Hiarta leigid, sem er Brunnur allrar Illsku og Ogudlegs Athæfis, Matth. 15. Þvi ber hann sier a Brioost, so sem villdi hann þad straffad hafa, sem mest hafde tilunnid, og mest klagade sijna eiginn Vondsku, med Slogum og Biti Samvitskunnar. Illa var varid þessum Vesælinge i sialfum sier: Enn Gud giæfi, ad vier, sem betre þykiunst, ad vier, sege eg, gengium med sama Hiartalage i Guds Hws, og sætum undir hanns Orda Heyrn eins og hann! Þa mundum vier ecki so kallder vera i voru Ydrunar-Verke, so sem berlega maa sia ad margur er. Hann Stood Laangt Fraa, seger Textenn: An Efa þess vegna, ad hañ hefur reiknad sig verri eñ adra Menn, og Overdugañ ad koma nærre þessum heilaga Pharisæo, hann hefur skolfid af Kvijda vid Guds Reide, er hañ hugleiddi sinn Overdugleik, og hanns Logmaals straungu Hootaner; Ecki sijdur enn Israel þegar ad dunade i Horeb, nær hid sama Logmaal var wtgiefid, 2. M. B. 19. Hvad giora þeir þa, sem jafnvel i Guds Hwsi kieppast epter hinum fremstu Sætum, og wtvelia sier þau? Enn þoott ei rijdi so miog a þessu wtvortis Haattalagi, þa giætum þess, ad i Kyrkiunni byrtunst aller vier fyrer Guds Auglite; Þar er sa mestur Madurinn, sem minnstur er i sijnum Þanka, sa er best bwinn, sem sundurrijfur Hiarta sitt med Tollheimtu-Manninum; Einginn er so heilagur, ad ecke skilie hañs Synder mille Guds og hanns, ef hann vill þær tilreikna. Og hversu eigum vier þa ad audmykia oss under vollduga Guds Hond, nær vier inngaungum i hañs Helgidoom, til ad fridmælast vid hanns Guddoomlegu Haatign, fyrer hverre oll Verolldinn leikur a Reideskialfe! Enn vier erum Dupt og Aska, og, hvad meira er, aller so sem hinn Ohreine, og jafnvel Riettlæti vort so sem Ridlags-Fat; So ad allt Hofuded er siwkt, allt Hiartad veikt, fraa Hvirfli, og allt til Ilia, er þar ecki nema Saar, Kaun, Beniar og Þrote; Og þessa vora Siwkdooma hefur Guds Sonur borid; Þessum Orkumslum hefur hann og sig bladid, so ad vi-

er fyrer hañs Beniar heilbrygdet yrdum, Esa. 53. Eñ vier høfum lꜳted oss þad lijtid til Hiarta gꜳnga; Ecke hafa þeir Naglarner, er i giegnum groofu hañs Hendur og Fætur, ecke hafa þeir eñ nu til fulls krossfest hinn gamla Adam i oss, og ecke sw Lensann, er opnade hañs Sijdu, vid Hiarta vort so miøg snorted, ad vier høfum lꜳted Portenn vijdopeñ fyrer Konunge Dijrdareñar, þegar sꜳ Drottnareñ hefur vitiad sijns Musteris, miklu helldur hefur oftlega vid þvi leiged, ad vier mundum Hertoga Dijrdareñar ad niju krossfesta. Æ minn Gud! Æ minn Frelsare! Hver af oss er þa so Heilagur, so fullnoogur sialfum sier, ad ei skyllde hann beria sier a Brioost med Tollheimtu-Manne þessum, og segia: GUD VERTU MIER SYNDUGUM LIKNSAMUR; Og med hinum tapada Syne: Fader, eg hefe syndgast i Himeneñ og fyrer þier? Nu þoott ad Vesælingur þesse være so lijtt staddur, þa orvænter hann ecke: Ei grijpur hann til Knijffsins, eins og Saul til Sverdsins; Ecke til Snøruñar med Juda, og ecke ofbiooda hønum so miøg Syndernar, ad hañ orvænte sier Guds Myskunar: Ad vijsu skamadest hann sijn ad liita Augum sijnum til Himens, þvi hann hafde styggt hann so mootþrooannlega, sem i Himnenum bijr, enn þo rædur hann þad af, ad leita Lyknar hiꜳ hønum, af hvers Giædsku ad øll Jordeñ full er, og meinar sig vesælañ Orm ecke fraskileñ vera, eins og Phariseiñ, ødrum Møñum. Gior hid sama, Barn mitt! nær þier, med David, ofbiooda Synder þijnar, so þu hefur ecke Frid i Beinum þijnum fyrer þeim, þa vit þo þad og treyst þvi, ad Syndeñ kann alldrei ad vera so stoor i Illskuñe, ad Gud sie ei meire i Giædskunne; Þad vottar Johañes, er hañ segier, 1. Pist. 3. Ef vort Hiarta fordæmer oss, þa er þo Gud meire Hiarta voru: Og Paulus hefur oss efterlꜳted eina dijrmæta Huggun, dijrmætare eñ Verolldeñ er, þar hañ segier, Rom. 5. Hvar sem ad Syndeñ yfirgnæfir, þar yfirgnæfir þo Nꜳdeñ miklu framar. Christur er Forlijkun fyrer allar Veralldarennar Synder, þvi mun hann ecki og so vera fyrer þijnar, nema þu siert fyrer utañ Verolldena? J hønum hefur Faderenn alleina Velþocknan. Ef Paulus þorde ad segia vid Philemonem uñ Onesimum: Hafi hann þier nockurn Skada giort, edur sie þier skylldugur, þa reikna mier þad til; Eg Paall hefi skrifad þad med minne Hende, eg skal betala. Hvad miklu meire Riett hefur Guds Sonur til ad tala þannig oss til Fridar vid siñ Himneska Fødur, ja, vid sialfañ sig, ad hønum skule tilreiknast sꜳ Skadeñ, sem vier høfum giort, sw Skullden, er vier lꜳka attum. Þu minn HErra, þu hefur neglt þa Handskriftena a Krosseñ, sem moote oss var, Col. 2. Hver vill þa aklaga Guds Utvallda? Þu ert sa sem dꜳeñ er, Rom. 8. Þu hefur eina Kvittan giefed i Uñbode allrar Guddoomsins Preuningar, er so hlioodar: Hver sem trwer a Soneñ, hann kiemur ecke til Doomsins, Joh. 3. Ja, sendt oss eitt Aflꜳt med Þienara þijnum Paulo, skrifad med Guds Fijngre, sem er Heilagur Ande, ad ongenn Fordæming sie hiꜳ þeim, sem eru i Christo JEsu, Rom. 8. Þu hefur betalad þad þu rænter ecke, Ps. 69. Þvi skyllde þa einn Nꜳns-Madur kvijda fyrer þeim Betaling, sem þu hefur loked? Þvi mun eg þa mistreysta Gude? Er hann ecke Trw-

faſtur? Kunna hanns Ord ad forgaanga, þoott Himen og Jord forgaange? Honum ſie Dijrd og Heidur um̃ Allder, Amen.

Nu hafed þier heyrt af Tollheimtu-Mañenum hiñ rietta Veg Apturhvarſſins fraa Vondſkuñe; hver ſem hañ geingur, ſaa mun med honum Riettlaatur verda. Eg Segie Ydur, Ad Þeſſe Foor Riettlaatur Framar Hinum J Sitt Hws; Segier Frelſarenn i Textanum: Hver Ord ecke þañig ſkiliaſt eiga, ſo ſem ad Phariſæiñ hafe ad ſoñu riettlaat-ur heim aptur fared, eñ Tollheimtu-Madureñ þo riettlaatari, helldur var ſaa Munur Riettlætesins, ad Phariſæus þeſſe var riettlaatur i ſijnum Þanka, og fyrer Mønunum (um̃ hvert Riettlæte D Notteñ ſegier, Matth. 5. Nema ydar Riettlæte yfirgnæfe meir eñ hiña Skriftlærdu og Phariſæaña, þa kuñed þier ecke iñ ad gaanga i Guds Rijke); Enn Tollheimtu-Madureñ, ſem jaatade Synder ſijnar, og afneitade ſijnum Verdugleik, enn beidde um̃ Myſkun, hañ vard riettlaatur fyrer Gude, med þvi Riettlæte, ſem Paulus ſegier, ad ſie af Trwñe; Og þvi var hañ framar riettlaatur, ad hañ hafde þad Riettlæte, ſem fyrer Gude gyllder, eñ hiñ fyrer Moñunum. Heim aptur i ſitt Hws; Stendur i Textanum: Nockrer meina ad hañ hafe yfergiefed Tollheimtuna, þar hañ foor ecke til Tollbwdareñar, helldur heim i ſitt Hws: Eñ ecke er þad vijſt, ad hañ hafe laated Syſlan ſijna, þeſs var og ecke Þorf, þvi hun var riettvijs i ſiaalfre ſier; Ef þad er riettvijſt fyrer Yfirvallded ad taka Skatta og Tolla, ſo ſem þad i allañ Maata riett er, þvi Paulus ſeg-ier, Rom. 13. Giallded øllum hvad þier ſkyllduger erud, þeim Toll er Tollur heyrer; þa er þad ecke Oriettvijſt fyrir Þienara þeirra ad ſafna Tekiunum: Ecke bañade helldur Jo-hañes þeſſum Moñum Tollheimtuna, alleina, ad ei ſkylldu þeir taka meir eñ boded være, Luc. 3. Giæte þeir þeſs, er ſlijkt Starf aa Hende hafa, þvi hvad ſem þar er fram̃ yfir, þad er af hinum Vonda. Eñ hvernig ſem þeſſu er vared, þa er þad vijſt, ad Kvittun Syndanna einuſiñe feingenn, hun er Onijt, nema Syndareñ laate af Jllu og lære Gott ad giora, og hier til heyrer þad, ad bæta þad Oriett var giort, ef bæta maa: Hvar um̃ eg hefe nockud talad i Tveimur nærſt fyrerfarande Predikunum, enn miñeſt enn nu aa þad hier i þridia Sinn, af þvi, ad ſo miked rijdur aa þeſſum Hlut; Þvi ſie þad ecke giort, þa er Jdranenn alldeilis Onijt. Þad er ei noog ad ſtijnga aa einu Meine, nema hinn vonde Veſſe, ſem i þvi er ſamanndreigeñ, hañ verde wtdreigenn; ſo er þad ei helldur noog, ad Moñum ſvij-de einuſiñe af Brodde Løgmaalſins, nema þvi Jlla ſie fraa ſier kaſtad: Drecke nockur Eitur iñ, þa er honum einſætt ad æla þvi upp aptur, eñ engeñ Olijſtan er ſo banvæn Kro-ppnum, ſo ſem raangfeingner Muner Saaluñe; Þvi er þad Omiſſande, ad ſkilia ſig af med þa, aadur eñ þeir ſcalga heñe i Daudanum, þegar Meñ ſkulu þo vid þa ſkilia og þeir vid oſs hvert ſem er, eñ engeñ veit nær hañ ber ad Dyrum; og hvad hefur þu þa þeſs, Madur, er þu hefur med Ahyggiu og Oriette ſafnad? D Notteñ muñ, kieñ þu oſs ad hug-ſa þad vier hliootum ad deya, laat oſs ecki deya med Mamona, helldur med vorn Frelſara i Hiartanu; gief oſs ad hafa Feſiood aa Himnum ſafnad, framar eñ i Heimenum, ſo þeg-ar hin forgeingelega Tialldbwd vors Lijkama i ſundur-glidnar, ad vier þa hofum ſo

fyrir

fyrer oss giort i Tijmanum, ad þeir medtake oss i Eilijfar Tialldbwder; Bænheyr þad DRottenn minn og Gud minn, fyrer JEsu sáru Kvol og blessadar Under, AMEN.

# Toolfta Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Marc. 7. Cap.

OG þa JEsus gieck i burt aptur wr Landsalfium Tyri og Sidonis, kom hañ til Siáfarins i Galilæa, i midiar Bygder þeirra Tiju Stadaña. Og þeir leiddu til hañs þañ Mann, sem Daufur og Málhalltur var, og bádu ad hañ legde Hendur yfer hañ. Og hañ veik hønum Affsijdes frá Foolkenu, liet sijna Fijngur i hañs Eyru, hrækte wt, og áhrærde hañs Twngu, leit upp til Himens, andvarpade og sagde til hañs: Hephata, þad er, opna þig. Og jafnsnart upplukust hañs Eyru, þa uppleystest og eirneñ Fiotur hañs Twngu, so ad hañ talade riett. Og hañ skipade, ad þeir segdu þad eige neinum: Eñ þvi meir sem hañ fyrerbaud þeim þad, þess meir þa vijdfrægdu þeir þad wt, og þa siálfa undrade þetta nærsta miøg, segiande: Allt giørde hañ vel, þviad Daufa lætur hañ heyra, og Málllausa tala.

## Exordium.

MArgt á vid morgu, segier i Fornkvednum Ords-Hætte: Þoott ad DRottenn hafe straffad Syndena epter Falled med adskilianlegum Siwkdoomum, til ad aga vort giálijfa Holld, þa hefur þo hanns Giædska lagt þa Lijkn med Þraut þessare, ad Náttúrann er rijk af þeim Hlutum, sem bætt gieta Mein Manna, þegar þar med er Skynsamlega høndlad; Þvi segier Syrach, Cap. 38. Ad hinn hærste hafe framleidt Læknisdoomenn af Jørduñe: Og um Læknerenn segier hann i sama Capitula: Heidra þu Læknarann fyrer Naudþurftarennar Saker, þvi DRottenn er hanns Hofundur, þvi aller Læknisdoomar koma af hinum Hærsta. Nu misfellur þo þetta á Stundum, þvi jafnvel þoott Læknereñ kunne margt og miked ad giøra, og hanns Verk sie gott, þa er þo ecke Heilsa nie Vanheilinde, Lijf edur Daude i hanns Hende, helldur Guds, sem er allra Meina Grædare, og sá DRottenn DRottenn, sem frá Daudum frelsar. Eñ Guds Sonur, á sijnum Hollds-Vistar Døgum, hann auglijste þad øllum Heime, ad hann sannur Gud være, med þvi ad hann læknade allrahanda Mein og Krankleika, ecke med Náttúrunnar Medølum, þvi hann var Náttúrunnar HErra, helldur med einu Orde á Stundum. Kona, mikil er þijn Trwa, sagde hann vid hina Cananisku; Vert hughraust mijn Dootter, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar;

 vid

vid hina Bloodfallssiwku: Far þu, Sonur þinn lifer; vid Konungs-Manneñ: Verde þier efter Trw þiñe; vid Hundrads Hofdingiañ: Eg Vil, Vertu Hreirn; vid hinn Lijkþraa: Fared og sijned ydur Kiennemonnunum; vid þaa Tiju. Og er þesse Dæme nærsta morg ad lesa i Gudspialls-Sogunum. A Stundum brwkade hañ nockurskonar Cerimoniur til ad lækna hina Siwku, so sem hier i Gudspiallenu verdur fraa sagt, hveriar þo ecke munu forgiefens uppteiknadar, þvi allt hvad skrifad er, þad er skrifad oss til Lærdooms, Rom. 15. Helldur til ad þijda þær uppaa vor Andleg Vanheilinde, og þeirra Lækningu: Enn nu vil eg i þetta Siñ einungis hugleida þenna auma Mann, og so vort Haattalag i Andlegum Efnum, sem ecke erum betur aa oss komner ad þvi Leite, helldur enn hann, margur hver. Send oss þijna Naad og Adstod til þessa Eyrendis, vor Gud, fyrer Lausnarans Forþienustu, A M E N.

## Utleggingeñ.

OG Þeir Leiddu Til Hanns Þann Mañ Sem Daufur Og Maalhalltur Var. Þesse Manneskia hefur þwnglega halldenn vered. Þegar David wtmaalar Mootgaang siñ, þa segist hann heyra sijna Mootstodu Menn, so sem Daufur, og so sem einn Maalleysingur ecke uppliwka Munne sijnum, Ps. 38. Eins og hefdi hañ valla nockurn lakare Kost vid ad jafna. Illa er hinum Daufa fared i morgum Hlutum: Einn Daufinge er nærri þvi eins i Verolldunne, og wtlægur Madur i framande Lande, hvar hañ einkis Maal skilur; hañ hefur eckert Gagn edur Skiemtun af þvi ed adrer tala, Varer þeirra sier hann bæraſt ad soñu, eñ þad maa vera stoor Hugraun ad sia þad, eñ hafa þess þo engeñ Not, sem Gud hefur giort til ad vidhallda Selskap Mañaña i Heiminum; Gaange nockud ad honum, þa gietur engeñ huggad hañ, eñ þo tekur þad yfir, ad þeir ei gieta Guds Ord heyrt til Saaluhiaalpar sier, þvi fyrer Heyrn Guds Orda kiemur Trweñ, segier Postulum, eñ aan heñar er Omogulegt Gude ad þocknast, Hebr. 11. Og hversu er honum þaa illa vared fyrer Mañaña Sidonum, er hefur Brest aa þessu Skilningar Vite! Nu eru þeir þo Med Tveñu Moote er þeña Skort meiga lijda. Sumum fellur þad til, nær þeir komner eru til Vits og Ara, þeir meiga þess Not hafa ad sonnu, er þeir numdu aa medañ þeir hofdu Hluster heilar, bæde i Daglegre Umgeingne, og, hvad mest aarijdur, i Verke Saaluhiaalpar siñar; og satt er þad, ad ei glepur fyrer þeim Bulldran Heimsins, þeir hafa valla ad skiemta sier nema vid Gud sinn, ef þeir eru Lundlagnir þar aa, og bera siñ Harm i Hlioode; Og Reyndar, þa er betra Daufur ad vera, eñ ad heyra margañ þañ Oþarfa, sem taladur er i Heiminum, sierdeilis skañarleg Ord og Fiblslegt Hial, sem Christnum soomer ecke. Adrer eru þeir, ed Dauser eru borner, þvi þar aa efterfilger Maalleysed; Hvernig kañ saa ad nema Maña Maal, sem ei gietur heyrt aa Tal þeirra? Og hafa Meñ þess Dæmi nockur hiaa oss: Þad maa eg marka, ad þesse aumi Madr, sem hier talar uñ i Gudspiallenu, hañ hefur aan Efa heyrt einhvern Tijma, þvi jafnvel þoott hañ Maalhalltur være, þa hefur hañ þo nockud talad: Þessara Kostur sijnest miklu þijngre ad vera, eñ hinna i fliootu Alite, þvi saa sem Daufur er, enn hefur

þo

þo Mælid, hann gietur sagt til þess er hann vardar um̃, og lofad Gud med Twngunne, hafi hann nockud af Guds Ordi numed, enn hinn ecke: Þo er þad hier aptur ad segia, ad eingañ længar til þess sem hañ þecker ecke, so kann og ei helldur þeim ad leingiast so miøg eftir ad heyra æ Tal Manna, sem þad alldrei heyrt hefur. Enn hvad Sælariñar Efnum vidvijkur, þæ hygg eg ad eingiñ kuñi ad fordæma þessa Guds Vesælinga, jæ, kann vera ad þeir sieu miklu nær Guds Rijke eñ hiner, sem eingann Brest hafa æ Skilningar-Vitunum, enn brwka þau Fiandanum til Þioonustu, og Næunganum til Ogagns: Gud er Riettlætur, og þo under eins Myskunsamur, þad er ecki lijkt honum, Fødur Giædskunnar, ad hann muni heimta Reikningskap af þvi Pundi, er hann ecki fieck einum i Hendur; Og hver vill efast um̃ Mætt hañs edur Vijsdoom? Hañ sem gat lætid Johañem fagna Tilkomu siñi i Moodur-Lijfi, Luc. 1. Mun hañ og ecki gieta verkad undarlega Hlute i þesshættar Mañeskium? Satt er þad, ad æn Trwariñar er Omøgulegt Gudi ad þocknast, Hebr. 11. Eñ hañ sem gietur iñplantad Trwna i Hiørtum Smæbarnaña, mun hañ ecki med Orañsakañlegum Hætte gieta tilbwed hana i þessara Hiørtum? Þad sem ecke er af Trwñi, þad er Synd; Eñ af Muñi Smæ-Barnaña og Brioost-Mylkingaña hefur hañ sier Lofid tilreidt; þvi mun hañ og ecki gieta opnad Skilning þessara Skiepna siña, so þær þecki hañ til Myskunar sier? Er nockurt Ord fyrir honum Omættugt? Luc. 1. Kañ hañ ecke alla Hlute framar ad giøra, eñ vier kuñum ad hugsa edur mæla? Eg vil hier um̃ segia, þad sem Christur sagde vid Lærisveinana, er þeir søgdu: Hver mun þa hoolpiñ verda? Þad sem Omøgulegt er fyrer Mønnum, þad er møgulegt fyrer Gude, Matth. 19. Nu søkum þess, ad fyrer hinum Daufa verdur ecke talad, Gud verdur sialfur fyrer honum ad predika i hanns Hiarta, og er einginn slijkur, þa tala eg þetta til Huggunar þeim, sem ængrast þar af, ad Børn þeirra edur kiærustu Næungar hafa slijkann Brest, og efast kannskie um̃ Velferd þeirra, og þar ad auki leida sier i Hug, ad þetta kome fram̃ vid þæ, vegna Synda sinna. Til hiñs Fyrra hefi eg ad nockru Leite allareidu svarad, enn þo vil eg þessu vid auka sem efterfylger: Gud hefur skapad Afkvæme þitt i Moodur-Lijfi, Job. 10. Edur þijns Næunga: Hver hefur Manninum Muñinn giefid? Hver hefur giørt hinn Mællausa edur Daufa? Edur hinn Siæanda, edur Blinda? Hefi eg þad ecki sialfur giørt? Seger D Rottinn vid Moysen, Exod. 4. Og fyrst hann hefur þetta sialfur giørt; Mun þa ecke hann, sem vill ad aller Meñ verde Sæluhoolpner, mun hann ecke siæ þeim Farborda til Himnarijkis, sem ecki hafa Skulld i þvi, ad þeir gieta ecki Guds Ord heyrt? Hañ Sem Giørdi Allt Vel, Þvi Daufa Liet Hañ Heyra Og Mællausa Tala, æ Døgum Hollds-Vistar siñar, mun honum vera apturfarid sijdann hañ setstur er til Kraptarins hægri Handar? Hañ er uppfariñ i Hædirnar, og hefur Møñum Gæfur giefid, Eph. 2. Mun hañ þa ecki giefid gieta Barni þijnu Heyrn og Mæl, neina ad hañ giæfi Sælu þess Heyrn, og giørde þad vel talande fyrir sialfum sier, med þvi Moote sem ecki skilur þu, eda nockur añar? Barn þitt er i Skijrniñi iñtekid i Guds Sættmæla; Hver sem trwer og verdur

skijrd-

ſkijrdur hann ſkal hoolpinn verda, ſeger Chriſtur. Hier ſtendur; Hver ſem trwer, enn ecke: Hver ſem heyrer og talar. Mun hann þa kalla afbrugded Skattmaalanum fyrir þeſſa Orſok, er Veſælingenn ſiaalfur giorde, og gietur þo Trwna i hønum verkad? Gud læte oſs alldrei meir afbregda, ſem Maal og Heyrn høfum! Seig þvi med David: Eg vil þegia og Munni mijnum ecki upplwka, af þvi þu giorder þad? Og hallt Barn þitt vera eiñ Lim aa Chriſti Lijkama, Muſteri H. Anda, og Erfingia Himnarijkis, ef eckert annad i Vege ſtendur, eñ þeſſe Breſtur, ſem Skaparinn alleina, og eingiñ aňar, lækn⸗ad gietur. Eñ hvad þvi vidvijkur, ad margur freiſtaſt af, ad Vanheilinde Barnanna ordſakeſt af Syndum Forelldranna; Þa verdur þvi ad ſoñu ecki neitad, ad allt Mootlæte er Verdlaun Syndarinnar; So ſem Dauden er, ſo er og allur ſaa Her, ſem under þañ þioonar: Eñ þad heiter ecki ſo Straff, ſo ſem Reynſla hiaa Guds Bornum, hv⸗erre Jacob Poſtule ſkipar oſs ad taka feigens Hende, Jac. 1. Þvi Ordſakaſt þetta ecke af þvi, ad Forelldrar þeſſara Veſælinga ſieu verri i Guds Auglite eñ adrer Meñ: Þar fyrer ſvarade Endurlauſnareñ Fordum Læriſveinunum, er þeir friettu hann ad, hvert þeſſe hefde ſyndgad edur Fader hanns? Hverki ſyndgade þeſſe nie Fader hañs (ſagde hann); Helldur ſo, ad Guds Dijrd yrdi opiñber, Joh. 9. Og vidlijkt ſkiedur i þeſſu: Gud ſetur oſs þeſſe Dæme fyrer Siooner, oſs ſem hann gieſid hefur heilbrygda Saal i heilum Lijkama; Til ad ſijna oſs, hvada Valld hann hafi yfir Mañeſkiuñe; Til þeſs, ad þacka ſier og loſa ſig þar fyrer, ad oſs og vorum Bornum og Naungum er betur var⸗ed i Lijkamans Haattalage; Til ad miña oſs þar aa, ad ei brwkum vier Skilningu vo⸗ra til þeirra Hluta, ſem Gudi til Stygdar eru, miklu helldur til Vegſemdar honum, og Naunganum til Þarfa. Eñ Gud næde, ad wt af þeſſu ber nærſta miog aa Stund⸗um! Og þad er nu hin andlega Deyfa, ſem er miklu hættare, miklu ſkadſamlegre, og þo miklu almeñari, eñ ſw ſem aa Lijkamanum er, yfer hverri ad David klagar, er hañ ſeger, Pſ. 58. ad þeir tilbyrge Eyru ſijn, eins og Hoggormuriñ fyrir Rauſtu Særinga⸗Mañ⸗ſins. Margfalldt er þetta Heyrnarleyſi, og i morgu foolgid: Eñ Rootiñ til alls er þad, ad Meñ daufheyraſt vid Guds Ordi, ſo þad fær ecki Rwm i þeim, helldur enn Tal Chri⸗ſti i Phariſæis, Aller Meñ laſta þaa fyrer þetta, ſem verdugt er: Eñ þoott ad einginn Madur talad hafe, edur enn nu tale, ſo ſem hañ, jafnvel ad Vitne þeirra, ſem voru Ut⸗ſendarar hañs Fiandmaña, þa eru þad þo Guds Ord, er hanns Þienarar tala i hañs Umbode, nær þeir byggia Maal ſitt aa Ordum hanns Spaamaña og Poſtula, yfer hverra Grundvoll ad hañs Chriſtne er bygd; Þvi ſeger DRottenn vid Jeremiam, Cap. 1. Eg hefi lagt mijn Ord i þinn Munn: Og vid Eſajam, Cap. 59. Miñ Andi ſem i þier er, og mijn Ord, er eg hefi ſett i þiñ Muñ, þau ſkulu ecki wr þijnum Muñi vijkia. Nu þoott ad ecki ſie Andans Gaafa ſo rijk hiaa oſs, ſem hun var hiaa Spaamoñunum og Poſtulunum, þa eru þad þo Guds Ord, ſem hañs Þienarar tala, nær þad er af þeir⸗ra Toga riett ſpuñid og þeir tala eckert aan Ritningariñar: Guds Ord elldiſt ecki, þad blijfur eilijflega, ſeger Eſajas, Cap. 40. Þvi er þad eins gott i Muñi hiñs veſælaſta

JEſu

JEsu Christi Þienara, nær þad er hanns Ord, so sem i Munne Peturs, edur Pals: Þvi vil eg hier um̃ segia þad hid sama, sem Paulus sagdi vid þaa i Thessalonica, ad þeir hafi medtekid þad Guds Ord, er þeir heyrdu af hønum, ecki so sem Ord Mañaña, helldur, so sem þad var, eins og Guds Ord, 1. Thess. 2. Eñ ef þad Guds er, hvern forsmaaed þier þa, þier hiner dausu Veralldar Syner (nær þier þad ecki heyra vilied af hañs Þienara Munni, nie laata undervijsa ydur og Børnum ydar i Christinndoominum, ecke laata straffa ydar Synder, og ecki lifa epter þvi, er ydur af Guds Alfu bodęd verdur), Hvern forsmaaed þier þa, sege eg, Gud edur Mennina? Seger hann ecke, Luc. 10. Hver hañ forsmaaer ydur, hann forsmaaer mig, hver hann heyrer ydur, hann heyrer mier? Soddann er riett skielsilegt Heyrnarleyse! Munu þesse Frelsarans Ord naa alleinasta til Postulanna, edur þeirra er lifdu aa þeim Døgum, og ecke til vor sem nu lifum? Mun hann ecki hafa lofad ad vera hiaa oss allt til Veralldarinnar Enda? Matth. 28. Hvernig er hann þa hiaa oss? Med sijnum H. Anda i Ordinu og Sacramentunum.

Nu, ef Menn vilia niota Naalægdar hanns, þvi laata Meñ þa so tregt vid ad heyra hanns Ord? J Ordinu talar Gud vid oss, vid hañ tølum vier i Bænum vorum, eñ sa sem ecki vill heyra hann talanda, þann vill hann ecki heyra bidianda, þvi hver sem forsmaaer mig, þann vil eg forsmaa, seger hann, 1. Sam. 2. Eg em gladur af þvi, segier David, ad til mijn verdur sagt: Vier skulum gaanga i Hws DRottinns, Ps. 122. Þetta sagde hañ, sem i Ritningunni er nefndur Madur epter Guds Hiarta. Eñ margur Gaarungur, margur Sælkieri, margur Fe-Puke, sem er Madur epter sijnu Hiarta, hann verdur þeirre Stundu fegnastur, ad hann þurfi ecki i Guds Hws ad gaanga, edur hanns Ord ad heyra, og þoott þeir gaangi edur heyri, þa geingur Ordinu eins og Sædinu, þvi er Frelsarinn talar um̃ hiaa Lucam, 18. Cap. hvert ed fiell utañ hiaa Veginum, ad þad verdur Footum troded, og Fuglar Himinsins aatu þad: Dioflullinñ tekur þad i burtu wr Hiortum þeirra, so þeir ecki trwa skuli, og verda hoolpner. Hvar fyrer? Þvi þeir hyrdtu ecki um̃ ad taka aa sig Guds Alvepne, til ad mootstanda Prettum Andskotans, Eph. 6. Guds Ord skal til þess hafa, ad vardveita Guds Ord, enn þeir gleymdu Sverde Andans, sem ad er hid sama Ord, ad þeir kynnu ad beita þvi fyrir sig, nær Ovinurinn ad Gardi gieck, til ad ræna þaa Dijrgrip þessum. Oskandi væri, ad ei hugsudu þeir hid sama, er Judar søgdu Fordum vid Jeremiam: Vier skulum ecke heyra þvi Ordi, er þu sagder oss i Nafne DRottenns, helldur skulum vier giora epter sierhveriu Ordi, er framkiemur af vorum Munni, Jer. 44. J soddann Gylldi er DRottinns Ord hiaa sumum Mønnum! Munu þeir þa ecki nærsta Þyckheyrder vera? Heyr mier þo um̃ Stund, Barned gott; Þu ert Oskiertur aa Hlustum þijnum, og eñ nu ert þu so i Dag; Þar fyrer, J Dag, J Dag, ef þu heyrir Roddu hanns, þa forherd ecki Hiarta þitt, Hebr. 3. Seig mier; Hefur þu Bref fraa Gudi, ad hann lijde þijn Skilningar-Vit til Morguns, meir enn þesse Dause og Maalhallte Madur? Gud steypte hiñi Vantrwudu Verolld um̃ Koll i Einu. J Einu dreckte hann Pharao med

ollu hanns Lide. J Einu fargadi hann Cananitum fyrer Hönd Josuæ. J Einu Augnablike sloo hann þaa med Blindne, er sealmudu epter Hwsi Loths, Gen. 19. J Einu Augnablike stack hann Augunn wt aa Elimas, sem mootstood Paulo, er hann foor med Christneboded, P. G. 13. Mun hann ei kuña ad giora hid sama vid þig, ef þu mootstendur hañs Þienurum og villt ei heyra þeim, nær þeir tala Guds Eyrende, og ecki sitt? Eda, hvad villtu giora, nema þu hafer eitthvad þier til Saalar-Gagns numid af Orde DRottinns, aa medañ þu hafder Eyrunn heil, ef hann kyñi ad laata þier tilfalla þvilijkañ Brest? Eg vil þad i stuttu Maale segia: Þu hefder eckert til ad kienna þier ad þeckia Syndina, eckert til ad saa Boot hennar, og eckert til ad hugga þig i þessu Volædi. Og fyrir þvi, ad þu alldrei hafder smackad hid gooda Guds Ord, so sem þad er, þa gietur ecki aa þier sannast Maalshaattur saa, ad einginn vite hvad hañ aatt hefur, fyrr eñ hañ misti. Einhver vill segia: Eg giet lesed Guds Ord þoott ecki heyre eg þad; Þvi er verr, ad þeir eru so faaer, sem lesa kunna, jaa, þoott siaalfer kunne, þa hyrda sumer ecke um ad kienna þad Bornum sijnum, og er þad Gudlaust Ræktarleysi; Enn hvernig sem þvi er varid, Hvad veitstu nema Gud take under eins fraa þier Sioonina og Heyrnina? Og hvar stendur þu þa, ef þu hefur forsmaad Rijkdoom hanns Langlundargieds, Rom. 2. i þvi, ad vilia ecki hanns Ord heyra þier til Saaluhiaalpar? Og þoott Gud spare Eyru þijn allt frañ i Daudañ, þa vita Menn, ad ecke siaa þa Auguñ leingur, og ecki heyra þa Eyrun leingur, Hiartad verdur þa ad tala vid Gud, og heilagur Andi ad vera vor Prestur i sijnu Musteri; Eñ ef Meñ hafa styggt hañ med Vanrækt Guds Orda, og slockt hañ med Forogtun þeirra, hvar i aa hann þa ad lifa, ef eckert var numid sem hann kuñi ad lifa i? Og er þetta eitt skadlegt Heyrnarleyse. Margur leggur þad ad litlu, ad gaanga i Guds Hws, og helldur þad fyrir Eintoomis Ceremoniu; Þvi er verr! Kañskie þad sie so hiaa allmorgum, sem þar byrtast, alleina fyrer Sida-Saker: Eñ giæte Meñ þess, ad fyrer utañ þad, ad Gud hefur Skulldbundid sig til ad vera midt aa millum Tveggia edur Þriggia, sem eru samannsafnader i hanns Nafne, Matth. 18. Þaa er þad ei so miog vijda i Landi voru, ad Almeñingur faae Guds Ord heyrt nema i Kyrkiunne: O! Hvad miklu Goodu fyrrer saa Madur sig, er byrger Eyruñ fyrer Guds Orde! Þau eru Lijf og Ande, seger Frelsarenn, Joh. 6. Þvi er hann andlega daudur sem aan þeirra er. Vier trwum, ad fyrer Trwna verdi Madurinn hoolpiñ aan Verkanna, seger Paulus: Enn Trwinn er af Heyrninni, enn Heyrninn af Guds Ordi, seger hann, Rom. 10. Hvar vill hann lenda þa, sem er Trwarlaus, nema i eilijfre Glotun? Utañ hañ betre sig. Mijner Sauder heyra mijna Raust, seger Frelsarenn, Joh. 10. Enn hvers munu þeir vera, sem ei vilia heyra Roddu hanns? Munu þeir ecki setter verda med Hofrunum aa vinstri Hlid, og þa um sijder heyra hina skielfilegu Raust alls Hollds Doomara: Farid fraa mier bolvader i eilijfann Elld, sem fyrerbwinn er Dioflinum, og ollum hanns Arum? Matth. 25. Saa sem er af Gude, hann heyrer Guds Ord, seger Lausnareñ, Joh. 10. Eñ þeir, sem þad ecki heyra vilia, og þo heyra kuña, af hverium eru þeir? Af Fodur þeirra

ra Andskotanum, so sem DRotteñ sagde vid Gydinga Fordum. Ut af þessare Deyfu fædest margfalldur Eyrna-Døfe. Hvad giora þeir, ed heyra Vein hinns Naudstadda og Volada, enn byrgia sig þo fyrer sijnu eigenn Holldé, þad er, fyrer þeim, sem ad eru sømu Nꜳtturu og vier, og giefa þeim eckert, jafnvel þoott sumer hafi Audlegd Heims þessa? Engeñ hefur um̃ Alldur sitt eiged Holld hatad, seger Guds Ande, helldur foostrar hañ þad og nærer; Og hvad er þad þa, ad eg skule sia mitt eiged Holld, eiñ Guds Vesæling, miñ Broodur i Christo, ad eg skule sia hañ frioosa edur svellta i Hel, þar eg hefi þo noog, jafnvel til ad kosta uppꜳ Munade mijna? Þetta er stakt Heyrnarleise. Sꜳ sem Oskunda og Orettiñ lijdur, hañ flijr til Doomarans, og bidur um̃ Adstod, enn hann sem af Gude og Kønungenum er settur til ad skipa Riettindum Manna, hann stijngur Fijngrenum i bæde Eyruñ, og vill ei heyra Kvein Løg-Ræningsins, annadhvert fyrer Lete, fyrer Vinꜳttu, fyrer Hrædslu edur Agyrnis Saker, so hinn fer jafn-nær frꜳ hønum: Verr er hønum fared enn hinum Rꜳnglꜳta Doomara, er Frelsarenn talar um̃ i Epterlijkingunne, hiꜳ Luc. 18. Hver þoott hann Ottadest hverke Gud nie Meñ, þa liet hañ sig þo samt leida af Prꜳ-Beidne Eckiunnar, til ad ꜳlijta Mꜳl heñar. Ein gømul Kona beidde Augustum Keysara eitt Sinn, ad heyra Mꜳl sitt; Enn hann kvadst ecke Toom hafa; Hun svarade: So legg þa af Stioornena; Vid þesse Sann-Yrde brꜳ so þeim vijsa Høfdingia, ad hann leit strax ꜳ Mꜳl hennar, og dæmde þad. Eñ þad være Rꜳdlegt, ad þesse Varmenne, sem ꜳdur er um̃talad, ad þeir legdu af sier þetta Starf, þar þeir valla eru hæfare til þess, enn Asnenn til Hørpu-Slꜳttar. Meñ nema þañ Lim i burtu af Kroppnum, sm̃ er daudr, og lijklegur til ad spille ødrum; Sæmra være og þeim, er so þyckheyrder eru, sem nu hefe eg sagt, ad Eyru þeirra være afskoreñ, helldur eñ þau stædu þeim til Vanheidurs, enn engum til Gagns, ꜳ Høfdenu. Þar er engenn kiendur sem hann kiemur ecke: Ef þier blinder værud, þa hefdud þier ecke Synd, enn nu segied þier: Vier siꜳum, þar fyrer blijfur Synd ydar, sagde Lausnareñ vid Pharisæos, Joh. 9. So være og hinum betra, ad Hluster þeirra byrgdar væru, helldur eñ ad hafa Eyru og heyra ecke, eins og ønnur Lijkneskia. Margt mætte hier um̃ fleira tala, þo læt eg þetta duga ad so støddu.

Eñ þad eg hefe ad framañ talad um̃ Heyrnar-Skorteñ, þad sama vil eg um̃ Mꜳlhellt-ena tala; Ad søñu er hun stoor Vanse Lijkamans: Margur Ohlutvandur forsmꜳer þañ, sem er so Mꜳle fareñ, þeir hæda ad hønum, herma epter þeim, og lꜳta miklu verr optast, eñ hiner sem þeir epter herma: Þetta heiter ad lasta Skaparañ; þvi hañ hefur Mañenum Mꜳled giefid; og sꜳ ed fremur þvilijkt Gudleyse, hañ er nærsta illa talande i hañs Eyrum, sem allt heyrer, hañ giorer Mꜳl-Snille, [illegible]a Þusundsiñum argare enn Brest hiñs Mꜳlhallta. Ecke helldur bañar Tungu-Hafted nockrum ad gꜳnga fram̃ fyrer Nꜳdar-Stooleñ, sem Gud hefur sett i hañs Bloode; Hañ sem ecke upplauk sijnum Muñe, helldur eñ eitt Lamb til Slꜳtrunar leidt, hañ gietur vorkient þessum sijnum Vesælingum, er hañ sialfur skapad hefur: Giete hañ ecke ødrum kieñt, giete hañ ecke brukad

Mꜳled til ad tala Mꜳle Eckiuñar og hiñs Fodurlauſa, þa gietur hañ þo lofad Gud, hañ ſkilur Mꜳl hañs, ſem adgreinde Twngurnar, og allar hefur giort af eiñe, hañ gietur beded Gud ſier til Hiꜳlpar og Myſkunar, hañ er noogu ſniallur i Guds Eyrum, ſem bidur i Anda og Sañleika, Joh. 4. Eins vel ꜳkalla hiner wngu Hrafnarner Gud og Svanureñ, og hverutveggiu þeſſa fæder hañ: Þvi ſtendur nu eingum þeſſe Twngu-Breſtur fyrer neinu Goodu, hiꜳ honum, ſem bæde hefur ſkapad hiñ Mꜳllauſa og hiñ Veltalande. Hin er Mꜳl-Hellteñ meire og ſkadlegre, þegar Meñ brwka Muñeñ til ad laſta Gud, hañs Nafn, hañs Ord, rꜳngfæra þad, og ad Hꜳde hafa, til ad ſkiema Nꜳungañ, til ad rægia hañ, liwga ꜳ hañ Lijtum og Skomum þo ſaklauſañ, brixla honum, leggia Haft ꜳ Twngu ſijna þegar hañ ꜳ ad forſvara, þegar Sañleikanum ꜳ Vitne ad bera, og færa Hlutena til betre Vegar: Þetta er ſkielfelegt Mꜳlleyſe, þad er ein Hofud-Skom i Guds Auglite. Þarfara være þeim Mañe, ad hañs Twnga være frꜳ Rootum uppſkoreñ, eñ ad brwka hana til ſlijkra Odꜳda; Þvi ſo ſegier Frelſareñ: Betra er ad þu halltur og Handarvane iñgꜳnger til Lijffins, eñ ad þu hafer Tvær Hendur og Tvo Fætur, og verder i eilijfañ Elld kaſtadur, Matth. 5. hver ed vijs er þeim, ſem temia ſier Þogn þeſſa, og þeſſa Mꜳl-Hellte; Og, nema þeir ydreſt af Hiarta, og lꜳte af ſlijku Ede, þa munu þeir eilijflega med honum verda, er vier Rægi-Kall nefnum, og hefur ſitt Nafn af þvi, ad hañ ꜳklagar Guds Utvallda Dag og Noott, þar ellda þeir Sꜳlum eñ eta Twngur, Elldureñ er noogur, Koſtureñ er mikill, Blꜳſtur DRotteñs upptendrar hañ ſo ſem añad Breñeſteins-Flood, Eſa. 30. Frꜳ hverium Oſkopum hiñ goode Gud vardveite alla Chriſtna Menn! Enn þu, Sem Allt Giorder Vel, Þu Sem Lietſt Daufa Heyra Og Mꜳllauſa Tala, vijk þeim affijdis frꜳ Foolkinu, frꜳ vondre Verolldu þeſſare, hverra Eyru ad allt ofmiog klæa epter heñar Glaum, hverium eckert Mꜳl lijkar, nema þad ſem heñe er þocknanlegt: Rek þꜳ wt af Babylon, DRotteñ miñ, jafnvel med Svipu þijns Kroſsburdar, ſo ad ecke medtake þeir af Plꜳgum heñar: Snert Eyru vors Hiarta med Fijngre þijnum, ſem er þiñ Ande, ſo ad vier hofum vora Lyſting i Logmꜳli þijnu, og uppleys Fiotur Twngu vorrar, ſo ad vier tolum riett, þad ſem Gude ſie til Lofs og Dijrdar, hañs Kyrkiu medal vor til Uppbyggingar, eñ Andſkotans Rijke, og allre hañs Ydne, til Nidurdreps. Bænheyr þad vor Lauſnare, fyrer þijna Forþienuſtu! Þier med Fodur og Heilogum Anda, ſie Valld og Kraptur, Rijke og Mꜳttur, Æra og Dijrd, frꜳ Eiñe Eilijfd til Añarar, AMEN.

# Þrettanda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudſpialled, Luc. 10. Cap.

OG JEſus hañ ſnere ſier til ſiña Læriſveina, og ſagde þeim einslega: Sæl eru þau Augu ſem ſiꜳ þad, hvad þier ſiꜳed, þviad eg ſegie ydur, þad marger Spꜳmeñ og Kongar villdu hafa ſied hvad þier ſiꜳed, og ſꜳu þad ecke, og ad heyra hvad

þier

þier heyred og heyrdu þad eige. Og sia, ad nockur Lögvitringur stood upp, freistade hanns og sagde: Meistare, hvad skal eg giöra, so ad eg eignest Eilijft Lijf? Enn hañ sagde til hanns: Hvad er skrifad i Lögmalinu? Hverninn les þu? Hann svarade og sagde: Elska skalltu DROTTeñ Gud þiñ af öllu Hiarta þijnu, og af allre Ondu þiñe, og af öllum Mætte þijnum, og af öllu Hugskoti þijnu, og þinn Náunga sem sialfañ þig. JEsus sagde til hañs: Þu svaradir riett, giör þad og muntu lifa. Eñ hañ villde riettlæta sialfañ sig, og sagde til JEsu: Hver er þa miñ Náunge? JEsus svarade og sagde: Madur nockur foor fra Jerusalem, ofañ til Jericho, og hrasade a medal Ræningia, hverier ad ræntu hañ Klædum, og lemstrudu hañ Saarum, geingu sijdañ i burt, og lietu hañ þar epter hálfdaudañ liggia. Eñ so bar til, ad Kieñemadur nockur foor ofañ þañ sama Veg, og er hañ leit hañ, gieck hañ fram̃ hia hönum. Slijkt hid sama Leviteñ, þa hañ kom nærre þeim Stad, og sa hañ, gieck hañ þar fram̃ hia. Eñ Samverskur Madur nockur foor um̃ fareñ Veg, kom þar nærre hönum, og sem hañ sa hañ, þa hrærdest hañ af Myskun vid hann, og gieck ad hönum, batt um̃ Saar hanns, hellte þar i Vidsmiöre og Vijne, og lagde hañ uppa sinn Eyk, og flutte til Herbergis, gaf og Giætur ad hönum. Eñ Añars Dags þar epter þa hañ foor i burt, took hañ upp Tvo Peninga, og fieck Hws-Bwandanum, og sagde til hanns: Haf þu Gaat a hönum, og hvad þu leggur meira wt, þad skal eg borga, nær ad eg kiem aptur. Hver þeirra Þriggia sijnest þier vera þess Náunge, sem hrasadur var a medal Ræningia? Eñ hañ sagde: Sa sem giörde Myskunar-Verked a hönum. JEsus sagde til hañs: Far þu, og giör slijkt hid sama.

## Exordium.

Hvilijk Oeining ad vered hafe millum Gydinga og Samariskra Fordum, þad vottar Heilög Ritning i nockrum Stödum. Hvernig bidur þu mig um̃ ad drecka, þar þu ert Gydingur, sem er ein Samarisk Kona? sagde hun, er talade vid Frelsarañ hia Jacobs Bruñe, þvi ecke samneita Gydingar Samaritanum, Joh. 4. Segium vier ecke vel, ad þu ert Samverskur, og hefur Dioful, sögdu þeir Gudlastararner Fordum, Joh. 8. Og so miked Hatur baaru Gydingar til þeirra, ad einn Heidinge mætte Gydingur gioraſt, enn ecke Samariskur, jafnvel þott þeir brwkudu marga Gydinga Sidu i Þioonustu sinne, so sem eiñ af þeirra Meistrurum skrif-

år, og sañast hier medal añårs, þad er Frelsareñ tålade vid Pharisæos, ad þeir bønnudu Mønnunum iñ i Himna-rijke, enn sialfer kiæmu þeir þar ecke, Matth. 23. Af þessu Innbyrdis Hatre, sem i þa Daga var millum Gydinga og Samariskra, tekur Frelsareñ hier Ordsok til ad sannfæra þeña Løgvitring, sem Gudspialled umgietur; Og mà hier rekia Spor hañs Guddoomlegrar Speke, so vel hier, sem i øllu hañs Tale. Hefde hann ecke teked hinn Samariska til Dæmis um Myskunar-Verked, helldur lated hañ vera þann, sem hrasadur var medal Ræningia, þa hefde þesse Gydingur sagt, ad hañ ei hefde vered Nåunge hinns, og Gydingureñ þar fyrer ecke skylldugur ad lidsiña hønum i neinu: Enn fyrst hann var Samaritan, sem Myskunsemena framde, enn hinn var Jerusalems Madur, þad er Gydingur, og matte þvi Myskunar verdur þykia, þa gat hinn ecke fra þvi geinged, ad hann være hanns Nåunge, sem giørde gott Verk a hønum. Ecke a þesse Epterlijking so ad skiliast, ad sa sie einaste Nåunge, sem giører eins og þesse Samaritan; Þad giører Frelsarenn bert, er hann segier: Hver Laun hafed þier þess, ad þier elsked þa, er ydur elska, giøra ecke Tollheimtu-Menn hid sama? Matth. 5. Helldur er þesse Meiningenn: Fyrst þesse Samaritan giørde þetta vid einn Gyding, þa far þu, sem ert Gydingur, og giør slijkt hid sama vid einn Samaritan, edur þinu mesta Ovin, þviad hver ein Manneskia er þinn Nåunge, nær hønum aliggur. Ut af þessu Tale DRottens, vil eg taka mier Ordsok, til ad tala um Kiærleikañ, og hvad langt hann eige ad na. Vert þu i Verke med oss, DRottenn, so ad þetta vel luckest, AMEN.

## Utleggingeñ.

Margar Digder eru bodnar i heilagre Ritningu, og morgum hroosad, þo eingum meir enn Kiærleikanum. Nu bliifa þesse Þriw, Trwen, Voneñ, og Kiærleikureñ, eñ Kiærleikureñ er þo mestur af þessum, segier Paulus, 1. Cor. 13. Þetta er stoor Vitnisburdur af hønum, er so var kiært til Ett-Maña sinna Gydingaña, ad hañ æskte sier ad vera wtrekeñ fra Christo fyrer þeirra Skulld, Rom. 9. Hann mun meint hafa, ef þad kyñe ad gagna þeim, og þad møgulegt være; Þvi sijdarst i hinum 8. Capitula segiest hañ vera þess fullviss, ad engeñ Hlutur mune gieta skiled sig vid Kiærleika Guds, sem ad er i Christo JEsu: Eñ þvi hroosar hann nu so miøg Kiærleikanum fram yfir Trwna, an hverrar hañ þo segier, ad Omøgulegt sie Gude ad þocknast, Hebr. 1. Og ad fyrer hana verde Meñ hoolpner, an Verka Løgmalsins? Þad velldur þvi, ad Trwenn er daud an Verkanna, segier Jacob Postule, Cap 2. Hann meinar an Kiærleikans Verka, sem þo af heñe framkoma, þvi Trwen sijner Afl sitt hvad mest i þeim. Satt er þad, ad engeñ verdur hoolpenn an þess, ad hann trwe a Gud og hañs Christ, og treyste þvi, ad hann Endurkeyptur sie fyrer Guds Sonar Blood; Eñ þvi gietur sa ecke trwad, til Saluhialpar sier, sem er an Kiærleikans: Paulus bijdur, ad Meñ skule reyna hvert þeir sieu i Trwñe; Enn hvar med eiga þeir ad reyna þad, nema med Kiærleikanum, an hvers Trweñ er engenn Trw? So sem Kiærleikurenn gietur

ecki

ecki verid enn Trwarinnar, so gietur ei Trwinn enn Kiærleikans verid; Þad vottar Paulus, 1. Tim. 1. Er hann seger: Ender Logmalsins er Kiærleikurinn af hreinu Hiarta og goodre Samvitsku, og Trw Hræsnislausre. Logmalid er Omøgulegt upp ad fylla; Þad vottar Paall, er hann seger: Af Logmalsins Verkum mun eckert Holld fyrir honum hoolpid verda, Rom. 3. Þo seger hann aptur i sama Pistle: Sa ed elskar annann, sa hefur Logmaled uppfyllt, Rom. 13. Hvad ber til þessa, christner Menn? Ad vijsu svarade JEsus Logvitringnum, er spurdi hann ad, hvert ed være hid mesta af øllum Bodordunum, Marc. 12. Hann svarade honum: Hid ædsta allra Bodordanna er: Elska skalltu DRottinn Gud þinn af øllu Hiarta þijnu, og af allre Saalu þinne, og af øllu Hugskoti þijnu, og af øllum Mætti þijnum, þetta er hid ædsta Bodord; Og annad er þvi lijkt: Elska skalltu Naunga þinn, sem sialfann þig; Og i þessum Tveimur Bodordum, seger Lausnarenn, ad hoolged sie allt Logmaled og Spaamennerner, Matth. 22. Enn so sem oss er Omøgulegt allt Logmaled upp ad fylla, so er oss þad og langt umm Megn framm, ad fullnægia þessum Tveimur Bodordum, so sem vera byriar, med vorum Tilverknade. Hvilijkur er þa sa Kiærleikurinn, sem er Logmalsins Uppfylling? Þad maa eg fyrst og fremst hier til svara, ad þad er hanns Guddoomlegur Kiærleike, sem gaf sitt Lijf i Daudann fyrer Syndarann, Rom. 5. so hann mætti lifa, Joh. 4. Sw Elskann, sem vard honum so sterk sem Dauden, og Vandlætingenn so hord sem Helvijted; Hin miklu Votninn kunnu ecki ad wtslockva þann Kiærleika, og ecke Bylgiurnar ad kiefia hann, seger Brwdurinn i Lof-Kvædinu, Cap. 8. Þesse Ommrædilege Kiærleike og Brune Elskunnar, hann er fyrst og sijdarst Logmalsins Uppfylling; Þad vottar Paulus, er hann skrifar, Rom. 8. Þad sem ad Logmalinu var Omøgulegt, af þvi þad veiktist fyrer Holldsed, þad hefur Gud giort, sendandi sinn Son i Lijkingu syndugs Holldz, og fyrir Syndina fordæmt Syndina i Holldinu; Enn þoott ad Giædska Guds hafi so yfirgnæft til vor i Christo JEsu, þar fyrer vill hann ecki ad vier skulum Hlutlauser vera af Kiærleikans Verkum Innbyrdis medal vor; Þvi Johannes seger hier med berum Ordum: J þvi er Kiærleiki Guds auglijstur vid oss, ad hann hefur giefid Saal sijna wt fyrir oss, so eigum og vier ad wtgiefa Saalina fyrir Brædurnar, 1. Joh. 4. Elskann til Naungans er Omissande, og annhennar er einginn riettnefndur Christinn: Hver sem segest elska Gud, enn hatar sinn Broodur hann er einn Lwgare, seger Johannes, þvi ef hann ei elskar sinn Broodur, þann ed hann sier, hvernig maa hann Gud elska, þann ed hann sier ecki? Og þar af skulu aller þeckia ydur, ad þier sieud mijner Lærisveinar, ad þier elskest Innbyrdis, seger DRottenn sialfur, Joh. 13. Hier af vill þad fylgia, ad hann, sem ecki elskar sinn Broodur, hann er ecki Lærisveinn Christi; Sa sem ecki er hanns Lærisveinn, hann er ecki Christinn, og hann sem ecke er Christenn, hann hefur ecki Hlutdeild med honum: Med hverium þa? Med Vantrwudum mun hann setia hanns Hlutskipte i þvi Dijke, sem vellur af Ellde og Brennesteine, ja, med Dioflinum og øllum hanns Arum, þeir ed hata bæde Gud og Menn. J einu Orde ad segia: Þar er einkis Goods Von a þeim Manni,

i hver-

J hverium Kiærleikurinn ecki bijr; Jafnvel þoott hañ sijniſt giøra nockud Gott, kañſkie til ad firra ſig Vijtum, til Fordilldar ſier, og til ad þyggia Hroos af Mønnum, eins og Phariſæi giordu Olmuſur ſijnar: Þar um̃ tekur Paulus Tvijmælinn af, er hañ ſeger, 1. Cor. 13. Þoott eg bitade allar Eigur mijnar nidur fyrer Fatæka, enn hefde ecke Kiærleikann, þa gagnadi mier þad ecki: Og hier þvert a moote: Hver ſem Kiærleikañ i ſier hefur blijfanda, hann er til allra goodra Verka hæfur. So ſeger Johannes: Gud er Kiærleikurinn, og ſa ſem blijfur i Kiærleikanum, hann blijfur i Gudi, og Gud i hønum, 1. Joh. 4. Þetta hefur ſa Guds Madur an Efa lært af ſijnum Meiſtara, hvern hañ elſkade, þvi ſo ſeger hann Bleſſadur hia ſama Gudſpialla-Manne, Cap. 15. Sa ſem blijfur i mier fyrir Kiærleikann, og eg i hønum, hann ber mikinn Avoxt, þvi an mijn gietid þier eckert: Siaed, hverſu Omøgulegt er an Kiærleikans Gudi ad þocknaſt, og hverſu ad hañ er Saal allra Dygda og Mañkoſta; Þvi ef ſa blijfur i Gude, ſem i Kiærleikanum blijfur, ſo ſem ſtrax var ſagt, þa eru hañs Verk i Gudi giørd; Þvi ſeger og Paulus, Col. 3. Um̃ alla Hlute fram̃ þa hafid Kiærleikañ, þvi þad er Band Fullkomlegleikans. An Trwariñar er Omøgulegt Gude ad þocknaſt, ſem adur er ſagt: Eñ ſoñ Trw er alldrei an Kiærleikans, þvi ma eg ſo kalla, ad þau ſieu eins og Fader og Mooder allra þeirra Athafna, ſem nockud eiga fyrir Gude ad gyllda.

Eſaias ſkrifar ſo um̃ Gud, ad Elldur hañs ſie i Zion, og hanns Ofn i Jeruſalem, Eſa. 31. Teiknande þar med Guds Þioonuſtu i þeim heilaga Stad, hvar enn Allra Hæſte hafde ſett Minning ſijns Nafns, enn ſw Dijrkan hefur Enda teked, Sool Riettlætiſins hefur Skuggann afmaad, Zion er Eydeløgd, Jeruſalem er uppbrend, og Gydingum ſitt Hws i Eyde lated, Matth. 23. Þvi kalla eg, ad nu bwe Guds Elldur og hanns Ofn i Nija Teſtamentiſins Muſtere, ſem er Riett-chriſtins Manns Hiarta, hvar Gud hvijleſt yfer Cherubim, yfir þeim Naadar-Stoolnum er hañ fram̃ſett hefur i hañs eiginn Bloode, Rom. 3. J einum glooande Anda, i einni lifande Trw, ſem verkar med Kiærleikanum, þvi hun gylldir fyrir Gude i Chriſto, enn hverke Um̃ſkurn nie Yfirhwd, Gal. 5. J Elſkunne til Guds og Naungans, þad kalla eg hinn Ævarande Elld, og ſijfellt Offur; Þad nefne eg Guds Ofn i Mannſins Hiarta. Þeſſe Høfud Dygd, Kiærleikureñ, er nu i mørgu foolgiñ, og alla Um̃geingne vora upptendrar hañ til hinns Gooda, ecke ſijdur eñ Twngañ til hiñs Jlla, nær hun er upptendrud af Helvijte; ſo ſem Jacob ad Orde kiemſt, Cap. 3. Eñ Paulus hefur i ſtuttu Maaleuppteiknad alla hañs Edles-Hattu ſo merkilega, ad þad verdur ecke af ſyndugre Twngu betur giort: So ſkrifar hann, 1. Cor. 13. Kiærleikurenn er Þolinnmoodur, ſeger hann: Alla Hlute þola Menn fyrer þad, ſem þeir elſka: Hvad vinna Menn ecke fyrer Mune Veralldar þeſſarar, fyrir Audiñ, fyrer Metordiñ, til þeſs, ad fa Hefnd yfir Ovinum ſijnum? Þad ſama giører Kiærleikurinn vid Gud og Naungañ, Guds vegna. Hañ er Goodgiarn, Eckert ma hañ aumt ſia; Hann er ad ſijnu Leite eins Lyndur og Gud, af hverium hañ er, 1. Joh. 4. Hann giører Gott, ef hann gietur, bædi Vinum og Ovinum, Matth. 5.

Kiær-

Kiærleikurinn øfundar ecke; Þad er aa moote hañs Naatturu, ad siaa Offsøonum yfir nockurs Mañs Velgeingne, sem øllum vill vel. Kiærleikurinn giører ei Illmannlega, þad er, med ødru Ordi ad segia, Hreckvijslega; Hann geymir eingann vondañ Mañ, ei talar hañ annad med Munninum, eñ hañ hefur foolgid i Hiartanu. Hañ þijtur ecki upp; Hann er ecki Drambsamur, þvi saa sem elskar einn, þañ virdir hañ, eñ Kiærleik=urinn elskar alla, so mikid sem elska maa med Riettu. Hañ er ecki Osidsamur; Þar er valla fraa ad segia, hvilijks Oþocka og Mann=Haturs ad Vanskickuniñ aflar i Heim=inum, og wtvortis Osidir, jafnvel þoott sumum Møñum þyki lijtid i Kurteysina spuñid, samt er hún þo optast Dygdanna Førunautur, og hun prijder þær, eins og fagur Búnn=ingur Mannsins Alit: Þetta vill ecki Kiærleikurinn sig vanta laata, so ad eingum giefi hann neina Hneixlan. Hann leitar ecke epter þvi sem hañs er, þvi hann leitar almeñi=legs Gagns hvad mest, og ecki so miøg sijns eiginn. Hann er ecki Þrønglyndur, verde hønum þad, ad hann reidest, þa lætur hann þo ecki Soolina undirgaanga sijna Reide. Hann þeinker ecke Illt, ecki aa hiaa hønum heima þad gamla Ordtæke, margur ætlar mig sig, og maatulega dyggvann, nie hitt, ad Illur veit hvar Odyggur situr; Af þvi hann ætlar eingum Illt, þa dylst hañ vid i fremstu Løg, ad Hreckvijsinn muni ætla sier þad. Hañ ber allt; Allt hvad hønum er uppaalagt, þad ber hañ eins og Maattar=Trie i Hwsum, þau bera allt þad sem aa þau er lagt, hvadann og Maalshaattur þesse dregenn er: So rijs hann og under øllu, sem hann maa umbera, Guds og þeirra vegna, sem hañ er hvad mest skylldugur. Hann trwir øllu, hann vill helldur trwa þvi, sem hønum er saklaust ad trwa, helldur enn ad væna einn Lijgi ad Naudsynialausu, edur Ofyrersyniu: Hann vonar allt: Hañ ørvæntir ecki um neiñ, ad ei kunni hañ ad betra sig, þoott Ovæn=lega megi um hann þykia; Olijkur þeim sem ecki vilia neina Tilraun giøra vid eiñ, sem af einhverre Hrøsun verdur yfirstijgiñ, eins og Gud sie ecki maattugur ad reysa hañ, og þess vegna lijdur þad allt, hañ sparar eckert Þolgiædi til ad bijda epter Betran þeirra. Þar fyrer seger Salomon vijslega, er hañ seger, Ordsk. 10. Hatred uppvekur Þræt=ur, enn Kiærleikurenn hylur Misgiørdernar. Hvad er nu lijkara Gudi eñ þetta Hiar=talag? Og þesser eru nu Kiærleikans Avexter, sem upp eru talder: Enn sier i Lage vill Frelsarinn hafa kiennt med þessare Eftirlijkingu Myskunsemina og Goodgyrnina vid sierhvern þañ sem Naudstaddur er, þvi hañ svarar hinum Skriftlærda uppaa Spurn=ingu sijna; Hver þar væri hanns Naaunge? Þad er aadur hier ad framañ sijnt, hversu ad Gydingar og Samarisker hafi hatast aa Innbyrdis, og hveriger meintu adra sijna Naaunga ad vera: Enn DRottiñ suart hier nockud biturt vid Kaun hiña Skrift=lærdu og Pharisæaña, þar ed hann tekur til Dæmis i Eptirlijkingunni Prestiñ og Levit=ann; Þesser heiløgu Menn, sialfer Gydingar, þeir geingu fram hiaa Gydinginum, þar hañ laa so illa farinn, sem i Gudspiallinu seger. Enn Fiandmadur hanns, hverium ein=kis Gydings Auga mundi myskunad hafa, hañ giørdi Myskunar=Verk aa hønum: Hann Saa Aumur A Hønum, seger Textenn: Fyrst vaknade Kiærleikurinn i Hiart=

anu; So eigum vier og Lynder ad vera, þvi nema ad Goodgiorder vorar framkomi af Gnægd Hiartans, þa eru þær Onijtar: Þad er ꝏdur vottad af Pꝏls Ordum, er hañ seger, 1. Cor. 13. Þoott eg bitadi allar Eigur mijnar nidur fyrir Fꝏtæka, og hefde ecke Kiærleikann, þa gagnade mier þad ecke: Og aptur bijdur hañ, ad Menn skuli giora Gott, ecki af Naudung, helldur af fwsum Huga. Eñ hañ liet Goodgyrne sijna ecki alleina vera foolgna i Medaumkuninni, helldur brautst hun wt med Verkunum. Hann Batt Hañs Sꝏr, Hellti þar i Vijne og Vidsmiore, med odru fleira sem Textinn upptelur, og ei þarf framar ad uppreikna. Enn i einu Orde vil eg þad segia: Enginn Mooder hefdi kunnad betur ad giora vid Barn sitt: Enginn Fader vid sinn einka Son, enginn Brooder vid annañ, helldur eñ þesse Utlendingur giordi vid Ovin siñ i slijku Tilfelle. Far þu nu, Christenn Madur, og gior slijkt hid sama, sem Heidinge þesse giorde: Elska ecke med Orde og Twngu, helldur med Verki og Sannleika, 1. Joh. 3. Nær þu sier Broodur edur Systir nakta, og hafa Skort ꝏ daglegre Næringu, þa lꝏt ecke þiñ Kiærleika vera þar i foolginn, ad þu seger: Lifid heil, vermed ydur og metted ydur; enn giefid þeim þo ecke hvad Lijkamans Naudþurft tilheyrer, Jac. 2. Þetta er Hræsne Eintoom, og þad mun eins lijtid gagna Sꝏlu þinni, nær þu skallt fara eins nakiñ i burt wr Heiminum, og þu i hann komst; so sem ad þijn Fagurmæle gognudu hinum Nakta og Hwngrada, ꝏ medann þu hafder Audlegd Heimsins: Þad er merkelegt, ad ꝏ hinum Effsta Dege, þegar Reikningurinn skal halldast, þa verdur oss þesse Postur sier i Lage fyrerlagdur, hvert Menn hafa mettad hinn Hwngrada, giefid hinum Þyrsta ad drecka, hyst hinn Framanda, klædt hinn Nakta, vitiad Siwkra, edur þeirra, sem voru i Myrkvastofu, so sem Frelsarinn kiennir oss sialfur, hiꝏ Matth. 25. Cap. Og er þad ecki noog ad vitia þeirra, þad er eins gott og ad segia vid hiñ Nakta, klæd þig, og vid hiñ Hwngrada, mettast, eñ giefa honum þo eckert. Vor Vitian ꝏ i þvi ad vera foolgiñ, ad hugsvala þeim, hiꝏlpa þeim med Raad og Daad; Añars eru Meñ ecki betri eñ Presturiñ og Levitiñ; Þeir sꝏu ad soñu hiñ auma Mañ, er hrasadur var ꝏ medal Ræningia, enn gengu fram hiꝏ honum. Jꝏ, vier eigum ad hiꝏlpa þessum Krossberendum, jafnvel med Skada vorum, og þoott vier meigum nockurs i þarfnast. Hier stendur i Gudspiallinu, ad Samaritaniñ hafe lagt hiñ sꝏra Mañ uppꝏ siñ Eyk. Lijkast er hañ hafi lꝏtid hañ sitia ꝏ Dijrinu eñ geingid sialfur; Þvi i Textanum stendur, ad hañ hafi sett hañ uppꝏ sinn Eyk, jꝏ, ef vier ecke berum Kuñꝏttu edur Vitsmune til ad hiꝏlpa þeim sialfer, þa eigum vier ecke ad spara til þess Fe-Mune vora, ad þeim meige hoolpid verda: Þvi ef Johañes vill ad vier skulum giefa Lijfid wt fyrer Brædurnar, þa er þad vijst, ad hañ ecki vill ad vier þyrma skulum hinum rꝏnglꝏta Mañon, er oss mun þo yfirgiefa i Daudanum: Þvi þad stendur fast, sem Lausnarinn sagde: Ad alltijd er Lijfid meira verdt enn Fædslann, og Lijkamiñ meir enn Klædnadurinn, og meira hofum vier ecke af ollu þvi vier eigum, og ꝏ þetta ecki ad giora so naumt, ad þeir fieu litlu nær, sem vid þurfa. Ecki var þessi goodi Samaritan ꝏnægdur þar med, ad koma

þessum Vesæling til Manna-Bygda, helldur Gaf Hañ Giætur Ad Honum; Og Um Morgunenn Er Hañ Reiste, Feck Hañ Hwsboondanum Tvo Peninga, Og Sagde: Haf Þu Gaat A Honum, Og Hvad Þu Leggur Meira Ut, þad Skal Eg Borga, Nær Eg Kiem Aptur. O! Hvad morgum þeim, er sig christeñ nefner, gietur Utlendingur þesse Kiñroda giort aa þessum verstu og sijdurstu Tijmum, um̃ hveria DRotteñ hefur talad hina soñu Spaa, ad sokum þess, ad Ranglæted vex, þa muni margra Kiærleiki koolna, Matth. 24.

Eñ þessa Goodvilld eigum vier ecke alleina ad audsyna Naaungum vorum edur Kuñingium; Þad sie eg berlega af þvi, er Frelsareñ sagde vid þañ, er honum boded hafde, Luc. 14. Nær þu helldur Middags-Verd edur Kvølld-Maaltijd, þa biood ei Vinum þijnum, edur Brædrum þijnum, edur Ættmoñum þijnum, edur Rijkum Naagroñum, so ad þeir bioode þier aptur einhvern Tijma, og þad verde þier Endurgollded; Helldur, nær þu giorer Heimbod, þaa biood Faatækum, Vonudum, Holltum og Blindum, og muntu sæll verda, þvi þeir hafa þier ecke aptur ad giefa, þvi þad skal þier aptur gollded verda i Upprisu Riettlaatra. Þar fyrer, ef þu christeñ Madur ert, ef þu villt i þeirre Upprisu Hlutdeilld hafa, þa siaa til, ad þu naaer Hlutskipte i hiñe Fyrri, so þu verder sæll, og fel þig ecke fyrer Hollde þijnu, þad er, fyrer þijnum Naaunga, hver sem hellst hañ er, og nær þu sier eiñ Naudstaddañ, er þu hiaalpad gietur, þa laat so sem hid sijdarsta Lwdurs-Hliood kvede fyrer Eyrum þier, og tak þad fyrer Bod fraa Gude, til ad minna þig aa, ad giora Skylldu þijna med Kiærleikans Verke vid hiñ Naudstadda: Laat engañ vera undañskileñ, þo þier Opeckur sie; Gleimed ecke Giestrisneñe, segier Paall, þvi fyrer hana hafa sumer Englana hyst Ovitande, Hebr. 13. Hann meinar aan Efa Abraham, Gen. 18. Og vard honum þad ad mikille Blessan; Þu veitst ecke hverium Guds Þock er ad giora, enn þad veitstu, ad hann þacka vill allt þad, sem i hanns Nafne giort og giefid er. Framande var eg, og þier hystud mig, segier Doomare alls Hollds. Þu skallt ecke giora Ofrijke hinum framanda, þvi þu varst framande i Ægyptalande, segier Gud, Exod. 22. Þu skallt og huxa þad, ad þu ert framande i hiñe vondu Ægypta Verolldu þessare, i þeirre Leyr-Velltuñe, þvi Þrældooms-Hwsenu: J hiñe eilijfu Canaan er þitt Fodurland, þaangad aattu iñ ad gaanga til hanns Hvijldar, þaangad aa þig ad leida, ecke Jesus Sonur Nun, helldur JEsus Sonur Davids; Forsmaa ecke þa, sem hann hefur med sijnu Bloode endurleyst, er siaalfur framande var medal sinna Eigeñ, og hvad miñst vyrdtur aa siñe Fooster-Jordu fyrer þijna Skulld, sem varst wtlægur wr Himnarijke. Og so þu viter, ad þad sie ecke noog, ad giora hinum framanda edur naudstadda eckert Mein, þa leggur DRotteñ siaalfur best wt sijn eigenn Ord, þar hañ segier, Levit. 19. So sem hiñ Jñlende, so skal Utlendingureñ vera, saa ed reiser um̃ hiaa þier; Og eñ framar: Þu skallt ecke upptaka Leifar Kornskieru þiñar: Þu skallt laata þær epter hinum Faatæka, og hinum Utlenda, Levit. 23. Jaa, þier skulud elska hinn framanda, þvi þier vorud framande i Ægyptalande, segier hinn Alvallde Konungur,

ur, Devt. 10. Ecke eru undann þessare Skylldu Oviner þijner skilder, Guds Barn, helldur i heñe tilskilder: So segier DROtteñ, Exod. 23. Ef þu fiñur Naut Ovinar þijns, edur Asna Villurꝏfande, þa skalltu endelega færa þad til hanns. Vilie nu DROtteñ ad eiñ skule vera sijnum Ovin skulldbundeñ i so litlum Hlut; Hvad þa ecke, ef honum meira aaliggur? Og þoott eckert være añad, sem kynne ad hræra oss til ad giæta þessarar Skylldu vorrar, þa er hid algiorda og alkuñuga Løgmaal Christi, er ritad stendur hiꝏ Matth. Cap. 5. Elsked Ovine ydar; Blessed þa er ydur formæla, og bidied fyrer þeim ed smꝏna ydur og offækia. Til hvers? So ad þier sieud Børn Fodur ydar, sem ꝏ Himnum er, hver ed lætur Sool sijna upprenna yfir Riettlꝏta og Rꝏnglꝏta, og rigna yfir Vonda og Gooda. JEsus mꝏtte hier diarft um tala; hann var i Guds Mynd, Phil. 2. Jꝏ, siꝏlfur Gud, eilijfur Fader og Fridar-Hofdinge, Esa. 9. Þo lijtelæckade hann siꝏlfann sig, takande Þioons-Mynd, vordenn hlijdugur allt til Daudans, jꝏ, allt til Krossens Dauda, sijdann er hañ uppfareñ i Hæderuar, og hefur Mønnunum Gꝏfur giefed: Eñ hvilijkar Gꝏfur? Nꝏd Guds og Vingan, Syndanna Fyrergiefning, H. Anda og eilijft Lijf. Hverium hefur hañ þessar Gꝏfur sendt? Ovinum sijnum, þeim sem hann Hæddu, Fiotrudu, Hwdstryktu, med Þyrnum Kronudu, og ꝏ Gꝏlgañ uppheingdu, ecke einasta þeim, er stoodu ad Verkinu, helldur og øllum ødrum, hverra Synder ad Dijrdareñar Hertoga Krossfest hafa, þvi fyrer alla er hann dꝏinn, og øllum er Guds Heilsusamleg Nꝏd frambodenn: Þetta giorde hann, sem er Lioome Fodursins Dijrdar, þegar allt Mañkyn var statt i hinu herfelegasta Volæde. Skamastu þijn þar fyrer, Syndarenn, nær þu sier Ovin þinn Hwngra, ad giefa honum ecke ad eta, edur Þyrsta, og giefa honum ecke ad drecka, og nema þu so giorer, þa þeink alldrei til þess, ad þu siert kvittur um Synder þijnar fyrer Gude, þvi valla hefur Guds Ande i Nya Testamentinu lagt so rijkt ꝏ vid Menniina um nockurn Hlut, sem þeña. Aller køllum vier Gud vorn HErra, enn ef hann er vor HErra, hvar er þa hañs Heidur? Mal. 1. Hvar er Hlijdne sw, er vier eigum honum ad audsyna? Þvi kalled þier mig HErra, og gjored þo ecke þa Hlute, er eg bijd? Segier Christur, Luc. 6. Hañs Bodord eru ecke þwng, segier Johañes, enn eg vil segia, ad þetta er eitt af þeim liettustu, af þeim audvelldustu, fyrer þañ sem hugleider hvad lijtil sie Nꝏungans Misgiord vid sig, hiꝏ þvi sem hañ siꝏlfur hefur giort Gude i moote, og hversu þad er eckert, sem hañ gietur lidsinnt Broodur sijnum, hiꝏ øllu þvi goodu sem Gud hefur honum giørt, og tekur hañ þad þo ecke af sijnu, helldur hanns, sem ꝏ allar Eigur. DROttenn, wtslock þu i oss Bꝏl Illkunnar og Heiptrækiinnar, enn kveik i oss Elskuna til þijn og Nꝏungans; Þier sie Lof, Dijrd og Heidur, um Allder, Amen.

# Fioortanda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 17. Cap.

J Þañ

I Þañ Tijma. Og þad skiede so, þa ed JEsus gieck til Jerusalem, ad hañ ferdadest i giegnum midia Samariam og Galilæam. Eñ sem hañ gieck iñ i nockurt Kauptwn, mættu honum Tiju Lijkþraer Meñ, hverier ad stoodu laungt fra, hoofu upp sijnar Radder, og sogdu: JEsu goode Meistare, myskuna þu oss. Eñ sem hañ leit þa, sagde hañ til þeirra: Fared þier og sijned ydur Kieñimoñunum. Og þad skiede so, þa er þeir geingu þadañ, ad þeir urdu hreiner. Eñ einn wt af þeim, nær hann sa þad, ad hann var Heilbrigdur vordeñ, snere hañ aftur lofande Gud med hárre Raust, fiell fram a sijna Asioonu fyrer Fætur JEsu, giorande honum Packer, og þesse var Samverskur. Eñ JEsus svarade og sagde: Hvert voru ecke Tiju hreinsader? Eñ hvar eru hiner Niju? Funduft eingver þeir apturfuere, ad giefa Gude Dijrdena, nema þesse Utlendingur? Og hañ sagde til hañs: Statt upp og far hiedañ, þviad þijn Trw giorde þig Hialplegañ.

## Exordium.

HVersu stoor ad sie Mismunur Guds og Maña, þad kañ engenn Twnga wt ad skijra, og engenn Hugur ad skilia; Hver Manna veit hvad Mannsins er, nema Mannsins Ande sem i honum er? So og hvad Guds er, veit eugeñ, nema Guds Ande, segier Paulus, 1. Cor. 1. Eñ þo ad vor Natturlegur Skilningur næe skamt til þess, ad rañsaka Guds Underdiwp, þa kyñum vier þo a þessum Mismun nockud skijrare Grein ad giora, ef vier legdum meire Hug a, ad samañbera hañs Almætte og vorn Vanmatt, hanns Riettlæte og vort Ranglæte, hanns Vijsdoom og Fakiænsku vora; Enn þo allra hellst hanns Polennmæde og vora Pvermoodsku, hanns Giædsku og vort Opacklæte: Hanns Almætte þeckium vier ecke so sem þad er: Sitt Riettlæte sijner hañ oss ecke so opt, nema i Giædkunne, þvi velldur Rijkdoomur hanns Polinmædis: Hanns Vijsdoom skynium vier ecke, enn hanns Langlundar-Gied, hanns Giædsku og Myskunseme meigum vier hvad best þeckia, þvi hun er nij og fersk yfir oss a hveriuni Morgne; Jordenn er full af henne, a hverre vier skrijdum, synduger Ormar, og meigum Daglega rekia þar hanns Spor, sem driwpa af Feite. Eg skal ecke fullkomna mijna brennande Reide, eg skal ecke tortijna framar Ephraim, þvi eg em Gud og ecke Madur seger Giædskañ sialf fyrer Muñ Hoseæ Spamañs, Cap. 11. Og þo vill Syndareñ ecke kañast vid þessa Guddoomlega Elsku, Myskunseme og Polinmæde, jafnvel þoott hann sie Madur, þad er, ein Gusa, ein Vatns-Boola, og ecke Gud, og ecke þacka honum edur kanngist vid hanns Fodurlega Giædsku margur hver, Ja, Gud giæfe ad færre væru enn fleire! Þetta hier uppa sium vier i Textanum, a þessum

um Tiju Lijkþrꝏu Monnum, sem hreinsader voru, hverra Einn alleina aptursnere, og gaf Gude Dijrdena, eñ hiner Niju gleymdu þvi ad Bragde, er giort var. Eg vil skipta Gudspiallenu i Tvo Hlute, og hugleida, 1. Oþacklæte hinna Niju. 2. Þacklæte hinns Eina. JESU Goode Meistare, hiꝏlpa hier til med Krapte þijns Anda, AMEN.

## Utleggingeñ.

Ecke er Trwiñ allra, seger Paulus, 2. Thess. 3. Øllum er hun þo frambodenn sem Orded heyra, þvi heilsusamleg Guds Nꝏd er Opeñber vordeñ øllum Moñum, seger Postuleñ aftur, Tit. 2. Er hañ talar um Christne-Boded, i hveriu ad Trweñ er eitt Høfud-Sticke; Margur trwer uñ Stundar-Saker, enn ꝏ Freistingar-Tijmanum, þa fellur hañ þar frꝏ, so sem Lausnareñ kienner hiꝏ Lucam, Cap. 8. Ad vijsu er þad satt, ad Freisting merker optlega i Ritningunne þær Hørmungar, er Gud lætur Børnum sijnum mæta, til ad reyna þau: Ydur hefur ecke hendt nema Mannleg Freistne, segier Paulus, þad er, Mootlæte þad sem Moñum er bærelegt: So nefner og Jacob Mootlæte Guds Barna, Cap. 1. Enn Gud freistar Mannsins ꝏ Stundum med Epterlæte sijnu: Þegar Gud liet David allt ad Oskum gꝏnga, þa vard hañ so freistadur, ad hann talde Foolked, 2. Sam. 24. Þegar Ezechias Konungur hafde Luck u i øllu sijnu Verke, þa freistadest hañ til ad sijna Babylons Høfdingia Sende-Moñum Fiꝏr-Sioodu sijna og Gersemar, 2. Chron. 32. So ad þad mꝏ allt syndugt Holld jꝏta, ad ecke er miñe Freistinga Von i Medlætinu eñ i Mootlætinu; So sem Mootgꝏnguriñ steiper sumum i Ørvænting, so þurfa og sterk Bein til ad þola gooda Daga. Mørgum hefur Velgeingenn komed til Ohoofs, til Ofmetnadar, til Oþacklætis vid Gud, og jafnvel til Afgudadijrkunar, Jꝏ, þeim og, sem Gud hafa ꝏdur vel þeckt, og hañ wr Duptenu hafid hefur, enn sett til mikillrar Tignar, hvar uñ lioost Vitne bera Jeroboam og Jehu Israels Konungar, sem ecke voru Kongborner, enn Gud þo upphoof ꝏ Tignar-Stool Drottna siña. Ecke verdur þvi neitad, ad aller þesser Lijkþrꝏu Meñ, þeir hafa i Fyrstuñe trwad ꝏ Christ, þvi upphoofu þeir Nadder sijnar, og søgdu: JEsu goode Meistare Myskuna Þu oss: Þad hefdu þeir ei giort, nema þeir hefdu heyrt Rikted af DRottne, og treyst þvi, ad med hønum være Guddoomlegur Kraptur: Er eg Gud sꝏ ed kuñe ad deyda edur lijfga, sagde Israels Konungur, þegar Konungurenn af Syria sende Naaman hiñ Syrlendska til hanns, þad eg giete hreinsad þeña Mann, af sinne Lijkþrꝏ, 2. Kong. 5. Hvar af audsært er, ad þad hefur vered ad jøfnu lagt i þꝏ Daga, ad lækna þesshꝏttar Siwkdoom, og ad uppvekia af Daudum, sem er Guds alleina, so sem David vottar; Og er þvi audvitad, ad þesser veiku Menn hafi tillagt Frelsaranum nockurskonar Guddoomlegañ Heidur; Þoott ei hafi þeir verid sañ froodir uñ hañs Persoonu, samt dugde þesse Trw til Lijkamans Lækningar. DRottenn læknade þꝏ ecke strax, eins og hiñ Lijkþrꝏa, er gietur uñ hiꝏ Matth. 8. Cap. Vid hvern hann snart og sagde: Eg vil vertu hreirn; Helldur sagde hann alleina: Fared og sijned

Ydur

Ydur Kiennimoñunum, og aattu þeir þo laanga Leid til þeirra wr Samaria upp til Je-
rusalem, enn aa Leidinne hafa þeir hreinsader ordid, þvi Gudspialled seger: Og Þad
Skiede, Er Þeir Voru A Ferdinne, Ad Þeir hreinsuduſt. Þetta ſijnir Trw þeirra,
ad þeir efuduſt ecki um̃, ad giora Frelſarans Skipan, helldur i Trauſte hanns Orda
byriudu Ferd ſijna til Kiennimañanna, ſem epter Logmaalinu aattu ad dæma um̃, hvert
þeir væru hreiner edur ei. Olijker voru þeir i þeſſu morgum þeim, er ei vilia Gudi treiſta,
verdi þeir ecki ſtrax Bænheyrder um̃ þa Hlute, er þeir þurfa þykiaſt. Vantrwiñ ſeger:
Þoott Gud giordi Glugga aa Himininn, þa kann ecki þetta ad ſkie: Hun ſkijtur ſier inn
jafnvel hiaa Guds Bornum, og predikar: Hvar faaum vier Braud hier i Eydemorku
ſo ad þeſſer neyte, Marc 8. Hvad tijdt hendir oſs þvilijkt, nær oſs þykir eitthvad Olijk-
legt? Og er margur af oſs i þeſſu miog Olijkur þeſſum Lijkþraau Monnum: Enn i
hinu erum vier þeim nærſta lijker, ad þegar DRottinns Almaattuga Hond hefur wt-
ryckt oſs af Neydinni, þa erum vier þeſs ſo ſkamminnuger, og hanns Otte valla leingur
hiaa oſs, eñ Snioorenn aa Steinunum, þegar Regnid ofann kiemur, ſo ſem Spaamad-
urinn ſegir: Og hvad er tijdara eñ þad, ad nær Angiſtenn þreinger ad oſs, ad vier þa
kollum til DRottinns, þa er vort Sinni til hanns, ſo ſem Eſajas ad Ordi kiemſt, Cap.
26. Hver er ſaa, nær hann ſiwkur er, edur af einhverium Lijkamans Meinum plaagad-
ur, ad ecki ſie hann reidubwinn til ad giefa Gudi Handſkrift ſijna, ef hann mætte, uppaa
Betran Lijferniſins, og ad hann vilie laata af ollum þeim Syndum, er hann veit og vid-
kannaſt, ad hann hafi ſiñ gooda Gud ſtygdañ med? Þetta er ad vijſu Alvara fleſtra
Manna, þvi einginn hygg eg ad vilie gabba Gud, þegar ſo aaſtendur: Aſetningurinn er
ad ſonnu goodur, og geingur þad fyrir fullt, ef Gud lætur einn burtkallaſt i Siwkdoom-
inum; Eñ þa er Efndanna vant, þegar Heited er komed, ſeger Ordtæked. Hvernig þeim
ſie varid aa Stundum, þad ſiaaum vier af þeim morgum ſem hætt hafa leiged, eñ Guds
Þoliñmædi og Giædſka hefur aptur aa Fætur reiſt, ad þeir lifa eingu betur ſijdañ eñ aad-
ur, nema midur ſie aa Stundum, og laata jafnvel ecki af þeim Loſtum, er verid hafa Or-
ſok til Meinlætis þeirra, edur añars Mootgaangs, og brwka ſo Myſkun Guds til Eſl-
ingar Syndanna; So laangt er fraa þvi, ad þeir laate Rijkdoom hanns Þolinnmædis
draga ſig til Ydrunar, Rom. 2.

Menn hafa aa medal vor eina Skrok-Sogu um̃ Barn nockurt, þad er fiell i Pitt, og
er þad meinti ſier Dauda-Von, beiddi þad Gud ad hiaalpa ſier til Lijfſins, eñ er þad
ſlapp wr Dijkinu upp aa Backann, þa ſeger Æfinntijrid, ad Barnid hafi ſagt: Ecke
þarftu, eg gat. Einfalldleg er Saga þeſſe, enn þo er hun maatuleg til þeſs, og þar til mun
hun diktud vera, ad giora þeim Kinn-Roda, ſem eru Born i Skynſemlñi, eñ ecki i Hreck-
vijſinni, 1. Cor. 14. og leita Guds alleina nær þeim aaliggur; Eñ añadhvert þacka
ſier, edur gialllda honum litlar Þacker, nær þeir ſloppner eru wr Vandrædunum: Þetta
er almennara, enn Vitni þurfi til ad leida, jafnvel hiaa þeim, ſem hvad beſt ættu ad vita
ſijns Herra Vilia, Luc. 12. og odrum ad vera til Eptirdæmis, er þo mættu Ottaſt

fyrer

fyrer hinum flestu Sløgum, nær Mæler Syndanna er uppfylltur. Til eru þeir sem meina, ad Prestarner hafi um̃snwid þessum Niju Gydingum, og talid þeim Trw þar um̃, ad JEsus hefde ei giort Jardteikn þessa af Guds Krafte, og þvi hafi þeir ecki aptur horfid. Alls var ad sonu Jlls Von af þeim i þæ Daga, sierdeilis þegar Christur ætti Hlutinn ad, og var ecki Olijkt þvi er hann mætti heyra, ad fyrer Belzebub ræki hañ wt Dioflana, Luc. 11. Þad gietur og skied, ad þeir hafi talad þetta fyrer Gydingum, Londum sijnum, enn ecki hyrdt so miøg um̃ hinn wtlenda Mañ: Þeim hefur þad i eingu Rwmi leigid, þoott hann sneri aptur til hanns, er þeir kolludu Samariskann og hefde Diofulliñ, Joh. 8. Eñ Gæatu þessarar er eingiñ Þorf; Holld og Blood er noogu banvænt til ad vekia i oss Syndina, og letia oss til ad giora Gude Þacker fyrer Myskun sijna, er þo daglega upprennur yfir oss Nyænglæatum æ hverium Morgni.

A medañ þesser veiku Menn læu under Krossinum, þa voru þeir gooder Viner, og aller i einum Flocke, enn þegar DRottinn hafdi giefid þeim øllum Heilsuna aptur, þa koñuduft hiner Niju vid þad, ad þeir voru Gydingar, enn hiñ Samverskur, þvi ecki villdu þeir verda honum samferda i Apturhvarfinu til Frelsarans; Þañveg er vort Packlæte vid Gud, er hvad mest hefur bodid ad dijrka sig med Kiærleikanum, Myskunseminñi og Eindrægninni. Þegar Skeinkiare Pharaonis hefur nææd aftur siins Herra Gunst, þa gleymir hann Joseph, þvi hann var Utlendur; Þegar Skullda-Þriooturiñ, sem ætti 10000. Pund ad giallda, þegar hañ er wtgeingiñ fræ Hws-Fodurnum, sem gaf honum upp alla Skulldina, þa griipur hann fyrir Kverkar sijnum Verka-Naut, er honum var miklu minna skylldugur. So geingur þad til fyrer morgum af oss; Hafi Gud upphafid einn Vesæling til Heidurs, til Rijkdooms, til Embættis, þa vill hann ecki kannast vid Brædur sijna, er skom̃u ædur voru hanns Jafningiar, og kannskie høfdu giort vel til hanns. Þegar hinn Almættuge hefur lagt einhvern under Lijma med nockru Mootlæte, añadhvert Heilsu-Breste, Fe-Missu, Ofbelldi og Offooknum vondra Maña, er hañ lijdur ad flwga æ suma, sem minni Mættar eru, til ad typta einhvern, enn lætid hañ þo rata wr þessu, og sett hañ aftur i sinn Stad, þa stijngur hann bædi Auguñ wt, og vill ecke myskuna honum, sem hañ þo sier, ad mæ lijda hid sama, sem hann mætte þola og Gud hafde agad hann med, til ad þeckia Vanmætt sinn, og Skaparans Giædsku, og þegar hañ sier Ovin siñ, er hañ þykist eiga Heipter ad giallda, þa seger hañ med siælfum sier: Eg skal giora honum, so sem hañ mier giorde: Soddañ er hid mesta Oþacklæte. Voru Ecke Tiju Þeir Ed Hreinsader Voru, Enn Hvar Eru Þa Hiner Niju? Seger Endurlausnarenn i Gudspiallinu. Betra hefdi þessum Oþacklætu Mønnum verid, ad Siwkleiki þeirra hefdi fylgt þeim inn til Daudans, enn ad þeir yrdi heilbrygder æ Lijkamanum, enn fyrer Vonbrwkun DRottiñs Giædsku, æ Sealunni Vanheiler. Þeir skildu sig fræ þessum Utlenda Mañi i þvi, ad þeir sneru ecki aftur til sijns Læknara, og sijndu þar med, ad ei væru þeir af hinni Osynilegu Guds Kyrkiu, þoott ad þeir væru Limer hinnar Sijnilegu; So vil eg segia: Ad þeir, sem eg hier ad framann hefi talad

um̃

um, er vilia fraskilder vera Christi Limum, og ecki þeckia þa, þeir eru Stallbrædur þessara Oþacklætu Manna, og ecki Limer a hans Lijkama, sem er Hofud Safnadarins, og ecki einasta gieck i krijng, giörde Gott og grædde alla', helldur og leid fyrer Ovine sijna, jafnvel þa, er hann sialfer kvöldu. Vier vorum til Forna Utlender, an Guds i Heiminum, og fiarlæger Jsraels Borgar-Riette, so sem Paulus ad Orde kiemst, Eph. 2. Hvert ad þesser Nyju Gydingar hafi nockurn Tijma aptur nad sinne andlegre Heilbrigde, þad veit hann einn, sem alleina veit Tölu sinna wtvalldra Barna; Enn fleirum vier til, Utlendinganna Syner, ad vier helldur lijkiunst þessum Utlending, helldur enn Abrahams Sonum þessum epter Holldinu, so ad Spadoomur Frelsarans mætte rætast a sierhverium af oss, þar hann sagde: Marger munu koma af Austre og Vestre, og sitia til Bords med Abraham, Jsaac og Jacob, enn Rijkisins Syner munu wtrekner verda i hin ytstu Myrkur, Matth. 8. Vier erum ad sönnu komner i Stadenn Gydinga: So sem ad DRottenn wtrak Heidingia fyrer þeim, vegna Synda sinna og Stoor-Glæpa, so hefur hann wtrekid þa fyrer oss sökum Hardyðgis þeirra og Vantrwar, þeir eru afbrotner, enn vier innplantader, so sem Paulus ad Orde kiemst, Rom. 11. Enn Gud giæfi, ad fleire enn einn Samaritan finnest a medal Tlju Jsraels Manna, þad er þeirra, sem eiga ad vera, og kalla sig Abrahams Syne epter Trwnne. Diogenes Spekingur var eitt sinn adspurdur, hver-Hlutur ad mest fyrntest a medal Mannanna? Enn hann svarade: Þad væru Goodgiordernar: Þvi ma ei neita, ad hann sagde satt, dagleg Reynsla kiener þad: Enn hvernig sem þessu er vared a medal vor Mannanna innbyrdis, þa ætla eg þo, ad Velgiörningar DRottens, og Þacklæted fyrer þa, þau eigi hinn skiemsta Alldur hia sumumhverium, og eg ma segia, hia allmorgum: Þar um hygg eg þad satt sie, er hiner Spöku segia: Ad sumer vanþacki þess meir, sem þeir meira skyllduger eru, Sökum þess, ad vier siaum hver annan, og þar sem oss er eitt Sinn gott giört, þadan væntum vier meira, þa katunst vier þacka Monnunum, ecki so af Hiarta sumerhverier, so sem til ad orsa þa til, ad hallda afram Goodvilldinni; þad siest a Stundum, nær þeir eru i einhverium Þrautum stadder, sem hvad best hafa til vor giort: Enn Fodur Liossanna, fra hverium ad kiemur öll good Giof, og öll fullkominn Giof, Jac. 1. og allt hvad fra Monnunum kiemur, þad kiemur i Fyrstunni fra Gudi; Honum þacka Menn so lijtt, af þvi vier siaum hann ecke, enn þreisum þo a hanns Glædsku, hanns Velgiorningum og Dasemdum, hvern Dag, hvern Tijma, og hvert Augnablik; Og skal þad nu so wt-talad um þad Fyrra.

Nu er sijdan ad tala um Þacklæte Utlendingsins, og hvad vier eigum af þvi ad læra. Drottningenn af Sudre mun upprijsa og fordæma þessa Kynslood, sagde Lausnarenn, Matth. 12. Hun var Framande, og þo dadest hun so ad Speke Salomonis, ad Lausnarenn hroosar henni i þessum Ordum: Enn öll Salomonis Dijrd var lijtil ad reikna hia þessu Kraptaverke DRottins, þvi ma eg þad segia, ad þesse Utlendske Madur mun gieta kiennt morgum Adferd Þacklætisins vid Gud fyrer medtekna Velgiornin-

ga. Hvernig giorer hann þad? Gudspialled seger: Hann Hafi Prijsad Gud Med Hærre Roddu. Lofseig þu Ønd mijn DRottne, og allt hvad i mier er hañs H. Nafni, seger David; Hvar af sia mæ, ad hañ vill ad aller Partar Skapnadar vors skuli Gud lofa, æ medal hverra Raustinn er ecki hinn minnsti. Alla Hlute hefur Gud giort sier til Dijrdar, og til vorrar Sæluhiælpar; Oskande være, ad Menn brwkudu þæ þar efter! Hvad opt bijdur David, ad Menn skuli Gudi Lof sijngia! Moyses saung Gudi nijann Lofsaung, Maria Syster þeirra Aarons gieck wt og prijsade Gud med Bumbum og Hliodfærum, þegar Gud hafde giort hina stooru Endurlausn sijnu Foolke af Egyptalande, 2.M.B. 14. So er þad enn nu hiæ oss bæde skipad og Veniulegt, ad prijsa Gud med Psalmum og Lofsaungvum, epter Pææls Bode, Col. 3. Ecke sege eg, ad þesse Samaritan hafi kvedid vid Raust; Enn þetta, ad hann Prijsade Gud Med Hærre Roddu, þad minner mig þar æ, ad vier lææum Lofsaungva vora ecki alleina vera foolgna i Hlioodunum, helldur þar med i Gudrækni Hiartans, þvi hier stendur, ad hañ hafi prijsad Gud; Af hveriu audsært er, ad Hugur hefur Mææle fylgt. Ecke verdur DRottenn med þvi prijsadur, ad nææigast hann med Vorunum, ecke helldur med Raustinni alleina, hversu sem hun fogur er, hann vegur Hiartad, sem er Hiartnanna og Nijrnaña Rañsakare; Giæte þeir þess, er fara med andlegar Vijsur og Psalma, alleina ad Gamne sier, brwka þær fyrer Øl-Vijsur, edur til añars Giæliijfis: Hyggi Meñ ad, hvert ecki er i þessu nockur Gudlastan: J þetta mun þykia lijtid spunnid, þvi þad er Almennt, enn Gud lætur ecke ad sier hæda; þoott Ordinn sieu good, þoott Dicturinn fallegur, þoott Raustinn sie væn, þa eru soddann Lofsaungvar ecki añad enn Nyt fyrir utañ Kiarna, Sky fyrer utann Regn, og meir til þess ad styggia Gud, enn ad prijsa hann; Vilie Meñ þvi sijngia Gude Lof, edur prijsa hañ med Roddu sinne, þa sijnge Meñ eins og Paulus og Silas i Fææugelsinu, P.G. 16. Eins og Guds Mooder, eins og St. Pææll um̃ sig segir, 1. Cor. 14. Eg skal sijngia med Andanum; Eg skal og sijngia med Hugskotinu, þad er, eg skal lææa Hug Mææle fylgia; aan þessa er Raustenn Onijt til ad prijsa Gud: Miklu betur lætur Þogn Moysis, er hañ hroopade til Guds, 2.M.B. 14. Enn ecke gietur um̃, ad nockur hafi sied hanns Varer bærast; Miklu betur þeigiande Grææur Aunnu Moodir Samuelis, og miklu betur Trw og heimugleg Audvarpan hinnar Bloodfallssiwku i hanns Eyrum, sem Eyrad plantad hefur.

Hañ fiell til Foota JEsu, seger i Gudspiallinu: Þetta var hid mesta Audmyktar Merki: Ad soñu plogudu Gydingar ad bidiast fyrer standande i Samkunduñi: Tollheimtumadurin̄ stood og badst fyrir, sama giordi Phariseæiñ, þvi seger og Lausnarinn, Marc. 11. Nær þier standid og bidiest fyrir, þa fyrergiefed, ef þier hafid eitthvad æ moote nockrum: So bijdur og Paulus, 1. Tim. 2. ad Meñ skuli upphefia heilagar Hendur: Þo var þad Sidur Gydinga, nær þeir sier i Lage villdu audmijkia sig, ad þeir kostudu sier flotum fram̃ fyrer Gud: Þañig giordi Josua, Jos. 7. So breitti David, og siælfur Frelsariñ i siñi mestu Angist. Audmyktiñ geingur undañ Vegsemdiñi, seger Salomon

mon, Ordsk. 15. Engeñ Hlutur er Gude þægare, eñ eiñ audmiwkur Ande. Hvorri Audmykt miñtest hann a oss, segier David, Ps. 136. Ja, hann lijtur a Tal hinns audmiwka, og forsmaaer ecke hanns Bæn, segier hann enn aftur, Ps. 101. Hversu vel þocknadest Gude Audmykt Abrahams, er hañ sagdest vera Dupt og Aska, Auñu Hws-frw Elkanæ, Gedeonis, er hañ sagdest vera hiñ miñsti i sijns Fodur-Hwse, Dom. B. 6. Þad stendur fast sem Salomon skrifar; Hinum dramblaatu fylger Nidurdreped a ep-tir, og þann sem audmiwkur er i Anda mun Vegsemdenn upphefia, Ordsk. 29. Og þvi skyllde Mañeskiañ ecke audmijkia sig fyrer Gude? Eiñ Syndare fyrer hinum Heilaga, Einn Ormur fyrer Konunge Himins og Jardar? Eiñ Skullda-Þriootur fyrer þeim er Daglega uppgiefur honum so mørg Tiju Þusund Punda, hvers Giædska ad er hærre enn Himeninn, hvers Reide ad brennur allt til nedsta Helvijtis yfir hinum Dramblaa-tu, hver ed Volldugum hrinder af Stoole, eñ Lijtelaatum giefur hann Naad? Og hver-su eru Meñ ecke audmiwker i aunarra Manna Augsijn, jafnvel a Stundum fyrer einn Bita Brauds! O! hvilijk Lotning ber þa honum, sem Daglega upplijkur sinne milldu Hende, og sedur allar lifande Skiepnur!

Giørande Honum Þacker, segier i Textanum. Þesse framande Madur hafde adur sijnt DRottne Gudlegañ Heidur, þar hann fiell til Foota honum, hvad Gude alleina tilheyrer, jafnvel þoott sumer Veralldar-Hofdingiar hafe laated sig so tigna, einkum Persaña Konungar i Fyrndeñe, þvi ecke villde Engelleñ taka slijku af Johanne, er hann sagde: Sia til ad ei giører þu þetta, tilbid þu Gud, Openb. 19. Nu fyrst hañ þeckte hañs Guddoomlegañ Krapt og Valld, þa offrar hañ honum Þackargiørdeñe. So sem engeñ Hlutur meir stygger Gud eñ Oþacklæted, hvar um adur er nockud talad; So er og Þacklæted hanns kiæraste Skattur, og snart ad segia, sa einaste, af Moñunum, þvi ad þesse Skyllda a ad sijna sig i øllu þvi, er vier leitunst vid ad giøra Gude til Þocknunar; Þar fyrer segier Paulus: Allt hvad þier giøred med Orde og Verke, þad giøred i Naf-ne JEsu Christi, og þacked Gude og Fodur fyrer hañ, Col. 3. Þacklætinu er so vared, nær þad framkiemur af Elskuñe til Guds, og trwudu Hiarta, ad þad ecke einasta giélldur Gude undañfarnar Velgiørder, þvi añad heimter hañ ecke, helldur og bijdur ødrum he-im af hañs Myskunar-Hende; Ecke þrijtur hia honum, ef oss þrijtur ecki þad sem hann hefur a oss skiled, og syndugum Mañe er hægast wte ad laata, sem er audmiwkt Þacklæti. Et eg nockud Kiøt hiña sterku Uxaña, edur dreck Blood Hafranna? Seger Gud fyrer Davids Munn, Ps. 50. Offra þu DRottne Lofgiørdenne, og gialld hinum Hæsta þijn Heit: Og er Mañeskiañ nærsta Hyrdulijtel um sijn eigeñ Efne, ad hun ecke skule leggia allañ Hug a þetta, þar Gud krefur so lijtils Hlutar af heñe, i hveriu heñe ecke ein-asta eru engeñ Utlaat, helldur er þad i sialfu sier hid mesta Jñdæle, þeim sem vordeñ er eiñ Ande med Gude, þad er sa Fognudur i heilogum Anda, sem vier eigum ad byria hier fyrst i Guds Naadar-Rijke, eñ sijdañ skal fullkomnast i Dijrdeñe, þegar þad tekur End a sem Haalfverked er, þvi þad mun i hinne eilijfu Sælu verda hid mesta Efterlæte Guds

Barna, ad lofa hann og þacka honum fyrer allar hañs Dꝍsemder og Velgiorninga, hveria vier þa fyrst þeckium, so sem vier þeckter verdum, enn hier ecke nema so sem fyrer Speigil og i Raad-Gꝍtu, 1. Cor. 13. Nu er þad ecke noog, ad Meñ giore Gude Þacker med Munnenum alleina, Hiartad ꝍ med ad fylgia. Hversu innelegar Þacker ad Madur þesse hafe giort Frelsaranum, þad sijna oss Ord DRotteñs, er hañ sagde: Þijn Trw giorde þig hoolpeñ. Og ecke einasta ꝍ Þacklꝍted ad framkoma af Hiartanu, þad er liett fyrer þañ, sem hugleider, ad hann er Gude um̃ Sꝍl og Lijf skylldugur, ad þacka Gude af Alvoru; helldur ꝍ og Gnꝍgd Hiartans ad briootast wt med Verkenu i Betran Lifnadarens, i Ydkun hinna bestu Dygda og Mannkosta, og ollu þvi er vier Gude þocknanlegt vitum vera; Þad bijdur Paulus, er hann segier: Epter þvi Christur er dꝍenn fyrer alla, þa er þad riettvijst, ad vier ecke framar skulum lifa sialfum oss, helldur honum, sem fyrer oss er dꝍenn, 2. Cor. 5. Enn þo ꝍ þesse Vidurkienning Guds Giꝍdsku hvad mest ad lꝍta sig siꝍ i Myskunar-Verkunum, vid þa sem bera DRottens Kross. Frelsareñ sꝍ Aumur ꝍ þessum veiku Monnum, og lꝍknade þa; Gior slijkt hid sama, vert Myskunsamur, so sem hann var Myskunsamur, og nꝍr þu sier þvilijkt eitt lifande Hrꝍ, þa hugsa til þess, og lꝍt siꝍ þad i Giorningnum, ad þu vidkannest, ad þu ert i Skijrneñe hreinsadur af hiñe Andlegu Lijkþrꝍ, Syndenne, sem er ollum Siwkdoomum skꝍdare. Minn HErra JESU! Eg hefe ecke Glede af nockurs Manns Hormungu, nema þinne; Hvar fyrer? Þviad allra Manna Harmkvꝍle eru Straff Syndarennar, enn nꝍr eg sie, ad þeir eru typtader, enn eg em heill og hraustur, þa kiemur mier i Hug, ad eg hefe hid sama forskulldad, eg, sem ad er hinn meste ꝍ medal Syndarañа; Enn þegar eg ꝍlijt þijnar Hormungar, DRotteñ miñ, er þu ecke hafder forskulldad, enn leidst þo saklaus miña vegna, þa stend eg upp med þessum Utlending, þa hressest Hugur minn, þar eg trwe ad mijnar Illgiorder sieu þar fyrer kvittar, ad Gud hefur lided i Holldenu; So giorer mijn Trwa mig hoolpeñ og þess fullorugganun, ad þinn Himneskur Fader hefur kastad Syndum mijnum i Hafsins Diwp, so þeirra Minning kome ei upp ad eilijfu. Þier med honum, ꝍsamt Heilogum Anda, sie Vellde og Kraptur, Dijrd og Heidur, um̃ Allder Allda, AMEN.

# Fimtanda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 6. Cap.

A Þeim Tijma. JEsus sagde til siña Lꝍresveina: Engeñ kañ Tveimur Herrum ad þioona. Añadhvert hañ afrꝍkir þañ Eina, og elskar hiñ Añañ, eda hann adhillest þann Eina, og fyrerlijtur hinn Annañ. Eige gieted þier Gude þioonad, og Mam̃ona. Þar fyrer segie eg ydur: Vered eige Hugsiwker fyrer ydru Lijfe, hvad þier skulud eta og drecka, og eige helldur fyr-

fyrer ydrum Lijkama, hveriu þier skulud klædast. Eda er ecke Lijfed meir eñ Fædslañ, og Lijkameñ meir enn Klædnadureñ? Lijted ꜳ Fugla Himens, þeir ed hverke sꜳ nie uppskiera, og ecke helldur safna þeir i Korn-Hlødu, og ydar Himneskur Fader hann fæder þa. Eda erud þier ecke miklu framar eñ þeir? Eñ hver ydar gietur med sinne Ahyggiu auked einne Alleñ vid sijna Leingd? Og hvar til erud þier Hugsiwker fyrer Klædnadenum? Hygged ad Akursins Liliu Grøsum, hvernenn þau vaxa, þau vinna ecke nie spiña; Eñ eg segie ydur: Þad Salomon i allre sinne Dijrd, var eige so skrijddur sem Eitt af þeim. Og ef Gud klæder so Grased, þad i Dag er ꜳ Akre, og ꜳ Morgun verdur i Ofn kastad: Skyllde hann ecke miklu framar þad sama vid ydur giøra, O! Þier Lijteltrwader? Þar fyrer skulud þier ecke Hugsiwker vera, so segiande: Hvad eigum vier ad eta, eda hvad eigum vier ad drecka, eda med hveriu eigum vier ad klædast? Þviad epter þessu øllu leita Heidnar Þiooder. Og ydar Himneskur Fader, hañ veit ad þier þurfed alls þessa vid. Þar fyrer leited fyrst Guds Rijkis, og so hanns Riettlætis, og mun ydur allt þetta til leggiast. Fyrer þvi skulud þier ecke Ahyggiu bera fyrer Morgun-Deigenum, þviad Morgun-Dagureñ mun fyrer siꜳlfum sier Umhyggiu bera. Hverium Deige næger sijn Þiꜳning.

## Exordium.

Þott ad Hugur vor sie hin Dꜳsamlegasta Skiepna Guds under Soolunne, þa gietur honum ecke twijskipt vorded, til ad rækia þa Hlute, sem Gagnstæder eru hver ødrum; So er hañ kreinktur af Spillingu þeirre, sem vier epter Adam erfdum: Enn ꜳdur enn Vondskann innkom i Heimenn, þa var eckert Gude Mootstædelegt, allar Skiepnur hlijddu honum, þad var allt hardla Gott, er hann skoop, Illskañ ein er honum Ohlijdenn, og þeir Hluter, sem af henne framkoma, hverra Hofundur ad Diøfullenn er, og hañs Þienare, hiñ Gudlause Heimur þesse. Medal Guds og hañs er eilijfur Fiandskapur stadfestur, sijdann hann var wt wr Himnenum rekenn, so er og Heimurenn, þvi segier Jacob, Cap. 4. Hann, sem er Heimsins Vinur, hann gioreſt Guds Ovinur: Hægra er Vatne og Vidsmiøre samañ ad blanda, enn þessa ad forlijka, so ad hverugs Þienarar gieta añars vered: Þad vill Frelsareñ kieña oss i upplesnu Gudspialle, er hann segier: Ad Engeñ Kuñe Tveim HErrum Ad Þioona, og Ad Vier Gietum Ecke Under Eins, Þioonad GUDE Og MAMMONA. Þetta Ord, MAMMONA, þijder Abata, epter sumra Vijsenda Maña Utleggingu; Enn allskonar Nægter og Fullsælu Fiꜳr, epter sumra: Hun er ad sonnu stoor Guds Gꜳfa, nær hun er af honum þeigenn, og ecke af Fiandanum edur ad hanns Rꜳdum wtveg-

ud, brwkud edur medfareñ, þvi segier Frelsareñ ecki: Þier KUnned EJge GUde Ad ÞJoona, og þo leita Næringar ydar i Sveita ydar Andlitis, edur taka vid þvi, er Gud vill laata ydur i Skaut falla: Ecke holldur segier hann: Þier Kuñed Ecke GUDJ Ad ÞJoona, og Rijker ad vera: Margur Abraham, Jsaac, Jacob og Joseph, ecke einasta hann, sem var Forista Egyptlands i Tijd Pharaonis, helldur og hiñ af Arimathia, er DRottenn groof, þeir hefdu vered wtrekner wr Þienustu hinns Stoora Konungs Himens og Jardar, ef so være, helldur sokum þess, ad Audurenn er Gud Veralld ar þessarar, og hennar Born leita hanns framar, enn GUds Rijkis og hanns RJettlætis, þa vill Frelsarenn kiennt hafa i Predikun þessare, ad Omogulegt sie bædum ad þioona, og þad Ord, er hier i Textanum stendur, Ad ÞJoona, þad merker ad vera ænaudigur Þræll einhvers. Nu þarf einga adra Roksemd til þess ad sijna, ad þessu Tvennu sie Omogulegt samann ad koma, helldur enn DRottenns eigenn Ord, þviad i hanns Munne eru alldrei Svik fundenn. Enn eg vil wt af Gudspiallenu Tvennt hugleida, sem er: 1. Hversu gott þad sie Gude ad þioona. 2. Hvilijk Plaaga þad sie, ad vera Mam̃ons Þræll. Þu alleina Rijke Goode Gud, stioorna þu Hiortum vorum, þier til Þioonustu hier i Tijmanum, so vier meigum þier eilijflega þioona, fyrer JEsum Christum, Amen.

## Utleggingenn.

HVersu gott sie Gude ad þioona, þad kañ engeñ nooglega ad skynia, nema sæ, sem af Alvoru er Guds Þienare. Aller Meñ kieppast vid ad nææ Þienustu hiæ Tignum Moñum, þvi þad þyker Heidarlegt: Sæler eru Meñ þijner, og Þienarar þijner, er standa yduglega frami fyrir þier, og heyra Speke þijna, sagde Drottningeñ af Saba, vid Konungeñ Salomon, 1. Kong. 10. Eñ sia, hier er meire eñ Salomon, þvi ef ad DRotteñ segir hier i Gudspiallenu: Ad SAlomon J Allre Siñe Dijrd, Hafi Ecki So Skrijddur Vered, So Sem Eitt Af Akursins Liliu-Grosum: Hversu laangt var hañ þa fraa þvi, ad koma i nockurn Samjofnud vid Himnaña Konung, hann sem þaa hefur wtþaned, og prijdt med hinum fogru Lioosum og dægilega Himensins Her sem vier Augum lijtum! Og er þad þo so sem Myrkur ad reikna hiaa sialfre hañs Dijrd, sem upplioomar hina fogru Jerusalem, Guds Barna Borg, sem er þar uppe, hverrar Sool og Twngl hann sialfur er, og sialfur bijr i þvi Lioose, sem engenn fær tilkomest: Hann sem Lofted hefur wtbreidt, og skapad alla Fuglana þar inne, forsorgar þaa, vidhelldur þeim, giefur þeim sijna Fædu i hendtugañ Tijma, so ad Lausnareñ segier hier i Gudspiallenu: Ad Ecke Einn Af Þeim Falle A JOrdu An Sijns Fodurs VJlia; hañ hefur Siooeñ giort og alla Fiskana þar inne, Smaa og Stoora, og innlykur hann i sijnum Hnefa, segiande til Hafsins: Hijngad skalltu komast, og hier skulu þijnar stolltu Bylgiur leggia sig, Job. 38. Hann ed sialfur hefur tilbwed Akursins Liliu-Gros, prijdt Jordena med Skoogum, Dijrum, Fiollum, Haalsum, Dolum, og Arlega framleider af henne allrahanda Avoxt og Alldine, hinum lifande Skiepnunum, og þo allra hellst

hellst Mañinum til Nota og Upphelldis, og allra sijdarst skoop hann hid veglegasta og dæasamlegasta Dijr undir Soolunne, epter sinni eginn Mynd, sem er Madurinn, jæ, endurskoop hann i Synd og Dauda fallinn, og took hann i Sæatt aptur, endurleyste hann, ecke med Gulle og Silfre, helldur med sijns Eingietins Sonar dijra Bloode, 1. Pet. 1. Helgade hann Ohreinann, af Ohreinum kominn; Endurnijar alla þæ, sem siñ Skijrnar-Sæattmæala ecki vijsvitandi undir Footum troda; Fyrergiefur oss daglega margar Synder, þvi daglega syndgunst vier, og vinnum ecke nema til Hegningar; Hverium er oss sæmra, hverium skylldara og vegsamlegra ad þioona, enn honum, i hvers Hendi ad er øll lifande Sæal, hver ad er vor Styrkleike, vor Prijs, og er ordinn oss til Hiæalprædis? Esa. 12. Enn so sem þad er æagiætt og veglegt, ad þioona Konunge Dijrdarinnar, so er þad ecke sijdur gagnlegt. Pad er oss øllum kunnugt, hversu mikel Umsvif ad daudleger Menn hafa fyrer þessa fallvallta Lijfs Næringu, sem þo lijtils vidþarf i sialfu sier, og þrijtur nær allra minnst Vonum varer, og þo eru sumer Menn ecke æanægder, fyrr enn þeir hafa Korn-Hlødur sijnar fullar, so þeir giete sagt med hinum rijka Maura-Pegn, Luc. 12. Et og dreck Sæala mijn, þviad þu hefur til margra Ara samannsafnad. Enn hvad seger Frelsarenn hier i Gudspiallinu? Vered Eige Hugsiwker Fyrer Ydru Lijfi, Hvad Pier Skulud Eta Og Drecka, Og Eigi Helldur Fyrer Ydrum Lijkama, Hveriu Pier Skulud Klædast: Med ødrum fleire Ordum, sem þar æa epterfylgia, og eru full af Guddoomlegre Speke. Med miklu Snarræde hefi eg þa afloked allre Ahyggiu minne, sem kvelur hinn Vantrwada og Agiarna, þegar eg hefi kastad henne uppæa hann, sem æa øll Dijrenn æa Morkinne, Ps. 50. Og allt Sylfur og Gull er hanns. Mun Hugsijki mijn draga mig leingra æa Leid, enn hanns Fyrerhyggia? Og fyrst um̃ Mæattinn er ecke ad efast, þa kañ eg ecke Viliann ad ugga. Noog er þad, ad DRottenn seger hier i Gudspiallinu: Ydar Himneskur Fader Veit, Ad Pier Hafid Alls Pessa Pørf. Ef Gud er minn Fader, mun hann þa ecke forsorga mig? Ef eg, sem vondur er, kañ ad giefa Barne mijnu goodar Gæafur, mun þa miñ himneske Fader giefa mier Stein fyrer Braud, edur Høggorm fyrer Fysk? Enn þoott hann æa Stundum læate mig vanta þessa Lijfs-Næringu, epter sijnum þægelegum Villia, mun hañ þar fyrer hafa gleymt Myskunsamur ad vera? Mun hann samt ecke vera miñ Fader? Eg kalla þad ecke goodann Fødur, og ecke forsiælann, sem ad elur Barn sitt so kappsamlega, ad hann under eins elur upp i þvi Matvendne og annañ Osooma; Mæa eg þa kunna Gud fyrer þad, ad hann neitar mier um̃ þær Nægter, er mig skada? Noog er þad, ad eg veit ad hann er minn Fader, trwr er hann, og freistar einkis yfer Megn fram̃. Pegar mier allt ad Oskum gengur, þa finn eg kañskie valla til þess, ad hann er miñ Fader. Eg kyñi ad gioraft Lauslæatur þegar eg er fullur og feitur, eins og Israel, 5. M. B. 32. Af þvi veit eg ad eg ecki er Hiæa-Barn, ad hañ typtar mig, af þvi sie eg ad hañ elskar mig, Heb. 12. J allri þeirra Angistþa æangrade hann þa ecke, helldur verndadi þa Engill hanns Andlitis, og forsvarade þæa med Milldi sinni, seger Esajas, Cap. 64. Hver er

sæ

ſaa Auglitesins Engillinn, min HErra JEſu, nema þu Chriſte? Þu byrteſt aan Aſlaats fyrer Auglite vors Fodur aa Himnum, ſo ſem einn eilijfur Kiennimadur; þu ert Mynd hins Oſijnilega Guds, Col. 1. Þu ert i Fodurſins Skaute, Joh. 1. Þijn Medalgaanga verkar þad, DRottenn min, ad jafnvel i hinni meſtu Angiſt, finna Born Fodur þijns til einkis Angurs, þviad þinn Vondur og þin Stafur hugga oſs, Pſ. 23. Vitnisburdur þijns Anda telur oſs Trw þar um, ad vier Guds Born ſieum, Rom. 8. Þar fyrer reiknum vier ecki Mootlætingar þeſſara Tijma verdar þeirrar Dijrdar, ſem vid oſs framkoma mun i eilijfu Lijfe: Og hier af kiemur þad, ad ſo veglegt og ſo þarflegt ſem þad er Gude ad þioona, ſo er þad og inndælt og ununarſamlegt. Hvad er þad ſem Menn allra meſt ſækia epter i Heiminum? Þad er ad vera aanægdur, og una vel Hag ſijnum: Enn þar er valla nockur ſaa, er nææ þeirre Fullſælu af Veralldar Munum, edur Munudum, ad honum þyke ſig eckert vanta. David kienner oſs eitt ædra og betra Raad, er hann ſeger: Haf þijna Unadſemd i DRottne, og mun hann giefa þier þad ſem þitt Hiarta girneſt, Pſ. 37. Satt er þad, ad vegna þeirra nææ kvæmu Teingda, ſem eru aa millum Saalar og Lijkama, þa hryggeſt hun edur gledſt af þvi, ſem honum gott edur illt tilfellur; Enn þo eru þau ecke ſo miøg ſkylld, ad ei ſie Gud henne ſkylldare; Ecke er hun af ſama Efne giord og Lijkamenn, ſem af Molldu var ſkapadur. Gud blies lifande Anda i Mannſins Naſer, ſeger Ritningenn, Gen. 2. Hun er af engu ſkopt eins og Englarner, hverier i Jobs Book, Cap. 1. kallaſt Guds Syner; So kallar og Lucas Adam Fodur vorn, Luc. 3. Og Paulus ſeger: Vier ſieum hanns Kyns, þad er, lijkrar Veru, enn þo ecke hinnar ſomu; Gud er einn Ande, ſeger Johannes: Ande hefur ei Holld nie Bein, eins og þier ſiaaed mig hafa, ſeger Frelſarenn; Hier af kiemur þad, ad þoott Adam yfergiæfe ſinn Uppruna, þa hefur hin allra Hæſte ſo bætt Raad vort aftur: fyrir hinn annan Adam, ſem er Gud af Himnum, ad hvad elſkar ſier lijkt, ſo þegar eitt er ordinn eitt Andi med Gude, og umm myndadur epter hanns Mynd, er ſkapade hann, þa fær Saalinn Kraft af Hædum, ſem er henne miklu ſkylldare, og ſterkare þeirre Elſku ſem hun hefur aa Lijkamanum, ſo ad hun reiknar alla Hlute Dreck ad vera hiaa JEſu Chriſto ſijnum DRottne, eins og Paulus, hun hrooſar ſier af eingu, nema af hans Kroſſe, fyrer hvern henni er Heimurinn kroſsfeſtur og hun Heiminum, Gal. 6. So inndælt er þad nu Gudi ad þioona, ad þad er ununarſamlegt, jafnvel i Hormungunum. Paulus talar þannig umm hinn ſanna Chriſtinndoom, 1. Tim. 4. Ad Gudhrædſlan ſie til allra Hluta Nytſamleg, hafande Fyrerheit bæde þeſſa Lijfs, og hinns komanda. Þeſſe er hin rietta Guds Þioonuſta. Enn hvad þa? Ecke hefur Gud i Nya Teſtamentinu heited ſijnum Þioonuſtu-Monnum ſo mikillre Veralldar Farſælld, jafnvel þoott hann veite þeim hana aa Stundum. Hvar i er þa Fyrerheited innifalid? J þvi ad hann giefur þeim ſialfann ſig, ſem er ollu ædra; Saa ſem hann aa, hann hefur eignaſt allt, og ſaa ſem ecki hefur Hlutdeild i honum, hann hefur munna enn ecke, hann vantar jafnvel þad hann hefur, þvi Guds Rijki er ecki Matur nie Dryckur, helldur Fridur og Fognudur i heilogum Anda; Þar fyrer

er seger Paulus enn aptur, 1. Tim. 6. Ad Gudhrædslann sie mikill Abate med þvi Skape, sem lætur sier sijna Lucku nægia. Nu er þad ecki einasta vegsamlegt, þarflegt og yndællt Gude ad þioona, helldur og er þad einsætt og Omissande, so ad can þess kuña Menn ecke Guds Born ad heita, nie Sæluhiælpina ad erfa; Og sioa þa aller þeir sem trwa þvi, ad Himnarijke og Helvijte sie til, þeir sioa hvad miklu ad tapad er, ef Menn skiootast wr Guds Þioonustu: Bolvadur vere sa, sem ecke elskar DRottenn vorn JEsum Christum, seger Paulus, 1. Cor. 16. Enn ad elska hann, og ad þioona honum, þad er allt hid sama, honum verdur alldrei þioonad fyrer utann Elsku, og alldrei verdur hann elskadur fyrir utann Þioonustu, þvi i Þioonustunni skulu Menn sijna Elskuna, og af Elskunne Þioonustuna. Þess vegna spurde DRottenn St. Petur ad, adur enn hann baud honum ad fæda Lomb sijn og Saude sijna, hvert hann elskade sig, Joh. 21. Sama er ad segia um hvern einn, hvada Starf sem hann a Hendi hefur af Guds Ålsu; Enn aller hafa noog; Engenn er sa, ad ecki hafi sitt Pund af Gude, eins vel Boondinn a Akrinum, so sem Presturenn i Kyrkiunne, edur Doomarenn i sijnu Sæte, og aller þesser eru honum eins kiærer, nær þeir giora Verk sinnar Kallanar trwlega i Otta DRottinns, þvi sialfur hefur hann þeim Verkid i Hendur feinged. A ecke Smidurenn Leirsins Valld? Ma hann ecke giora þar af hvad hann vill? Rom. 9. Þvi er einsætt ad þioona honum af allre Trw, epter þvi sem hann hefur sierhverium umboded, annars erum vier ecki hans riettar Þioonustumenn. Einn Strijds-Þegn a ecki þar ad standa i Fylkinguñe, er hann sialfur vill, helldur þar sem Hofdingenn baud honum. Eg em Madur Yfirvalldinu undirgiefinn, hafande under mier Strijds-Foolk (sagde Hundrads-Hofdingenn i Capernaum, vid Frelsarann, Luc. 7.) Og nær eg sege þessum, kom þu, þa kiemur hann, og hinum, far þu, og hann fer, og Þræle mijnum, gior þetta, og hann giorer þad; Eins er þad ad vera i Christi Her-For hier a Jordunne; Þar skal hver sitia, sem hann hefur hann settann, þar inni skal hann Gude þioona, ef hann vill þocknast honum sem valdi hann til Bardagans, 2. Tim. 2. Þvi ecki er þad noog, ad leggia Hondina a Plooginn, enn lijta aptur til þess, sem til Baka er; Sa þad giorer, hann er ei hæfur til Guds Rijkis, segir Lausnarinn. Segied mier; Til hvers hefur Gud Manninn skapad, nema til þess, ad hann skule þioona sier? Aller Hluter adrer eru Mannsins vegna skapader, þvi alla þa hefur hann lagt under hans Fætur, Ps. 8. Enn Madurenn er Guds vegna giordur, ecke þess vegna, ad hann þyrfte hanns med, helldur ad hann skylldi þioona sier, til ad lifa þar af eilijflega. Hverium er oss skylldara ad þioona, enn honum sem oss skapadi? Hefur Mammon nockurn skapad? Vesæll er hann til þess, vanskapad gietur hann suma Menn: Enn eingann hefur hann skapad nie endurskapad. Kalla Menn þad ecke Gudlaust Ræktarleyse, ef Borninn ei vilia liaast Forelldrunum til Þioonustu? Og hvad skulum vier þa um hann tala, sem er Fader yfer allt þad sem Born kallast bædi a Himni og Jordu? Til hvers hefur Guds Sonur endurleyst oss? Seger ecke Lutherus oss þad i Frædunum? Til ad þioona honum i Riettlæte og Heilagleika alla vora Lijfdaga. Til hvers hefur

Andi DRottenns kallad oss, helgad og upplijst med sijnum Astgiøfum? Mun ecki til þess, ad vier gaungum verduglega þeirre Kallan, hvar inni vier kallader erum? Eph. 4. Þvi æ alikta eg so, ad sa sem ecki vill Gudi þioona, hann er ecke hanns Barn, ecki Christi Læriſveinn, og ecki Limur Guds Kyrkiu. Hvad er hañ þa? Dioſulſins Barn, Þræll Syndarinnar, og Helvijtis Elldebrandur. Nu er þetta so sagt um̃ þad Fyrra, er eg hiet um̃ ad tala.

Hvad hinu Sijdara vidvijkur; Þa hefi eg til Forna i Inngangrinum sagt, hver ad sie Meining Frelsarans i þessum Ordum, þo vil eg þvi hier vidauka um̃ sama Efne, ad þar DRottenn seger; Enginn Kann Tveimur Herrum Ad Þioona; Þa meinar hann Tvo, þa sem eru hver odrum gagnstæder; Þioona kuña Meñ Foreldrunum, Yfirvalldinu, og Nærunganum, i ollu þvi sem Gud hefur bodid, og þo under eins Gude; Hvar fyrer? Þviad soddann Þioonusta og Guds Þioonusta eru eitt: Sa sem þioonar þeim sem af Konginum sender eru, hann þioonar Konunginum; Sa sem Konunginum þioonar i þvi sem Gud boded hefur, hañ þioonar Gude. Eins er a hina Sijduna: Sa sem þioonar Mam̃ona, hañ þioonar Heiminum, sa sem þioonar Heiminum, hañ þioonar Syndeñe, hver ed Syndeñe þioonar, hann er Þræll Syndariñar, enn hañ sem er Þræll Syndarinnar, hann er under eins Þræll Andskotans; Og er þessu Omøgulegt samann ad koma: Þetta vottar Paulus, er hann seger, Rom. 6. Vited þier ecke, ad hverium þier gioreſt Þioonustu-bundner, til Hlijdnis, hañs Þienarar erud þier, hvert helldur Syndariñar til Daudans, edur Hlijdneñar til Riettlætisins. Og þetta Ord, HERRA, merker hier soddann Yfer-Rad, nær eiñ selur sig einum so alldeilis a Valld, ad hañ a ad mestu hañs øll Rad: Vel kañ eg ad þioona einum, þoott ecki sie hañ miñ Herra; So hefur og Gud alldrei bañad, ad þioona ad Gæfum synum, helldur leyft ad brwka Heimiñ, eñ ecki ad vanbrwka hañ, ecke bañad ad eignaſt Audeñ, helldur ad festa Hiartad vid hann, þvi sa þad giorer, hann er riettur Mam̃ons Þræll, hañs Herra er Abatenn og Audurenn, þvi alla Hlute vill hann til hañs viña, og jafnvel ad tapa Saalu siñe, sem morg munu Dæme giefast, og er þa eingeñ Þioonusta argare. Hun er sierdeilis med Tveñu Moote. Fyrſt, nær Madur safnar Audnum, med hveriu Moote sem hañ kañ, hyrdande eckert um̃, hvert þad er riett edur rangt, edur hversu þrælslegt edur Ohreinlegt þad er: Þetta er Skap-Løstur sa, er vier Agyrne kollum. Paulus seger um̃ hana, ad hun sie Afguda Dijrkun, Eph. 5. Þad er hveriu Orde sannara, þvi hinn Agiarne hefur ecke annañ Gud eñ Mam̃ona. Hañ svijſt ecke ad rya Guds volada Saude, til ad fylla Pwng siñ, ecki ad sveria vid hañs Nafn, og þo ranglega a Stundum, ef hañ gietur abataſt um̃ eitt Alnar-Virdi: Ecki þyrmer hañ Kyrkium nie Kieñimoñum, Konungenn svijkur hañ giarnañ, ef hañ ma, sem er ein Høfud-Skom̃: Og i einu Ordi ad segia; Hañ tredur øll Guds Bodord under Fætur sier. Hvad vantar þa til Skwrvnda-Dijrkunariñar? Betra er af Illu ad tilbidia Lijkneſkiuna, eñ ad vera so felldur Mam̃ona i Þrældoom; Þvi margur, sa sem eiñ Afgud hefur, hañ ætlar þo, ad

hañ

hañ mune hégna vondra Verka, enn launa hin goodu; og so hafa flester Heidingiar meint; Enn Agyrndenn hefur engann Gud, og er þa ei Von ad verra. Þu segier: Eg vil dijrka Gud, heyra hanns Ord, siingia hønum Lof; Eg geing til hanns Bords, trwe a hann, ydrast Synda minna. Verda maa ad so sie. Enn ef þu dijrkar Gud, þa lat mig siaa ad þu giører þad ei, sem hann bañad hefur; Edur verdur hañ nockud dijrkadur med Raane og Stulde, med Svikum og Prettum, med Lygum og Meinsære? Ef hañ er þiñ Gud, ef hann er þiñ Fader, hvar er þa hanns Heidur? Þu segiest heyra hanns Ord, hvar eru þa Avexterner? Eru þeir þad sem strax var uppttaled? Sia til, ad þu ecke heyrer þad til Dooms Afelles þier. Þu heyrer þad; So er þetta! Saadmaduren geck wt ad saa, eñ þad hañ saade, fiell a medal Þyrna, þar sem þu atter Hluteñ ad, og Þyrnenn uxu upp, og kiæfdu þad; Hvad þad sie, maattu læra af Utleggingu Frelsarans, er hann seger, Matth. 13. Þad sem saad var medal Þyrna, er sa ed Orded heyrer, og Umsorgun þessarar Alldar, og Villa Audsins kiefur Orded, og hann verdur Avaxtarlaus: Þu lofar Gud ad sonnu med Vørunum; Eñ Hiartad er langt þar fra, þad er wt a Bwgarde þijnum, og hia Aknautum þijnum. Þu geingur til Guds Bords; Enn tekur þo med þier Gieste þa, sem hann ecke maa lijda; Sia til, ad ecke eter þu og drecker þier Doom. Þu trwer a Gud; Sijn mier Trw þijna af Verkunum, seger Jacob. Þu ydrast Syndaña; Lat þa af Illu, og lær Gott ad giøra, Es. 1 Añars meina eg þu vilier under eins þioona Gude og Mañona, og er þijn Guds Þioonusta þa eingu betre enn Gydinga Fordum, þeir ed færdu Gude Foorner i Jerusalems Mustere, enn offrudu þo a Hxdunum: Og i ollu þessu launar Mañon Þienurum sijnum illa; Hann sedur þa med Harma-Braude. Paall segier, ad Agyrndenn sie Root alls Ills, 1. Tim. 6. Fyrst er hun Root Lastanna, so sem adur er sagt: Gud forsmaaer hun; Hanns Nafn skyrrest hun ecke vid ad misbrwka vegna Abatans; Hvijldar-Daga DRotteñs hefur hun til Aviñings, þa geingur hennar Ploogur hvad kappsamlegast, so ad hun jafnvel kiemur þa odrum til ad syndga. Forelldrum, Børnum og Naafrændum þyrmer hun ecke: Margur hefur veiged Mañ til Fiaar; Ecke ætla eg ad sumer Meñ sieu vander ad Hlut sijnum i Skijrlijfenu, þegar Fied er i Bode: Um Siounda Bodorded vil eg ei tala; Hun a þar heima: Og hvad er tijdara, enn ad liwga vegna Abatans, og giøra sig falaun til ad bera Liwgvitne? Enn ecke einasta fremur hun þetta moote Gude og Naunganum, helldur kvelur hun sinn eigenn Þræl; So þad maa um hana segia, sem David segier um hiñ Ogudlega, a medal hverra Fie-Pwkenn er hinn meste; ad hanns Plaagur sieu margar. Helvijte og Glotunenn verda alldrei fylld, seger Salomon, Ordsk. 27. So eru og Augu hinns agiarna; Þess meira hann dreckur, þess meira þyrster hann; Eins og hinar mogru Pharaonis Kyr, so er hinn agiarne, þegar þær hofdu uppeted hinar feitu, þa saast þad ecke, ad þær hefdu komed i Maga þeirra, segier Ritningenn, Gen. 41. Riett eins og Ovidius Skalld kvedur um Erisichthonem Gud-Nijding, ad þess meira sem hann at, þess meira svallt hann; Fyllenn vard hønum Ordsok til æ meira Hwngurs,

so þegar hañ hafde sellt Aleigu sijna fyrer Mat, þa sellde hann Dootturs sijna; og sijdarst allra took hañ ad naga sijna eigenn Limu. So er og hinum Agiarna vared; Þad hann fær, þad fyller hann ecke; Hañ er eins sollteñ epter sem aadur; Ecki sparar hañ Vine nie Frændur, og þegar hañ nær eingu, þa etur hañ sitt eiged Hiarta, af þvi, ad hann gietur ei uppeted Hws Ecknaog Fodurlausra. Morgum af þessum Mam̃ons-Þwkum lijdur O Rotteñ ad fylla Kornhlødur sijnar, og adrar Hyrdslur med Aura-Nægt: Enn þess vita Menn og nockur Dæme, ad þess meira þeir nidur saa i Rænglætenu, þess minna uppskiera þeir, nema i Skadsemenne, so ad Hyrdslur þeirra eru eins og Opiett Lagar-Fat, sem ecke helldur þvi, sem i þad er laated. Þess gietur Salomon, Ordsk. 11. er hañ segier: Einn wtbijter sijnu eigenn, og verdur rijkare, annar innehelldur þar sem ecke skal, og er jafnann faatækur. Þetta er riett ad eta, og verda þo ecke mettur, og ad drecka, og verda þo ecke druckenn. Hin onnur Þioonusta Mam̃ons er su, ad liggia of-fast aa þvi, sem einn aa, eins og Moab aa Dreggium sijnum, jafnvel þoott vel feinged vera kuñe: Ad soñu eru þetta adgreinder Lester ad nockru Leite, enn þo nærsta skyllder hver odrum: Til eru þeir ad vijsu, sem taka allt fraa ollum, sem þeir naa, enn laata þo eckert af Hende rakna vid nockurn; Þeim er hvad verst vared, og optlega plagar slijkt ad halldast i Hendur: Hins eru og Dæme, ad sumer Menn eru ecke miøg aasælner, enn vilia þo eckert wtilaata; Þessa kalla Meñ nijdska, og er hañ ad soñu Jll-skaarre eñ hiñ, enn þo samt Mam̃ons-Þræll, ecke munar þa nema i þvi, ad þegar Mam̃on skipar, þa fer hiñ Agiarni, enn Nijdingurenn hefur ecke so miked Valld yfir honum, ad hañ giete reked hann wr Stad: Jafnvel þoott hann eige oll hañs Raad, þa lætur hañ so daatt ad honum, so sem Mooder ad einka Syne, og vill ecke giora honum Omak. Lijker eru þeir Sadducæis, er ecke villdu giora aa annars Hlut, ecke villdu þeir helldur neinum gott giora: Þeir eru Brædur Nabals, er ei villde giefa David Mat, þegar hann mælte til þess i Naudsyn sinne, og hafde þo til Matar unned, 1. Sam. 25. Jaa, þeir eru argare enn Nabal, þvi hann tijmde, ad laata epter sier og Hyske sijnu; Eñ þessum er so Audureñ saar, ad þeir neita sijnum eigeñ Lijkama um̃ Naudsynlega Hlute; Ecke hafa þeir lesed þad, er Salomon skrifar, Ordsk. 3. Hiñ Riettlaate etur so miked sem hann vidþarf, enn Maga hinns Ofrooma vantar alltijd; Og eñ sijdur þad hañ ritad hefur i Predikunar Bookareñar 6. Cap. Þar er ein Olucka er eg saa under Sooluñe, og hun hin mesta yfir Moñunum: Eiñ Madur, saa ed Gud giefur Rijkdoom og Audæfi, og Heidur, hvers Hiarta ad eckert vantar, og Gud giefur honum þo ecke Makt til ad neita þess hiñs sama; Soddann Oþockar sialfs sijns eru þo nockrer, so laangt er fraa þvi, ad þeir klæde edur mette Broodur edur Systur, nær þeir sia þau nakenn edur hwngrud, og er þetta hinn meste Þrældoomur, þad er riett kollud Afgudadijrkun; Þad sem christner Meñ ættu ad giora Gude til Þioonustu, sem er ad þvijnga Lijkama sinn, og giora hann ad Þræl, þad sama giora þeir vid Mam̃ona; Segied mier, er hann þa ecke þeirra Gud? Vere þeir nu samañ sem lesa þetta, hverium betra sie ad þioona, Gude edur Abatanym. Hvernig ad Gud ale Oñ-

syrer

fyrer sijnum Þienurum, það er æᴀdur sagt i hinum fyrra Partenum, enn hvernig Mam̃on fare med sijna, það hefi eg i hinum sijdara talad um̃, med faam Ordum; Þvi vil eg segia vid ydur, Christi Børn, hid sama og Josua sagde vid Israel, skom̃u fyrir Andlaat sitt, Jos.24. Segied, hvert þier vilied þioona Jehovæ Gude ydar, edur ei? Enn þeir svorudu aller: Vier vilium þioona DRottne Gude vorum. DRotten min̄ og Gud minn, gief þu oss það Sin̄e, ad það sem þeir jaatudu med Munnenum, meigum vier med Hiarta, Orde og Verkum uppfylla, allt til Enda vors Lijfs, so vier meigum wr Bijtum bera Coronu Lijfsins, hveria þu Konungur Naadaren̄ar giefa munt øllum þeim, sem elska Tilkomu þijns Sonar. Bænheyr það, fyrer hanns Skulld og Forþienustu, AMEN.

# Sextanda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 7. Cap.

Y Þan̄ Tijma. Og það skiede so epter það, ad JEsus gieck til þeirrar Borgar sem kallast Nain, og han̄s Læresveinar geingu marger med hønum, og mikill Fiølde an̄ars Foolks. Þa er han̄ took ad nalægiast Borgar-Hlided, sia þu, það Fram̃liden̄ Madur var boren̄ wt, einka Sonur sin̄ar Moodur, og hun var Eckia, og Fiøllde Borgar-Man̄a gieck wt med hen̄e. En̄ þa ed DRottenn leit hana, hrærdest han̄ Myskunar yfir hen̄e, og sagde til hennar: Graat þu eige. Og han̄ gieck þar ad, og æᴀhrærde Kistuna Enn þeir sem baaru, stoodu vid. Og han̄ sagde: Þu Ung-Men̄e, eg segie þier, rijs þu upp. Og sa setteſt upp sem Fram̃liden̄ var, og took til ad mæla, og han̄ gaf han̄ aptur sin̄e Moodur. En̄ aller urdu Ottasleigner, lofudu Gud og søgdu: Spaamadur mikill er a medal vor uppris̄en̄, og Gud hefur vitiad sijns Foolks. Og þesse Saga barst wt af hønum, um̃ allt Gydinga-Land, og um̃ øll krijngum liggiande Hierod.

## Exordium.

SKom̃u adur en̄ DRotten̄ giorde þetta mikla Krapta-Verk, sem þessa Dags Evangelium hermer oss, þa flutte hann þa agiætu Predikun fyrer Lijdnum, sem ritud stendur i nærst fyrerfarande Capitula, (Luc. 6.) Hver og er af Matthæo uppteiknud i hanns Gudspialla 5. Capitula. J hen̄e standa, medal an̄arra, þesse Ord: Sæler eru þeir sem harma, þvi þeir munu hlæa. Matthæus segier oss það a þenna Haatt: Þeir skulu huggader verda; Sem er allt hid sama, þvi þar heyrer engen̄ Sorg til ad giora sig gladann, segier Ordtæked, og engenn hlær, nema hønum sie gladt i Hug, og gladur er engenn, nema huggadur sie. Það er Ad-dæᴀmanlegt ad hug-

leida, hvernig Frelsarenn, at Dogum Hollds-Vistar sinnar, hefur vijslega hagad sijns Embættis Utriettingum; Margt þad sem ad i greindre Predikun stendur, þad er gagnstædt Hollde og Bloode, hveriu ad øll Typtan þyker Sorg og engenn Glede ad vera medann hun æliggur, segier Paulus, Hebr. 12. og giæter ecke þess, ad epter æ giefur hun Fridsamlegann Avoxt Riettlætesins. Enn til þess, ad hinn goode Meistare færde Soñur æ Mæal sitt, þa giorer hann sier Ferd wr Capernaum til Borgarennar Naim, til ad styrkia med þessare Jardteikn, hvad hann ædur talad hafde. Engenn skal meina, ad þetta hafe skied af Hendingu, ad DRotteñ mætte þessare Lijk-For; helldur fyrer þvi hañ visse alla Hlute, þa hefur sæ æn Efa vered Tilgæangurenn, sem nu hefe eg ædur sagt, og þar ad auke ad giefa øllum Sorgbitnum Eckium og Munadarlausum eitt Æfeñlegt Huggunarennar Dæme, og fullrar Vonar og Trwnadar-Trausts uñ sijna Hiartgroona Myskunseme yfir þeim, ad hann vilie vera Fader Fodurlausra, og Forsvar Ecknaña, 5.M.B. 10. Ps. 68. Og fyrer þvi, ad þetta Heilaga Gudspiall er ñærsta gledelegt ad hugleida, fyrer alla þa sem þreya epter Astvine sijna, sem þeim i Lijfenu hafa til Glede og Adstodar vered, þa vil eg af þvi Tvennt yfervega. 1. Hvad Eckiurnar eige ad hugga sig vid i sijnum Einstædingskap. 2. Hvad þeim eige til Huggunar ad verda, er missa Born sijn, jafnvel æ Unga Alldre.

Eñ þu sem ert Fader yfer allt þad sem Born kallast bæde æ Himne og Jordu, styrk þu Mæal mitt, og tilbw so Hiortu Barna þinna, ad þetta þitt Eyrende meige vel takast, i JESU Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

HJer stendur i Gudspiallenu uñ Moodur þessa Ungmennis, ad hun hafe Eckia vered; Þad Stand hefur jafnañ hallded vered aumt og Oskiemtelegt, sem og ad Lijkindum lætur: David veit valla annad lijkara ad oska, hvert helldur sijnum edur Guds Ovin, eñ ad Born hañs skule verda Munadarlaus, og hañs Kvinña Eckia Ps. 109. Vorer Omagar eru Fodurlauser, og Mædur vorar so sem Eckiur, segier Jeremias i Harmagrætnum, 1. og 5. Cap. Nu er þad vijst, ad slijkt er Reide-Teikn DRottens æ Stundum, og Straff Syndanna, eins og hvert annad Mootlæte; Enn hverge nærre alltijd, þvi valla er nockurt Stand i Heilagre Ritningu uñgieted, sem hiñ almættuge vill helldur taka i Forsvar, eñ Eckiudoomeñ, þvi fyrer utann þad, ad hann vill siælfur vera þeirra Forsvar og fæda þær, þa hefur hann sier i Lage giefed þeim Verndar-Brief i sijnu H. Logmaale, æ þenna Hætt: Eingre Eckiu edur Omyndugum skalltu Pinæning giora, ef þu sijner honum Pinæning nockra (þvi ef hañ ad eins kallar til mijn, þa vil eg bænheyra hañ), þa skal mijn Reide breña, og eg skal slæ ydur i Hel med Sverdi; So skulu ydar Konur Eckiur verda, og ydar Born Fodurlaus, 2.M.B.22. Og eñ seger hañ: Eckiuñe og Omyndugum skalltu engañ Skada giora. Hefur hann ecke skickad þeim siñ Hlut af Tijundum? 5.M. B. 14. Bijdur hañ ecke ad kalla þær framar odrum til almennelegrar Mæal-Dryckiu fyrer DRottne? Cap. 16. Jæ, hañ hefur sier i Lage

uñ

umboded Valldstiettene, ad þeir skule dæma Maal hiñs Unga Manns og forsvara Eckiuna, Esa. 1. Jafnvel þoott eg ætle ad valla sie nockru Guds Bodorde midur hlijdt eñ þessu af sumum Monnum. Oskande være, ad ei finduft þeir, ed sialfer hafa Eckiurnar fyrer-Fie, og giora þær sier ad Raane, so sem Esajas ad Ordi kienist, Cap. 10. Hefnast a þeim og þeirra Munadarlausum Bornum, ef þeir þoottust eiga Fodur þeirra nockrar Heipter ad giallda, eñ feingu ecki stolid Hefndinni fraa Gudi a medañ hañ lifdi? Soddann er hin mesta Lodurmeñska, sem eiñ hugprwdur Tyrki ei villdi verda fundinn ad, og þo skamast ecke sumer christner Menn sijn, ad æsa þetta Blygdunarlaust. So hoppa þesser Myslingar a einu daudu Leone, sem þeir þo ecki þordu ad geispa a moote, a medann þad hafdi Munniñ opiñ! Lijtid muna þeir til hiñar skielfilegu Bolvunar, er DRotteun leggur yfer þa, sem umhverfa Rietti Eckiuñar, 5. M.B. 27. Edur hiñs, ad Ritningeñ telur þad med hinum hellstu Ordsokum hiñar Babylonisku Herleidingar, ad þeir dæmdu ei Maalefni Eckiuñar, Jer. 22. Nu vil eg sleppa þessu, eñ hverfa aptur til hiñs er eg skildest vid.

Þessi Kviña var Eckia; Lijklegt er, ad Madr heñar hafi burtkallast a sijnum besta Alldre, hvad þar af raada maa, ad hañ hafdi heñi eftirlaatid eiñ einasta Son, sum ad eñ þa var Ungmeñi: Þetta var stoor Sorg, hveria hun gat ecke dulid, þvi sagde Frelsareñ vid hana: Graat þu ecke: Og þetta Mootlæte hennar var so mikid, ad Bæar-Meñ sampijnduft heñi; Þvi seger i Textanum: Ad mikill Fiolldi þeirra hafi geingid wt med heñi. Lærum þad af þeim, ad graata med Graatendum, og hafa Medaumkan med þeim, er i slijkar Rauner rata; So giordi hañ, sem best kañ ad sampijnast Eymdum vorum, þvi Gudspialled seger: Ad þegar DRottiñ leit hana, þa hrærdist hañ Myskunar yfir heñe; Og saum vier jafnañ Ordsok þar til, þvi ecki lijdur a Stundum laangt a millum þess, ad soddañ tilfellur. Morg volud Eckia a þvilijkt til Bruñs ad bera. Eñ wt af þessari Medaumkan Frelsarans, take Eckiurnar sier hina mestu Huggun: Strax sem hañ saa þessa syrgiande Konu, þa hrærdist hann af Innstu Medaumkan, seger Textenn: Ecke giorer hann þad sijdur nu, helldur enn þa hañ umgieckst i voru Hollde, sem nu er upphafed til Kraptarens hægre Handar; Hañ hefur Likel Lijssins og Daudans, Barn mitt: Hafe þvi Daudeñ gripid Hendiñi iñ i Hws þitt, og veitt þier eitt mikid Saar, þar hañ hefur teked Helming þijns Hiarta burtu, og giort þijn Born Munadarlaus, þa vit, ad þad er ecki skied aan hañs Raadstofunar; Einga Makt hefde Daudiñ haft yfer þijnum kiæra Egta-Mañe aan hañs Leyfis, i hvers Hende ad er oll lifande Saal; Audmijk þig þess vegna under Vollduga Guds Hond, og seig med David: Eg vard Maallaus og talade ecke, af þvi þu giorder þad; Sierdeilis þar þu hefur þo ecki tapad þijnum Egta-Manni: Meina ecke, Barned gott, ad sialfur Giædskunnar Bruñur sie eins lyndur og sumer Opockar i Heiminum, þeir ed apturtaka þad þeir gaafu; Helldur vil eg hier um segia eins og Paall sagde um Onesimum vid Philemonem: Hann er um Stundar-Saker vidskilenn, so þu hallder honum eilijflega: Hann er ecke daudur, ad þvi Leite

sem

sem vidviikur Sealunni, þvi Gud Abrahams, Isaacs og Jacobs, hann er ecki Gud Daudra, helldur Lifendra, seger Frelsarenn: Þar fyrer er hann ecki daudur, helldur kalladur fra Daudanum til Lijffsins: Fra Volæde þessa Heims, til eilijfrar Sælu: Fra Selskap vondra Mana, til Samfelags heilagra Engla. Ja, hañ er ecki helldur daudur, þad Lijkamañ ahrærer, helldur sefur hañ, so sem DRottenñ sagde uñ Hofdingians Doottur, Matth. 9. Þad stendur æfiñlega stodugt, er Frelsariñ sagde: Hver sem trwir a mig, þad skal skie, ad þoott hañ deye, þa skal hañ samt lifa, Joh. 11. Þar fyrir, þoott ad þad sie Naatturlegt, ad syrgia Astvini sijna, þa er ecki so stoor Ordsok þar til, þvi vier hofum ecki mist þa, helldur eru þeir undañ oss farner i eilijfa Sælu, enn Lijkamiñ hvijlist af Erfidi sijnu iñ til þess Dags, ad DRottiñ uppvekur hañ, og giorir Englunum jafnañ, ja, samlijkañ sijnum dijrdlegum Lijkama, Phil. 3. Nu er þad vijst, ad eckert Guds Barn misann sijnu Egta-Hiarta þvilijkrar Sælu, eñ þad er Veikleiki vor, ad Meñ syrgia sinn eigiñ Hag og siña Eptirlaatinna, þeynkiande meir a hid Nærverande, enn hid Eptirkomanda. Eñ hugsa til þess, Barn mitt, ad Gud hefur kannskie þinn Egta-Mañ i burtu tekid til sinnar Dijrdar, uppa þad þu skyllder hafa allt þitt Traust, alla Von, alla Gledi og Unadsemd i sier einum, og Fognud af þvi, ad sia og reyna sijna Nad a þier, og vid þig og þijna, nær oll mañleg Hialp er wti. Gior so! Þar af hefur þu twofallda Nytsemi: Þa einu, ad þijn Saala gledur sig i Gudi Heilsugiafara þijnum, hver Fognudur ad yfirgnæfir allann Skilning, og drepur alla Sorg, allt Mootlæte giorer hann liett. Hina adra, ad a medañ þu ert so Skapi fariñ, þa er þad Feste-Bref uppa Guds Rijki, þad er Pantur þess, ad þu munir fagna med þijnum Egta-Manni i himneskri Sælu, eilijflega med Gude og hañs Heilogum. Laat þvi sia, ad þu tileinker þier þad, sem DRottenñ seger vid Israel, Esa. 54. Sa sem hefur skapad þig, hañ er þinn Madur, DRottenñ Zebaoth er hanns Heite, og þinn Lausnare, sa Heilage i Israel, hvern oll Verolldinn Gud nefnir, hvar fyrer grætur þu, og þvi ber þitt Hiarta sig so illa? Er eg þier ecki betri enn Tiju Syner? Sagde Elkana vid Konu sijna Añu, 1. Sam. 1. Og hvad miklu betri er þa Gud Himnaña, helldur eñ eiñ daudlegur Madur, vilie hañ ganga þier i Mañs Stad! Hvada Naud hefur þu þa? Hañ er noogu vijs til ad raadleggia þier, noogu rijkur til ad forsorga þig, noogu mattugur til ad forsvara þig, noogu Giædskurijkur til ad hugsvala þier: Hvers villtu framar æskia? Eckiur og Munadarlauser hafa stoorañ Riett i Himninum, so sem adur er sagt: Þegar DRottenñ leit þessa Eckiu, Þa Hrærdist Hañ Af Iñstu Medaumkan Yfir Heñe. Hun hefur kañskie ecki þeckt DRottiñ, edur ecki sied hañ, þvi sorgandi Manneskiur geingu med huldu Hofdi hia Gydingum; Hun hefur og ecki Ordi uppkomid fyrir Harmi, so hun giæti bedid hañ: Og þo gat ecki Bruñur Giædskuñar halldid sier. Hañs Hiarta brast i honum, so hañ hlaut heñi myskunsamur ad vera, strax sem hañ leit Eymd heñar: Med einu Ordi, einu Atvike þurkadi hañ oll Taariñ af Augum heñar. Þegar þær Ruth og Naami voru aldeilis Munadarlausar, þa sendi Gud þeim Boas, Ruth, 2.

ar Eckiañ i Sarepta og heñar Sonur voru adkomeñ Dauda i Atviñuleyse, þa baud Gud Eliæ ad bæta Brest heñar; Mun hañs Hønd eñ nu stutt vordeñ? Er hønum nockud apturfared, sijdañ hañ er hafiñ yfir alla Himna? Nei, Nei, wtriett er hun eñ nu i Dag til allra þeirra, sem aa hañ vona, og þoott hañ reyne sijna aa Stundum, þa efist engeñ um Sañsøgli hañs, edur ætle sig yfergiefinn: Hañ gat halldid Manni þessarar Eckiu vid Lijfid: Hann gat læknad Son heñar aa Bana-Sænginni: Eñ hier færde DRottenn Soñur aa Maal sitt, er hañ skoñu aadur talad hafde, ad sæler væru þeir sem harma, þviad þeir mune huggader verda, þvi miklu meire var Føgnudur þesse, ad hann gaf henni aftur Son siñ, sem daudur var, helldur eñ þoott hañ hefdi læknad hañ daudsiwkañ. Laat þvi þier til Hugar koma, Guds Barn, ad þoott Daudiñ hafi slitid þad Band um Stund, sem var aa millum þijn og þijns Egta-Mañs, þa er þo ecki slited þad Einingariñar Band, sem hefur bundid Hiarta þitt vid Gud, hver alleina hefur Odaudleikañ, hver og hefur trwlofad þig sier ad eilijfu, i Naad og Myskunseme, i Riettlæte og Doome, Hos. 2. Ef þu elskar hañ, þa er ecki ad ugga hañs Elsku til þijn, hañ vill vera hiaa þier i Neydiñi, og þier þadañ wtryckia, allar þijnar Andvarpaner heyra, øll þijn Taar reikna, og hella þeim i sinn Siood, og sijdann afþurka med eilijfre Glede; Og þoott ad þu megir sitia aa Bak þijns kiæra Egta-Mañs um Hrijd, þa er þad stutt hiaa Eilijfdiñi, hvar þid munud um Allder Allda samfagna, aan nockurs Kvijda fyrer þvi, ad skiliast framar. Seig þvi ecke: Eg er af øllum forlaatinn! Medann þu hefur ecke Gud forlaated, mun hann þig alldrei forlaata: Treyst þvi ad fullu, ad þad sem DRottenn seger vid Christnina, hiaa Esajam, Cap. 54. Þad vill hañ til þijn sagt hafa: So sem eina forlaatna Konu og Sorgbitna, þa kallar DRottinn þig aptur: Fyrr skulu Fiøllinn wr Stad vijkia, og þessar Hæder nidurfalla, enn ad mijn Naad vijki fraa þier, edur minn Saattmaale nidurfalle, seger DRotteñ þiñ Myskunare, jaa, hann sem er trwr, og sialfum sier ei kañ ad neita, seger Postulenn. Øll Umsorgun og Umhyggia Bwskaparins liggur nu aa þier, sijdann Gud took þinn Mann fraa Siidu þinni: Hugsa til þess er David segir, Ps. 68. Gud leggur oss eina Byrdi uppaa, enn hañ hiaalpar oss ad bera: Vantreyst hønum ecke, sem bar allann Israel i Eydimørkunni, so sem ein Mooder ber siñ Son (seger Moyses), edur hañs Syni, hver ed ber alla Hlute med Ordi sijns Kraftar, ad hañ giete ecke hiaalpad þier; til ad bera þad hann hefur sialfur þier aa Herdar lagt: Haf þijna Unadsemd i hønum, hañ hefur lofad ad giefa þier hvad þitt Hiarta gyrnist; Finnist þier Byrdinn þwng, þa varpa allri þinni Ahyggiu uppaa hann, sem þvi mun vel til Vegar koma: Og er þad nu so um hid fyrra wt-talad.

Hvad hinu Sijdara vidvijkur; þa reyna Meñ þad optlega, ad Foreldrunum fellst ecki miña um þad, nær þeirra Børnum verdur fyrir tijmañlegann Dauda burtu kippt, helldur enn þo ad hvert miste annars, sierdeilis, ef þad eru einka Børn, so sem hier aa stoodst; Þvi Hañ Var Einka Sonur Siñar Moodur, seger i Textanum: Og þar ad auki, ef ad þvilijk Børn eru lijkleg til Giæfu og Menningar, so þau giæti sijdann Gudi

og Fodur-Landinu med Sæmd og Æru þioonad; Og ecki verdur þvi mootsagt, ad stoor Hormung lœ a Kviñu þessare, þar Daudeñ hafde rænt hana fyrst sijnum Hiartkiæra Egta-Mañi, og þo a hinum besta Alldre, og þar ad auke sijnum einasta Syni, eiñig i sijnu Æsku-Bloome, hver an Efa hefur verid hennar einasta Yndi og Adstod i heñar Munadarleyse, enn þad eykur miklu hier a, ad þad var eitt Briixle hallded a þeim Dogum fyrer Kvinnurnar, ad lœta ecki Sæde efter i Israel, þvi allar gyrntust ad vera Mædur ad Messia, og ecki hefur þad einasta Læging þookt Obyria ad vera, helldur og hitt ein stoor Sorg, ad missa Born sijn, og eiga kannskie ecki Von til annarra; Þad sie eg a Dæmi hinnar Sunamitisku, er sagdi vid Elisæum, nær Sonur hannar lœ Andvana, 2. K.B. 4. Beidda eg miñ Herra nockud uñ Son? Sagde eg ei, pretta mig ecki? So sem hefdi henni þoott sœ Kostur liettare, alldrei ad hafa Barn fædt, helldur enn ad Syni hennar hefdi verid i burtu svipt: Og ma sœ vera af Iœrne gior, sem ecki vorkieñir þeim soddañ Mootgang, sierdeilis, þar Guds Andi setur oss þetta til Dæmis uñ hina mestu Sorg, þar hañ seger, Amos. 8. Ad Harmkvæle Gydinga skuli verda eins og Harmur epter einn einasta Son; Þad sama Itrekar hañ hia Zachariam, Cap. 12. Þvi er soddann miog natturlegt og eingum ad lœ: Þo skulu christner Menn haga sier i þessu so sem Guds Born, og lœta hann rada, sem alls Raad a bæde a Himne og Jordu. Hinar somu Roksemder skal ad sonnu til þess hafa, ad bæta Sorg sijna i þessu Tilfelli, og hinu, er i Fyrri Greininni var uñtalad: Seig mier, christeñ Madur! Hefur þu ecki Barn þitt af Gudi odlast? So seger David, Ps. 127. Borninn eru Guds Gafa, og Lijfsins Avoxtur er eiñ Skeinkur: Þau eru ecki so alldeilis vor Born, ad þau sieu ecki miklu framar hañs, sem er Fader yfer ollu þvi er Born kallast bæde a Himne og Jordu, þvi nær hañ gaf oss þau, þa gaf hann þau med þeim Skilmala, ad honum være frialst ad taka þau til sijn nær hann villde: Eda giorum vier ecke so hver vid annañ? Þoott eiñ lœte Barn sitt til Vinar sijns uñ Stund, mun þad ecki standa i hañs Valldi, ad lœta þad til sijn aptur hverfa, nær honum lijkar? Ætlunst þvi ecke til, ad Gud muni hafa minni Riett yfer oss, og Bornum vorum, enn vier þykiunst yfer þeim hafa; Seig þvi midt i Sorgiñi, midt i Harminum eins og Job, hvern Gud svipti ecki einasta ollum Bornum sijnum, helldur og allri Aleigu sinni i einu Vetfange, Job. 1. Gud gaf, og Gud aftook, sie Nafn DRottinus blessad: Ef þu ert Guds Barn, (þvi fyrir þeim vil eg sier i Lage þetta talad hafa) Ef þu ert sialfur Guds Barn, sege eg, þa veit eg, ad þier hefur umhugad verid, ad fela þessa Guds Gafu honum sialfum a Hendur, ad Barn þitt mætti hanns Myskunar og Forsioonar i ollu nioota; Enn allra hellst muntu hafa Uñhyggiu borid fyrer þess eilijfre Velferd, ad þad mætte Gude sem kiærast vera, og sem mest vardveitt fyrer Andskotans, Heimsins og Holldsins Vielum: Hier uñ muntu Gud bedid hafa i ollum Bænum þijnum, meir enn uñ langa Lijfdaga: Seig mier, hefur þa Gud ecke bænheyrt þig, er hann hefur teked þad burt vr Þrældoome Heimsins i Sælu Himinsins, fra Umsatrum Diofulsins til

Guds

Guds Barna Frelsis, fra Ofrijke Holldsins, til Þijns og Þess Fodurs Rijkis, hvar Þad mun skijna so sem Sool um Allder Allda? Þier skilst Þetta lijtt kannskie, a medan Sorgenn er sem brꝏdust; En lꝏt Þa so sem Christur segie vid Þig hid sama, er hann sagde vid Petur Fordum, Þa hann ei villde lꝏta DRottenn Þvo Fætur sijna; Hvad eg giore, Þad veistu ecke nu, enn Þu munt Þad sijdar Þeckia, Joh. 13. Þier munde vænt um Þykia, Þu munder af Hiarta gladur verda, ef Gud giæfe Þier Barn Þitt aptur, eins og Eckiu Þessare; En eg vil svara Þier eins og hann svarade Þeim i Nazareth Fordum: Margar Eckiur voru a Dogum Eliæ, enn til engrar var Elias sendur, nema til Eckiunnar i Sarepta i Sidons Lande, Luc. 4. Gud veit hvad hann vill giora, eckert giorer hann til Onijtes. Tilgangur DRottens i Þessu Kraptaverke er audsien. Fyrst er sa, ad hann sijnde bæde Þier og ollum Sorgbitnum, ad hann bæde vilie og kunne ad sampijnast Eymdum Þeirra. Hinn annar, ad hann auglijste Þad hann Gud være, sem ad hefur Vald yfir Daudanum, Þvi Þesse var hinn Fyrste af hinum daudu, er hann uppvakte a sijnum Hiervistar-Dogum; En sijdan ad hann hefur hverttveggia Þetta med morgum Rokum stadfest, hver Naudsyn ber Þa til Þess, ad hann umbreytte sijnu Logmꝏle? Og Þoott Þu mætter Þann Kost eiga, ad Barn Þitt hverfe aptur i Verolldena, hvilijk Fꝏvitska væri Þad, ad selia Rijkdoom fyrer Armood, Heilbrigde fyrer Siwkdoom, Glede fyrer Sorg, og hina allra sætustu Roo og Hvijld fyrer allskonar Andstreyme og Erfide? Þad være ad hata, og ecke ad elska Barn sitt, ef riett er alited; Sierdeilis Þar hiner Utvolldu Guds, sem i DRottne dꝏner eru, Þeir lofa Gud Oaflꝏtanlega fyrer sijna Endurlausn i Himnenum: Þvi skylldu Menn Þa syrgia Þeirra Burtfor af Heimenum, allra hellst Þar vier hofum eckert mist, helldur undann oss sendt, og munum finna eitt Heilagt Barn fyrer Syndugt, Odaudlegt fyrer Forgeingelegt, og Englunum samjafnt, fyrer Þad sem adur var Þo ecke nema Molld og Aska? Leifid Þvi Bornum ydar til DRottens ad koma christner Menn, og banned Þeim Þad ecke, og segied eins og Baruch vid sijna Herteknu i Babylon, Baruch 4. Eg hefi lꝏted ydur burt med Harme og Grꝏte, enn Gud mun skila ydur mier aptur med Glede og Fognude eilijflega. Eg veit ad morgum er Þad stoor Harmur, ad missa eitt einasta Barn, sem var Giæfulegt, og vel ad sier um alla Hlute; En hugleid Þa, christenn Madur, ad Gud gaf sinn eigenn og einasta Son wt fyrer Þig, i hverium hann alleina hefur sijna Velþocknan, ecke til ad bada i Roosum, helldur til Þess, ad ecke hefde hann Þar hann mætte Hofde sijnu halla ad, Luc. 9. Ecke til ad lꝏta sier Þioona, helldur til ad Þioona odrum, ecke til ad lifa i Sælu nockri, jafnvel Þoott hann mætte Þa vel Sælu hafa, helldur til ad Þola Krossenn, Heb. 12. Þetta giorde hann, sem Þier var um eckert skylldugur: Ojafnt hafest Þid ad, sem ert honum skylldugur bædi um Þig og Barn Þitt, ad Þu angrast af Þvi, ad hann flutte Þad i eilijfa Sælu, sem hans Sonur hefur Þvi med sinne Kvol afrekad; Hversu giorfuglegt sem Þad var, Þad var Þo alldrei so veglegt, so sem hinn frijdaste medal Mannanna Barna; Ef Gude og Fodur Þookte hann ecke Ofgoodur i Kvalernar, hvar fyrer skyllde Þier Þa Þykia Sonur Þinn Ofgoodur

til Dijrdarennar? Þu villder hafa honum Stoor=Fie efterlaated i Verolldiñe, munn þad vera betra enn hañs Arfa Hlute i Lande lifande Maña? Misjafnt fer uñ Arfana hier i Verolldinne, enn Petur segier oss ad þesse Arfur skiemest ecke, 1. Pist. 1. Nooger eru Erfingiarner, þoott eiñ deye Barnlaus; Sien ecke adrer, þa er Fodur=Landed, þa eru Guds Volader; Gior þeim gott medann þu lifer, og hefur þu Fie=Siood aa Himnum. Sonur þiñ doo burt i sijnu Æsku=Bloome, eñ engenn veit Æfi sijna fyrr eñ oll er: Vor Fyrsta Mooder fagnade nærsta miøg hinum Fyrsta Maňe, sem i Heimenn var fæddur, eñ þad villde ecke so rekiast wr fyrer honum. Eli Høfud=Prestur liet daatt ad Sonum sijnum, 1. Sam. 2. Þo voru þeir Skaalkar. Vænt þookte David uñ Absalon, hverniq hann launade honum, þad er alkunnigt; Þu þykest vita, ad ei var Barne þijnu hætt vid slijku: So er þad; hverium af oss þyker sinn Fugl fagur. Enn þegar ad Gud hefur ad fullu raaded Son þiñ sier til Handa, þa hefur hañ teked þessa Uñsorgun af þier, hañ er þaangad komeñ, hvar hañ ecke skal vega sinn Broodur, ecke vanvyrda Guds Þioonustu, og ecke giøra Uppreist i moote Fodur sijnum. Þu villder hafa sett hañ til Menta, ad hañ lærde alla Heims=Speke, og oll Tungumaal: Heyr mier, Guds Vinur! Engenn er þvilijk Speke, sem ad deya vel, og þar ad aa oll Speke ad lwta, annars er hun Onijt. Hann kunne ecke so margar Twngur sem þu villder; Þoott hann kunnad hefde, munde þad hafa gagnad honum til Himnarijkis? Þacka Gude, ad hann er þaangad komenn, hvar Tungumaalunum slotar, eñ Kiærleikureñ varer eilijflega, 1. Cor. 13. Noogur Vijsdoomur er þad, ad hann þecker Gud, so sem hann er af honum þecktur, og talar Englanna Tungu. Adgreining Tungumaalaña er Straff Syndareñar; Enn þad er Naad Guds, ad Twnga hinna Maalholltu skal tala riett, Esa. 32. So veit eg og, ad hver Utvalldra mun skilia aňañ, og ad þetta fullkomnast i Himnarijke, þar skal ecki Barn mitt þola mørg Høgg fyrer siñ Lærdoom, ecke ottast fyrer, hvert þad mune vinna edur tapa i einu Þrætu=Maale, ecke helldur æra sig i Reikninge Stiarnanna, edur Mælingu Himensins, nær þær eru dottnar, enn hañ samañvafenn eins og añad Klæde, Hebr. 1. Jafnvel þoott Menn verde ad flækiast vid þeña Hiegooma epter Naudsyn Spillingareñar Haattalags. Þu meinar, ad Gud sie þier reidur, af þvi hann leifde þier ecke ad uppala þad, er hann so vel skoop, sijnum Brædrum i Heiminum til Nota og Gagnsemdar: Gief þig til Frids, Barn mitt! Þacka Gude, ad þu, med hañs Adstod, hefur uppaled þad til Himnarijkis; hañ aa margañ goodañ, laat hañ sorga fyrer Løndum og Lijdum, sem þad leingst hefur giørt. So hygged nu ad þessu, christner Meñ, hver i siñ Stad: Laated hañ raada sem raada aa, og alldrei rædur sijnum Børnum, nema til hinns besta, og ætlest ei til, ad þier sieed betur fyrer ydar Raade edur Barna ydar og Astvina, helldur enn hañ, til hvers ad bæde ydur og þeim er varpad allt i fraa Moodur=Lijfi. Enn þu eilijfe Fader, sem ecke einasta taled hefur alla Daga vora, helldur og oll vor Høfud=Haar: Kienn þu bæde Forelldrum og Børnum, ad hugsa þad vier hliootum ad deya, so vier forsiaaler verdum, ad alldrei lifum vier so sem ættum vier i þessu Volæde Æfinnlega

lega ad lifa, helldur gief þu oss, sem ert Gud Lijffins og Daudans, ad hvert vier lifum edur deyum, þa sieum vier DRottens! Bænheyr þad, DRottenn minn, fyrer JEsu Pijnu og Dauda, og gief oss þar til Styrk Heilags Anda, Amen, i JEsu Nafne, Amen.

# Seytianda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 14. Cap.

A þeim Tijma. Og þad skiede so, ad JEsus kom i Hws nockurs Phariseara Hofdingia a Þvott-Deige Brauds ad neyta, og þeir hofdu Vardhalld a honum. Og sia þu, ad Madur nockur Vatns-Siwkur var þar frammi fyrer honum. Og JEsus andsvarade og sagde til Log-Spekinganna og Phariseanna, so segiande: Hvert leyfist nockud ad lækna a Þvott-Dogum? Enn þeir þogdu vid. Og hann took a honum, læknade hann, og liet hann i burt fara, svarade og sagde til þeirra: Hvers ydar Asni eda Naut, sem fellur i Pitt, er þad eige jafnsnart wtdreiged a Þvott-Deige? Og þeir gatu honum þar til eingu svarad. Enn hann sagde þessa Efterlijking til þeirra, sem bodner voru, þa ed hann merkte hvernenn þeir mottust epter hinum fremstu Sætum, segiande so til þeirra: Nær ed þu verdur bodenn af einhveriumm til Brwdkaups, þa set þig ecke i hid ædsta Sæte, kannskie, þad annar Heidarlegre enn þu, sie bodenn af honum, og kome sa, sem þier baud og honum, og segie til þijn: Gief þessum Rwm; Og hliooter þu þa med Kinn-Roda ad hafa hid ytsta Sæte. Helldur so, nær ed þu verdur bodenn, þa far þu, og set þig i hinn ytsta Sess, so ad nær ed sa kiemur, er þier baud, þa segie hann til þijn: Vinur, þoka þier upp betur. Þa mun þier Virding veitast hia þijnum Sessunautum. Þvtad, hver sig sialfur Upphefur, hann mun Nidurlægiast, og hver sig Lijtelæter, hann skal Upphafinn verda.

Exordium.

Medal hinnar Veglegustu Guds Þioonustu, er vier eigum ad dijrka hann med, þa er Helgun Sabbats-Dagsins: Hun er i Fyrstunne ecke bodenn Syndarennar vegna, helldur adur enn Spillingenn innkom i Heimenn. So segier i Genesis Bookar 2. Cap. DRottenn blessade hinn Siounda Dag, og helgade hann, þar hann a honum hvijldest af ollu sijnu Verke, er hann skapad hafde, þad er, ad hann hætte þa ad skapa Himin og Jord, og allt hvad þar er inne. Þetta Bodord er aftur itrekad i

Moysis Løgmaale, og er eitt af þeim Tiju Guds Laga Bodordum, þess gietur i 2. Mos. Bookar 20. Cap. Minstu ad helga Hvijldar-Dagenn DRottens Guds þijns; Og er þetta Bodord optlega stadfest i Gamla Testamentisins Bookum. A Sex Døgum skulud þier Verk vinna, hinn Siounde Dagur skal Helgur kallast, þvi þad er Hvijldar-Dagur, þier skulud eckert Verk a honum vinna, segier i 3. Mos. 23. Cap. Hin Fyrsta Ordsøk til þessa Hvijldar-Dags i Gamla Testamentenu var sw, ad Endurminnast hinns mikla Stoorvirkis, er Gud giørde i Skøpun allra Hluta, þvi nefner DRottenn þad eitt Teikn a millum sijn og Israels Barna, Ezech. 20. Onnur var sw, ad a þeim Deige skyllde almenneleg Guds Pioonusta halldenn verda, med Foornfæringum, med Kienningu Guds Orda, og ødrum þvilijkum Gudrækinis Eyrendum i Helgedoomenum. Umm Foornernar maa lesa i 4. Mos. 28. Enn umm Guds Orda Kienningu, vottar Lucas Cap. 4. med Dæme Frelsarans: Hann kom til Nazareth, hvar hann var uppalenn, og gieck inn ad Veniu sinne a Sabbatz-Deigenum i Samkunduna, og stood upp ad lesa. Hin Þridia var, ad Menn og Vinnu-Dijr skylldu hvijlast af Sex Daga Erfide, þad er bert af 2. Mos. 23. Cap. Og hin Fioorda var sier i Lage fyrer Israels Foolk, ad endurminnast Lausnarennar af Egyptalands Þrældoome, so sem segier i 5. Mos. Bookar 5. Cap. Nu, þoott ad Gud sette so i Ondverdu, ad hinn Siounde Dagur skyllde brwkast til þessarar Helge, þa er hun nu og hefur vered sijdann Himna-Før Lausnarans halldenn a hinum Fyrsta Deige Vikunnar, er vier i Minning Christi Upprisu helgum, i Minning Endurskøpunar Heimsins, sem fyrer hanns Dauda er skien, og i Minning hinns eilijfa Sabbatz, er øllum Guds Børnum i hanns Upprisu feinged er. Þetta skulu Menn ecke ætla ad sieu Manna Setningar, helldur so sem Moyses flutte Guds Løgmaal a millum hanns og Israels Barna, so hafa og Christi Postular giort þessa Skyckun, aan alls Efa, epter hanns Bode, þvi eckert segiast þeir munde þora ad giøra fyrer utann hanns Skipan, P.G. 15. Þad er og kunnugt, ad þeir afmaadu sumar Greiner af Kyrkiu-Løgunum i Samkomunne i Jerusalem, þegar Paulus og Barnabas voru til þeirra sender fra þeim christnu i Antiochia, og er þenna Flutning Sabbatz-Dagsins ecke meira i spunned. Eg vil ecke ætla, ad nockur giøre sier i Lund, ad Christur hafe ei haft Valld til þessarar Færslu, þvi hann segiest vera HErra Sabbatz-Dagsins, og ef þad var ecke a moote hanns Guddoomlegu Hatign ad afmaa Sacramente hinns Gamla Testamentisins, þa var ei helldur þetta. Enn ad þesse Raadstøfun sie af hanns Postulum gior, er þad til Vitnis, ad þeir komu samann a Hvijtasunnu-Deige, P.G. 2. sem innfellur a vorn DRottens Dag. Lucas skrifar, P.G. 20. Ad þann Fyrsta Dag Vikunnar hafe Læresveinarner samannkomed til ad briota Braudeð, og ad Paall hafi þa Rædu halldeð; Og sialfur Paall skrifar Corinthu Borgar-Mønnum til, 1. Pist. 16. Ad a hinum Fyrsta Deige Vikunnar skule þeir leggia Assijdes Ølmusur sijnar, er naudstøddum christnum Mønnum ætladar voru. Þenna sama Dag kallar Johannes Postule og Gudspialla-Madur DRottenns Dag i sijnum Opennberunum,

um, Cap. 1. Og so hefur christeleg Kyrkia nefnt hañ fra þeirre Tijd, allt til þessa: Þad ber til þess, ad nær Postularner ecke nefna Frelsarann sijnu eiginn Nafne, þa kalla þeir hann DRottinn, i Stadinn fyrer Guds Heite, sem er Jehova, i Gamla Testamentinu, þvi kalla eg þad vijst ad þesse Rædstøfun sie fra Gudi kominn: Og ad þessu so fyrermæltu, þa vil eg nu taka mier Ordsøk af Spurningu DRottinns til Gydinga, Hvert Þar Leifdist Ad Lækna A Sabbatz-Dege? Af henni vil eg taka mier Ordsøk ad tala um̃ þetta Tvennt: 1. Hvad christnum Moñum sie Oleyfilegt ad fremia a Sabbatz-Døgum. 2. Hvad þeim byrie ad giora, og Leifilegt sie.

Þu Stoore Herra DRottinns-Dagsins og hinns eilijfa Sabbatz, lat oss so giora þitt Verk a þessum Dege, ad vier um̃ sijder meigum inngaanga til þinnar Hvijldar, Amen, J JEsu Nafne, Amen.

## Utleggingeñ.

Hid Fyrsta, sem bannad var a Sabbatinu, þad var ad vinna nockurt Verk a þeim Dege: So seger DRottenn i sijnu Løgmaale, 5. M. B. 5. Vardveit þu Hvijldar-Daginn, ad þu helger hañ: Eckert Verk skalltu a honum vinna. Og so streingilega var þetta bañad Jsraels Sonum, 2. M. B. 35. ad þeir ecki mattu Elld kveikia i Hybijlum sijnum a þessum Døgum, hvar fyrer þeir ecki helldur mattu Matreida: Og er valla nockurt Bodord so optlega Jtrekad i heilagre Ritningu, so sem þetta, og hverstr ad Gud hafi freklega straffad Vanhelgun Hvijldar-Dagsins, þad sijnir oss Straff hañs, er tijndi upp Smælkid a Sabbatz-Degi, ad hañ matti deya epter Løgmaalinu, 4. M. B. 15. Fyrer Vanhelgun þessa, hootar Gud sijnu Foolki, ad hañ vilie uppbreña Borger þeirra hia Jeremiam, Cap. 17. og hia Ezechielem, Cap. 22. Sverde Konungsins af Babylon: Og er þeir, apturkomner vr Herleidinguñe, tooku til ad vanhelga DRottinns Hvijldar Daga, þa ataldi Nehemias þa hardlega, og leiddi þeim fyrir Sioonir, ad fyrer þessa somu Synd, hefdi Ogiæfañ komid yfir Fedr þeirra, segiande: Þegar Forfedur ydar giordu so, mundi ei Gud vor leida yfer oss alla þa Olucku og yfir þessa Borg? Og þier vilied apperta Guds Heiptar Reide mooti Jsrael, med þvi ad vanhelga Sabbatz-Dagiñ, Nehem. 13. Nu er þo um̃ Sabbatz-Dagiñ Tvennt ad hugleida: Þad eina, er Sida-Løgmaalinu vidvijkur: Þad er hellst i þvi foolgid, ad løfa Gud og dijrka a þeim Degi, og so ad giefa bædi sialfum sier og Hiwum sijnum Toom og Stundir til þessarar Þioonustu, so og ad hallda einhvern Viku-Dag til þessarar Jdnar: Og þad er so rijkt i Natturuna iñskrifad, og medfædt Mañinum, ad hinir orgustu Heidingiar tooku sier vissa Daga, nærri so marga sumir hverier, so sem vier christner Meñ, til ad fremia Bloot sijn og adra Godaña Þioonustu, hverri Skipan þeirra þoott ad Mañkynsins Ovinur hafi spillt med siñi Dijrkun, þa er þo audsært hier af, ad Natturañ hefur bodid þeim, ad slijkt væri ein sialfbodiñ Skylld vid Gud, og hafa ad þvi Leite og med þessum Setninge sañad þad, sem Paall skrifar, Rom. 2. Ad Heidingiarner, sem ecki hafa Løgmaalid, þeir giora af Natturuñi þad Løgmaalsins

mœlsins er. Añad er þad sñ Kyrkiu-Løgum Gydinga sier i Lage vidkom, sñ er, ad halldа Sabbated œ hinum Siounda Dege, hvar uñ œdur er nockud i Inngœnginum talad, so og ad viña alldeilis eckert Verk œ þessum Dogum, sem þo œn Efa hefur nockurn Skilmaula haft, sem sijdar mun sagt verda. Nu þoott ad christeña Maña Frelse hafe nockra Linkind hier i giort, so og linad Straff þeirra, er DRottiñs Daginn vanhelga, þa viti Menn samt, ad þad er ein hroopande Synd, ad briota hañ med Onaudsynlegu Erfide. Til Guds Dijrkunar var hann helgadur i Fyrstunni, laungu œdur eñ Løgmœled var wtgiefid. Christilegt Frelse hefur ei afmœd hañ, helldur flutt œ hiñ Fyrsta Dag; Hann er i Sida-Løgmœlinu bodinn, alldrei er hañ af Christo fyrerbodiñ, helldur Hræsne og sw Hiatrw er Gydingar uñ hann hofdu, hun er stroffud af Frelsaranum. Þetta Bodord uñ Helgun Hvijldar-Dagsins, er Alyktun hiñar Fyrri Bodorda Toblunnar, hvers vegna ad sijnast mœ, ad hañ, sem þad mootþroolega brijtur, hann neite allre Guds Dijrkun, fyrir utañ þad, ad þad stendur alltijd stodugt, er Jacob skrifar, Cap. 2. Ad sœ sem brijtur eitt af Bodordunum, hann er vid oll sekur: Sœ sem brwkar Hvijldar-Dagenn til sinna Utriettinga, ad Þarflausu, fyrer Agyrnis Sakir, edur af Forsmœn vid Gud, hañ er eiñ Afguda-Dijrkare, þvi Gudi eimum, eñ eingum odrum, tilheyrer sœ Heidur ad hallda hann helgann; Þar fyrer seger hañ, 2. M. B. 31. Siœed til, ad þier halldid miñ Hvijldar-Dag, þvi þad er Teikn œ millum mijn og ydar. Vanbrwki þvi nockur þeña Dag, med þvi Moote sem œdur er sagt, þa rænir hann Gud sijnum Heidre, og tileinkar sier, þad honum alleina tilheyrer; Hañ vanhelgar og hañs Nafn, þvi œ þessum Dege œ ad prijsa og lofa þad, med hiñi mestu Audmijkt; Eñ sœ sem ecki er med mier, hañ er œ mooti mier, seger Christur, Matth. 12. So vil eg segia; Ad hann sem ecki Guds Nafn helgar œ þessum Dege, hañ vanhelgar þad; Og i Sannleika, christner Menn! Þykir oss þad Oflijtid, ad Gud hefur giefid oss hina Sex Dagana til Utriettinga vorra, ad hann hefur blessad vort Erfide, vora Lijfs Næringu, vorar Karfer og vorar Afgœngs Leysar? Þoott vier giolldum honum Þioonustu Siounda innar, so sem eiñ Skatt af ollum Tijmanum: Þad væri stakt Oþacklæte, ad skora sig undann þvi. Eg vil ei þar uñ tala, ad Gud er lœngtum vægdarsamare vid Lijkame vora eñ vier erum siœlfer: Þar finnast þeir, ed so eru œkafir i Bwksorginni, ad þeir mundu eingann Tijma giefa sier, Hiwum sijnum og Vinnu Dijrum til Hvijldar, nema þessi Dagur væri tilsettur; So eyda þeir siœlfum Lijkamanum fyrer Lijkamans Næringu ad Þarfleysu, hvar med Gudi er einginn Þioonusta gior; Þviad hann, sem ad baud Mañinum, ad i Sveita sijns Andlitis skylldi hann sijns Brauds neyta, 1. M. B. 3. Hañ hefur og boded, ad œ hinum Siounda Degi skylldi hañ hvijlast af sijnu Erfidi. Og þoott nu ad Strit-Vinna og oñur þvilijk Veralldar Uñsvif sieu boñud œ helgum Dogum, þa meine þo engenn, ad Gud verde med eintoomes Ydiuleise dijrdkadur. Ydiuleysid er Ordsok til margra Lasta: Þegar David gieck Ydiulaus uppœ Hws Þakesijnu, þa freistade Diofullenn hañs til ad gyrnast Bersabe, og var hann þo Guds

Madur;

Madur; Ætla ecke ad þu siert Ohultare fyrir honum ef til vill: Þvi talar Hieronymus viJslega og gudrækilega, er haň seger: Haf alltijd eitthvad ad siJsla, so Dioful lenn hitti þig ecki Idiulausann, þvi Idiuleysed færir med sier Lestina: Menn læra Illt ad giora, af þvi ad giora eckert; Þar fyrer seger og einn af þeim christnu Forn-Monnum: Betra være Gydingnum ad vinna eitthvad til Þarfinda a Akri siJnum, helldur enn ad giora Upphlaup a Akrinum, og betra være Konum þeirra ad sitia ad Ullar-Verki, helldur eñ ad dansa opiňberlega a siJnum Tunglkomu Hatijdum. Og er þad Mala sannast, ad oss christna Meñ vantar alldrei Verk a helgum Dogum, til ad þioona Gudi med, ef vier værum Lundlægner þar a, þoott vier hvijlunst af daglegu Erfide, hvar uñ eg vil framar tala i hinni siJdari Greininni. Enn ef þad er ecki Leyfilegt, ad viňa Osmiked, edur eckert a þessum Dogum, þa er þad viJst, ad þad er ein Hofud-Skom̃, ad hafast þad ad, sem Illt er og i sialfu sier Oleyfilegt, þvi þad er ad diJrka Diofulliň i Stadiň þess Menn ættu Gud ad diJrka. Þetta giora aller þeir, ed bruka Guds helga Daga til Lauslætis, til Ofneytslu og Ofdryckiu, til liootrar Skiemtunar, til Okurs og Agyrni, til ad viňa sier iň Fe med Dubli og Teninga Kasti, hvar af þrælega Ordsakast Svardagar, Agg, Þræta, Aflog og Riskingar, til Ills Samtals, til ad baktala, rægia og liuga uppa Naungann, til ad atyrda hann og giora Illt i Skapi. Ofkandi være, ad ecki kiæmi Menn samann til slijks, a helgum Dogum, undir þvi Skyni, ad ganga i Guds Hus! Uñ hveria Pall seger, 1. Cor. 11. Ad þeir samannsafnist til hiuns verra eins; Og er einginn Vanhelgun argare eñ þesse: Þvi ef þad eru i sialfu sier þvilijker Klæker, ad Paulus seger, ad med slijkum skuli Menn ecki Umgeingni hafa, og þeir ed þvilijkt fremia, erfi ecki Guds Rijki: Hvilijkur Glæpur mun þad þa vera, ad adhafast soddann a þeim Tijmum, sem DRottinn helgad hefur? A medal þessara Klækia er ecki hinn miňsti, Guds Huss Forsoomun og haňs heilogu Orda, sem morgum Veralldar Syne þyker lijtel Synd, og allt annad þarfara ad vinna: Þykiast sialfer noogu vel uppfrædder, so ad ei muni þeir læra mikid af einfoldum Prestum. HErra Gud! Olijker eru Sialfbyrgingar þesser heilogum David: Haň var so vel uppfræddur af heilogum Anda, ad hann hefur morgum odrum himneska Speke kiennt i Psalmum siJnum; Þvi seger hann, Ps. 27. Eins hefi eg bedid af DRottne, þess krefst eg af honum, ad eg sitie i Huse DRottenns alla miJna LijfsDaga, til ad sia Fegurd DRottiňs og leita hennar i hanns Musteri. Hvad siJnist ydur? Mundi David ecki gieta fundid Gud heima i Husi siJnu, eins vel og þier? Ju, miklu betur; þvi eg efast uñ, hvert þier fiňid haň nockurstadar, sem so Toomlater erud, ad þier vilied ei lia Fætur ydar til ad ganga i Guds Hus, til ad leita haňs þar, edur Eyrunn til ad heyra haňs Ord. Hvad fann þo David i Guds Husi annad eñ nockrar Foornfæringar, i hverium ad fyrermyndud voru epterkomande Giæde, vid hveriar hann þo huggadi sig, og var gladur af Voniňi: Eñ þier, hverium Christur er med ollum siJnum Velgiorningum krossfestur afmaladur, i hverre riettskickadre Predikun, þier forsmaed þo Lijkamaň, þar sem David



unde

undi sier vid Skuggann. Hier af spretta adrer Avexter, likier Rostine, sem er Bænarækstarleysed, þvi Guds Hws er Bæna-Hws : Vantrwenn, þvi hvernig meiga þeir trwa, nema þeim sie predikad, seger Paulus, Rom. 10. Kiærleiksleysed, þvi þeir ysergiefa Safnadenn og moote Postulans Bode, Hebr. 10. og Samneyte Guds Barna, sem hvad mest esfist i Guds Helgedoome. Hier af fylger hanns Pienara Forsmaan; Þeir eru soddann Monnum eins og ein Gaman-Vijsa, sem er fogur ad leika, so sem O Rottenn sagde vid Ezechielem, þeir eru þeim nockurskonar Eptirlijkinga edur Ordskvida Smider eins og hann, Ezech. 21. Enn hvad vill hier af fylgia? O þier hin sævijsu Borninn! Þad, med Esa, ad hver sem þa forsmaaer, hann forsmaaer Christ, enn hver sem Christ forsmaaer, hañ forsmaaer þañ er hañ sende, enn þañ ed Gud forsmaaer, þann vill hann forsmaa, 1. Sam. 2. Og er þa ecki leingra ad leita ad Glotuninne; Sa sinnur hana i eilijfum Elde, sem ei vilde leita ad O Rottne i hanns Hwse. Hier um mætti margt fleira tala, enn eg læt þetta nægia ad so stoddu, og vil koma til hins, er eg adur lofad hefe um ad tala.

Hvert ad vera eige vort hid sierlegasta Verk a O Rottinns Dogum og odrum helgum Tijdum, þad er audvitad af Skickun Sabbatsdagsins i Gamla Testamentinu, hvar Foolkid atti samann ad koma til Helgidoomsins, til ad dijrka Gud med Offrum og Foornfæringum, so sem adur er sagt, þvi jafnvel þoott Dagurinn sie umbreittur, og Foornernar afmaadar med þeirre einu Foorn, sem hinn Ædste Nya Testamentisins Kiennimadur hefur innborid i þad Allra-Helgasta i Himnimum, ad wtvegadre eilijfre Endurlausn, þa er þo ecki hañs Vilie umbreittur i þvi, ad lata þloona sier af Christnum Monnum. Fyrer Synda-Foornernar offrum vier þvi saklausa Guds Lambe, sem fra Upphafe Veralldar slatrad er. Vor Upplyptingar Offur eru Bæner og Þackargiorder, þetta eru Kaalfar Vara vorra, þad eru vorer Frumburder, sem O Rottni eru helgader; Þa eigum vier fram ad bera ad sañu alltijd og allstadar, eñ þo sierdeilis i hañs Hwse, a þeim Dogum, sem þar til helgader eru: Þar til er hinn Fyrste Dagur Vikunnar bodenn, sem adur er umgietid, sem og adrar Hatijder, þær ed christelegt Yfirvalld hefur sett, og eiga ad halldast i josnu Gyllde; Þvi hann sem baud ad helga hiñ Siounda Dageñ, hañ hefur og boded ad hlijda Yfervalldinu; Og a þad þo hvad mest ad framkoma i þeim Hlutum, sem Guds Dijrd ahræra, og hañs sierlegustu Velgiorninga: Hvar fyrer hiñ Fyrste af christnum Keysurum, hinn stoore Constantinus, liet hallda Fostudageñ helganni Minning Krossfestingar O Rottenns, og varde sa Sidur lengi nockud. Nu er þad þo ecki noog, ad koma samañ til Kyrkiuñar, nema Meñ giore þar Guds Eyrende med allre Alwd; Añars er vor Kyrkiu-Gangur eck i nema eintoomis Hræsne, og være af Illu stærra, ad koma þar alldrei (sem þo er stoor Synd) i sialfu sier, nær þvi ma vel vid koma.); Þvi hitt er ad nalægiast Gud med Vorunum, eñ Hiartad er þar laangt fra; og hvad gagnar þad til Guds Dijrdar og vorrar Saaluhialpar, ad Meñ sitia i Kyrkiuñi, eins og Gud seger um Tilheyrendur Ezechielis, Cap. 33.

Þeir

Þeir koma til Þijn Hoopum samann, og sitia fyrer Þier so sem mitt Foolk, og heyra Ord Þijn, enn Þeir giora Þau ecke. Þad er Teikn til Þess, ad Eptertekteñ hefur ecke mikel vered. Og ecke einasta er Þad nu Skyllda vor, ad koma samañ a helgum Dogum, til ad lofa Gud, helldur er Þad einn gledelegur Hlutur, Þad er Myskun Guds, ad hann hefur ætlad Þessa Daga til Sadningar Saalum vorum, Þar hefur hañ tilreidt eitt miked Giesta-Bod i Syne sijnum. Þar vid huggar David sig i sinne mestu Sorg, er hañ kvedur Þannenn, Ps. 42. Eg wthelle Hiarta mijnu i sialfum mier, Þar eg mun med Þeim Flocknum burt ganga, og med Þeim fara til Guds-Hwss, med Gledskap og Þackargiord, med Þeim Hoopnum, sem Helgena helldur: Eg fagna af Þvi, seger hañ eñ aptur, Ps. 122. ad til mijn verdur sagt, vier skulum ganga i Hws DRottenns. Þetta sagde hann Koonungureñ i Israel, og einum Verk-Þræl a medal vor maa vallanwa til Þess, ad sækia Sooknar-Kyrkiu sijna a Stundum, edur og Hwsboonde hanns hefur so lwd hann i Erfide, ad hann gietur Þad valla; Hvad og er ein hræopleg Synd.

Nu er ecke Þar med bwed, christner Menn, ad Meñ heyre Guds Ord i Kyrkiunne: Allañ Dageñ a Gude ad giefa med riettu, ef Þad giora maa Stoor-Naudsynia vegna. Þegar Menn eru fraa Kyrkiuñe geingner, Þa eiga Menn ecke strax ad hætta sijnu Gudrækñis-Verke, edur lifa so sem alldrei hefdu Þeir komed Þar, og hugsa ecke framar Þar til; Hvad a Þa ad giora? Riett er ad sedia Lijkamañ epter Þorfum, Þad er og ecke bañad ad hallda sickanlegar Maal-Dryckiur a Þessum Dogum, Þo so, ad Meñ gledie sig med Otta, og dijrke DRotteñ med Virdingu, Ps. 2. Þetta gietur og vered eitt af Kiærleikans Verkum, ef Þad er giort aan Ohoofs og Metnadar. So sogdu Þeir Nehemias og Hezras Kiennemadur og Levitarner, er kiendu Foolkinu; Eted hid feita og drecked sætañ Dryck, og sended Þeim einn Part, sem ecke hafa tilbwed, Þvi Dagur Þesse er Helgadur DRottne vorum, Nehem. 8. Þetta budu Þeir ecke af eigeñ Myndugleika, helldur epter Logmaale DRottenns, er ritad stendur i 5. Mos. Bookar Cap. 16. Hvar fyrer slijkt er leifilegt, sierdeilis ef Meñ gleyma ecke Naunganum og hinum Fatæka, Þvi Þeim bijdur DRotteñ med soddañ Hætte gott ad giora, Luc. 14. Eñ Þoott ad Skaparenn hafe laated Þetta epter Lijkonum vorum, Þa eiga Meñ ecke ad laata Saalena Hlutlausa vera, helldur æfa hana i Umþeinkingu Guds Orda, er Meñ heyrt hafa, og Þess Lestre, Þeir sem a Bækur kunna, og meiga fyrer odrum lesa. Ecke hofum vier christner Menn særre edur smærre Velgioringa DRotteñs ad minnast, a vorum Dogum, enn Gydingar; Eins er oss skylldt ad minnast a Verk Skopunareñar og Þeim, og ollu meir a vora Endurlausn af Helvijtis og Syndarennar Þrældoome, enn Þeim a Lausnena af Egyptalands Anaud, ad hverre fullendadre, (eg meina vorre Endurlausn) ad DRottenn, sem doo fyrer Synder vorar, er uppriseñ oss til Riettlætes; A vora Endurskopun og Helgun i Skijrneñe, hverrar Fyrermyndan ad var Gangur Israels Sona yfir uñ Hafed Rauda, wr Egyptalande; Þvi meigum vier tileinka oss Þad, sem DRottenn bijdur i sijnu Logmaale: Geimed mijna Sabbats-Daga, so ad Þier vited ad eg er

DRottenn sem ad helga ydur, Ezech. 20. A Deydingu Holldsins, ad vier ei giorum þad oss lyster a hanns Helga Deige, nie gaungum a vorum Vegum, Esa. 58. Um þetta eigum vier ad hugsa a þessum Helgum-Tijmum, þad eigum vier ad brijna fyrer Bornum vorum og Hiwum, ecke sijdur enn Israels Syner Logmaaled: Og skylu Meñ satt tala, þa er engeñ Ydia Gude þeckare a Sabbats-Dogum, enn ad uppfræda Ungdoomenn og hina faafroodu i þeirra Christeñdoome, þvi til þess maa eg segia, ad christeña Manna Sabbat sie giort sier i Lage. Giære þeir þess, ed af Gude setter eru til slijkrar Idnar, bæde Kienneineñ, Forelldrar og Hwsbændur, og hugleide, hvad stoorum Reikninge þeir eige ad svara fyrer þenna Dag, ad odrum fraateknum.

Nu fyrer þvi, ad so er vared spilltu Edle voru, ad færster af oss, ja, so faaer sem enger af þeim, sem lifa a þessare kolldu og sijdurstu Olld, þeir gieta allañ Dag til Enda Gude þioonad i Hiarta sijnu, aan þess ad Hugur þeirra hvarfli fraa, þa meina eg ad leyfilegt sie, ad hressa Hiarta sitt med Sidsamre og Hæverskre Skiemtan a þessum Dogum. DRotteñ og hañs Læresveinar geingu wt uñ Korn-Akur a Sabbats-Deige, Matth. 12. Þvi veit eg, ad hañ bañar ecke ad giora sier eitthvad til Dægur-Styttingar, hvert helldur þad er med lijtille Viñu edur meinlausum Leik, nær þad ecke skiedur af Giaalijse, af Lausslæte, af Hreckvijse, edur odrum Hlutum, sem Guds Haaleita Nafn verdur lastad med, so og eru Naudsyneñe engiñ Log sett. Hvers Ydar Asni Edur Naut, Sem Fellur J Pitt A Sabbats-Deige, Er Þad Ecki Jafnskiott Uppdreiged? Seger Frelsareñ hier i Gudspiallenu: Þvi veit eg, ad ecke a so Logmaaled ad skilia, ad oll Viña hafe Judum boñud vered a Sabbats-Deige, hvernig sem aastædest; Þad kieñer Christur sialfur med þeim Ordum, er strax voru lesinn, og aptur med þvi, ad hañ seger, ad Kieñemennerner i Musterinu vanhelge Sabbatid, hañ meinar, epter Phariseaña Utleggingu. Eins mikil Vinna var ad slaatra Foornunum fyrer Altarinu, so sem i Heima-Hwsum. Enn fyrer þvi, ad þesser Pharisæi kiñu ad hafa sagt, ad slijkt helgadest af Musterinu, þa leifde hann Lærisveinunum Axin ad plocka fyrer utañ Musterid a Akrenum, og sagde: Hier er sa, sem meire er enn Musterid, Matth. 12. Hvad ed satt var, þvi hann var Musteresins Herra, so vel sem Sabbats-Dagsins, Luc. 6. Þad var og af Guddoomlegre Speke talad, er hann talade under eins: Sabbated er giort fyrer Manneñ, enn Madurenn ecke fyrer Sabbated, Marc. 7. Þetta er satt, so sem oll hañs Ord, þvi Madurenn var skapadur aadur eñ Sabbated var sett; Hvar fyrer skyllde þaa hin ædsta Skiepna Guds, sem er under Soolunne, vera so miog bundenn vid Kyrkiu-Logeñ, sem ecke aattu ad vara leingur eñ til Christum, ad ei mætte bregda wt af Logvitringaña Utleggingu? Guds Logmaal wtleggur og sialft sig i þessare Grein; Þviad i 3. Mos. Bookar 23. Capit. stendur oftlega: Þu skallt eckert Þrældooms-Verk vinna; Þad er i-trekad aftur i 4. Mos. B. 28. og 29. Capitulum. Hvilijkt þad sie, kieñer bædi Esaias og Jeremias, ad ei skule bera Byrder inn uñ Jerusalems Port a Sabbats-Dogum: Og maa þar af raada, hvad i þessu hafe mest bannad vered. Nu er þo Frelse

vort

vort christenna Mañameira, þvi vier erum ecke ad ollu Leite bundner vid Gydinganna Sabbat. Nockud hefe eg ædur þar uñ sagt, nockud vil eg hier efter segia. Þad er nu ollum kunnugt, ad Kyrkiu-Log Moysis eru fyrer Dauda DRottens afmæd, eñ þad er ædur sijnt, ad Forbod alls Erfidis æ Sabbats-Deige heyrer til Kyrkiu-Logunum. Satt er þad, ad Gud skipar, ad þetta Logmæl uñ Sabbats-Dageñ skule vera þeim eitt æfiñlegt Logmæl i þeirra Kynsloodum; Enn þær rugluduft, ei længt efter Himna-For DRottens, og nu veit engeñ af þeim, af hverre Ætt hann er, þvi er þad bert, ad þetta Logmæl hefur ei ad ollu leite vered giefid nema Gydingum: Umskurnenn kallast og eitt Æfinnlegt Sættmæl, þo er hun afteken med Skijrn christeña Maña; Þvi ber þess ad giæta, ad Ritningeñ kallar þad Æfinnlegt æ Stundum, sem leinge æ ad vara. Enn hvernig sem þessu er vared, þa vil eg adspyria: Hvar fyrer mun Paulus straffa þa i Galatia segiande, Gal. 4. Þier taked Vara æ Dogum og Mæanudum og Tijmum og Arum? Hvar fyrer mun hann aftur segia vid þa i Colossis, Cap. 2. Engeñ skal dæma ydur i Mat edur Dryck, edur uñ Hætijdardags Halld, edur Ny Mæanada Helgar, edur Hvijldardags, sem ad er Skugge þess epterkomanda, enn Christi er Lijkamenn? Hvad er þetta annad, enn ad Sabbatsins Logmæl er ad nockru Leite linad, og ecke so streingelega boded Christnum Moñum, so sem þad var Judum: Eg vil og þad til-leggia, ad þad kallast Teikn i 2. Mos. Bookar. 31. Cap. Hvad munde þad þa teikna? Þad Ævarande Sabbat, sem DRottenn byriade med siñe Upprisu hier i Mæadenne, enn mun fullkomna i Upprisu allra Manna, hvar efter ad Utvallder munu eckert annad Verk vinna, enn ad lofa Gud. Fyrst Meñ nu hafa siælfañ Hluteñ allareidu ad nockru Leite (þvi Trwenn er Vera þeirra Hluta sem Menn vænta efter, Heb. 11.) Og ad vijsu hver einn fullkomlega, sæ ed i DRottne deyr: Þvi skylldu Menn þa so miog hallda uppæ Teikned? Þegar eg Lijkamann hefe, hvad gyllder mig þa uñ Skuggann? So er nu christnum Moñum Leifilegt ad vinna æ Suñudogum allt hvad stoor Naudsyn vidliggur, þo so, ad Menn heyre ædur Guds Ord, ef heyra mæ, so sem er ad biarga Atvinnu sinne fræ Skiemdum, ef þær vidliggia, ad giora naudsynlegar Reysur, ad hiælpa þvi sem ad Lande ber, ef añars er hætt vid ad missest, ad Roora til Fiskiar i Hallæris Tijd, þo so, ad ei sie Fætækum gleymt, efter þvi sem Logeñ biooda, og annad þessu lijkt. Þetta er leyfelegt ad vinna, og jafnvel þo ecke bere bræd Lijfsins Naudsyn til, þa er þo ecke soddañ bannad. Ecki liggur Mañsins Lijf vid ad draga Nauted upp wr Dijkinu æ Sabbats-Deige, og þo mæ siæ, ad Gydingar hafa þad leyfilegt hallded. Ecki hefdu Læresveinar DRottens af Hwngre dæed, þott ecki hefdu þeir plockad Axin æ Hvijldar-Deigenum, og took hañ þa samt i Forsvar moote Illkvitne Phariseaña, hann gat og sadt þa med odru Moote, hefde þetta ecke leyfilegt vered, þvi ecke var hann komenn til ad upplensa Logmæled, Matth. 5. Nu er þetta og añad christnum Moñum lefad med sogdum Hætte; enn þess æ engenn ad dyrfast ad Naudsynialausu, edur ad brwka Frelse Guds Barna til Agyrne, edur giora þad af Vantrauste vid Gud, edur Forsmæ-

vid hanns helga Daga. Eñ hvad hier um̃ er framar ad tala, þa er Gude engeñ Hlutur þeckare ad giora a Sabbatz-Dogum, nærst siñe Þionustu, helldr eñ Kiærleikans Verk.

Hier stendur i Gudspiallenu, Ad Hann Hafe Teked A Þessum Vatnssiwka Mañe, Læknad Hann, Og Lated Hann J Burtu Fara; Og hversu ad hann hafe Phariseana sannfært hier um̃, er augliost, ecke einasta af hanns Tali i þetta Sinn, helldur og af Andsvare hauns vid Samkundu Hofdingiann, er vandlætte um̃ þad, ad hañ læknade hina veiku Konu a Sabbatz-Deige, Luc. 13. Þu Hræsnare, sagde hann, leyser ecke hver ydar sitt Naut og Asna af Stalle a Sabbatz-Deige, og leider til Vatns? Byriade þa ecke þessare, sem er Abrahams Doctter, hveria Andskotenn hefur bunded, sia, i Atian Ar, ad leysast af þessu Bande a Sabbatz-Deige? Ecke erum vier megnuger um̃ ad giora Krapta-Verkenn, samt eiga þeir ed Læknis Kunstena vita, ad giæta þessa, og aller ad giora vidlijk Kiærleikans Verk hvad mest a þessum Deige, epter þvi sem hver hefur Ordsøk og Efne til. Eg veit þar er engenn so Predikun, ad eg fae ecke ad heyra þar talad um̃ Synder mijnar, um̃ Giædsku Guds og hanns Velgiorninga, um̃ Avoxtu Trwarennar, og Betrun Lifnadarens, og þoott alldrei sie Predikunenn so einfalldleg, þa veit eg, ad eg er ecke so lærdur sem Lutherus, er sagdest alldrei hafa heyrt þa Predikun, ad hann ecke hefde eitthvad af henne lært, og mun hann þo hafa heyrt þar misjafnar a þeim Dogum; Sie eg nu Guds Barn, þa vil eg sijna þad i Verkinu, sem eg numde af Ordenu, annars er þad falled utann hia Veigenum, i grijtta Jord, edur medal Þyrna. Alltijd eigum vier Kiærleikans minnuger ad vera, enn þo hellst a þessum Dogum. Gud giæfe, ad christner Meñ nu villdu giora sier þad ad Skylldu-Logmaale, sem Paulus ried þeim i Corintho um̃ Tillaged til Heilagra. Hinn Fyrsta Dag Vikunnar, sagde hann, þad er a Sunnudagenn, þa legge hver einn hia sialfum sier, safnande i Siood, þad sem honum hefur heppnast: Fatæka hofum vier jafnann hia oss, enn þo hofum vier sier i Lage Ordsøk til ad giora þeim gott, a þessum Dogum, þvi þeir koma asamt oss fram̃ fyrer Gud I Helgedoominum; þa saum vier best ad heyra Naudsyniar þeirra, þar giettum vier raaded Boot a þeim, vier, sem Gud hefur giefed Audlegd Heims þessa, þar kunnum vier ad giora oss Vine af hinum raangfeingna Mañon, þa er medtaka oss i eilijfar Tialldbwder. So og eigum vier ad vitia Siwkra, Hwsa Eckna og Fodurlausra a þessum Dogum (þvi þad kallar Petr Gudræknis Verk) hugga þa, raadleggia þm̃, og ecki koma Toomhendter, ef vier meigum asleggia, eñ þeir eru Naudstadder: Annars geingur þad nærre þvi, ad segia, fared i Fride, vermed ydur og mettest, enn giefa þeim þo ecke hvad Lijkamanum gagnar, Jac. 2. So giæted nu þessa, christner Meñ, og giored ei Hiegosma wr Drottenns Dogum, hanns Orde, edur hanns Hwse, þvi hann lætur eckj ad sier hæda, og hvern sem hañ forsmaer, þañ vill hañ forsmaa. Eñ þu goode Gud og Konungur Dijrdareñar, verka þu þad med oss, ad vier so rækium þijna Sabbatz-Daga, þitt Ord, þijna Þioonustu, og allar þijnar Helgar Tijder, ad vier meigum med þier

Dend-

Ꝺendannlegt Sabbat hallda, fra einni Eilijfd til annarar, med ollum Heilogum, Barnheyr þad Naaduge Fader, fyrer JEsum Christum, AMEN.

# A Michaelis Messu.

Gudspialled, Matth. 18. Cap.

A Þañ Tijma, gengu Lærisveinarner til JEsu, og sogdu: Hver er mestur i Himnarijke? JEsus kallade eitt Barn til sijn, og setti þad midt i millum þeirra og sagde: Sannlega segie eg ydur: Nema þier uñsnweist, og gioreist so sem Smaa-Born, munud þier ecke iñganga i Guds Rijke. Hver sialfsur sig læckar, so sem Ung-Menni þetta, sa er mestur i Rijke Himnaña. Og hver sem medtekur eitt þvilijkt Ung-Menni i mijnu Nafne, sa medtekur mig: En hver hañ hneixlar eiñ af þessum Smælingium, sem a mig trwa, þarfara være honum ad Mylnu-Steiñ hengdest uñ hañs Hals, og være i Siaafar-Diwp sockt ur. Vei sie Heiminum fyrer Hneixlaner! Þar hlioota þo ad koma Hneixlaner; Enn Vei þeim Manne, fyrer hvern ad Hneixlaneñ kiemur! Eñ ef þijn Hond edur þiñ Footur hneixlar þig, sniid hañ af og snara honum fra þier. Betra er þier inn ad ganga til Lijfsins Halltur og Handar-vane, enn þad þu hafer Tvær Hendur og Tvo Fætur, og verder i eilijfann Elld kastadur. Og ef Auga þitt hneixlar þig, þa slijt þad wt og snara þvi fra þier; Betra er þier Eineygdum inn ad ganga til Lijfsins, enn þad þu hafer Tvo Augu, og verder i Helvijtskann Elld kastadur. Siaed til ad þier forsmaed ecki eiñ af þessum Smælingium. Þviad eg segie ydur: Ad þeirra Englar a Himnum, sia jafnann mijns Fodurs Auglit, sem er a Himnum.

Exordium.

Þesse Veglega Haatijd, er vier i Dag holldum, er tileinkud þinum stoora Hofud-Engle Michael, hvers Nafn ad merker, Jafn Gllde, eda, Hver Er So Sem Gud; Ecki þess vegna, ad hann sie Gude jafn, edur nockur onnur Skiepna, helldur hinns, ad hin Oñur Guddoomsins Persoona, Guds Eingietinn Sonur, hañ ber þetta Nafn Sumstadar i Ritningunne, og meda! annars hia Danielem i 10. og 12. Capitulum. Ecki helldur er þesse Dagur helgadur Guds Engle i þeirre Veru, ad Menn skule diirka hann þar med, þvi DRottenn Gud þinn skalltu tilbidia og honum

um einum Þioona, segier Ritningenn, Matth. 4. Þad bannar Paulus, er hañ tekur oss Vara fyrer, ad vier ei skulum laata villa oss med Dijrkun Englanna, Col. 2 Og ecki villdi Engilliñ, sem byrtist Johanni, taka a moote þvilijkre Lotningu, þegar Postuliñ fiell honum til Foota ad tilbidia hañ, er hañ sagde, Op.B. 19. Sia til ad ei giorer þu þetta, eg er þiñ Samþioon: Helldur er þesse Hatijdis-Dagur þar til giordur, ad þacka Gudi fyrer Vernd H. Engla, hveriúm hann umboded hefur, ad þeir bere oss a Hondum sier, so ad ei steitum vier Foot vorn vid Steine, Matth. 4. J Ritningunni hofum vier morg Dæmi uppa Varatekt H. Engla: Gud DRottinn Himinsiñs mun senda sinn Engil fyrer þier, sagde Abraham vid Eleazar Þioon sinn, Gen. 24. er hann reiste i Mesopotamiam, til ad bidia Syni hanns Konu til Handa. Jacob seger: Ad Engillinn hafi frelsad sig fra ollu Illu; 1.M.B. 48. Petur seger: Drottinn sendi Engil sinn, hver ed frelsade mig, P. G. 12. Enn þoott ad ei siaum vier Englanna Sioner nu a þessum Dogum, þar hinn stoore Michael, hinn stoore Engill þess mikla Raads, hefur bwid so um vor Saaluhiaalpar Efne, og so lioslega opinnberad oss sijns Fodurs Vilia, ad vier þurfum ecki Englana af Himne til ad kienna oss hvad til vors Fridar heyrer, þa samt skulum vier vita, ad þeir blessudu Andar eru oss nalæger til ad afstijra Skadtæde og Araasum Fiandmanna vorra, og þad vottar Paulus, er hann seger epter David: Ad þeir sieu aller Þioonustusamer Andar, wtsender þeim til Þioonkunar, er Saaluhiaalpina erfa skulu, Hebr. 1. Nu vilium vier aller i þeirra Tolu vera, þar fyrer eigum vier ad leggia allann Huga a, ad vier styggium þa ecke fra oss med hneixlanlegum og Ogudlegum Lifnadi, hvar um ad þetta H. Evangelium giefur oss Ordsok ad ræda, wt af þeim Ordum, er DRottinn talar um Hneixled, hvert ad er Tvofalldt: 1. Þad Meñ giefa odrum af sier. 2. Nær Madur hneixlar sialfann sig; um hverttveggia vil eg med faam Ordum tala.

Eñ þu goode Gud, styrk oss hier til med Naad þijns Anda, i JEsu Nafne, Amen.

## Utleggingeñ.

HVer Sem Hneixlar Eiñ Af Þessum Smaau, seger Frelsareñ: Þad Ord er i Textanum stendur, er dreigid af odru Orde, sem merker ad Halltra, og þad þess vegna, ad sa sem hneixladur verdur, hañ er ecki Heilfættur, hañ halltrar a Guds Vege, og geingur ecki riett fyrer DRottne. Þetta a vel samañ vid vora Twngu, þvi Hneixle drogum vier af þvi Orde, ad Hnijga edur Hneigia, þvi sa sem Hneixle af sier giefur, hañ kiemur odrum til ad hnijga edur rasa, og hneiger hann til vondra Verka. Þetta Ord merker a Griska Twngu þad Trie, sem Snoruñe helldur, a hvert þegar Dijred rennur, fellir þad hana yfer sig, og verdur Veide-Mañinum ad Braad: So brwkar og Diofullenn sijna Eyrendisreka i Heiminum, til ad veida Einfaldar Saaler; Þeir hallda Snorum hañs yfer Hofdi þeim: So kallar Paulus hañs Viela-Brogd, er hañ seger: Ad þeir sem rijker vilia verda falle i Diofulsins Snorur. Þar fyrer seger og DRotteñ fyrer Muñ Hosea, um hina Otrwu Kieñimenn i Juda: Þier erud

Snara

Snara i Mizpa, og wtþaned Net á Tabor, Hos. 5. Dragande Dæme af þeim Veidiskap, er brwkadist á þessum Fiollum. Nu er þesse hin Fyrre Grein af Hneixlinu med Tvennu Moote, annadhvert verdur þad med Ordum edur Verkum.

Med Ordum skiedur Hneixled, þegar þeir sem ödrum eiga ad underviisa, þeir kienna Villur og ránganu Lærdoom, þañ ecki er á Guds Ordi bygdur, og leider til Glötunar. Fyrer þessari Drepsoott hefur Guds Födurleg Milldi þyrmt Landi voru, siidañ hid klára Lioos Evangelii skein i hañs Kyrkiu medal vor; Lofad sie hañs Diirdarfulla Nafn uñ Allder Allda! Þetta verdur og, nær þeir, sem i Guds Stad eru setter, predika þad sem er Hiegoome; Ecke sundurkliwfa Ord Sañleiksins so sem byriar; Ecki giefa Guds Hiwum i riettañ Tijma þad þeim tilheyrer, og tala þad fyrer Foolkinu, sem ei er til Sadningar Sáalu þeirra, so hun er litlu edur eingu nær; Ecki segia hinum Ogudlega til Synda sinna; Ecki leidrietta þann, sem fer villur Vega; Ecki undirviisa hinum Fáfrooda; Ecke hugga þann Sorgbitna og Angráda; Já, þegar Menn i Guds Nafne og under hañs Persoonu reka sitt eiged Eyrende, til siins Abata, og ad leita siálfum sier Virdingar, enn láta Guds Diird fara, og eru ei miög hugsunarsamer þar uñ, hvad henni vidliidur: Þessa kallar Paulus Otrwa Erfidara, og Esajas, Máállausa Hunda, sem ei kunna ad gellta, enn þo sterka Hunda til ad eta: Hvar fyrer? Þvi þeir segia þeim Striid á Hendur, sem ecki leggia i Munn þeirra, enn boda Frid, nær þeir tyggia med Tönnunum, Mich. 3. Þeir eru Hverfuler, Osannsöguler og Liwga, segiande: Eg skal driwpa, þad er, kieña þier fyrer Viined, og fyrer áfeingann Dryck, so sem DRottenn ad Ordi kiemst, hiá Micheam Cap. 2. Og eg veit ecki hveriu þeir betri eru þeim folskn Spámonnum, er DRottenn talar uñ i Gudspiallinu, er koma i Sauda-Klædum, eñ iñra eru þeir glepsande Vargar; Þvi eimu má gyllda med hveriu Moote Menn draga Andskotans Ploog, til ad spilla Guds Akri: Og er þetta eitt skielfilegt og banvænt Hneixle. Nærst þessum tel eg þá, sem bædi siálfa sig og adra venia á skamarlegar Ordrædur og Fiblslegt Hial, sem eru Bloot, Munn-Eidar, dáarleg Skiemtan, Hroop og Niid, liooter Kvedlingar, og þo allra hellst illar Uñrædur og Hneixlannlegar uñ Náungann, sierdeilis dauda Meñ edur fiarlæga, af hveriu ad þrávalldlega framkiemur Agg, Neide, Þræta, Mord, Mañdráp, og allra Handa Fiandskapur og daudlegt Hatur: Þetta kalla sumer Ohlutvander Menn litlar Synder, aukhelldur ad þeir varest ad láta jafnvel siin eigenn Born og adra Fáfrooda þetta til siin heyra; Enn Paulus seger oss, ad Illt Samtal spille goodum Sidum, 1. Cor. 15. Og eñ framar segier hann, ad þviliikt ecke Christnum hæfe, Eph. 5. Enn hvad er þad? Eckert añad eñ ad sá sie ecke Christenn, ad Postulans Doome, sem ad temur sier þviliikt edur uñ Hönd hefur; Eñ ef hañ ecke Christenn er, þa er hañ ecki Guds Barn, og hefur forbroted hañs Nád, og tapad Velferd Sáalar sinnar, nema hann ydrest af Hiarta, enn forþienad ecki einasta, ad Mylnu-Steinn heingdist uñ Háls honum, og yrde i Siáfar-Diwp fock-tur (so sem hier stendur i Gudspiallinu), helldur og, ad honum yrdi i eiliifann Elld kast-

 ad:

ad: Og af þessu er nu audsært, hvad skielfileg Hæteung þad sie fyrer Gude og øllum Heidvirdum Mønnum, ad hafa þenna Osooma fyrir Smaa Børnunum, edur ødrum Einfølldum, og draga þau med soddann Hætte fraa Gudi undir Satans Valld, hverutveggium, bædi þeim sem hneixlar, og hinum sem hneixladur er, til eilijfrar Glotunar. Þeir eru og ecki Saklauser af þessu, er hroosa vondum Verkum, og þeim, er þau i frammi hafa, forsvara þau, og tala þeim alla Hlute til Umbootar; Þvi hier af leidest hinn Einfalldi og Barnid til ad giøra hid sama, og elska þad sem þad lofad heyrir af ødrum sier Elldri og Vijsare. Þad er satt, ad Manninn skal elska, enn Verkinn hata, og færa alla Hlute aa betra Veg: Enn þvi skal eg lofa hann, sem hatar Gud og gooda Sidu? Jafnvel þo margur kalli þad Hæversku og Spaklyndi, ad giøra þann. Eg voga ad segia, ad þar er enginn meiri Drepsoott i einni Bygd edur Lande enn þeir Menn, sem Ogudlega lifa og einkis svijfast hvad þeir giøra, enn eru þo heidrader i Ordum, og hvad þeir tala edur giøra, þad er tekid so sem af Himnum ofankomid, og jafnvel Klækir þeirra eru Dygdir kalladir: Þesser eru eitt Atu-Mein alls heidurlegs Athæfis og goodrar Skickunar, Snara hins vonda Heims, Taal-Fuglar Diøfulsins; Og, so eg þad i einu Orde segie: Þeir eru Meistarar til ad fordiarfa, so sem DRottinn talar um Babylon hiaa Ezechielem. Þvi kalla eg þaa litlu betre sem ala Osooma þeirra i faanijtu Hroose: Þo vil eg hier hafa fraaskiled þann Heidur, er Menn eiga Valldstioornenne ad veita, ecki einasta Goodum og Froomum, helldur og Hreckvijsum, seger Petur; Og skrifad er; Høfdingia þijns Lijds skalltu ecki Bøls bidia, seger Paulus: Enn hitt Annad er eg fyrer skommu umtaladi, þad Ordsakar stoort Hneixle, þvi þad er nockurskonar Raungdæmi, og rettlæter hinn raanglaata, edur, ad minnska Koste, leggur Vonda og Gooda ad jøfnu. Nu er allt þetta illt, sem allareidu er upptaled; Enn Kunstinn stijgur enn þa hærra upp i Diøfulsins Haakoola. Þetta eru þeir sem hafa Valld yfir ødrum, so sem eru Forelldrar yfer Børnum sijnum, Hwsbændur yfir sijnum Þienurum, Stoor-Herrar og Maktar-Menn yfir þeirra Undirsaatum; Nær þesser biooda eitthvad þad sem Ogudlegt er, so ad hiner voga ei annad enn hlijda, þad er eitt fullkomid Ofrijke og Yfirgaangur Satans i sijnu Rijki; So baud Nebuchadnezar sijnum Undirsaatum ad dijrka sitt Gull-Bijlæte, Dan. 3. So skipade Jessabel ad wtvega Fals-Vitni aa mooti Naboth, so baud Herodias Doottur sinni ad bidia um Johannis Høfud; So kom Jeroboam Israel til ad syndga, er hann baud ad dijrka þau Skwrgodenn i Dan og Bethel; Og þo ad i øllu ødru sie Olijku saman ad jafna, þa var sialfur David hinum lijkur i þvi, er hann liet slaa Uriam i Hel med Sverde Ammons Barna. Þessa Eptirmynd høfum vier aa Lands Høfdingium þeim, er biooda ødrum þaa Hlute, sem Gud hefur Andstygd aa, Meinsæri, Ofbelldi, Gripdeillder, og i hverri helst Maata, sem þeir locka þaa edur hræda til ad vinna Diøflinum, enn mootþægia Gude: A Hwsbændum, er þeir giøra slijkt hid sama, ad þvi Leite sem i þeirra Vallde stendur; Til Dæmis: Nær þeir biooda þeim edur tæla þaa til ad giøra ødrum Oriett sier til Abata, ad forsmaa Guds Ord og Helgar

ar Tijder fyrer sijn Eyrende, ad hefna á einhverium, er þeir þykiast eiga Heipter ad giallda, edur ad þeir brwka þa á einhvern Haatt til ad framkvæma sijnar Gyrnder; Þetta er eitt skadsamlegt Hneixle: Og hid sama er ad segia um Forelldrana, edur adra þa, sem yfir Bornenn eru setter, edur umgangast med þeim; Og er þeim þo miklu meire Vande á Hende, enn ollum odrum: Fyrst, þess vegna, ad Forelldrarner eiga hina mestu Rækt á Bornunum ad hafa, og er þad Maala sannast, ad þeir eru særster sem vilia þeim illt giora i Lijkamlegum Hlutum, og sumer eru allt ofhlijfner i þvilijku, sumer steypa sialfum sier til Helvijtis fyrer þeirra Skulld, er þeir safna þeim rangfeingnum Aude, og kienna þeim ad giora hid sama; Enn trwed mier, ad þetta er ad giora Barn sitt Arflaust ad saklausu, betra er ad slaa þad og lemia til Oboota, betra er ad myrda þad, enn ad hneixla med þvi, ad vijsa þvi á nockurt Forræde, hvar af þvi kynne ad ordsakast einhver Saalar-Vode, þvi allur Lijkamlegur Skade er Hiegoome ad reikna hiá Meinum Saalarennar. Hin Onnur Ordsok til þess, ad oss er vandast vid Bornenn, er su, ad þau eru hvad næmust á hid vonda, og hvad þau ung numdu, þad verdur þeim torvelldara ad laata, nær þau dragast á Legg; Og þvi tekur Frelsarenn þau til Dæmis hier i Gudspiallenu. Hann virdte þau blessadur so mikils, ad hann sagde: Leifid Bornunum til mijn ad koma; Hann setur þau til Epterdæmis þeim sem inn vilia ganga i Guds Rijki; Hann took þau uppá sinn Armlegg; Hann blessade þau; Hann segier hier i Gudspiallenu, Ad Þeirra Englar Siaae Jafnann Sijns Fodurs Andlit Sem A Himnum Er: Meined þier ecke, ad hann take þad saart, þegar þau eru hneixlud, er hann so miog virder og elskar, þegar þau eru dreigenn fraa Himnarijke, sem eiga þess vissa Von á medann þau þannig eru? Munu ei Guds Heilager Englar klaga þa saarlega, þegar þeirra Hiord er þeir eru setter til ad vakta, þegar hun er so illa wtleikenn, af þeim er sijdst skyllde, edur odrum Ohlutvondum, er vilia sem flesta jafnsvarta sier? Þviad ef þar er Glede i Himninum yfir einum Syndara sem Ydran giorer, þvi skyllde þa ei Guds heilogum Englum lijka þad stoor-illa, nær so er hondlad med þeirra Fooslur-Born? Þvi kann hver einn nærre ad gieta, sem nockra Rækt hefur á þvi Barne, sem honum er Astfoolged: Og þo nu Frelsarenn tale sier i Lage um Bornenn i Gudspiallenu, þa vited, ad aller adrer eru þar innefallder. Giefed eingum neina Hneixlan, segier Paulus: Enn sierdeilis eru þad þeir, sem eru hanns, einkum Volader, einfallder, og þeir sem bera hanns Kross, þvi hann giefur þeim somu Meiningar Nafn hiá Matth.25. Þar hann kallar þa hina minnstu, Jaa, sijna minnstu Brædur, i sama Capitula. Þvi skulum vier nu vita, ad hinn annar Maate til ad hneixla med Ordum, er sáa, ad raada einhveriumtil nockrar Syndar, þegar hann er Sorgfullur og Mootlættur: Jobs Kona segier vid hann i hanns stooru Mannraunum: Bolvadu Gude, og far ad deya: Henne eru aller þeir lijker, er raada Harmþrwngnum Manneskium til ad leita Oleifilegra Medala, hinum Siwku til ad leita Fiolkingis Manna, edur brwka adra Hiaa-Trw og Afgudadijrkan, hinum Faatæka til ad stela, edur vinna sier inn Fie med Prettum og Raangsleitne, þeim sem Orietten lijdur ad hefna

sialfur siin, enn forsmaa Logenn, og stela Hefndeñe fra Gude: Hafe nockur eitt Odaada-Verk i Sinne, eins og Absalon, þa vantar ecke einn Achitophel til ad raada honum ad kreinkia Fridlur Fodur siins, 2. Sam. 16. Og nær Ammon lijtur Gyrndar-Augum til sinnar eigenn Systur, þa verdur jafnvel hanns Brædrungur Jonadab til þess ad giefa honum Raad, til ad fremia sinn Ogudlegañ Vilia, 2. Sam. 13. Eg vil ei tala um þa sem fleka adra einfallda til ad giora sier Selskap i þvi, ad fefletta adra, til ad wtsiwga Hws Eckna og Fodurlausra, til ad draga under sig annars Goots med Yfirvarpe Laga og Riettinda: Engenn hefur þa betur wtmaalad enn Salomon, er hann segier, Ordsk. 1. Son minn, nær synduger Menn vilia locka þig, þa kom ecke, þegar þeir segia, gack med oss, vier vilium um̃sitia Blood, vier vilium um̃sitia hinn saklausa: Og koñu þar epter segier hann oss, hvada Taal-Bita þeir brwka til soddann Veida: Vier skulum finna allra Handa kostuleg Audæfi, vier skulum filla vor Hws med Herfaang, vier skulum aller hafa einn Siood. O! Jaa, þier Satans Englar, verda maa þier hafed aller einn Siood i ydar Fodurs Rijke, sem er Hofdinge þessa Heims; Eñ so munud þier og eiñ Siood hafa med honum i hinu vellanda Dijke, þegar Guds Vesælingar lioma i Rijke siins Fodur, eins og Stiornur Himens; Þier munud segia eins og Israel Fordum, nær þier fagned ydar raangfeingnum Aude: Þesse eru þau Laun er mijner Elskugar hafa giefed mier, Hos. 2. Enn nær þier uppvakned i Helvijte og Kvolunum, med ollum þeim, er þier leidt hafed til Glotunarennar, med ydar falskre Aeggian, munud þier þa segia: Þesse eru mijn Laun, er mijner Elskugar, Holdled Heimurenn og Diofullenn hafa giefed mier? So er nu þetta hin skadlegasta og hneixlannlegasta Taal-Snara, og þad þess helldur, ad slijkt er hallded Framsyne og Skynseme af Bornum Veralldareñar. Meñ hneixla og siñ Naaunga, nær Meñ brixla honum um̃ einhvern Hlut, jafnvel þañ, sem ecke er i hanns Vallde, um̃ Faatækt sijna, um̃ Faavitsku, um̃ Lijkamans Skapnad, herma epter honum og spotta hann; Aller þeir ed so giora, þeir ecke einasta hæda ad Skaparanum, helldur koma hinum til ad syndga, i þvi hann reidest slijku, og leitast vid ad hefna sijn, og faae hann ei Hefndenne framkomed, þa hatar hañ þañ, sem hann lijdur slijkann Oriett af; Enn Hatred er ein Synd, sem bannar Mañenum iñ i Himnarijke: Eg vil eñ framar segia: Hver sem brixlar einum um̃ bætta Synd, hann giefur stoort Hneixle af sier, þvi Natturann er so illgiorn, ad Sannendunum verda Mañ reidaster; Eñ vier eigum ecke ad giefa Naaunganum Ordsok til neinnar Syndar, añars giora Meñ sig Hluttakande i añarlegum Syndum; Og hver vill upptelia allt þad sem Twngañ hneixlar med, nær hun er upptendrud af Helvijte, segier Jacob. Eins vil eg gieta aadur enn eg skilst vid þetta Maal, sem er þad Satans Ede, er margur Gaarungur brwkar, ad spotta Guds Þioonustu, og hlæa ad þeim er hana ydka: Þetta er riett ad gabba Gud, og hæda ad Christo i sijnum Pijslum; Þvi so sem ad hiner Ogudlegu Kieñemanna Hofdingiar, med þeirra Haaduglegre Medferd, leiddu þad Foolked, sem koñu aadur hafde sijn Klæde breidt aa Veigenn, og kallad, Hosianna Syne Davids,

vids, þeir leiddu það, segie eg, til ad hroopa litlu sijdar: Tak burt þenna, og gief oss Barabbam lausañ; So fyrerverdur sig margur Einfalldur og Istodulijtell, þegar þeir sia, ad christelegt Lijferne aflar þeim Haturs hia Monnunum: Og þetta er verra enn allt annad, sem adur er upptaled, þvi nær Hneixled hefur þrijst einhveriuin til ad burtkasta Guds Otta, og laata meir ad Mannaña Doome enn Guds, þa fylgia þar allar Skañer a efter: Og þannenn verdur nu Hneixled med Ordunum.

Eñ med Verkunum skiedur þad ecke miña: Vei Heimenum Fyrer Hneixlaner, segier DRottenn. Þetta Vei talar hañ af Medaumkan, alijka og þegar hann griet yfir Jerusalem. Hvar fyrer? Þvi hann sa, ad þar yrdu ad koma Hneixlaner; Ecke af Guds Tilstille, hveriuin ecke lijkar Ogudlegt Athæfe, helldur af Heimenum, sem liggur i hinu Vonda, og hefur hañs Alvijsa Speke ad vijsu eiñig lited til Illsku þessara Tijma, sem er so mikel, ad i Villu kyñu ad leidast, ef skie mætte, jafnvel Utvallder. Nu kiemur Hneixled af Verkunum, þegar Meñ drygia opeñberar Skañer og Leste, sem eru þvert a mooti Guds Bode og Logunum, so sem Okur, Raanglæte, Agyrne, Ohoof, Ofmetnadur, og þad so Bligdunarlaust, ad Meñ ecke einasta fremia þad sialfer, helldur samsiña þeim er þad giora. Þetta Eytur skadar med Tveñu Moote: Fyrst, ad þad leider bæde adra eins vonda, so og þa sem af Natturuñe eru þo ecke illgiarner, til ad giora þad illt er: Sa sem umgeingst med hinum Hallta, hañ lærer ad halltra: Sa sem giefur eina liota Forskrift, hañ velldur þvi, ad añad eins lioott verdur epterskrifad; Og Meñ hafa allt ofmiog Dæme til þess, ad Almeñingur lockast til ad giora þær Synder, sem færster mundu giora, nema þeir sæe adra giora þad fyrer sier, og ad þad være Sidvane og Tijdska Maña a medal. Eñ a añañ Veg hneixlast og þeir, sem froomer eru og raadvander, ad þeir verda Opoleñmooder yfir slijku, eins og Elias yfir Achabs Hwse, og Paall yfir Raanglæte Ananiæ Hofud-Prests, so hann rasade med Tungu siñe: Ja, þar kviknar i þeim nockurskonar Leide og Ofstickañlegt Vandlæte, so þeir taka þad til Raads, sem Gude er Stygd i, eins og Jonam hendte, er hann flwde undann Guds Bode. Og enn nu munu þeir finnast, er leita soddann Oyndis Urræda, nær þeir sia, ad allt geingur Andhælis, annadhvert ad þeir slaast i Selskap med þeim, er þanneñ breyta, edur ad þeir yfirgiefa sialfa sig og Skylldu sijns Embættis. A ollum er þetta Hneixle skadsamlegt, enn þo hvad mest a þeim, sem eru Maals metande og bodner yfir adra.

Kieñemeñerner hneixla, nær þeir giora allt annad enn þeir predika, so ad þegar Almwgenn ber Kieñinguna samañ vid Lifnadenn, þa verdur Þioonustugiordeñ lostud, og þeir fallast miklu helldur a þad, er þeir sia fyrer Augunum, sem er ein þeigiande Predikun, helldur enn þad þeir heyrdu med Eyrunum, þvi bæde gleymest þad fliott, og þyker engenn Alvara, nær þvi er hvad sijst epterfylgt af þeim, sem þad hellst attu ad giora; Þvi ecke eru aller þeir er giort gieta þad, sem Frelsarenn bijdur, ad hlijda þvi er þeir tala, sem sitia a Moysis Stoole, eñ breyta þo ecke epter Gierningum þeirra. Eñ hvad verdur þa? Þad sama sem Frelsarenn segier, er hann kallade Læresveinana Sallt Jardar: Eñ

ef Sallted skiemest, i hveriu verdur þa salltad? Matth. 5. Og ef Guds Þienarar lifa illa, hver er Von a þvi, ad Tilheyrendurner giore þad betur?

Hid veralldlega Valld hneixlar stoorlega, nær þeir dæma ranglega, taka Fie til Dooma, umhverfa goodum Løgum og giora Rietten ad Malurt, so sem Spamadurenn ad Orde kiemst, taka ranga Eyda vijsvitande, tradka Maalum og draga þau, til ad þreita þann sem Ranginden lijdur. Af øllu þessu framkiemur eitt skielfelegt Hneixle, þvi þad elur Osooma upp i Skaalkenum, og venur hann af ad hrædast Løgen, enn tekur allann Dug fra hinum frooma, so hann verdur hinum ad Braad, edur og ad hann tekur þad O-Raad, ad ræna Rietten sijnum Riette, og hefna sialfur Vanvirdu sinar. Og framweigis skied: þetta Hneixle, nær þeir sem Vollden hafa, brioota sialfer Løgen hvad mest: Eru Lauslaater, Ofdrykkiu-menn, Agiarner, sviikia Daglaunarann, fleka Eigur sijnar wt af hinum einfallda, eru baraattusamer, Ofbelldner, og fremia allra Handa Skamer og Ohæfu, er þeir straffa a ødrum, so sem være ecke Løgmaaled giørt nema fyrer Almwgann.

Forelldrar og Hwsbændur hneixla Bornenn og Hiwenn, ecki einasta nær þeir leggia einhveria Synd i Vana sinn, helldur og fremia eckert Gott, eru toomlaater i ad heyra Guds Ord, Yfirvalldenu Ohlijduger, Later, Hyrdulauser, Reidegiarner, og lifa i þvilijkum Syndum, þvi þa meina hiner, ad ei sie sier vandara, og þad heiter riett ad hneixla Christs hina Smaau, so sem hier stendur i Textanum. Hiner Rijku hneixla hina Fatæku, nær þeir lifa i allskonar Ohoofi, enn hiner svellta. Fatæker hina Rijku, nær þeir fara illa med Ølmusuna, og eru Oþacklaater, giefa so hinum Ordsok til ad hallda þvi inni, sem annars ætte wti ad lata: Og þar Verollden er nu full af þessu, þa er ei Undur þo Frelsarenn segie: Vei Sie Heimenum Fyrer Hneixlaner.

Framveigis rijs þar a Stundum Hneixle af þeim Hlutum, sem hverke eru gooder nie vonder i sialfum sier, enn verda þo ødrum til Hneixlis: Eg vil taka þad til Dæmis; Ad a St. Pals Døgum leyfdest allann Mat ad eta a medal christinna, eins og nu i vorre Kyrkiu; Sa sem at allann Mat, og hinn, er hiellt sig fra sumum, baader voru þeir Gude eins kiærer, og hverugur vill hann ad annan dæme; Þo segier hann: Ef ad þinn Brooder hrig gist vegna Fædslunnar, þa geingur þu ecki epter Kiærleikanum, tortijn honum ecki med Fædslu þinne, fyrer hvern Christur daaenn er, Rom, 14. Þo nu lijted þyke i þetta spunned, þa metur Postulenn þad so mikils, ad hann helldur þad kunne ad verda einum til Glotunar, sem Guds Sonur hefur þo endurleyst, og hanns dijra Blood so til Onijtis a honum; Þvi segier hann og i ødrum Stad: Vissa eg ad minn Brooder hneixladest, skyllda eg alldrei Kiøt eta. Þvilijker eru nu marger Hluter medal vor, so sem eru ein og onnur Siergiæde i Umgeingne, er vier kollum Affarasnid, a vora Twngu, eitt og annad Laatgiæde þeirra, sem annadhvert i Klædaburde edur annare Hegdan vilia vera ødruvijse enn adrir Menn, hvad jafnvel sumer af oss brwka a Helgum Tijdum, nijar Uppafindingar i ymsum Hlutum, sem ecke eru verre enn hid Gamla Skick, ecke helldur betre, og annad þvilijkt, sem adgiætner Menn sia vel athugad: Þetta er ad sønnu engenn Synd i sialfu sier, enn

þad

þad verdur ad Synd ef Naunginn hneixlast þaraf, til ad tala edur þeinkia illa um̃ þan̄, er so giörir ad Parflausu, og þvi bannar Paulus, ad giöra þad nockud, a hveriu ad nockur Brooder kunni ad hneixla sig edur steyta, Rom. 14.

Hvad hinu Ødru vidvijkur, sem eg hiet um̃ ad ræda, þa kun̄a Men̄ hvad mest ad hneixla sialfir sialfa sig; Þad kiemur af þeirri Synd, sem i oss bygger, voru spilltu Holldi og Bloodi; Þess gietur Frelsarin̄ hier i Textanum, er han̄ seger: Ef þijn Hond edur Footur Hneixlar Þig, Þa Snijd Hann Af Og Snara Honum Fra Þier. Ecke er þad Frelsarans Meining, ad Menn skule vana sig edur Limlesta, helldur siw, ad vier skulum eckert so kiært hafa, ad vier ei hofnum þvi, edur fra oss kostum, fyrr enn þad hneixli oss, so ad vier follum i Freistne; Og dregur han̄ hier Dæmi af Læknurum: Oss er eingin̄ Hlutur kiærare en̄ vorer Limer, og þo ef nockur af þeim er so rotin̄, ad hætt er vid, ad hann mege feigia hina, þa lijdum vier þad Læknirnum, ad hann skiere hann af; Þvi skylldum vier þa ecki deyda vora jardneska Limu, Saurlijfi, Ohreinleika, illa Tilhneiging, vonda Gyrnd, Agyrni, hver ad er Skwrgoda Dijrkan! So sem Paulus ad Ordi kiemst, Col. 3. Og þad sem hann hier seger um̃ þessa Leste, þad vill hann sagt hafa um̃ allt hid Vonda, sem i giegn Saalunni strijdir, hvert hann upptelur i Pistlinum til Galatas Cap. 5. Þesse er Lijkame Syndarennar, sem um̃gietur, Rom. 6. Þad er hinn gamle Madurен̄, hver ed brwkar sijna Limu, vondar Gyrnder, til ad reka Andskotans Eyrende, eins og einn Verka-Madur brwkar Hendur og Fætur til ad þioona naatturlegu Lijfi, þa byriar oss ad deyda, þa eigum vier ad affsnijda og snara þeim fra oss, so þeir hneixli oss ecki. Hversu opt verdum vier hneixlader af Hondunum, þegar Foolskann blæs þær upp, til ad meida Holld Naungans, þegar Agyrnden̄ rietter þær wt til ad grijpa han̄s Goots og Peninga, þegar Letin̄ svæfir þær til ad leggia sig saman̄, Ordsk. 24. So Men̄ gieta ecki etid sitt eigid Braud, og verda þvi ad leita þess i annarra Andlitis Sveita. Fæturner hneixla oss, nær Leidinn a Guds Orde og Toomlæted i vorum Saaluhiaalpar Efnum giörir þa trega til ad ganga i hanns Hws, enn fwsa til ad hlaupa þangad, sem þeir Hluter eru ydkader, hveria Gud hefur ban̄ad; Þa er hinn gamli Madurin̄ skiootur a Fæti, en̄ hin̄ nye halltur, og þa helltum vier oss og hneixlum nærsta miog sialfa. Sama er um̃ Augun̄ ad segia, hverra Frelsaren̄ og gietur hier i Gudspiallinu. Hvad er i Heiminum? Þad er Gyrnd Holldsins, Fijsn Augnanna og Drambsamt Lijferne; Hversu opt festa sig vor Augu a þeim Hlutum, sem eru fuller af þessu? Fogur Asyn̄d, Audæfe, Metord, og sodd ann Taal Veralldarinnar, þad er vor Augna-Vode: O! hvad miklu betur væri þad Auga wtstwnged, er lætur sig blinda af þessum Hlutum, en̄ hverfur af Gudi sijnum og hanns Bodordum! Þess vegna gierdi Job Saattmaala vid Augu sijn, ad ei lyte han̄ þeim til Meyariñar: Þvi bidur David Gud: Snw þu Augum mijnum, ad ei lyti þau Hiegooman̄, laat mig ganga a þijnum Veaum; Giefande þar med til Vitundar, ad sa sem starir a Glis Veralldarin̄ar, han̄ kun̄i ecki Guds Veg ad rata. En̄ þad sem DRottin̄ hier seger um̃ þessa Limu

hin̄s

hiñs gamla Mañs. Þad vill hañ sagt hafa um̃ allt þad sem oss mæ fra Gudi draga. Sæ sim̃ virdir meir Fodr og Moodr, Systr edr Broodr, edr Eigiñ Konu sijna, og jafnvel sitt Lijf, helldr eñ Christum, hañ hneixlar siaalfañ sig. Sæ sim̃ gyrnist þad Embætte, sem hañ er ecke Madur fyrer (hvad margur Daari giorer a þessum Dogum), hañ hneixlar siaalfañ sig, þvi hañ giorir sig verri med þvi, ad hañ fer illa med Guds Um̃bod, sokum Faakiænsku edur añars Oqleysis, þar hañ hefdi añars kañskie goodur Madur verid.

Sæ sem tekur sier Hneixle af þeim Hlutum, sem ecki eru hneixlannleger, helldur goodi er og Gude þecker, so sem er skynsamlegt Vandlæte i Kienninguñe, Roggseme Yfirvalldsins i Stioorniñi, Alvorugiefni Skoolameistara, Forelldra og Hwsbænda i Typtaniñi og Um̃vondunin̄i, hver sem steiter sig a þessu, hann sami hneixlar merkilega siaalfañ sig. So hneixludu þeir sig a Moyse Guds Manne, þvi hann rak Guds Eyrende skoruglega: A Elia, Michea og Jeremia, af þvi þeir vandlættu i Guds Stad: A siaalfum Christo, þvi hann heidrade sinn Fodur, enn þeir vanheidrudu hann; A hañs Postulum, þvi þeir hlijddu framar Gudi enn Monnum. Sæ sem steiter sig a añars Hæglæte, og meinar sier leyfist allt vid hann ad giora, þvi hinn er ecki Heiptrækur, hann hneixlar siaalfann sig. So hneixludust Israels Syner a Moyse, þvi hann var hiñ Þolinnmoodaste Madur a Jordunne; A Christo, þvi hann hroopade ei nie kallade, hañ aat og drack med Tollheimtu-Monnum og Bersyndugum. Sæ sem er raangeygdur, ef nockur er goodgiarn, hañ hneixlar siaalfañ sig; So voru þeir ed Fyrster voru leigder i Vijngardeñ, eñ ofundudu hina, sem ecki hofdu nema eina Stund erfidad; So var hattad Broodur hiñs Fortapada Sonar, er ecki gat lidid ad hañs Fader myskunade sig yfir hañ: So eru og aller þeir, ed sia Offioonum yfer annarra Velgeingne og Lucku-Laane, so sem hefdu þeir af Gude eins mikid edur meira forskulldad. Sæ ed vogar sier i nockurn Selskap, sem honum er ofvaxiñ, edur leggur Lag sitt vid þaa, sem hann kañ ad hlioota Skada af, hañ hneixlar siaalfañ sig: Þvi bannade Gud sijnu Foolke ad taka til Egta Canaans Dætur, edur ad giora Saattmaala vid þaa, er hann wtrak fra þeim, ad ei yrdi þeir þeim ad Snoru: Þvi bañar Salomon ad hafa Um̃geingne med Reidegiornum Mañi. Þad Maaltæke er satt: Ef nockr tekr a Tioruñe, þa loder hun vid hañ: Hefde Israel ecki samlagad sig Skiækiunum i Moabs Lande, þa hefdi ecki so skielfileg Guds Hegning yfir þaa komid: Hefde Samson ecki bundid so fasta Ast vid Dalila, þa hefdi hañ Augunum halldid: Og hefdi Petur ecki geinged inn i Biskups-Hollina, munde hann ecke hafa sijnum Meistara afneitad. Sæ sem reider sig uppa siaalfann sig edur sitt Atgiorfe, Afl, Vitsmune, Makt, Rijkdoom, edur nockurn annañ Hlut, enn gleimer þvi, ad hann hafi þad þeiged, hann hneixlar hvad mest siaalfann sig, og kann ecke Oluckuna ad um̃flija: Þad kienna oss Dæme Egyptalands, Assyriæ og Caldæalands Konunga, er a Augna-Blike urdu upprætter, þvi þeir gaafu ecke Gudi Dijrdina: Og hefi eg so nockud um̃ Hneixled talad. Enn hvert ad sie þess Straff, þad segier Frelsariñ med þessum Ordum: Vei Þeim Mañi Fyrer Hvern Ad Hneixlaneñ Kiemur. Eñ hvad þad sie,

kieñer

kiennir hañ oss sialfur er hann sagde: Vei þeim Manni sem Mannsins Son forrædur; Og hier i Gudspiallinu ma þad sia, ad hann sem ecki kastar fra sier þeirri Hond edur Fæte sem hañ hneixlar, hañ hefur forþienad ad kastast i eilijfañ Elld: Sama er ad segia uñ hinar adrar Greiner af Hneixlinu; Þvi ecki skulum vier meina, ad sa sem Borninn hneixlar edur adra Guds Vesælinga, hann muni sleppa þar med, Ad Mylnu-Steiñ Heingest Uñ Hals Honum, Og Verdi i Siafar-Diwp Socktur: Helldur tekur DRottenn til þessa, eins og hiñs Smanarlegasta Lijfs Straffs a medal Gydinga, til ad sijna Stærd þessarar Syndar.

Þar fyrir, christner Meñ, giefid Giætur ad þessari volldugu DRottiñs Predikun, og latid ydur hana i Eyrum loda, rannsaked ydar undannfared Lijferne og spyried Samvitsku ydar ad, hvern þier hafed dreged med Orde, Verke, edur Epterdæme a vondañ Veg, med Gialijfe, med Lauslæte, med Fegyrne, med Hofmood og Oflæte, og, i einu Ordi ad segia, med Dijrkan Veralldarinnar og heñar Muna; Og, ef hann gengur enn nu a honum, þa legged allann Hug a, ad leida hañ a hina riettu Leid, ef þier vilied lifa, og ydrest hinns af Hiarta. Sa sem nockru stoled hefur, hann a epter Moysis Logmale Ferfalldt ad giallda. Zachæus sagde vid Christ, þegar hann ætladi sier Christeñ ad verda: Hafi eg nockrum Rangt giort, þa gielld eg þad Ferfalldt aptur; Eñ so miklu dijrari sem Saliñ er Fienu, so miklu þijngre sem Guds Reidi er Mylnu-Steininum, so miklu fegra sem Himnarijki er Stundlegu Eptirlæti, so miklu meiri Hug skylldum vier leggia a, christner Meñ, ad bæta þeim aptur, sem vier rænt hofum sijnum Andlegum Fiesiood. Nær þier siaed eitt Ungmenne, eiñ Vesæling, eiñ sem DRotteñ bijdur ad medtaka i sijnu Nafni, þa hugsed med ydur: Smaer eru þesser ad vijsu, eñ hañ er stoor, sem er þeirra Fader og þeirra Brooder: Smælingiar eru þeir ad sonnu, enn Hneixled er stoort, Syndenn er mikil, og Straffed Obærilegt; Vesælingar eru þeir, eñ sæll er sa, sem ecki hneixlar sig a þeim, þvi hañ hneixlar sig a Christo, eñ Vei sie hinum: Þar fyrer, ef þier villed Guds Viner vera, ef þier vilied Saluhialpina erfa, ef þier vilied heilagra Engla Þioonustu niota, ef þier vilied Helvijtis Kvaler umflija, þa giefid þeim ecker Hneixle, hverke med Orde, Verke nie Epterdæme; Þvi nær þier hneixled þessa, þa hneixled þier sialfa ydur: Þar fyrer medtaked þa i Christi Nafne, so medtaked þier hann, og faed ad heyra a hinum Effsta Dege: Þad þier giordud Einum af þessum mijnum miñstu Brædrum, þad giordud þier mier. Þess unni oss ad niota hin eilijfa Guddoomsins Hatign, fyrer

JEsu blessada Forþienustu,

AMEN.

# Atianda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 22. Cap.

Npañ Tijma. Pa Phariſæarner heyrdu þad, ad hann hafde nidur þaggad þa Saducæos, samañſøfnuduſt þeir i Eitt. Og eiñ Løgvitringur af þeim ſpurdi hann ad, freiſtandi hanns og ſagde: Meiſtare, hvert er hid hæðſta Bodord i Løgmæli-nu? Eñ JEſus ſagde til hañs: Pad, ad þu ſkallt elſka DRott-iñ Gud þiñ, af øllu Hiarta þijnu, og af allre Aundu þinne, og af øllu Hugſkote þijnu: þetta er hid Fyrſta og ſtærſta Bodord. Eñ hitt Añad er þeſſu lijkt, þad, ad elſka ſkalltu Náunga þinn ſo ſem ſialfann þig. J þeſſum Tveimur Bodordum er innibundid allt Løgmæl og Spá-meñerner. Eñ þa Phariſæarner voru ſo til ſamans komuer, ſpurde JEſus þa ad, og ſagde: Hvad virdiſt ydur uñ Chriſt, hvers Son hañ ſie? Peir ſøgdu hønum, Davids: Hañ ſagde þa til þeirra: Hvørn-inn kallar David hañ þa i Anda eiñ HErra? Par hann ſeger: Drott-enn ſagde mijnum DRottne: Sit þu mier til Hægre Handar, þang-ad til ad eg legg Ovine þijna Skør Foota þinna. Nu ef David kall-ar hann eiñ HErra, hverninn er þañ þa hañs Sonur? Og engiñ gat ſvarad hønum einu Ordi. Og eige dyrfdiſt nockur upp fra þeim Dege hann framar ad ſpyria.

## Exordium.

Tveir eru Partar chriſtilegs Lærdooms, Løgmæled og Evangelium. Løg-mæled er fyrir Moyſen utgiefid, eñ Náad og Sannleiki er fyrer JEſum Chri-ſtum ordiñ, Joh. 1. Af Løgmælinu verdur eingiñ Hoolpinn, þvi þad verkar Reide: Fyrer Trwna i Evangelio verdum vier riettlaater: Moyſes ſeger oſs hvad vier eigum ad giøra; Chriſtur, hveriu vier eigum ad trwa: Moyſes foor med Skugga eftirkomandi Giæda; J Chriſto er ſialfur Lijkamiñ oſs veittur. Nu er þetta þo ecke ſo ad ſkilia, ad Fedurner i Gamla Teſtamentinu hafi af Evangelio Hlutlauſer verid: Sia, eg kiem, i Upphafi Bookarinnar ſtendur ſkrifad af mier, þinn Villa, miñ Gud, giøri eg; Seger Meſſias fyrer Davids Munn, Pſ. 40. Hver er ſa hañs Vilie? Sa, ad Kvinnuñar Sæde ſkyllde ſundurmola Høggormſins Hofud. Fyrer þad bleſſada Fyrirheit hafa þeir aller hialpaſt eins og vier, ſem hoolpner eru vordner, allt þar til ad Chriſtur leiddi Sannleikañ i Lioos. Fyrer Trwna vard Abraham Riettlaatur, og fyrer Trwna, ſeger Petur, ad Fedurner hafi hoolpnir orded: Enn ſo ſem þeir voru ecki an Evangelii og þeſs Aſtgiafa, ſo ſkulum vier þad og vita, ad vier ecki erum an Løg-mælſins, þvi DRottinn kom ecke til ad uppleyſa, helldur ad uppfylla Løgmæled, Matth. 5. Satt er þad, ad þeir ſem Chriſto tilheyra, þeir eru ecki under Løgmæl-inu, þad er, undir Løgmælſins Bølvan, enn þo kroſsfeſta þeir ſitt Holld med

þeſs

þess Gyrndum og Tilhneigingum, Gal. 5. Þad heimtist ecke af þeim, ad þeir uppfylle Lögmaaled, enn þess krefur Gud, ad Menn lifi efter þvi sem fremst vier megnum; Edur þvi mundu hanns Postular so oft biooda oss ad lifa Gudrækelega, sparsamlega og riettvijslega i Heimi þessum; Þvi mundi Jacob segia, ad Trwinn sie daud aan Verkanna; Þvi munde Frelsarenn sialfur wtleggia Lögmaaled, og vijsa Monnum til þess, ef ecke ættum vier efter Lögmaalinu ad lifa? Þetta siaaum vier i þessa H. Dags Evangelio, i hveriu oss verdur fyrer Siooner sett oll Skyllda christinns Manns, sem foolgenn er i þessu Tvennu: 1. Ad elska Gud og Naungann. 2. Ad þeckia Christum og hanns Persoonu riettelega. Um þetta hefe eg aasett mier framar ad tala.

Enn þu goode Gud, styrk oss hier til med Naad þijns Anda, i JEsu Nafne, Amen.

## Utleggingin.

Hinu Fyrra hofum vier Tvo Bodord ad athuga, sem er: Ad Elska Gud: og Annad, ad Elska Naungann. Þad Fyrra kallar DRottenn hid Ædsta og Mesta Bodord i Lögmaalinu, so sem Vön er aa, ecki einwngis þess vegna, ad eckert er so ypparlegt, so daasamlegt, so mikillrar Elsku verdt sem Gud, helldur og þess vegna, ad oll onnur Bodordenn hafa sinn Kraft og Mindugleika af þvi, þar allt hvad vier giorum med Ord og Verk, hversu vel sem þad sijnest giort, þad er Onijtt, utann þad frammkome af Elskunne og Virdingunne til Guds. Allt þad sem Gud hefur boded, þad eigum vier ad giora, af þvi vier ottunst og elskum hann; Enn hann eigum vier ad elska fyrer sa Ometanlegu Yfirburde, er hann hefur yfir allar sijnar Skepnur, hanns Makt, hanns Dijrd, hanns Riettlæte, enn þo allra mest fyrer hanns Giædsku, þvi vier hofum ei so Skynbragd aa odrum Greinum hanns Dijrdlegu Haatignar; Enn hana finnum vier og þreifum aa henne aa hveriu Augnablike, þvi hann uppfyller vora Efterlaungun med Giædum, seg. David, Ps. 103. Og ef vier fyrst vilium hugleida Giædsku hanns i Lijkamlegann Maata: Er hann þa ecke saa ed hefur giefed oss Ond og Lijkama? Þvi skylldum vier þa ecke elska hann af allre Ondu vorre? Hefur hann ecke innplantad Naad og Skilning i Saalir vorar? Þvi skylldum vier þa ecke elska hann af ollu Hugskote voru? Hefur hann ei giefed oss Hiartad, sem er Bwstadur Elskunnar? A hverium skyllde hun helldur festa sig, enn aa honum, sem hana hefur sialfur tilreidt, og bwed so daasamlega um hana? Mun hann ei vera saa, i hveriun vier lifum, erum og hrærunst? P. G. 17. Uppfyller hann ecke Hiortu vor med Fædslu og Fognude? Upplijkur hann ecke sinne milldu Hende, og sedur allar lifande Skiepnur, Ps. 145. Og hvad mest hina Opacklaatu Manneskiu? O vor Gud! Eg hugsa til þess, er DRottenn brixlar sijnu Foolke hiaa Jeremiam, segiande: Hefi eg vered Israel so sem Eydemork, edur Jord sw er tapar Avextenum? Jer. 2. Gud giæfi, ad vier villdum og laata oss til Rifia renna þessa hanns Fodurlega Hiarta-Giædsku, og athuga, hvad orlaat hanns Millde hefur vered; hversu Vijsdoomsfull hanns Guddoomlega Forsioon, ad hann hefur alid oss aa þessum Arum, ei sijdur enn frioofsom Jord Akur-Kallenn, ad honum sofande, aa hverium vier hofum þo hvad verst lifad! Ef

vier hugleidum þetta, ad minnsta Kosti i hvert Sinn, er hañ veiter oss nockurn sierdeilis Velgiorning, þa mundum vier helldur leidast til ad elska Gud, og ecki segia med Gudlausum Judum: Vier drottnum og vilium ei framar til þijn koma, Jer. 2. Og þo nu ad DRottenn laate oss kienna hardt aa Stundum, annadhvert alla almennelega, edur og nockra sier i Lage, til ad typta oss þar med, lijsad a Kaalfa, Jer. 31. Edur til ad reina sijn Born, þa eigum vier samt ad elska hann, þvi hvern þann Son, sem Faderenn elskar, þañ agar hann, segier Paulus, Hebr. 12. Enn ef þetta er hanns Elsku-Merke, hvilijk Faasiña er þad þa, ad elska hann ei aptur aa moote? So sem þad er lijtill Heidur halldeñ, ad elska Vine sijna, medañ þeir kunna ad duga oss, so er þad lijted Ræktar-Merke vid Gud, ad elska hann alleina medann allt ad Oskum geingur: Og Gud naade, þad eru þo so faaer, sem giora þad! Enn so sem Gulled reyneft i Ofnenum, so proofast og Elskann til Guds i Mootgaangenum; og hvad morgum hefur hann þrijst til ad elska hann, sem þvi aadur fiarlæger voru! Og hafa Menn til þess fulla Ordsok, nær Menn giæta þess, ad hvad sem hañs Elskendur vantar hier, þad mun oss margfalldlega endurgollded verda i Upprisu Riettlaatra; Þad vottar siaalfur DRottenn, er hañ segier: Hver sem ad yfirgiefur Hws og Brædur og Systur, edur Fodur edur Moodur, edur eigenn Konu, edur Born, edur Akra fyrer mijns Nafns Saker, hann skal faa Hundradfallt aptur og eignast ad Erfdum eilijft Lijf, Matth. 19. Enn hvern sem ad hann svipter ollu þessu edur so miklu edur litlu sem honum þocknast, og hann elskar samt Gud sinn, og kyssker aa hanns Vond, hann giorer allt hid sama. Munum vier þa nockud minnast Harmkvæla þessarra Tijma, nær vier skijnum eins og Sool i Rijke vors Fodurs? Matth. 13. Mun Sonureñ reikna þad Hoggenn er Fader hanns sloo hann, nær hañ situr i Tign og Heidre? Þvi er þad forvijslegt, ad vilia ei kaupa þessu; og þvi skylldum vier þa ei elska vorn Himneska Fodur, jafnvel midt i Hormungunum! Eñ hvad almeñelegre Typtan vidvijkur, þa giæfe Gud, ad vier villdum eins lynder og samhuga vera i þvi, ad elska Gud þo hañ age oss, sierdeilis þar vier i þessu faatæka Lande meigum jaata þad, ef vier adgiæta vilium, ad hañ burtrekur ecki eilijflega, vier meigum þeckia þad vid oss framkomed vera, sem hann heiter sijnu Foolke, fyrer Muñ Joels Spaamanns: Eg skal endurgiallda ydur þau Arenn, sem ad Eingesprettañ, Trie-Ormureñ og Gras-Madkurenn hafa eydt fyrer ydur, Joel. 2. O vor Gud! Þvi skyllder þu Mannenum betala? Hver hefur þier nockurn Tijma giefed, so þu þurfer honum aptur ad giefa? Rom. 11. Vilier þu giallda oss epter Verdugleikum, þa eru vor Laun Daudeñ, vier hofum ecke annad medteked i Straff Syndarennar, enn hvad vier tilunned hofum, og þad med nærsta sinaaum Mæler; Eñ þvi velldur þijn Giædska, þijn Fodurleg Elska, ad þu villt so ad Orde komast: Þar fyrer hugleidum nu, christner Meñ! Hafe Gud typtad oss Ohlijduga Synda-Præla med O-Aran nockurre, edur odrum Land-Plaagum; Hefur hañ oss þad ecki margfalldlega aftur goldded, med hiñe mestu Ar-Giædsku og odru Blijdlæte sijnu? Skylldum vier nu elska nockurn jafnframt honum, er so leikur vid oss eins og Born sijn? Eñ hvad segier

fegier DRottenñ fyrer Muñ Joels ſijdar i þeſſum ſama Capitula? Nær þier eted jafnad-arlega og erud metter, munud þier lofa Nafned DRottens? Eñ hvert ad hiñ goodi Gud hefur ei optlega funded Breſt a þeſſu hia morgum af oß, þad bid eg þa ad hugleida, um hveria eg higg þad riett-talad ſie, er ſtendur hia Hoſeam Spaamanne, i Cap. 13. Under eins og þeir ſadder urdu, hoofſt upp Hugur þeirra, þar fyrer hafa þeir gleymt mier. Eñ øll þeſſe Lijkamleg Bleſſan, ſo mikil ſem hun er, ſem þo er ſo mikel, ad alldrei verdur hun fullþockud, þa er hun þo Smaa-Muner hia hinum Andlegu Giædum ad reikna, er oß veitt eru i JEſu Chriſto. Jafnum oß er tamt ad elſka Gud fyrer þær Gaafur, ſem aller jafnt nioota, fyrer hanns Sool, er hann lætur ſkijna yfir Vonda og Gooda, fyrer þad Regned, er hann falla lætur yfir Ranglaata og Riettlaata, Matth. 5. Hvar fyrer? Þviad aller meina ſig þeß verduga, fyrſt aller hafa þeß ſømu Not; enn Avoxturenñ verdur þo meire hia ſumum, eñ ſumum miñe, jafnvel þoott ad Tveir hafe hina ſømu Atburde, þvi Bleſſan DRottens er þad ſem Hwſed bygger; Eñ hans heilſuſamleg Naad i Chriſto er auglioos vordeñ øllum Moñum, Tit. 2. Hun er alldrei Avaxtarlaus hia þeim, ſem hana medtaka vilia, og þar er engeñ Miſmunur a øllum þeim, ſem jafnt bera ſig efter heñe, þvi hia honum er eckert Mañgreinar-Alit, þar er hverke Gydingur nie Grickur, Þræll edur Frelſinge, helldur aller eitt i JEſu Chriſto, Gal. 3. Enn fyrer þeſſa Haaleitu Guds Velgiørninga elſka fleſter hañ hvad miñſt. Hvar fyrer? Þvi Meñ dæma epter Holldenu, eñ Holldet ſkyniar ecki hvad Guds Anda er, 1. Cor. 2. Athugum þo hvert meira er, ad ſkapa Himen og Jørd, edur ad laata Gud, ſem hverttveggia ſkoop, taka a ſig Lijkingu ſyndugs Hollds, Rom. 8. Ad ſkapa Mañeñ, edur ad endurſkapa hañ; Ad giora hans Lijkama af Molldu, og blaaſa lifande Anda i hans Naſer, edur ad ſkapa i honum eiñ nijañ Mañ, og giefa honum H. Anda; Ad leggia alla Hlute under hans Fætur, Pſ. 8. Edur ad giefa ſiñ Eingieteñ Son wt fyrer hañ, ad hañ fyrerfareſt ecke, helldur hafe eilijft Lijf; Ad giefa honum Jardneſka Fædſlu, edur ad ala hañ a ſijns Sonar Hollde og Bloode; Ad giefa honum Þroott og Atburde til ad wtvega Næringu ſijna, edur giefa honum Styrk i Mootgangenum, Freiſtingunum og Offookunum? Hvert er meira ad giefa honum Vit og Rænu, til ad ſia fyrer þeſſu lijkamlega Lijfe, edur ſitt H. Ord, ſem hañ uppfræder til eilijfs Lijfs, og ad upplijſa bæde Viliañ og Skilningeñ, ad hañ giete bæde þeckt Gud og elſkad? Hvert er meira, ad giefa honum Maaled, til ad tala vid ſijna Lijka i Heimenum, edur ad giora hans Tungu vel talande, ſo hañ fae vid ſialfañ Gud talad? Og ad ſijdurſtu; Hvert er meira, ad giefa honum Gull og Sylfur, Akur og Kvikfenad, edur ad wtvega honum þañ Feſiood, ſem er a Himnum, hverium ei kañ Molur nie Rid ad granda, Matth. 6. Hver ed Guds eiged Blood og hans dijrañ Dauda koſtad hefur? Sa ſem þetta ſamañber, hañ mun fiña, ad ſo miklu Ædre ſem Saaleñ er Lijkamanum, ſo miklu fegre ſem Himnarijkis Dijrd er forgeingelegu Gliſe Veralldareñar, Ja, ſo miklu Ædre ſem Gud er øllum ſijnum Skiepnum; ſo miklu heitara eigum vier hañ ad elſka fyrer hina andlegu Velgiorninga, helldur eñ þa lijkamlegu, þviad i þeſſum

veiter hañ hvad forgengelegt er, eñ i hinum siaalfañ sig, sem ad blijfur, sem er eiñ og hinn same, og hũs Ar þrotna ecki, Hebr. 1. Og hver sem Gud alleina fyrer Jardneska Mune elskar, hañ hefr alleina Matar-Ast a honum, eins og eiñ Hræsnare, sm̃ tilbidr hiñ Rijka aa medañ hañ etur hañ. Og fyrer þessar Ometanlegu Guds Astgiafer, eigum vier hañ nu ad elska hvad mest af ollu Hiarta voru, og allre Ondu vorre, og ollu Hugskote voru; Pad er, af ollum Saalar og Lijfs-Kroftum, so sem David bijdur; Lof seig þu Ond mijn DRottne og allt hvad i mier er hañs Heilaga Nafne. Eñ sw Elska er vier aa Gude hofum fyrer tijmannlega Mune, hun aa ad vera so kroftug, ad hun nææ þvi Maale, er hann tilætlad hefur; Sem er, ad hun leide oss til ad elska hann i Christo og fyrer Christum, hvers Elska ad Paulus segier ad sie betre enn allt ad vita, og hann lijser Bolvan yfir þeim, sem ecke elska DRottenn vorn JEsum Christum. Og þetta er nu so talad um̃ hid ædsta Bodord i Logmaalenu.

Hitt Añad er þessu lijkt, segier Frelsareñ: Elska skallt þu þiñ Næunga sem siaalfañ þig. Sier hefr Gud siaalfum hiñ fyrsta og mesta Heidr skiled; Eñ fyrer þvi, ad saa sem segist elska Gud, eñ hatar siñ Broodr, hañ er Liwgare, seger Johañes, 1. Pist. 4. Pa er audsært, ad Næungans Elska fylger Guds Elsku jafnañ aa epter; þess vegna samteinger og Lausnareñ þesse Tvo Bodord, þvi hverugt maa añars missa. Saa sm̃ elskar Gud, hañ elskar siñ Broodr, og engeñ elskar siñ Broodr riettelega, nema hañ elske hañ fyrer Guds Saker. Hier til þarf og mikla Alvoru, og þar Bodord þesse eru so skilld, ba rijdr eins mikid a baadum; So sm̃ Helvijte er vijst þeim sm̃ ecki elskar Gud, so segir og Christr, ad saa sm̃ reidest Broodr sijnum, hñ sie sekr Helvijtis Ellds, Matth. 5. Þetta Bodord þyker morgum nærsta þwngt, og sierdeilis efter þvi, sm̃ Christr utleggr þad hiaa Matthæum, segiande: Elsked Ovine ydar, blessed þa er ydr bolva, giored þeim gott sm̃ hata ydr, og bidied fyrer þeim, sem eru ydur mootsallnir og Offsækia ydur. Eñ Johañes segir þo, ad hañs Bodord sieu ecki þwng; Eg vil og segia, ad eckert Bodord er riettvijsara og eckert nytsamlegra til Velferdar. Riettvijst er þad, þvi hañ hefr oss þad bodid sm̃ er siaalf Riettvijseñ, sm̃ aa Valld aa ad biooda oss hvad hañ vill, sem elskade oss, þa vier vorum hañs Oviner, sem ad engum er um̃ neitt skylldugur, eñ vier erum honum skylduger um̃ Saal og Lijf, og allt hvad vier erum. Gagnsamt er þad, þvi saa er so giorer, hañ viñur hiñ besta Hlut, þvi hañ verdr af Gude elskadur. Hver er þvilijkur Hlutur, sm̃ ad vita Synder sijnar kvittar? Eñ þad veit hañ, sm̃ so elskar Ovin siñ, ad hañ tilgiefur honum hañs Misgiorder, ad Vitni Frelsarans, er hann sagdi: Ef þier fyrirgiefid Monnunum þeirra Misgiordir, þa mun minn Fader tilgiefa ydur ydar Synder. Þvi vil eg segia hid sama hier um̃ og Paall sagde um̃ Mañ og Kvinnu; Saa sem elskar sijna eigeñ Konu, hañ elskar siaalfañ sig, Eph. 5. Og allt hid sama giorer hañ sem elskar siñ Broodr, og hver sem hañ hatar, hañ hatar siaalfañ sig. Eñ þessa Elsku til Næungans eigum vier ad auglijsa, ecke med Orde og Twngu einasta, helldur med Verke og Sañleika, annars elskum vier ecke riettelega: Gud eiñ veit hvad i Hiartanu byggir, þvi hañ rañsakar Nijruñ, þad veit Madurenn ecki, hañ dæmer af A-

vort-

vortunum. Þvi kann eg ecki ad segia, ad sa elski sinn Naunga, sem eckert Gott lætur af sier leida: Þar til giefur Jacob mier Ordsok er hañ seger: Ef Syster edur Brooder eru nakinn, og vantar daglegt Vidværi, eñ einhver ydar seger; Farid i Fride, vermid ydur og mettist, eñ giefid þeim þo ecki þad Lijkamlñ vidþarf, hvad gagnar þad? Og þetta er nu so framsagt um þesse Tvo stooru Bodord: J hverium Fresariñ seger, ad allt Logmaalid og Spaameñirnir sieu iñifalldir: Eñ þegar vier nu rañsokum hvad mikid oss vantar a ad fylla þesse Guds Bod, þa mun oss til Hugar koma, ad leita eins añars Lærdooms, hvar fyrer vier kuñum hoolpner ad verda. Til hañs vijsar oss Christur i siñi Spurningu til Gydinga, er hañ sagde: Hvad Vyrdist Ydur um Christ, Hvers Son Hañ Sie? Hvar um vier vilium nu med faam Ordum tala i hiñi Sijdari Greiniñi.

Gydingar hofdu framsett fyrer DRottneñ Tvær Onytiu Spurningar, adur enn þessi kom til um Bodordiñ: Adra baaru Pharisæi og Herodis Þienarar fram, hvert ad leifdist ad giefa Keysaranum Skatt edur ei? Þeim svarade hann wt af, ef eg maa so ad Ordi komast, sem verdugt var, þvi Maduriñ skal ecki svara einum Daara uppa sitt Tal. Adra Saducæi, er þeir spurdu, hvers ad Konañ skylldi verda i Upprisunni af Sio Brædrum, þvi aller hofdu haft hana? Þaa nidurþaggade hann, og straffade þeirra Oviturleik. Þessi var hin Þridia, og voru um hana ymsar Meiningar hiaa Gydingum. Adrir hielldu hin hellstu vera um Foornirnar: Adrer Umskurnarinnar Logmaal: Nockrir um Hvijldar-Dagiñ: Eñ DRottiñ, er sialfur hafdi Logmaalid wtgiefid, i hverium ad biuggu aller Fiaarsiooder Vitskuñar, hañ leysti wr heñi aan Uñ-þeinkingar, til þess ad sijna þeim, hvad mikid þaa vantadi a Guds H. Logmaals Upp-fylling, sem meintu hana ad vera einungis foolgna i wtvortis Verkum, enn ecki til ad kieña þeim, ad nockur giæti af Logmaalinu hoolpinn ordid: Og þvi vijsar hann þeim til Christum og hañs Persoonu, so þeir vel mættu læra Saaluhiaalpariñar Veg, hefdu þeir haft Vilia edur Vit a eftir ad taka, edur framar hier um ad spyria, eins og Nicodemus. Hvad Virdist Ydur Um Christ, Hvers Son Hañ Sie? Seger Frelsarenn: Þeir Sogdu Henum: Davids. Ecki neitar DRottenn þvi, ad hann være Davids Son, so sem ei var Von til. Gud hafdi David heitid, ad hann villdi giefa honum eiñ Son, hvers Rijki ad skyldi eilijft verda, 2. Sam. 7. Hann er Sonur Davids efter Holldinu, sem Paulus vottar; Hañ er giordur af Sædi Davids; Enn þessi hiñ same Davids Sonur, sem ad er fæddur af Fedrunum epter Holldinu, hann er þo Gud blessadur um Alldir: Þvi seger nu Lausnarinn framvegis; Hverninn Kallar David Hañ Þa i Anda, einn Herra? Enginn Fader er so audvirdilegur, og einginn Sonur so mektugur, ad Fadirinn kalli Soninn Herra. Laatum vera, ad einn Fader sie ecke Kongborinn, og Syninum Konungs Tign hlotnadist, so ad Fadirinn kalladi hann Herra, af þvi hann ber Guds Personu a Jordunne; enn hverniñ mætti þad eiga heima hiaa David, hver ed sialfur var Konungur, og ætte sier eingañ ædri, nema Gud alleina, sem bijr i Himninum, og er allra DRottiñ? Þvi er þad audsied, ad saa er Gud og Guds

Sonur

Sonur, er hann HErra kallar: Þar fyrer seger Frelsarenn: Ef David Kallar Hañ HErra, Hverniñ er Hañ Þa Hañs Sonur? Og so ad eingiñ kynni ad leida sier i Hug, ad þad væri nockur af Englunum, edur Hofud-Englunum, sem David kallar HErra i þessum Stad, þa færir DRottinn til sijns Maals þaa Grein af Spaadoomi Davids, sem eingum Engli edur nockurri Skepnu tilheyrer, og ecki utañ alleina Guds Syne, sem er sannur Gud, Gudi Fodur og heilogum Anda Sam-Eilijfur og samjafn ad allre Tign, Magt og Vellde, og þo sannur Madur ordinn, so miklu ædri Englunum, epter Manndoominum, sem hann hefur þeim ædra Nafn, þad er Tign, hloted fyrer Ibwd Guddoomsins: Þa seger hann: DRottenn Sagdi Mijnum DRottne: Sit Þu Mier Til Hægri Handar, Þar Til Eg Legg Ovine Þijna Til Skarar Foota Þiña. Þviad til hvers af Englunum hefur hañ nockurn Tijma sagt: Sit þu mier til hægre Handar? Seger Paulus, Hebr. 1. Jaa, Engillinn kvadst vera Sam-Þioon Johannis, er hann talade vid hañ i Opinnberaninne. Hverniñ maatti þa David nockurn Engil sinn Herra kalla? Sw er þa Meiningenn i þessu Tali Frelsarans vid Gydinga, ad Christur sie Davids Son, þad er af Fedrunum fæddur, efter Holldinu, og þo Guds Sonur af honum gietinn fyrer allar Allder, þad er sannur Gud og sañur Madur i einni Persoonu, hvad og sia maa af þeim Maalshætte; Ad Sitia Til Guds Hægre Handar, hvad eingum gietur tilheyrt, nema þeim, sem er ein Persoona, samsett af Guddoome og Mañdoome. Þetta hefdu Gydingar kunnad ad læra, og þo miklu skilañlegar og betur, enn nockur syndug Twnga faae wtmaalad, hefdu þeir lagt nockurn Hug a sitt Maal, og spurt fremur hier um. Eñ vier sem feinged hofum þad ad heyra, og trwum þvi sem þeir heyrdu ad sonnu, eñ trwdu þo ecki; Vier, hverium Christur er fyrer Augunum afmaaladur i hañs Ordi, vier skulum reikna oss þad fyrer eilijfann Sooma, og hina ædstu Huggun, ad Gud er Madur ordiñ, og ad vort Holld er upphafid a Guds Tignar-Stool fyrir Ibwd Guddoomsins. Eñ hvad er þad, ad sitia a hægra Veg Gude? Þad leggur Paulus wt, er hañ seger, 1. Cor. 15. Honum byriar ad rijkia þar til hann leggur alla Ovine til Footskarar honum. Eñ hvilijkt er þetta Rijke? Þad er, ad hann er settur yfer allann Hofdingsskap og Vellde og Krapt og Herradæme, og oll Nofn sem nefnast, ecki einasta i þessare Olld, helldur og hiñe Tilkomande, Eph. 1. Eñ undañ þessu dijrdlega Rijki urdu Þijslernar ad gaanga; Þvi lijser hañ sialfur, er hañ talade vid þaa Tvo, sem til Emaus gengu, Luc. 24. og lagde wt fyrer þeim Ritningarnar, segiande: Hlaut ei Christur þetta ad lijda, og inngaanga sijdañ i sijna Dijrd? Guds Sonur er ad soñu Konungur fraa Eilijfd, þess gietur David, segiande: Gud, þinn Tignar-Stooll varer um Alldur og um Allder Allda. Enginn maa Konungur heita, nema hann Rijki hafi, eñ Mañsins Sonur braut sig til Rijkis i giegnum Þijslernar, Daudann og Port Helvijtis, þegar hañ took Herleidinguna ad Herfaangi, eñ wtsnargadi honum, sem hefur Makt Myrkranna, og settist a Guds Haatignar Stool, lifer og rijker ad Eilijfu, so ad hann er vor Konungur ordinn, epter vorri Naatturu, enn vier hañs

hañs Brædur, þad er oss eilijf Huggun. Verdi eg aumare eñ Lazarus, verdi eg audvirdilegri enn hañs Postular, verdi eg Afrak og Hreinsunar Foorn Veralldar, eins og þeir, verdi eg so fatækur sem sialfur hañ, ad eg ecki hafi þar eg kuñi ad halla ad Hofde mijnu, þad er mier noog, ad mitt Holld og Blood rijker a Himnum, og situr a hægra Veg Gudi, med hverium hañ fædir mig og dryckiar, til Stadfestu þar um, ad eg, sem med honum lijd, muni og sijdan med honum rijkia, og hversu sem miñ Lijkami yrdi afskræmdur af Volæde og Vesolld, þa skal hañ þo verda samlijkur hanns dijrdlegum Lijkama: Ja, þad er mier ecki lijtil Huggun, ad þad sama Holld og Blood, sem situr a Guds hægri Hend, þad medtek eg i H. Altarisins Sacramento, til Styrkingar um Kvittun Synda minna, þviad i þeim Lijkama, sem brotinn var a Krossinum, og i þvi Bloodi, er þar var wthellt, i þvi sama byggir oll Fylling Guddoomsins Lijkamlega, so þegar eg medtek Lijkama og Blood Mañsins, þa medtek eg og sialfañ Gud a mooti hverium eg syndgad hefi, og af hverium hvad mest hangir Verdugleiki mijns Synda-Gialldz. Þar fyrer, nær eg skielfist af Stærd Synda miña, þa verd eg af þessu huggadr, þvi ef ad mitt Hiarta fordæmir mig, þa er Gud meiri Hiarta mijnu: Og þad ma alldrei bregdast, er Gud hefur heitid i Christo, fyrer Munn Jeremiæ; Ef leitad verdur ad Ranglæti Israelis, þa skal þar eckert vera, og Synder Juda skulu eingar fiñast, þvi eg mun fyrirgiefa þeim, er eg mun eftir skilia. O minn HErra JEsu! Fyrer hvers Skulld mun þad vera, ad þinn Fadir midt i Reidinni minnist a Myskunsemina, Hab. 4. Hvar fyrer brestur hañs Hiarta i honum, so hann hlijtur Syndaranum Myskunsamur ad vera? Jer. 31. Hvar fyrer skiedur þetta, O Drottinn miñ? Nema fyrir þijna Medalgaungu, sem situr honum a hægra Veg. Þegar eg sed eina þreitta Saal, og uppfylli sierhveria angrada Saal, þa vaki eg til þess, minn Svefn er mier jafnañ sætur; seger O Drotteñ epter mannlegum Plagsid, til ad wtmala sijna Elsku til Mañkynsins i Christo JEsu. Vier segiunst ad vera vaknir og sofnir i þeim Hlut, er vier hofum Yndi af, og so talar hann hier uñ sig, hver þo ecki sefur og ecki sifiar hann: O! Gud giæfi, ad vier værum eins Arvakrir og Ydinsamir i hanns Þioonustu: Ja, hvad stoor og Omælanleg sie hanns Giædska yfer þeim, sem jafnvel hafa hinar verstu Synder drijgt, þad seger hañ skomu sijdar med þessum allra hiartnæmustu Ordum: Ef ad Himiniñ verdur mældur ad Ofann, edur rañsakadur Grundvollur Jardariñar ad Nedañ, þa skal eg forsma allt Israelis Sæde, fyrir allt þad þeir giort hafa: Enn þo so sem þad er Omogulegt ollum nema honum einum, sem Himiniñ hefur wtþanid, og mælir hañ med siñi Spoñ, og Jordina hefur Grundvallad; So er þad Omogulegt, ad Brunñur Myskunsemiñar verdi uppausen, hver ed alldrei tæmdur verdur, nema af þeim, sem ecki vilia koma til þessara Vatna, og forsma Rijkdoom hañs Poliñmædis, þar til þeir hafa uppfyllt Mælir Syndaña. Hvad mun nu vallda þvi, christner Meñ, ad hañ, sem er eiñ fortærandi Elldur, sa ed breñur allt til hiñs nedsta Helvijtis, hañ vill þo vera oss syndugum Ormum so nadugur? Hvad velldur þvi, ad Himnarijki lijdur

soddañ Ofrijke? Hvad annad enn þad; Ad hann, sem er sialfur Gud, hañ situr i voru Holldi, hveria hañ skamast sijn ecki Brædur ad kalla? Han situr, sege eg, til Kraftarins hægri Handar og bidur fyrir oss. Þesse er sa stoore Leyndardoomur, hvern Paulus seger, ad Vitringar Veralldar hafi ecki skyniad, enn þo er opiñberadur oss, sem erum Guds Smælingiar. O! þa stooru Naad, O! þau diwpu Myskunar-Ydur Guds, i hverium hann hefur vitiad vor uppruñiñ af Hædum; Honum sie Lof, Dijrd og Heidur, Speki og Kraptur, um Allder Allda, Amen.

# Nijtianda Suñudag eftir Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 9. Cap.

I Þañ Tijma. JEsus stie a Skip, foor hañ yfer uñ aftur, og kom i sijna Borg. Og sia, ad þeir færdu til hañs Limafallssiwkañ Mañ, þañ er la i siñe Reckiu. Eñ þa JEsus leit nu þeirra Trw, sagdi hañ til hiñs Limafallssiwka: Vertu Hughraustur, Sonur, þijnar Synder eru þier fyrergiefnar. Og sia, ad nockrer af Skriftlærdum sogdu med sialfum sier: Þesse Gudlastar. Og sem JEsus sa þeirra Hugreñingar, sagdi hañ: Hvar fyrir hugsid þier so vondt i ydrum Hiortum? Hvert er audvelldara ad segia: Þier eru þijnar Synder fyrergiefnar; Ellegar ad segia: Statt upp og gack? Eñ so ad þier vited, þad Mañsins Sonur hefur Makt a Jordu til ad fyrirgiefa Syndirnar, þa sagdi hañ til hiñs Limafallssiwka: Statt upp, tak i burt Sæng þijna, og gack i þitt Hws. Og hañ stood upp, og foor i sitt Hws. Eñ þa Foolkid sa þetta, undradist þad, prijsandi Gud, sa ed þvilijka Makt hefdi Moñunum giefid.

Exordium.

MArga Hlute kalla Menn vonda i Heiminum, þar er þo enginn Vondur nema Syndinn alleina: Vier kollum Straff Syndariñar Illt, enn þad er þo ecke Illt i sialfu sier, þvi þar er engiñ Olucka, ad ei komi hun fra Gudi, sem er alleina Goodur; Fyrir vora Skulld verdur þad Illt, sem þad forþienad hofum med Syndinni, og verdur þad þo morgum Gott, sem þvi taka so sem Guds Born, sier til andlegrar Heilsubootar. Væri þar enginn Root, þa være ecke helldur neinn Avoxtur, og være þar enginn Synd, þa være engenn Olucka. Daudinn er Verdlaun Syndarinnar, seger Paall, so er og allur hañs Her, sem under hann þioonar, Siwkdoomar, Orbyrgd, Halicære, Offsookner, Bloods-Uthellingar, Skadræde af Votnum og Voda-Ellde; So er þa Syndinn hin einasta Ordsok til allrar Olucku Andlegrar

rar og Lijkamlegrar; Þeß gietur Esajas, Cap. 42. Hver hefur giort Jacob ad Herfange og eydelagt Jsrael? Hefur ecke DRottenn giort þad, ad moote hverium vier syndgad hofum, og þeir villdu ecki gaanga aa hañs Vegum, og hann wthellte yfir þaa Grimd sinnar Bræde, og megnu Strijde? Og þarf hier ecke laangt ad Rokum ad leita. DRotteñ JEsus kenner oß hier i Gudspiallenu, hver ad sie Ordsok til alls Mootlætis Mannaña, þar ed hañ sagde vid hiñ Haalfvisna; Vertu Hughraustur Sonur, Þier Eru Þijnar Synder Fyrergiefnar. Vilium vier þvi af Gudspiallinu læra, hvernig vier eigum ad faa Boot vid Syndeñe, i hverre vier alder erum, hverrar Jllsku Kraptur ad Daglega brijtst wt uñ Lijkama þessa Dauda, spillande allre vorre Uñgeingni: Enn þad er Tvennt sierdeilis, sem er hrein Ydran, og orugg Trw og Traust aa JESU Forþienustu. Hiaalpa oß hier til, goode Gud, med Naad þijns Anda, fyrer JESUM Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

DRotteñ sagde vid þennañ Haalfvisna Mañ: Vertu Hughraustur, Sonur, Þier Eru Þijnar Synder Fyrergiefnar. Engeñ Efi er aa þvi, Brædur M. ad þesse Vesælingur hefur aangrmadur vered vegna Synda siña, er hann hefur þeinkia maatt, ad væru Ordsok til sijns Kraankdæmis: Þeß vegna sagdi hiñ goodi Meistare, er visse hvad med Mañenum bioo, ad hañs Synder væru honum fyrergiefnar; eñ þu, christeñ Madur, sem þetta heyrer, athuga hvad JEsus svarade sijnum Læresveinum, Joh. 9. Er þeir spurdu hañ, hvert hañ, sem blindur boreñ var, hefde syndgad, edur Forelldrar hañs? DRotteñ svarade: Hverke syndgade þesse nie Forelldrar hanns; helldur so ad Guds Dijrd opeñber yrde: Ecke meinte JEsus þad, ad hañ edur hañs Forelldrar væru Syndlauser, þvi þa hefde hañ ecki blindur fæddur vered, þar Gud straffar engañ fyrer eckert; Hitt meinte hañ, ad hverke hañ nie Forelldrar hañs hefdu meira uñed til þessa Vanskapnadar, eñ marger adrer, heldur væru þesse Vanheilinde, sem margur hefde forskulldad, aa hañ logd, til ad byrta Guds Dijrd og Allmætte hañs Sonar. Eg hygg þad sie Maala sañast, ad ef Gud villde tilreikna Syndernar, þa mundu faair heilskygner i Verolldena fædast, faaer heilum Fæte aa Jordena stijga, faaer Oviseñ Arm wtrietta, og engeñ uñ eitt Augnablik heill vera, helldur hefur Gud lagt sumar Skiepnur sijnar i Lijma, til ad sijna þier heilbrigdum sijna Dijrd, og hvert Valld hañ hefur yfir þijnum syndugum Kroppe, ef hañ vill i Riettlætis Doom gaanga; Laat þar fyrer þau Orkumsleñ, er þu aa odrum sier, eñ þu hefur tiluñid, þrijsta Hiarta þijnu til ad ydrast þeirra Syndaña, er hafa þañ gooda Gud stygdañ, er lient hefur þier heilvita Saal i heilbrygdum Lijkama, og leikur vid þig eins og Barn sitt med allskonar Medlæte, jafnvel þoott þu hañ daglega til Reide reiter. Hvernig aa þa Ydraniñe haattad ad vera, Barn Guds? Hun aa ad vera heit og alvarleg. Þesse Haalfvisne Madur hefur aan Efa vered sorgfullur i Hiartanu vegna Synda siña; Þad kienna oß Ord Christi, so sem eg strax sagde. Forgiefens kiemur þu, Barn mitt, fraañ fyrer Gud, til ad bidia uñ Kvittun Synda þiña, nema þig

angre þær, nema þu graater beisklega med Petri, nema þu þvoer Christi Fætur med Taarum Hiarta þijns, eins og Maria, nema þitt Hiarta braadne i þier so sem añad Vax, eins og Davids, ecke so miog af Tilfiñingu Guds Reide, so sem af Elskuñe til hañs Giædsku, sem upplauk þijnum Augum, er varst blindur boreñ af Moodur-Lijfe og daudur i Syndunum; er þig hefur endurkeypt fraa eilijfu Helvijtis Baale, med sijns Sonar Dauda, og sparad þig sijdañ midt i Syndunum: Laat þier þad til Hiarta gaanga, ad þu hefur hañ moodgad og daglega stygger, jafnvel med vitanlegum Syndum. So aa Guds Barna Ydran haattad ad vera, og er hun Gude so þæg, so sem ad Syndeñ er honum leid; Jaa, enn þa þægare, þvi Syndeñ gietur alldrei so stoor vorded, ad ei sie meire Myskuneñ; Hvar sem Syndeñ yfirgnæfer, þar yfirgnæfer Naadeñ miklu framar; So lijted giorer Gud wr Syndeñe, þegar hun er afþveigeñ med Ydraneñe, eñ hun aa ad vera alvarleg, eige hun Gude ad þocknast. Saa sem vill af Hiarta ydrast Syndaña, hañ skal vel rañsaka sialfañ sig, og hallda Reikning vid sitt eiged Hiarta af Ordum og Giordum, og so mikla Kiæte sem hiñ ydrande hefur haft af Syndeñe, so miked Angur byriar honum ad hafa i Ydraninne. Menn eiga ad breyta vid Syndena eins og Amon Fordum vid Systur sijna Thamar; aa medann hann framde sinn Vilia med heñe, elskade hann hana, þar epter rak hañ hana wt af Dyrunum: Þoott honum færi so skamarlega, ad ecki sie nærri þvi verra Dæmi til, þa eigum vier þo eins ad breita vid Syndena; Vier eigum ad laata oss hana leida vera. Og er þad vijst, ad saa sem hefur Gaman af giordum Syndum, nær honum þær i Hug koma, honum eru þær eñ þa apturhalldnar. Drage engeñ sialfañ sig aa Taalar! Ætlum ecke ad Gud nægist þar med, ad vier laatunst um Stundarsaker ydrast Syndaña; enn gaungum þo aptur til þeirra, eins og Hundur til Spyu, edur Svijn þad, er vellter sier i sama Saur, 2. Pet. 2. Þegar DRotteñ hafdi fyrergiefed Hoor-Konuñe Glæp heñar, þa sagde hañ þo: Gack nu burt, og syndga ecki framar: Giefande þier þar med til Vitundar, christeñ Madur; Ad þad er forgiefens, ad þu þiggir Kvittun Synda þinna af Gude, nema þu sporner vid þeim framveigis þad mesta þu maatt. Þegar JEsus saa þañ Mañ i Musterinu, er hañ skomu aadur læknad hafdi vid Dijked Betezda, þa sagde hann: Sia, nu ertu heill vordeñ, syndga ecke framar, ad ei hende þig añad verra, Joh. 5. Teiknande þar med, ad Syndeñ hefde vered Ordsok til hañs Siwkleika. Enn þu, sem framkiemur fyrer Guds Fætur, til ad laata þier boda Kvittun Synda þiña, af hañs Umbodsmañe i Skrifta-Stoolnum (Þad er ad sönnu vijst, ad ef þu ydrast ut af Hiarta Syndaña, og treyster aa JEsu Guds Sonar Forþienustu, þa verda þier þær fyrer hañs Blood fyrergiefnar, þoott þær sieu raudar sem Blood, og so sem Purpuri raudar, og þu læknadur af öllum þijnum andlegum Oheilindum; Eñ ef þu ecki leitast vid framveigis ad krossfesta þitt Holld af fremsta Megne, þa mun Forþienusta hins krossfesta ecki miog gagna þier, miklu helldur fordæma þig, nema þu sporner vid Syndeñe); Vit þad fyrer vijst, ad Christur hefr ecki forgiefens talad um þañ Ohreina Anda, sem wt fer af Mañinum, ad hañ taki Sio Anda sier verri, og hverfi aptur

i sitt

j sitt fyrra Hws, og verde so þess sama Manns hid sijdara argara hinu fyrra. Engen er Efi ꝏ þvi, ad DRotten meinar hier þa, sem einusinne hafa wtrekid Dioflinn wr Hiarta sijnu, fyrer Guds Krapt og sana Ydran, en byggia honum þo inn aptur, og æfa sonnu Synder, Ydrunarlaust, edur og adrar verri: Þad vitnar St. Petur, hans eigen Lærefveinn, er han segier um þa er vellta sier i sonnu Syndum, ad þeirra hin sijdari Kior sieu verri hinum fyrre, þvi betra hefde þeim vered, ad alldrei hefdu þeir Veg Riettlætisins vitad, helldur en, ad þecktum honum, ad hverfa aptur fra þvi Bodorde, er þeim feinged er. Christner Men eiga ad breita epter þessum Hꝏlfvisna Mane i hans Audmykt og Angre fyrer Syndernar, einig i Trwni og Traustenu ꝏ Guds Sonar Mꝏtt og Myskun; Enn ecki eigum vier hans Soottar-Ferli lijker ad vera, i voru Apturhvarfe til Guds fra Syndunum: Han var Hꝏlfvisen; So eigum vier ecki ad vera; Þoott vier sieum veiker, þa eigum vier eckl Hꝏlfvisner ad vera, so vier meinum ad giefa Gude Helftena Hiarta vors, en Helmingen Syndene og Fiandanum: Gud banar i Moysis Logum, ad hafa ein Mæler fyrer hinn innlenda, og annan fyrer hin framanda. O! hvad giora þa synduger Men, þegar þeir skamta Gude wt i Dropa Tali, hver med sijnum Blood-Dropum hefur afþveiged Synder vorar, en Andskotanum giefa Men fullan Mæler mest allra vorra Lijfdaga; Þad er Baals Þioonusta, en ecki Christs: En St. Pꝏll segier: Ad Christur og Belial, þad er hin sami Dioful sem Baal, eige eckert Hlutskipti saman. Verum þvi anadhvert heitir edur kallder, þvi þeim sem volgir eru, vill han skyrpa wt af sijnum Munne, Openb. 3. Þesse Madur leitade HErrans, þa han var veikur ordenn: Lær þad af honum, Guds Barn, ad ꝏkalla Drotten i Neydenni, en bijd þo ecki epter þvi, ad han neydest til ad straffa þig Syndarenar vegna. Morgum hefur ad sonu Guds Hegning komed til Ydranar, sem ecki hafa þeckt Synder sijnar fyrri: Enn giæt þess, ad þeirri Ydran, sem framkiemur af Otta Hegningarinnar, henni er hættara vid ad koolna aptur, en hinne, sem af Jhugan sijns Overdugleika og Guds Giædsku uppsprettur: Þad sie eg af Achab, er klæddest i Seck fyrer Gudi, nær honum illa gieck, enn strax sem Gud hafde lietted Hrijsenu af hans Hrygg, þa fiell han fra honum til anarlegra Guda. Sꝏ sem undandregur Tijma Ydranarinnar, og meinar ad þar sie alltijd noogur Tijmi til, hann virdest mier vera eins og sꝏ, er ecki hyrder um þoott han lijde Skipbrot, af þvi þad kunni ad henda sig, ad hann kunni af ad komast ꝏ einum Flaka. Men segia, ad sꝏ sem giorer sitt Testament, ecki fyrr en ꝏ Dauda-Sængenni, han giefe af Erfingians Fe, og ecki af sijnu: Hætt er vid, ad Gud muni eins hallda og kalla þad ecki sier giefed, sem þa er fyrst boded, nær sagt verdur: Gior Reikningskap þinar Rꝏdsmennsku, þu mꝏtt ecki leingur Rꝏdsmennsku hafa. Sꝏ sem daglega frestar Ydraninni, han er eins og sꝏ Skulldu-Nautur, er giefur jafnan good Ord, enn betalar alldrei: Skyllda vor er þad Manana, ad lijda þvilijkt hver af odrum, Nꝏungans Kiærleika vegna, i leingstu Log, þvi vier erum Gude meira skylldugir, sem er Fader vor allra; En han er ecki skylldugur ad lijda soddan Hrꝏsni af oss, hverium vier erum skylldugir um Sꝏl og Lijf. Malachias Spꝏmadur lijser

Bolvan yfir þeim, sem eiga heilbrygdt Fe, eñ offra þvi hallta og limlesta. O Guds Børn! mun sꝏ ecki þurfa ad ottast fyrer þessari Bolvan, sem giefur Fiandanum sinn Ungmeñis Alldur, eñ ætlar ad foornfæra Skaparanum þad, sem hañ verdur ꝏ Hækium ad bera? Skioot þvi ecki ꝏ Frest Ydraniñi, Barn Guds, helldur þeink ꝏ þiñ Skapara i þijnum Ungdoomi, þvi þu veitst ecki nær Angisteñ kiemur, og þu leitar ad Fridnum, og fiñnur hann ecki, Ezech. 7. Og er þad so hier um wt-talad.

Hvad hinu Sijdara vidvijkur, sem er uñ Trwna, þa eru hennar furduleger Kraftar, og, eg mꝏ segia, Guddoomlegar Verkaner, sem lꝏngt yfirgꝏnga mannlegann Skilning, so miklar, ad þad mꝏ valla med Ordum wtskijra. Hañ sem ad er Hofundur Trwarinnar JEsus Christus, Hebr. 12. Hann hefur giort hina bestu Grein ꝏ þvi, er hañ segier vid sijna Lærisveina: Ef þier Trw hefdud, so sem eitt Mustards Korn, so mundud þier segia Fialle þessu: tak þig upp og fleyg þier i Siooenn. Og ef ein lijtil Trw kann þvilijks ad orka, hvad mikla Hluti mun þꝏ hin sterka sꝏ afrekad! So sem var Abrahams, er hann trwde til Vonar þar engenn Von var, Rom. 4. Nu vil eg i þetta Sinn ecki uñ þvillijka Hlute tala, helldur ad þvi Leiti sem hun þienar til Syndaña Fyrergiefningar; Og er þad Mꝏla sannast, ad engenn er stærre Kraftur hennar enn sꝏ, þvi minna var þad, ad giora Moysis Staf ad Hoggormi, minna ad sundurskipta Hafinu, miña ad lꝏta Soolina standa kyrra, miña ad tilbyrgia Himininn, og kalla Elld af Himni, þvi allt eru þetta Guds Skiepnur, er honum hlijda Mootmælislaust: Minna er allt þetta, segie eg, helldur enn ad koma Mañinum, af Syndeñe og Andskotanum vanskopudum, i Sꝏtt vid Gud: og þvi er þad hin stærsta Jardteikn og Kraftaverk Trwariñar. Þegar JEsus sꝏ þeirra Trw (stendur hier i Gudspiallenu), Sagde Hann Til Hiñs Hꝏlfvisna: Vertu Hughraustur, Sonur, Þier Eru Þijnar Synder Fyrirgiefnar. Tvennt giorde JEsus hier gott, sem var, ad hañ gaf þessum vesæla Mañi Lijkamans Heilbrygde aftur, og so under eins Sꝏlareñar: Enn mikill var þessi Munur, og so mikill, sem ad skilur Sꝏlarinnar og Lijkamans Vanheilsu: Þvi talade DRottinn eckert uñ Lijkamans Ohraustleik, helldur sagde hann: Þier Eru Þijnar Synder Fyrergiefnar: Þar fyrer sagde hann og vid hina vantrwudu Gydinga: Hvert Er Audvelldara Ad Segia: Þier Eru Þijnar Synder Fyrergiefnar, Edur Ad Segia: Statt Upp Og Gack? Enn hier siet þu Krapt Trwarennar: Adur enn þesse aume Madur talade eitt Ord til Fodur Myskunsemdanna, þa hrærdust hañs Myskunar-Ydur i honum til Medaumkunar! Heiter ecki þetta ad bænheyra ꝏdur enn kallad er? Hiñs sama mꝏttu þier vænta, christenn Madur, nær þu lætur þig af Hiarta ꝏngra þijnar Synder: Fyrr meiga Himen og Jord forgꝏnga, enn ad eitt af hanns Ordum falli ꝏ Jordu, er sagt hefur til eins ydrande Syndara, ad þegar hañ lætur af Illu, og lærer Gott ad giora, þa skuli hañs Synder vera honum fiarlægar, sem Austrid er Vestrenu. Fyrr mꝏ Siꝏfar-Hafid uppþorna, enn Brunnur Myskunnarennar verde uppausenn, sem lofad hefur ad kasta ydrande Mayns Syndum i Hafsins Diwp, so

þeirra

þeirra skuli ecki ad eilijfu minnst verda: Þessu kiemur Trwinn til Leidar. DRottinn undradist ecki yfir neinum Hlut, sem hann sa hier a Jordunni; Allt Veralldariñar Yfirlæti þookti honum einkis verdt, so sem Von var a, þvi allt Silfr og Gull var hañs; Hañ gaf sig lijtid ad Tali Lærisveinaña, þegar þeir sijndu honum hina kostulegu Bygg-ingu Músterisins, og þookti ecker til þess koma; Eñ vid hina Cananisku sagdi hann: Kona, mikil er þijn Trw. Soddann Gersemi er jafnvel eins Gaungumanns Trw, i Auglite DRottens! Og hversu dijrmæt ad hun sie i Guds Auglite, þad giefur DRottinn sialfur til Vitundar i Eftirlijkinguñi um hinn Tijnda Saud og Pening, er hañ ælyktar med þessum Ordum: So sege eg ydur, ad meire Glede er i Himninum yfer einum Syndugum, sem Ydran giorer, helldur enn yfir Niju og Nijutijer Riettlætum: Holldum þvi þad fyrir satt sem Johannes seger, 1. Pist. 1. Cap. Ef vier jatum vorar Synder, þa er hañ Trwr og Riettlætur, ad hann fyrirgiefur oss Syndirnar, og hreinsar oss af ollu Ranglæti voru. So voru Myskunar-Ydur DRottinns vidkvæm, er hann leit Eymd þessa vesæla Mañs, ad hañ sa strax Aumur a honum. O þu Guds Barn! Villtu þa efast um, ad hañ hrærist Myskunar yfir þier? þegar þier taka til ad svijda þijn andleg Kaun, þegar þau fwnu Sarinn taka til ad lifna, og þu tekur til ad andvarpa i Leynum, segiande: JEsu goode Meistare, myskuna þu mier. Hvad seger JEsus hia Lucam, Cap. 11? Ef ad þier sem vonder erud, kuñid ad giefa Bornum ydar goodar Gafur, hvad miklu framar mun ydar himneskur Fader giefa þeim heilagañ Anda, sem hañ þar um bidia: Þvi vil eg i fullu Trauste segia: Þegar þu audmijkir þig undir vollduga Guds Hond, og bidur af Hiarta um Fyrergiefning Synda þinna, þa mun hañs Andi bera þijnum Anda Vitnisburd um, ad þu siert Guds Barn, Rom. 8. Þvi jafnvel þoott vier sieum Otrwer, þa er hann samt Trwr, sialfum sier kann hañ ecki ad neyta, seger Paulus. Nu er þad satt, Br. M. ad sañydrande Mañs Trw verkar so mikid hia Gudi, sem nu hefi eg sagt, enn hann a þa ad vera viss um þad, ad hann sie bædi Sannydrande og Riett-trwadur. Margt er lijkt med Skylldum, segia Menn i Ordtæki gomlu; Enn Trwiñ og Ydruniñ eru Tvær Systur, er ei meiga skilia: Eins og þad, ad sw Ydrun er Onijt i Guds Auglite, sem ecki þvijngar Manniñ til ad krossfesta sitt Holld, so er og Trwinn daud an Verkaña, seger Jacob; Og Paall seger: Ad sw Trw alleina gylldi, sem ad er kroftug fyrer Kiærleikañ. Med Trwñi foornfæra Meñ Gudi sijnum Vitsmunum, og giefa sijna Skilningu fangna undir heñar Hlijdni: Med Ydraniñi Offra Meñ Viliañum, ad hañ sie Guds Bodi undirgiefiñ. Trwiñ giorir oss ad Guds Lærisveinum: Ydraniñ, ad hañs Þioonum. Trwinn upplijsir vor Hiortu i Skilningi vorra Saaluhialpar Efna; Eñ Ydruniñ, ef hun er alvarleg, hun þrijstir oss til ad giora Guds Vilia, og alla Skylldu christins Manns. So sem þad er ecki noog, ad ydrast um Stundarsaker, og ganga aptur til ad drijgia somu Synder, so er þad ei helldur fullur Christiñdoomur, ad trwa um Hrijd, eda giora Avoxt Trwariñar, enn falla þo fra a Tijma Freistingariñar;

Være

Være þad noog til Sáluhiálpar ad byria vel, þa sæti Bileam hiatt i Himnarijke; Og ef ei þyrfti ad vaka og bidia, þa hefdu hinar Fáviijsu Jomfrwrnar ecki verid wtilokadar. Þad er Skiemtilegur Draumur, ad ætla, ad Gud muni tilreikna sier Forþienustu Sonarins, eñ vilia þo eckert giora af þvi sem Gud boded hefur. Miog so er eg uggande fyrer þvi, ad sáa sem geinged hefur i þvilijkri Leidslu allann siun Alldur fram i Daudann, hañ muni uppvakna i Helvijti og Kvolunum; Þvi jafnvel þott ad Good-verkiñ vor, ef nockur so kallast meiga, þau sieu ecki mættug til ad giora ofs hoolpna, þar vier erum skylduger ad játa, ad Onijter Þioonar sieum vier, jafnvel þo vier giordum allt þad vier ættum ad giora, samt eru hin Vondu noogu kroptug til þess, ad fordæma ofs. Eg veit ad sonnu, ad þetta kañ ad styrla marganu þañ sem mikiñ Part Æfinnar hefur i Illskuñi alid; Eg fæ ecki vid þvi giort: Þetta eru þo Gudleg Sannindi: Og ecki er Von á odru, eñ ad syndugs Mañs Hiarta muni kieña til, þegar Broddur Logmálsins tekur til ad stijnga á Kauunum. Vel sie þeim, er so eru vidkvæmer, ad þeir fiña til Sársaukans! Hinum er ollum midur farid, er ei kienna til Guds Stroffunar, ecki til Logmálsins Hootana, og ecki til Helvijtis Ellds-Loga, hvern þeir forþienad hafa, um hveria þad segia má, sem Jeremias sagde uñ Gydinga: Þu typtar þá, O Drottenn, enn þeir finna þar ecki til; Hverra Samvitskur ad Páll seger ad sieu Brenni-merktar. Eñ hinum, sem ad sonnu Ogudlega lifad hafa, eñ láta sig þo ángra sijnar Synder af Hiarta, og vilia þar á Boot viña, þeim vijsa eg til þeirra Lijknar-Orda, er O Drottenn talar til syndugra Maña, Esa. 1. Þvoed ydur, hreinsed ydur, takid ydar Illsku-Breitne frá mijnu Auglite, komid sijdañ og eigunst Log vid: Þoott ydar Synder sieu raudar sem Blood, þa vil eg giora þær hvijtar sem Ull. Þu þenkir kañ skie i Hiarta þijnu: Eg em i Syndiñi gietiñ og fæddur, hvernig má eg Gudi þocknast? Eñ giæt þess, ad þiñ Endurlausnare, sem er Gud blessadur uñ allar Allder, hañ er fæddur af Fedrunum efter Holldinu, hreiñ og heilagur og frá skileñ Syndurunum: Þu ert syndugri eñ adrer Meñ, Christur er heilagre eñ aller Meñ, hañ er Forlijkun fyrir þijnar, og ecki einungis fyrir þijnar, helldur og fyrir allar Veralldariñar Syndir: Þu gietur ecki alldeilis af Syndiñi látid, so þad Vonda lodi ecki vid þig, þa þu villt giora hid Gooda; Þad gat ei helldur St. Páll, samt fieck hañ þad Svar af Gudi: Lát þier nægiast mijna Náud, miñ Kraptur fullkomnast i Breiskleikanum: Þu syndgar optlega; Christur bidur fyrir þier Oaflátanlega: Þijnar Synder eru þier yfir Hofud geingnar; Samt yfirgnæfir þo Náddinn miklu framar: Þig henda optlega somu Synder; Sporna vid þeim sem mest þu mátt, so ad þær drottni ecki i þijnum daudlegum Lijkama: Enn vit þo, ad JEsus hefur borid uppá Tried þá Handskriftina, sem mooti þier var, og hana á Krossinn neglt, þar er engliñ af þijnum Skulldum eftirskiliñ nie Olokinn, enn brwka þa slijkt til ad afplána giordar Synder, enn ecki til Frelsis ad drijgia þær framvegis. Þu þykest eckert Verk Gudrækniñar fullkomid giort gieta; Þesse Medkienning þijns Overdugleika er Verk heilags Anda, þvi bidur hann fyrer

þier

þier med Oumrædilegum Andvorpunum, og hiaalpar þijnum Veikleika: Þu hefur allann þinn Alldur i Illskunni alid, og ert adkominn Dauda, hafandi eckert gott Verk Gudi ad bioda; Þoott þu hefdir, mundu þau kunna ad riettlæta þig? Hvad hafde Tollheimtu-Madurinn? Luc. 18. Hvad hafde Ræningenn aa Krossinum? Luc. 23 Hvad hafdi Þrællinn, sem var sijnum Herra skylldugur um 10000. Punda? Matth. 18. Samt uppgaf Herrañ honum alla Skulldina. Þijn Trwa tekur til ad veikiast i Daudanum, þa Lijkamans Kraptar eru ad Þrotum komner, og meiga valla taka aa mooti Daudans Ofbodi; Mundu þa til þess, ad Guds Sonur hefur Daudañ sigrad, þad skal skie, ad hver sem trwer aa hañ, saa skal lifa, jafnvel þoott hañ deye, Joh. 11. Laat þier þa i Hug koma, hvad Fader hiñs Twnglsiwka sagde: HErra, eg trwe ad sõñu; eñ hiaalpa þu Trwarleysu miñi. Ein veik Trw er þo Trw; Eiñ Elld-Neisti er þo Elldur, Ein lijtil Perla glansar so sem ein Perla; Eins skijn ein veik Trw i Augum Guds so skiært, so sem þo hun væri sterkari, þvi Trwinn er ecki vort Verk, helldur hañs Anda: Þar fyrer beiddu Lærisveinarner DRottenn ad auka sier Trwna; Laatum hann raada Mælingu hennar, hann mun ecki sitt eigid Verk Ovirda, enn laatum þo ecki af ad næra hana med ydduglegri Bæn og Andvarpan. Lutherus seger i einum Stad, ad engiñ verdi Fordæmdur, nema saa sem ei vill trwa: Þad er satt, ef þad er riett skiled; Þvi saa vill ecki Olmusu hafa, sem ecki vill um hana bidia, so vill og ecki saa trwa, sem ecki bidur Gud ad skapa hreint Hiarta i sier, og giefa sier nijann vissañ Anda: Eñ hitt er vijst, ad ein veik Hond tekur eins vid Olmusu, so sem ein Fullhraust, og eins vel umsadmar ein veik Trw Christs Forþienustu, so sem ein Fullorugg, þvi Guds Kraptur fullkomnast i Breiskleikanum, og eiñ Veiktrwadur maa um sig segia eins og Paulus: Eg formaa alla Hluti fyrer hann, sem mig maattugann giorer, Christum, þvi þa eg Breiskur er, þa er eg Maattugur; Þo efldist so DRottins Kraptur med honum, ad hañ hroosar þvi undir sijna Foornfæringu, ad hañ hafi goodri Baraattu barist, Skeidid fullkomnad og Trwna geymt, og framvegis sie sier aflogd Corona Riettlætisins, hveria DRottinn hiñ Riettlaate Doomare mune giefa sier aa þeim Dege, og ecke einasta sier, helldur jafnvel ollum þeim hañs Tilkomu elska. Heñar niootande ad verda unni oss ollum hinn goodi Konungur Dijrdarinnar, fyrer JEsum Christum, Amen.

## Tuttugasta Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 22. Cap.

Aa Þeim Tijma. JEsus svarade og talade i Añad Siñ i Eptirlijkingum til þeirra, og sagde; Himnarijki er lijkt þeim Konunge, sem Brwdkaup giordi Syni sijnum, og wtsendi sijna Pioona ad kalla Bodsmeñina til Brwdkaupsins, og þeir villdu ecki koma. J Añad Siñ sendi hañ wt adra Pioona,

ona, og sagde: Segied þier Bods-Mønnunum: Siaed, mijna Maaltijd hefi eg tilbwed, mijner Urar og aled Fie er slatrad, og allt er reidubwed, komed til Brwdkaupsins. Eñ þeir forsmadu þad og gengu i burt, eiñ a siñ Bwgard, eñ añar til siñar Verslunar, eñ hiner adrer gripu hañs Þioona og lögdu þeim Hadungar til, og drapu þa. Eñ þa Konguriñ heyrdi þetta, vard hañ reidur, og sendi wt sitt Her-Lid, og fyrerfoor þessum Mordingium, og brendi upp þeirra Borg. Þa sagdi hañ til siña Þioona: Brwdkauped er ad sönu reidubwed, eñ þeir sem bodner voru, þeir voru þess ei verduger. Þar fyrer farid wt a Gatnamootiñ, og biooded til Brwdkaupsins hveriuin sem þier fiñed. Og hañs Þioonar gengu wt a Strateñ, og samañsöfnudu öllum þeim sem þeir fundu, Vondum og Goodum. Og Brwdkaupid vard fullt med Bordsett Foolk. Eñ þa ed Kongureñ gieck iñ ad sia þa sem til Bordsins satu, sa hañ þar eiñ Mañ, eige kladdañ med Brwdkaups Klade: Og sagde til hañs: Vinur! Hverniñ giecktu iñ hijngad, hafande ecke Brwdkaups Klade? Eñ hañ þagde. Þa sagde Konguriñ til siña Þienara: Binded hañs Hendur og Fatur, og kastid hönum wt i hin ytstu Myrkur, þar ed vera mun Op og Tañagnijstran. Þviad marger eru Kallader, eñ faer Utvallder.

Exordium.

Hver ad sie Meining þessarar fögru Eptirlijkingar, sem DRotteñ hier framsetur, þad er audraadid af ödru Guds Ordi, og þo sierdeilis af Predikunum hanns, sem annarstadar ritadar finnast i Gudspialla Bookunum, ecki sijdst af þeirre um Verka-Meñina, sem leigder vôru i Vijngardiñ, hia Matthæum i 20. Cap. Og hinni um þa miklu Kvolldmaaltijd, sem er ad finna hia Luc. i 14. Cap. Um hveriar bædar nockud hefur talad verid hier ad framañ. Konungurinn er hinn Alvallde Himins og Jardar Konungur, hañs Sonur er DRotteñ JESUS, sialfur Konungur, ecke einasta efter Guddoominum, helldur og Mañdoominum, þvi Gud hefur sett sinn Konung yfir sitt heilaga Fiall Zion, Ps. 2. Jafnvel þoott ei væri hañs Rijki af þessum Heimi, og allt Valld er hönum giefid, bædi a Himni og Jördu, Dan. 7. Matth. 28. Brwdkauped er hanns Holldtekia, og aller þeir Velgiörningar, er i heñi framboduer verda öllu Mannkyne, enn veitter þeim einum, sem trwa a Nafn Eingetins Sonar Guds. Hiner Fyrstu, sem bodner voru, eru Gydingar, hverium framar ödrum var bodid til þessa Brwdkaups, enn þeir forsmadu þad, so sem Paulus og Barnabas vottudu, P. G. 13. Segiande: Til ydar byriade Fyrst Guds Ord ad tala, eñ fyrst þier forsmaed þad, og reikned ydur ei verduga Eilijfs Lijfs, þa

snwunst

snwunst vier til Heidingiaña. Sumum bægdu Veralldar Umsvif fra þessare Guds Giøf, so sem af Gudspiallenu er audsært. Hiner gripu hanns Þioona, løgdu þeim Hædungar til, og aflijfudu þa: Þeirra gietur Frelsarenn, er hañ sagde vid Gydinga; Hvern af Spamoñunum hafa ydar Fedur ecke lijflated? Og yfir þa er geinged þad skielfelega Straff, sem hier umgietur i Evangelio: Fyrst, þegar Nebucadnezar eydelagde hina fyrre Jerusalem; og sijdann yfir Born þeirra, sem ad uppfylltu Mæling Fedra sinna, er hun var uppbrend og ad Stein-Hrwgu giord af Tito Vespatiano, og alldrei uppbygd sijdañ. Hiner, er sijdann voru kallader, eru Heidner Menn, og medal annarra, Forfedur vorer, þad Foolk, sem i Myrkrunum sat, Eph. 5. Og er iñplantad i Stadenn Gydinga, sem afbrotner voru, Rom. 11. Enn vier heyrum i Gudspiallenu, ad til þessa Brwdkaups er safnad Vondum og Goodum, þvi segier og Paulus, 2. Tim. 2. Ad i stooru Hwse sieu ecki einungis Kier af Gulli og Sylfre, helldur og af Tre og Steine, og sum til Heidurs, eñ sum til Vanheidurs, eñ ef nockur hreinsar sig af þessu, þa mune hañ verda Kier til Heidurs helgad: Og sialfur Lausnareñ endar þessa Epterlijkingu med þeirre dijrmætu Grein, Ad MArger SIeu KAllader, Eñ Faaer Utvallder. Hvar af liooster, ad þeir eru ecki aller Christi Þegnar, sem nefna Christum sinn HErra, til hvers hann bender oss med Dæme þess Manns, er kom til Brwdkaupsins, ecki skrijddur Brwdkaups Klæde, af hverium eg vil taka mier Ordsøk, ad tala um þaa Hlute, hvar af einn og sierhver meige þeckia sinn Bwning, hvert hañ sie hæfur til ad byrtast fyrer Konungenum, nær hann geingur inn ad sia Bord-Giestena. Þu alvallde Konungur Dijrdarennar, sem villt, ad aller verde hoolpner, og komest til Sannleiksins Vidurkienningar, veit oss þijns Anda Naad til þessa Verks, i JESU Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

ENN Þegar Konungureñ Gieck Iñ, Ad Sia Þa Sem Til Bordsins Saatu, Saa Hann Þar Einn Mañ, Eige Klæddañ Brwdkaups-Klæde; segier i Textanum: Hvert ad sie þetta Brwdkaups-Klæde, er audvitad; Þad er sialfur Christur, og hañs Riettlæti med Trwñe hondlad; Þvi fagnar hanns Christne, hia Esajam Cap. 61. segiande: Eg gledst mikilega, og mijn Saala fagnar i mijnum DRottne, þvi hañ hefur klædt mig Bwninge Hialpprædisins, og med Klæde Riettlætesins hefur hañ huled mig, eins og einn Brwdguma i Kieñemañlegum Skrwda, og eina Brwde Iklædda Skarte sijnu: Þetta er auglioost af sialfre Epterlijkingunne. Hvar fyrer var þessum Vesæla Manne kastad i hin ytstu Myrkur? Af þvi, hann var ei skrijddur Brwdkaups-Klæde. Hvar fyrer verda hiner vantrwudu fordæmder? Af þvi, ad þeir trwdu ecke a Nafn Eingietens Sonar Guds. Hvar fyrer sættu ecki hiner adrer þvilijkre Refsing, þvi um hann einn verdur gieted? Fyrer þvi, ad þeir voru Iklædder hinu rietta Brwdkaus Skarte. Hvar fyrer verda Utvallder innleidder i Fognud sijns HErra? Mun þad skie fyrer þeirra eigenn Riettlæte? Fiærre fer þvi. DRottenn, ef þu

villt tilreikna Syndernar, hver sær þa stadest, segier David, Ps. 130. Engenn lifande Maña mun Riettlætast i þijnu Auglite, seger hañ: Hvar fyrer er þad þa? Af þvi ad þeir trwdu a hañ, sem riettlæter Ogudlegañ, segier Paulus, Rom. 4. Og þvi kiemur hañ ecki til Doomsins, segier Frelsarenn. Sæll er sa, hvers Synder huldar eru, segier David, Ps. 32. Enn med Klædunum verda Lijtenn huleñ; Eins vor Andleg Blygdan, med JEsu blessudum Riettlætis Skrwda: Þess gietur hañ sialfur i Openberunum Johannes, talande vid Biskupeñ i Laodicea, hvern hañ Nakenn kallar, þar hañ rædur honum, ad kaupa af sier Gull þad sem i Ellde er reynt, ad hañ rijkur verde og klæddur hvijtum Skrwda, so ad Blygdan hañs Fatleysis ecke Opeñberist, Opeñb. 3. Nadar-Stoolleñ hulde Fordum Daga Saattmaals Orkena, i hverre Logmaals-Toblurnar geimdar voru: Þu JEsu, þu ert eiñ Naadar-Stooll i þijnu Bloode, Rom. 3. Fyrer þitt Sakleisi, O! HErra, sem Logmaaled uppfyllt hefur, eñ varst þo a moote Logmaalenu dæmdur, fyrer þad eru hulldar allar vorar Synder, sem moote Logmaalenu giordar eru, þegar vier a þitt Nafn trwum: Hvad mun eg ætla til þess, ad eg syndugur Ormur i mijnum eigenn Klædum byrtast kuñe i þijns Himneska Fodurs Auglite? Hvad mun eg vilia koma frañ med þad, sem er eins og Nidlags-Fat? Hvad mun eg biooda þad frañ, sem er Haalfverk? Eg hrædest oll mijn Verk, sagde hinn riettlaate Job: Og þvi mun eg ætlast til þess, ad mijn sieu betre? Hvar fyrer mun eg vilia bæta þann fagra Kyrtil, er þu mier giefed hefur, med mijnum Totrum? Mun eg heilagre enn Josua hiñ Ædste Prestur, er stood i saurugum Klædum fyrer Engli hiñs mikla Raads, Zach. 3. So mun best fara, O Rotteñ minn, ad bæde eg og adrer Synduger Meñ niooti þeirrar Naadar, sem hañ naut, ad þu burttaker vort Raanglæti, og skipter uñ Klædi vid oss. So er nu þetta Brwdkaups-Klæde eckert añad enn Riettlæte JEsu Christi med Trwñe medtekid; Þvi Jklædunst vier fyrst allra i Skijrniñe; þess gietur Paulus, segiande: Þier erud aller Guds Born fyrer Trwna a JEsum Christum, þvi hverier sem uppa Christum skijrder erud, þier hafid Jklædst Christo; J heñe verda oss Syndernar fyrergiefnar, ecki einasta Uppruna Syndeñ, helldur eigum vier, i Krapti heñar, Fyrergiefningar Von, uñ alla Æfi vora, a gioranlegum Syndum, nær vier leitum hennar riettelega: Þvi kallar Petur hana Saattmaala goodrar Samvitsku, þvi engeñ kyñi uñ eitt Augnablik roolega Samvitsku ad hafa, nema hañ visse sier Kvittunar Von Synda siña: J heñi verdum vier Guds Born; J heñi medtokum vier heilagañ Anda, sem þa alla Endurnyar, fyrer Krapt Endurgietningariñar, sem ecki mootstanda honum nie slockva hann; Þvi er sa riettelega skrijddur Brwdkaups-Klæde, sem endurgietenn er af Vatni og Anda, ef hann ei spiller aptur siñi Endurgietningu, eñ þad verdur morgum, þvi midur! og þar fyrer er Skijrniñ ecki einhlijt til þessa Bwnings, nema ad heñar Kraptur auglijse sig i oss, nær vier drogunst a Legg, og lærum vorn Christiñdoom, og er þad fyrst i þvi iñifalid, ad trwa riettelega a Gud, hvad ed skiedur med Tvennu Mooti: Fyrst ad hafa saña Þeckingu a honum, hañs Stoormerkium, hañs Velgiorningum, sem oss

verda

verda i Ordinu fram̃bodner: Añad er þad, ad vier treystum honum, elskum og virdum fram̃ yfir alla Hluti. Hvad þvi fyrra viddvijkur, þa er þad vijst, ad i Skijrniñe jaatum vier Gudi og øllum hañs Stoormerkium; þar til skulldbundu oss vor Gudfedgin, med siñe Jaatningu; Eñ hvad stodar oss su Jaatning, nema vier lærum ad þeckia hañ, er vier jaatudum, hañs Almætte, hañs Goodgyrni, hanns Riettlæti, hañs Elsku til vor, og hvad annad, sem hañ hefur i sijnu Orde Opeñberad oss til Saaluhiaalpar? Þetta vil eg bidia þa ad hugleida, sem añadhvert sialfer lijtid edur eckert vita i sijnum Christinndoomi, so sem vita byriar, edur forsooma ad kieña þad sijnum Børnum og Hiwum jafnvel þoott sialfer nockud vita meige. Hier stendur i Gudspiallinu, um̃ þa sem forsmaadu Konungsins Bod, eñ geingu i burt, eiñ aa siñ Bwgard, enn añar til siñar Sysslunar, ad þeir hafi þess ecki verduger vered. Segied mier þa i Guds Nafni, segid mier, þier sem allareidu erud kallader, og til Bords setter i Konungs-Stofuñe: munud þier þvi fyrer hlijta, ad þier erud þar einusiñi iñkomner? Munud þier byrtast i þvi saña Brwdkaups-Klæde, er þier laated Veralldlegar Sysslaner, Jaa, Giaalijfe og vondañ Selskap draga ydur fraa Gudi og hañs Christs Þeckingu? Hversu ægiæter Bordgiester erud þier vid DRottiñs Kvølldmaaltijd, nær þier edur ydar Børn vita engañ Greinarmun ad giora Lijkama DRotteñs og añarar Fædu, ecki ad reyna og proofa sialfañ sig, og ecke ad rañsaka Hiartad, hvert þier sieud i Trwñe. O! Vei, O! Vei, hversu eru Meñ þa til Brwdkaupsins bwner? Þad heiter med riettu, ad hafa Alltared til ad syndga, so sem DRottenn ad Orde kiemst fyrer Spaamañsins Muñ, um̃ Afgudadijrkanina i Juda: Vier kieppunst vid ad bwa oss i Skart, nær vier hallda vilium Miñing DRotteñs Dauda, og so er Heimskañ rijk i oss sumum hverium, ad sa sem ecki hefur sialfur, hann laanar af ødrum, hvad ad soñu er Vijtalaust i sialfu sier; Eñ Gud naade, hvad lijted sumum mune um̃hugad vera, ad byrtast i JEsu Christi dijrmæta Riettlætis Klæde, sem wtvegad verdur med sañri Ydran, stødugri Trw, og Asetningi christelegs Lifnadar! Þarfyrir, christner Meñ; Læred ad þeckia Gud og hanns Stoormerki; Læred ad þeckia sialfa ydur og ydar Overdugleik; Læred ad þeckia Guds Vilia af hanns Bodordum, so þier og þeckia meiged, hvad mikinn Skort þier hafid aa þeirri Hroosan, sem fyrir Gude gyllder. Hinn Annar Partur vorrar Jaatningar er sa, ad vier lofum ad treysta Gude og reida oss uppaa hañs fødurlega Giædsku og Forsiaa, bæde i Medlæte og Mootlæti: eñ af þessu ber æred miøg hiaa mørgum hverium, sem þo meinar sig velbwinn i Lambsins Brwdkaup; J Medlætinu treystum vier uppaa sialfa oss sumir hverier, uppaa Aud vorn og Metord, uppaa Vini og Hoffdingia, eñ ecki uppaa hañ, sem er DRotteñ alleina rijkur: Konungureñ af Tyro sagde i Hiarta sijnu: Eg em eiñ sterkur Gud: Eñ DRottiñ segier honum: muntu segia vid þiñ Veganda, eg em sterkur Gud? Og þo treysta Meñ uppaa soddañ eina Vatns-Boolu framar eñ aa Gud, sem øllu rædur bædi aa Himni og Jordu; Hvar er þa Traustid? Hvar er þa Trwiñ, sem̃ Meñ eiga aa Gudi ad hafa? Munu þesser vera hentuger Giester i Christi Brwdkaups-Stofu, er sagt hefur; Hver

sem til mijn kiemur, og ei hatar Fodur og Moodur, Konu og Born, Systur og Brædur, og jafnvel sijna eigeñ Saal, hañ gietur ei vered miñ Lærisveiñ? Meñ standast ecki Reidi-Svip eins Veralldar Hofdingia, er Menn so kalla; þegar þeir ygla sig, þa eru sumer Meñ bwner til ad giora allt hvad þeir biooda, og jafnvel hinar verstu Skamer og Klæki i giegn Gude; enn hann ottast þeir ei, i hvers Hende ad oll Veralldarinnar Makt er eins og ein lijdande Poka: og þo vilia Meñ christner heita, þo ætla Meñ sier med þvilijku Skape i Lambsins Brwdkaup iñ ad ganga, med þeim Guds Hetium, sem jafnvel ecke sitt Lijf elskudu allt i Daudañ, þar fyrer hafa þeir nu þvegad siñ Skrwda i hañs Bloode. J Mootlætenu eru Meñ ecke einasta Oþoleñmooder, sem jafnvel Guds Born hender, helldur Moglunarsamer mooti Gude, kalla sier Orett giordañ, orvænta hañs Adstodar, grijpa til þeirra Raada, sem hañ bañad hefur: Og i einu Ordi ad segia, kasta i burtu Trwñi a hañ, og briota Okid i sundur. Finni Menn nu eitthvad af þessu hia sier, annadhvert, ad þa vanti Naudsynlega Þeckingu a Gude og sijnum Saaluhiaalpar Efnum, og hann hyrder ecki um ad raada Boot þar a, sem best hann kann, edur hann Ottast nockra Veralldar Makt, Vinaattu edur Velgeingne, eins mikid og Gud, þa drage engenn sialfañ sig a Taalar, edur meine þad hañ sie Riett-Trwadur, þoott hann skijrdur sie, þoott hañ sie Bordgiestur DRottiñs i Heilagre Kvolldmaaltijd; og fylger þad þa epter, ad hañ ei er skrijddur Brwdkaups-Klæde, a medañ hañ er so bweñ. Take engeñ so Ord mijn, ad eg meine þott einhvern kuñe nockud af slijku ad henda, ad honum þar fyrer eige strax ad kasta i hin ytstu Myrkur: Giædska DRotteñs er þoleñmoodari yfer Syndum vorum eñ so; þad sijna oss Dæmi hiña mestu Syndara, sem þo hafa aadur haft fulla Guds Þeckingu, so sem Aarons, Davids og Peturs: Eñ hitt segie eg, ad Menn skuli ecki brwka þessa Guds Naad til ad ala Syndena a heñe. Eg sagde fyrer-koñu, ad i Skijrnenne værum vier fyrst Jklædder Brwdkaups-Klædinu; Eñ Gud naade! Ad þar fellur so optlega Blettur a, og so atast þad i Foroduñ Veralldarennar, ad þad valla þeckist a Stundum, enn þad a burtu ad þvo med heitri Ydran og hanns Forþienustu, sem hrein giorer Born Levi, JEsu Christi, hver ad er eins og Saapa-Þvotta-Kvenna, segier Spaamadurenn, Malach. 3. Eitt Klæde er jafngott þo ad Saur-falli a þad, ef þad er vel þveiged, nema þad sie Groomtekid; Eins er Syndareñ, hann er jafngoodur, þegar hann ydrast af Hiarta, trwir ad sier verde Syndernar fyrergiefnar, og leitast vid ad lifa betur af ollu Megne; Eñ velke hañ sig so mióg i Gudleysenu, ad hañ burtkaste DRotteñs Forþienustu, og hyrde ei um ad leita heñar med þeim Medolum, sem til þess eru giord; Þa segier Paulus oss, ad þar sie engeñ Forlijkun fyrer Syndena framar, Hebr. 10.

Eg fiñ i Heilagre Ritningu so sem Þriu Troppu Stig til Glotunarennar, fyrer þa, sem medtekid hafa þo Guds Anda: Hrygged ecki Heilagañ Anda, segier Paulus: Þad skiedur þegar þeir, sem eñ þa eru i Guds Naad, þeim verdur þad, ad þeir laata epter Holldenu, þo ecki alltijd af aasettu Raade; Eñ veikia þo med þvi Krapta siñar Endurgietning-

gietningar, so þeir eru ecki so liwsir a ad giöra þad Gudi lijkar. Aptur seger hann: Slockvid ecki heilagan̄ Anda. Þad skiedur nær Menn so venia sig a syndsamlegt Athæsi, ad þar finst enginn Barαtta Holldsins og Andans, helldur lata Men̄ Syndina drottna i sijnum daudlegum Lijkama, so þeir þioona hen̄i, þar med tapa Men̄ Andanum til fulls, og rata i Guds Ovingan. Hiner Pridiu eru þeir, ed mootstanda heilögum Anda, so sem D Notten̄ sagde vid Gydinga, og han̄s Pijslar-Vottur Stephanus: Þad skiedur, nær einhver forsmæer Andan̄, nær han̄ an̄adhvert straffar Syndina i Ordinu, edur og med sijnum in̄ri Verkunum i Hiartanu, og standa a moot honum af öllu Megni, so ad þoott þeir viti hvad riett er og hialpsamlegt, þa smijda þeir sier Meiningar og Affsakaner a mooti Guds Ordi, og Jn̄blæstri heilags Anda, og leitast vid ad styrkia þær med þeim Rokum, sem Holldid og Diöfullin̄ fyrir þa dicktar: Og þessi er hin sijdarsta Trappa, um̄ hveria mier virdist ad Postulin̄ tale til Hebræos Cap. 6. ad valla edr ecki eigi apturkvæmt til Ydranar. Giæti þvi hver og ein̄ ad sialfum sier, sa ed þen̄a himneska Giest hefur einusin̄i hlotid, ad han̄ læte sig af honum leida i allan̄ San̄leika, hann breite eins og Ezechielis Dijr, þau gengu riett afram̄, eins og þeirra Andlit horfdu, hvert sem ad sialfur Andin̄ foor, þa fooru þau. So eigum vier ad giöra, christner Men̄, a medan̄ Gud gengur undan oss i Sky-Stoolpa sin̄a Orda, hvar i Andin̄ bijr, þar vier rasum i Eydimörku þessa Heims: Þvi ef vier gaungum i Andanum, þa munum vier ei fram̄kvæma Holldsins Gyrnder, Gal. 5. Þar han̄ leidir alldrei nema til Guds, af hverium han̄ fram̄gengin̄ er. Trwid mier, christner Men̄, ad mikil Gaumgiæfni heyrir til þess, ad ran̄saka hvert Men̄ hafa Vitnisburd heilags Anda um̄ þad, ad þeir sieu Guds Börn, edur og, ad þeir leidast af fölskum Anda, sem lofi þeim Arfleifd Guds Barna, uppa Ovissa Von, sem hen̄ar eru þo min̄st verdir, hvad margan̄ mun henda, þvi verr. Þad sia Men̄ ecki einasta af Phariseunum, þeim Hræsnurum, er meintu sig alleina ad hafa Lykilin̄ ad Guds Rijki; En̄ hversu langt þeir hafi fra þvi verid, vottar sialfur Sannleikurinn, Matth. 25. Helldur og a mörgum ödrum, sem ad sonnu ecki efast um̄ Guds Naad, en̄ lifa þo eingannvegin̄ ad Guds Vilia, jafnvel þoott ei drijge þeir Stoor-Glæpi; Þessum rædur Postulin̄ nærsta heillt, er hann seger: Reyned hvert þier erud i Trwn̄i; Hvad ei verdur med ödru Mooti betur giört, enn ad Menn rannsake sin̄ Lifnad grandgiæfilega, þvi son̄ Trw er alldrei Avaxtarlaus, helldur verkar hun fyrir Kiærleikan̄, hver ad er Lögmaalsins Uppfylling, og allar christilegar Dygder hefur i sier foolgnar. Ad sonnu er JEsu blessad Riettlæte þad san̄a Brwdkaups-Skart, sem Textin̄ um̄gietur, nær þad er med Trwnni höndlad; En̄ Glansin̄ a þessu Tignar-Klædi eru Verkin̄, sem af hen̄i fram̄koma, hver hana auglijsa, og um̄ hana votta; Þvi af þeirra Avoxtum skulud þier þeckia þa, seger Frelsarin̄ um̄ Ulfana, sem koma i Sauda-Klædum; Og eins maa um̄ Guds Börn segia: Ecki hylur Farfe Klædanna Lijti Lijkamans, ei helldur wtibyrger hann Frost og Kullda, helldur Fated, sem ad Lijtenn byrger. So giöra og Verkinn eingan̄ Riettlaatann, helldur Trwenn, sem þvi velldur, ad vort

Lioos

Lioos so lijser fyrer Monnum, ad þeir vor Goodverk sia, og dijrka vorn Fodur, sem a Himnum er, Matth. 5. Soolinn er ecki Byrta, enn þo giefur hun Byrtuna fra sier: Eplid er ecki Eik, og þo ber Eikinn Eplid; Trwinn er helldur ecki Verk, enn þo er hun alldrei aan Verkanna: Þvi seger Jacob; Sijn mier þijna Trw af Verkunum. Veri þvi enginn so blindur, ad hañ ætli þad þann sie Riett-Trwadur, a medann han ecki ber Trwarinnar Avexti. Hvad skulu Meñ þa tala um hina vondu Olld, sem vier lifum i? Eg skal giefa þeim eitt Hiarta og einn Veg til ad Ottast mig, seger DRottiñ um Christnina a Nya Testamentisins Dogum, fyrer Muñ Jeremiæ, Cap. 32. Mun þetta fiaast hia morgum a vorum Dogum, þar ed so margt er Sinnid sem Madurinn er, jafnvel i þeim Hlutum, sem heyra til Guds Dijrkunar, og Saaluhiaalpiñi vidkoma? Ad eg tali ecki um adra Hluti, so laangt er fra þvi, ad Menn hafi eitt Sinni til ad Ottast Gud, ad i einu Landi, Einni Bygd, i einni Sookn, er þar daudlegt Hatur, Agg, Reide, Þræta, Tvijdrægne, Iñbyrdes Flaattskapur: Meñ liwga hver uppa añañ Lijtum og Skomum, pretta hver añañ i Kaupum og Solum, svijkiast a Iñbyrdis med Kiassmælum, berandi Hunaang i Munni, enn Gall i Hiarta. Hvad þa? Eru Guds Ord ad Brygdmælge ordiñ? Fiærri er þvi; Sie Gud Sañsogull, enn aller Menn Lygarar; Helldur er þad þess vegna, ad vier erum so Fraaleiter og Olijker ordner hiñi Fyrstu Guds Kyrkiu, þar aller Christner voru Eitt, og aller Hluter sameigiñleger medal hinna Trwudu, og þo hallda aller sig hafa hid fagra Brwdkaups-Klæde til ad bera. Brædur mijner! Vilied þier heyra þær Saker, fyrer hveriar Gud wtrak sitt Foolk i hina Babylonisku Herleidingu, hvar þeir maattu lijda so skielfilegar Hormungar, ad valla hefur þvilijkt heyrst fra Alldodli, þær standa skrifadar hia Ezechiel Spaamañe, Cap. 22. a þennañ Haatt, Fodur og Moodur virdtu þeir einkis, vid hiñ Framanda hondla þeir svikssamlega, Eckiuñi og hinum Fodurlausa giora þeir Oriett. Eñ ad þessu leika Meñ sier a Stundum og odru þvilijku, og þyker þad Hofmeñska vera: Mun nu Konungurinn þeckia þetta fyrer Brwdkaups-Klæde, nær hann lijtur af Himnum ofañ, til ad sia epter Brwdkaups Giestunum? Eg vil ei tala um Flaattskap og Undirferle, er so miog drottnar i Heiminum, jafnvel medal þeirra, er vel Christner heita vilia, og ætla sier einkis Aboota vant. Ein af þeim mestu Skomum, sem þvijngade Gud til ad yfirgiefa sitt Foolk Juda, var hin staka Otrygd, sem drottnade a þeim Dogum; Þess gietur Jeremias, Cap. 9. Segiande: Vari sig hver Einn vid sijnum Vin, og treysti ei uppa neinn Broodur, þvi einn Brooder hann bregdur odrum, og sierhver Vinur brwkar Afdraatt og gabbar Vin sinn, þeir tala ecki Sannleikañ, þeir kieña Twngu siñi ad tala Lygar, og þreyta sig i Raangsleitninni. Segied mier: Ef Jeremias mætte hverfa aptur til Lijssins, munde hann ei þeckia nockud þess-Haattar medal vor? Og maa þad eingannvegiñ Brwdkaups-Klæde nefna, laangtum helldur vil eg kalla þad Andskotans Bodsmañs Ham, er hañ klæddur var, þegar hañ talade vid Evu i Hoggorminum, og baud henni uppa Eplid; Þvi David og Paulus, Rom. 3. segia, ad Hogg-

orma

orma-Eitur under Vorum þeirra, enn Diofulleñ er sier alltijd lijkur, og þad þess helldur, sem hann veit ad hann hefur stytri Tijma. Eg vil ei fra mier til Orda um hina skadlegu Agyrnie þeirra, sem utsiuga Hws Eckna og Fodurlausra Barna, og selia hiñ Fatæka fyrer eiñ Skoo. Margañ mun Gud sia i hiñi almeñilegu Brwdkaups Stofu sijns Sonar, þad er, hiñi sijnilegu Guds Kyrkiu hier a Jordunni; Eg segie, hann mun þar margann sia lijkann þeim, sem framfalla i Pantsettum Klædum, ia, hañ mun sia Blood siña Voladra i Lofum Klæda þeirra: Hvad synist ydur, christner Meñ! Munu Meñ i þvilijkum Bwninge inngaanga i Lambsins Brwdkaup? Laangt er fra þvi: Fyrir þvi hreinsid ydur, þvoed ydur, laated af Illu, lærid Gott ad giora, Esa. 1. Giored hvad riett er a hverium Morgni, og frelsed þañ sem Raaned lijdur af þess Hende sem undirþryckir hann, so ad Brædi DRottinns ecki utfari so sem eiñ Elldur, sa ed enginn faae slockt, fyrer Illsku Saker ydar Athafna, seger DRottenn, fyrir Munn Jeremiæ, Cap. 21. Enn vilie Menn vita, hvad ad sie hid rietta Brwdkaups Klæde, þa er þad JEsu blessad Riettlæte, med einni lifandi Trw umfadmad, sem aadur er sagt. Eñ hvad Avoxtum Trwarinnar vidvijkur, sem alldrei kuña vid hana ad skilia, helldur eñ Byrtañ vid Lioosid, þa sæ eg þad ecki betur sagt, helldur eñ David i hinum Fiñtanda Psalme, med þessum Ordum: DRotteñ, hver sær ad bwa i þiñi Tialldbwd, edur hver mun hvijlast uppa þijnu heilaga Fialle? Hañ sa ed framgengur Flecklaus og giorer riett og talar Sañleikañ ut af Hiarta, hver ed ecki svikſamlega mælir med sinni Twngu, og Naunga sijnum eckert Illt giorer, og leggur sijnum Naunga eckert Lastlegt til, hver hann leider hia sier hiñ Illgiarna, eñ i Heidri hefur hiñ Gudhrædda, hver hañ sver sijnum Naunga, og svijkur hañ ecki, hver hann giefur ecki Fe ut uppa Okur, og tekur ecki Mwtu yfir hiñ Saklausa, hver ed þetta giorer, hann mun stodugur blijfa Æfinnlega. Lijted nu hier, so sem i odrum Speigle, hverniñ þeim byrie Hattudum ad vera, sem riettilega eru til þessa Brwdkaups bwner: Enn vilie Menn þad ei heyra, þa heyred þo, Christner Meñ, hver ad urdu Endalok þessa auma Manns, er vanvirdte Samsætid med almennilegum Bwninge: Binded Hanns Hendur Og Fætur, sagde Kongureñ, Og kasted honum J Hin Ytstu Myrkur; Þar Mun Vera Oop Og Tanna-Gnijstran. Ecki þarf margt ad segia af þessu Fordæmingareñar Lande, þad er noog, sem hier stendur: Ad Þar Sie Oop Og Tañа Gnijstran: Og meir vantar oss þad, ad varast Helvijte, helldur enn vier ecki nærri gietum, hversu heitt þad sie. Þesse Vesæle Madur var ecki einasta utrekinn ur Brwdkaupinu, helldur og var honum i Myrkvastofu kastad; So munu og aller þeir, er ecki eru JEsu Dijrmætum Riettlætis Kyrtle skrijdder, þeir munu ecki einungis utreknir verda fra Auglite Guds, og Styrkleika hanns Dijrdar, 2. Thess. 1. helldur og i Eilijfum Elldi brenna med Dioflinum og ollum hanns Arum. Þegar Jsrael heyrde, ad Guds Reider sloou i Horeb, nær Logmaaled var utgiefid, þa hræddust þeir fyrer Elldenum, og þordu ecke nær ad gaanga; Enn hvad mun verda, þegar hanns Reide tekur til ad brenna allt

 til

til nedsta Helvijtis yfer þeim, er valla annad giørdu, enn ad briooóta þetta Logmaal, og ydruduſt þo alldrei Afbrotanna, edur þeinktu um, ad afplaana þau med Guds Sonar Forþienuſtu? Ellduriñ ſnerti ecki Gydinga, þo gaatu þeir ei ſtadiſt ad ſiaa hañ: Eñ hvilijk nun þeirra Ofraun verda, ſem i Helvijtis Elldi velltaſt munu fraa eiñi Eylijfd til annarar? Þar fyrer, mijner Elſkanleger, Siaed til, ad þier giøred ydar Utvalningu viſſa, 2. Pet. 1. Jklædiſt DRottni JEſu Chriſto, Rom. 13. Þad er hanns Riettlæti; Jklædiſt Herſkrwda Riettlætiſins, Eph. 6. Jklædiſt Bryniu Trwarinnar og Kiærleikans, 1. Theſſ. 5. So ad þier verduger verded i Lambſins Brwdkaupi ad ſtanda fraṁi fyrir Gudi, Jſkrijddir biortu Lijnklæde, ſem eru Riettlætingar Heilagra, Opiñb. 19. Þeirrar eylijfu Farſælldar giefi oſs Gud ad niota, fyrer ſijns Sonar dijrmæta Blood og Forþienuſtu, AMEN.

# Tuttugaſta og Fyrſta Sunnudag eptir Trinitatis.

Gudſpialled, Joh. 4. Cap.

I Þañ Tijma. Þar var eiñ Kongs-Madur, hvers Sonur ad ſiwkur laa til Capernaum. Þa hañ heyrdi þad, ad JEſus var komiñ af Gydinga-Landi i Galilæam, foor hañ til hañs, og bad hañ, þad hañ færi ofañ og læknadi Son hañs, þviad hañ var ad meſtu daudur. Þa ſagdi JEſus til hañs: Nema ad þier ſiaid Teikn og Stoormerki, trwid þier ecki. Kongs-Madurinn ſagdi til hañs: HErra, far þu ofañ adur eñ Sonur miñ andaſt. JEſus ſagde hønum þa: Sonur þiñ lifir. Og Maduriñ trwdi þeim Ordum er JEſus ſagde hønum, og gieck þadañ. Eñ þa ed hañ foor ofann eftir, gengu hañs Þienarar i mooti hønum og kuñgiørdu hønum, ſegiande: Sonur þiñ lifir. Hañ ſpurdi þaa þar ad, aa hverium Tijma þad hønum hefdi batnad? Og þeir ſøgdu hønum: J Giær uṁ Siøundu Stundu hvarf fraa hønum Kalldañ. Þa formerkti Fadirinn, ad þad var uṁ þañ Tijma, aa hverium ad JEſus hafdi ſagt, Sonur þiñ lifir: Og hañ trwdi, og allt hañs Heima-Foolk.

## Exordium.

HVad er ſterkara enn Leoned? Søgdu þeir i Timnath Fordum vid Samſon, er þeir høfdu raadid Gaatu hañs: Dom. B. 14. Eñ eg vil ſegia: Ad Trwiñ er eñ þa ſterkare, þvi hun ſigrar þad Leoned af Kyni Juda, er hefur hiñ frægaſta Sigur unnid, ſem uṁ Alldir heyrſt hefur. Þvi lijſir hann Bleſſadur, er hin Cananiſka þreytti vid hann, enn hann ſagde: Kona, mikil er þijn trwa, verdi þier epter

þvi

þvi sem þu villt. Trwudum er allt mogulegt, þvi sagde og Frelsarenn, Matth. 17. Ef þier hefdud Trw so sem eitt Mustards Korn, þa mundud þier segia þessu Fialle: Far þadann og hijngad, og þad mun færa sig, eckert mun ydur Omogulegt vera. Hvad velldur þa þvi, ad vier, sem þo bæde vilium trwa, og trwum a Christum, ad vier ecki saum ollu til Vegar komed, sem vier gyrnunst? Þar liggur Svar til, þad sama sem Frelsarenn sagde Læresveinunum, er þeir adspurdu hann, þvi þeir hefdu ei gietad wtrekid Tvonglmeina Diofulinn, hann sagde: Vegna ydar Trwarleysu. Og fyrer þvi, ad þessa Heilaga Dags Texte giefur oss Ordsok til, ad tala framar hier um̃, wt af Dæmi Konungs-Mannsins, þa vil eg af honum Tvennt hugleida: 1. Veikleika Trwarinnar, og hennar Fram̃for. 2. Guds Giædsku i þvi, ad efla hana.

Styrk oss hier til Naaduge Fader, fyrer JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingen̄.

Hver ad vered hafi Konungs-Madur þesse, eru margar Getur a: Lijkust er þeirra Meining, ad min̄e Hyggiu, er ætla han̄ verid hafe ein̄ af Herodis Þienurum; Þvi jafnvel þoott Herodes væri ecki Konungur, helldur Fioordungs Hofdinge alleina, þa var han̄ þo so nefndur af sijnum, og so odrum efter þeim, so sem ad lesa er hia Marcum i Siotta Cap. Og hefur hann þa an Efa Gydingur vered, þvi Gydinga Þioonustu og Sidum lietst Herodes fylgia: Enn þoott hann Gydingur væri, og heyrt hefde Spaadoomana um̃ Messiam, og af JEsu, þad hann giorde þau Verk, sem engenn kun̄e ad giora, þa fæst hann ei mikid um̃ hann edur han̄s Lærdoom, vegna hvers han̄ var þo efter sijnu Spaamanns Embætti i Heiminn sendur. So geingur̄ þad morgum af oss: Vier erum skijrder, vier erum i Christinndoominum uppalder, vier kunnum ad þilia vorn Barna-Lærdoom, og sumer vita ad giora Grein a honum, med wtvortis Vidurkienningu; En̄ hversu ad Kraftur Trwarennar sie rijkur i Hiartanu hia allmorgum, þad sijnist i Lijfernis Hattunum, þegar Gud a ad elska fram̃ yfir alla Hluti, þegar Naunganum a til ad giefa hanns Misgiorder, og giora gott hinum Volada, þad sijnist nær Hollded a ad krossfesta, og i Krossburdenum þegar oll Man̄leg Hiaalp er wti. DRottinn var i Cana þegar þetta skiede, þad var lijtill Bær og liggur hier um̃ Þijngmanna-Leid fra þeirre stooru Borg Capernaum, þar giorde JEsus þad mikla Krafta-Verk, er hann sneri Vatni i Vijn, þad var hid Fyrsta er hann giorde i þeim Stad: Þetta hefur Konungs-Madurenn heyrt an Efa, og þvi leitar hann DRottinns Hiaalpar, enn þo ecki nema til Lijkamlegrar Adstodar, af þvi hanns Sonar Neyd þreyngdi ad honum; Enn miklu meir la honum a þvi, ad brwka þetta Krafta-Verk sier og sijnum til Andlegrar Heilsubootar, þvi sa er hinn riette Avoxtur Krafta-Verkanna, og sa er Tilgangur DRottinns, nær hann giorde þau, annadhvert fyrer sialfann sig, edur sijna Postula: Enn Gud naade oss, ad vier erum eins lynder og þesse Konungs-Madur var! Medann oss lijdur vel ad ollu þvi sem Lijkamanum vidvijkur, þa hyrdum vier ecki so mi-og um̃ Saalina, og leitum ei Christs, jafnvel þoott allt Hofudid sie siwkt, allt Hiartad

veikt, fra Hvirfle og allt til Ilia sie þar ei nema Saar, Kaun, Beniar og Prote: Vier leitum hanns, segie eg, ef oss brestur nockud af Veralldar Munum, þegar vier siwkir erum, þegar oss brestur Atvinnu vora, nær vier Offsookter erum, og Raanginden lijdum: Og vier eigum so ad giora; Þvi hañ er Meistari til ad hialpa, og vor Hialp kiemur fra DRottni, sem skapad hefur Himen og Jord: Enn ad leita Guds Rijkis og hañs Riettlætis, þar erum vier so treger til, jafnvel þoott þad sie þad eina, sem er Omissande, þvi giordum vier so, þa munde oss allt añad til leggiast; Og segied mier: Hvad er vorri Trw þa betur hrattad enn þessa Konungsmañs? Hann hefur ad vijsu Hofdinge vered. Nockrer ætla ad hann hafe vered hinn same og Chusa, sa ed var Armadur Herodis, hvers Kviña Johanna ad sijdañ epterfylgde Christo af Galilæa, og þioonade honum; Og er þeirra Gæta ecki Olijkleg; Þvi hier stendur uñ þenna Mann sijdann, ad hann hafe trwad og allt hanns Heima-Foolk. Enn fyrer þvi, ad hañ var Maktar-Madur, eñ uñ Christ hefur hann ecki odruvijsse meint, helldur eñ uñ eiñ Spaamann, so sem Eliam, Elisæum og adra soddañ, þa vill hañ ad DRotteñ komi ofann med sier. Þesse er slijkra Fugla Tegund, ad jafnvel þoott þeim ligge mikid a, vilia þeir laata sig virda framar odrum Monnum. Eins var Jairus Samkundu-Hofdinge lyndur, hver ed var somu Borgar Madr; hann beidde DRotteñ ad koma med sier, og leggia Hond yfir Doottur sijna, so sem hañ giæte ecki reist hana af Daudum Fiarlægur, og hefur hann þo aan Efa heyrt þetta Dæme: Eñ þoott DRotteñ liete þad epter honum, þa hefur þad ei vered þess vegna, helldur ad hañ giorde þad mikla Kraftaverk i Augsijn so margra, er i fyrstuñe daarudu hann. Hversu lijkt er þetta Naaman hinum Syrlendska! Er Elisæus baud honum ad þvo sig Siosiñum i Añe Jordan, 2. Kong. 5. Þa strauk hañ burt i Reide-Svip, og sagdest meint hafa, ad hañ munde hafa komed wt til sijn, og aakallad Nafn DRotteñs Guds sijns: Hañ leit a Virdingar sijnar, eñ ecki a siñ Lijkþraa Kropp. Ecki giorde so hin Cananiska, ecki hin Bloodfallssiwka, ecki hiner blindu, er saatu vid Veigeñ og kolludu: HErra, Sonur Davids myskuna þu ockur, Matth. 20. Þesser beiddu uñ Christi Hialp, so sem adra Olmusu, þvi þeir aattu ei miklum Veralldar Aud nie Virdingum ad treysta. Og Gud giæfe, vier villdum og þeckia þad, ad aller erum vier Drotteñs Þurfa-Meñ. Ecki gat Naaman kastad af sier Lijkþraañe, med hañs mikla Gulle og Silfre: Ecki gat Ezechias Konungur bætt sier Heilsuna med allre siñe Makt: Og ei gat þesse Konungs-Madur teked Kollduna fra Syni sijnum, añars hefde hañ ecki til Christum komed. Eñ miklu sijdur kuñum vier ad auka oss Trwna, enn Trwarveikena ordsakar marg opt þad Þeckingarleyse, er vier hofum, bæde a Gude og sialfum oss: A sialfum oss i þvi, ad vier kollum oss eckert Omaattugt, nær ad Oskum geingur; eñ a Gudi i þvi, ad vier treystum honum so lijted, þegar mañleg Hialp er wte. Eñ hvad er þo Madureñ? Ein Gufa er hann, hver ed siest uñ Stundarsaker, eñ hverfur sijdañ, segier Jacob; Hvad er Vijntred fremur eñ oñur Tre? Verdur tekid af þvi Efne til nockurs Verks? Segier DRotteñ hia Ezechielem, Cap. 15. Og hvad er Madureñ aan Guds? Eñ Fauskr, sem til einkis er hæfur,

ur, nema ad upphoggvast og i Ellde brenast. Konungurenn af Egyptalande er Madur, og ecki sterkur Gud, Hestar þeirra eru Holld, og ecki Ande, segier Drottenn vid sitt Foolk, Es. 31. Er þeir treystu þessum Hofdingia framar enn Gude siinum: Og hvad skylldu þeir þa ætla uppa sialfa sig, sem laangtum eru minne Mattar! Enn Vantraustid a Gude kiemur af þvi, ad Menn reiddu sig ecki uppa hann, þegar vel gieck, helldur uppa sialfa sig, og færdu Foorner fyrer Nete siinu. Menn eru Ovaner þvi, ad trwa i Vonene a moote edur framar Von, eins og Abraham, Rom. 4. Vier viliu̅m sia eitthvert Medal fyrer Augunum, ef vier trwa skulum, eins og þesse Konungs-Madur: Hann beidde DRottenn ad fara ofann og lækna Son sinn: Ad sonnu var þar nockur Trwar-Neiste hia honum, enn miog so veikur: So erum vier og a stundum Skapi farner; Jafnvel þoott vier vel vitum, ad Gud hafe Þusund Veige til ad hialpa, þa er þad so sem vier viliu̅m skrifa hinum Alvijsa einn Maata fyrer, hvernenn hann hialpa skule. J Þurrvidrenu bidium vier umm Regn, i Regnenu umm Þurk, enn ecki so umm Guds Blessan; J Offsooknunum umm Fall Ovina vorra, enn ecki umm Guds Adstod a moote þeim; J Siwkdoomenum umm Heilsuboot, enn ecki so miog umm Þolenmæde: Laangt er fra þvi, ad eg segie þad sie illa beded, þvi allt skal af Gude þiggia, enn þo a þad ad vera med þvi moote, ad vier kostum allre vorre Ahyggiu uppa Drottenn, fullørugger þess, ad hann mune þvi vel til Vegar koma: Enn vier verdum Oþolinmooder a stundum, ef vier ecki strax bænheyrder verdum, og þad so miog, ad oss verdur Lijfed leidt eins og Eliæ, eins og Job, er hann sagde, Job. 3. Þvi giefur Gud Liooßed hinum mootlætta, og Lijfid þeim, sem eru angurfuller, til hverra Daudenn ei kiemur, þoott þeir bijde epter honum, so sem huldum Fiesiood? Þvilijk Ord og Hugsaner pressar Mootlæted optlega wt af þeim, sem jafnvel hafa mørgum kiendt og styrkt hinar veiku Hendurnar, eins og Job, enn þeim verdr riettelega svarad med Ordum Eliphas af Theman, er hann sagde vid þenna Guds Astvin: Mun hinn daudlege vera riettlaatare enn Gud? Mun Madurenn vera hreinne enn hanns Skapare? Vier erum hanns Verk, þvi moglar þa Leirkiered a moote þeim sem giorde þad? Hvar fyrer ekkert er annad Raad i Mootgaangenum, Born mijn, enn ad hallda stodugt afram i Bænene, þvi komande mun Gud koma og ecki tefia: So giorde þesse Konungs Madur; Þo Trwenn være veik, þa gaf hann samt ecki upp ad bidia: DRottenn svarade honum ad sonnu ecki af, enn þo i hardara Lage, ecki ad sijdur bidur hann nærre somu Ordum, segiande: Herra! Far Þu Ofann Adur Sonur Minn Andast: Og maa sia, ad hanns Trw hefur eflst vid þau Ord, er Christur talade. Laatum oss ei fara midur enn þessum Manne! Ei visse hann ad JEsus var Messias, helldur ætlade hann munde vera Guds Madur nockur, lijkur Spaamonnunum, sem adur er sagt. JEsu Lærisveinar voru ei sannfrooder umm hanns Persoonu i þann Tijma, auk helldur þesse Okiende Madur. Enn vier hofum heyrt so morg Taakn og Stoormerki epter honum, vier vitum ad hann er af Gude wtgeingenn, vier þeckium, ad hann er aptur til Himins uppfarenn, og hefur Monnum Gaafur giefed. Ecki þarf Gud Kraftaverkenn til þess, ad hialpa oss, þau eru giord fyrer hina vantrwudu, segier Paulus; Enn vier trwum

og slegiunst trwa; þvi er þa Trw vor so veik a stundum, ad vier trwum ei nema vier tokum a, eins og þesser Galilæi, er ecki trwdu, nema þeir sæu Teikn og Stoormerki, og strax sem vier ei sinnum til Bænheyrslunar i Lijkamlegum Efnum, þa kollum vier oss yfirgiefna? Vantrwenn er so megn, ad hun giorer Almætte Guds vanmattugt, (ef so mætte ad Orde komast) þvi hun metur Guds Kraft epter Smaamunum sijnum; Þar yfir klagar DRottenn, Zach. 8. segiande: Af þvi, ad þad er furdanlegt i Augum þessa Foolks, skyldi þad þa vera furdanlegt i mijnum Augum? Vitum vier ecki, ad þess nær vier erum Gude, þess meire hofum vier Smeck epterkomande Alldar; En nu erum vier honum allv rei nær, en i Kross burdenum, ef vier berum Christi Ok riettelega. Segied mier, giorer Gud þa illa vid oss, ad hann svarar oss wtaf a stundum, nær vier bidium um þetta tijmanlega, til þess ad auka oss Trwna, og festa Hiarta vort vid þad eilijfa, sem vier eigum leingst vid ad bwa? Þegar DRottenn nu svarade þessum Manne med fullri Bænheyrslu, þa segier Textenn: Og Madurenn Trwdi þeim Ordum er JEsus Sagde Honum, Og Gieck Þadan. So efldist nu Trwa hans, er skomu adur var lijt-trwande, hann radgadest ecki um vid Holld og Blood, þegar hann hafde feinged Trwna, helldur reiddi sig einfalldlega og med fullu Trausti uppa hans Ord, er hann þo ecki þeckti ad fullu, og valla meir enn hann heyrt hafde, annadhvert sialfur, edur af odrum, sem voru i Jerusalem a Hatijdardeigenum: Og þvi er ecki ad undra, þoott Guds Born treysti honum, hverium hann i sijnu Orde er fyrer Augunum afmaaladur, hverra Kraftur hann er midt i Hormungunum, Offooknunum, Angistenne, þvi þa þau veik eru, megna þau alla Hluti, fyrir hann, sem þau mattug giorer, eins og Paulus. Þegar Konungs-Madur þesse fyrst trwde, þa flijtte hann sier ecki heim ad vitia um Son sinn; þar af ma marka Trw hans, þad var um Sioundu Stund ad hann skyllde vid JEsum, þad svarar litlum Tijma efter Hadeige, hia oss, og ei kom hann heim fyrr enn annars Dags eftir, enn Vegurenn er ei leingri enn adur er sagt; Eins eru og þeir lynder, sem til fulls eru bygder a þann Hyrningar-Stein i Zion, Es. 28. JEsum Christum; Þeir flijta sier ecki miog, segier Spamadurinn; Þeir hlaupa ecki med Þioofnum til ad stela, ecki taka þeir til fanijtra Rada eins og Achas, Es. 7. Ei giora þeir Samband vid Daudann, nie Sattmaala vid Helvijtid med hinum Gudlausa, Es. 28. Helldur bijda þeir efter DRottni, styrkia Huga sinn, og eignast Saaler sijnar i Þolinmæde, Luc. 21. Og sa ed sier temur þetta Hugarfar, i honum er Trwinn fullvaxenn, og Christur ad fullu myndadur. Og hvert skyllde eg helldur flijta mier, DRottenn, ef þu værer reidur? Þoott eg upphefde mig med Edom, eins og Orninn, og byggi mier Hreidur medal Stiarnanna, þa munder þu kasta mier ofan þadann, Obad. v. 4. Og hvert vilia þeir ellta mig, nær þu ert nadugur, nema ad þijnum Footum? Hverra Skor ad Jordenn er, og allar Þiooderner a henne fyrer þier so sem Vatns-Dropi i Ausu; Þar vil eg flatur liggia, þar vil eg fulloruggur bwa, þar vil eg hæda ad ollum þijnum og mijnum Ovinum, þar vil eg Drottins bijda, og vardveita hans Vegu, þa mun hann upphefia mig; Honum sie Lof, Dijrd og Heidur ad eilijfu, Amen. So er nu wt-talad um

Veik-

Veikleika Trwarinnar og hennar Efling, eftirfylgir hid Siijdara, er eg hiet umm ad tala.

Gudspiallamadurenn seger, skomu ædur enn Textinn byriar, Ad JEsus Hafi Farid burt i Galilæam, þvi hann hafi sialfur vitnad, ad Spæmadur hefdi ei Virdingu i sijnu Fodur-Landi. Margir hallda, ad þar med sie Nazareth meint, sem var Foostur-Jord DRottins, og so er hun kollud hiaa Matthæum, Cap. 13. Enn þessi Borg var og so i Galilæa, þvi gietur þad eins vel Judæa edur Gydinga-Land verid, hvar hann fæddur var: Enn hvernig sem þvi er varid, þa reisti hann framm hiaa hinni Vantrwudu Nazareth i þetta Sinn, umm hveria Matthæus siidann skrifar, ad hann hafi ei giort þar morg Kraptaverk Sokum þeirra Trwarleysu, og ferdadist til Cana, hver ed laa i þeim Parti Landsins, er nefndist Galilæa Heidingianna, þar laa og Capernaum, er var hin Frijdasta Borg af þeim Tiju Stodunum. Þetta Land bygdu marger Heidingiar, þar voru Tyrus og Sidon, þadann var hin Cananiska, er þreitti vid DRottinn; J Capernaum var Hundrads Hofdinginn, hvers Trw hann so miog hroosade. Þetta kiemur mier til ad prijsa hanns Fodurlega Giædsku i þvi, ad sneinma took hann til þess Blessadur, ad lijta til vor Heidingianna, jafnvel þoott hann sier i Lage væri sendur til fortapadra Sauda af Hwse Jsraels. Ecki er ad efa, ad þau morgu Kraptaverk, er hann giordi i Capernaum, er nefndist hanns Borg, þau hafa snwid morgum Heidingia aa Lijfsins Veg. Enn lijtum nu til vor, Christner Menn! Smaa voru Upptok Christnibodsins hiaa oss i Fyrstunni, og ecki var liwflega aa mooti tekid þessare Guds Giof: Vor Christdoomur var og so miog i Veikleika framm eptir Olldunum, þo hofum vier, sem nu lifum, og so Fedur og Forfedur vorer til þess fundid, ad þad er satt sem DRottinn segir i Eftirlijkinguni, Matth. 23. Ad Himnarijki sie lijkt Mustards-Korninu, hvert ad Einn took og saadi i Akri sijnum, hvert ad er hid minnsta af Sædunum, enn þegar þad vex upp, er þad hid stærsta af Kaal-Grosunum, og verdur ad einni Eik, so ad Fuglar Himinsins bwa sier Hreidur i Greinum þess. So hefur nu Gud eblt Christilega Trw hiaa oss, sem i Fyrstunni ei vorum nema lijtid Sædi; Þvi ei kunnum vier ad neita þvi, ad ei bwi Christi Ord rijkuglega vor aa medal. Vier hofum heyrt hanns Kienningar, hanns Kraftaverk, hanns Pijnu og Dauda, hanns Upprisu og Himnafor, so ad JEsus Christus er oss fyrir Augum afmaaladur Krossfestur aa medal vor, ei siidur enn þeim i Galatia. Gud giæfi, ad vor Christinndoomur þar eptir auglijsti sig i Trwarinnar Avoxtum og Kiærleikans Verkum, so vier þecktum og findum til, ad Guds Rijki væri inni hiaa oss. Menn heyra ecki ad DRottinn hafe stadnæmst i neirni af Galilææ Borgum, fyrr enn hann kom til Cana, þar hafde hann ædur giordt þad mikla Kraftaverk, er hann snere Vatni i Viin, so sem hier ad framann er umgietid, aan Efa til ad reyna hvern Avoxt ad Bæjar Menn hefdu fært þar af, og hvad þeim hefdi i Trwnni framfarid; Enn þad maa merkia af hanns Svari vid Konungs-Manninn, ad hann ei hafi fundid fyrir sier allt ad Oskum, þvi sagdi hann: Nema Þier Siaed Teikn Og Stoormerki, Þaa Trwed Þier Ecke. Hann talar ecki til hanns alleina, helldur til allra þeirra, sem nælager voru,

Svo

so sem bendandi til þess, ad jafnvel þoott þeir medtæke hann vegna Kraptaverkanna, so sem Gudspiallamadurenn seger, þa nædu þau samt ecki þvi Maali, hvar fyrir þau giord voru, sem var, ad trwa þad hann være sa sem koma skylldi; Hvar fyrer hann og vijsadi Johanni, edur, riettara ad segia, Johannis Lærisveinum til þeirra. Þañiñ breiter Guds Fodurleg Giædska einnig vid oss, til ad vekia i oss Trwna og adrar Christilegar Dygder: Hvad optlega straffar hann i oss Vantrwna, Bænarleysed, Avaxtarleysid, og Oþolenmnædina, þegar hann talar vid oss i sijnu heilaga Ordi! Vel sie þeim, sem liaa þvi Eyrunn til nockrar Eptertektar og Umbootar Lijfernisins! Enn Gud nadi, ad þad vill ei alltijd aa eptirfylgia! Vier heyrum Guds Ord med Leidindum aa stundum, eins oa Israels Syner aatu Manna aa Eydimorkunne, og þvi verdur oss so faatt til Raada i Angistinni, jafnvel þoott hun sie þad Verkfære, med hveriu ad Gud umskier þau Oumskornu Eyrun og Hiortun, sem ecki aa annann Veg heyra nie trwa vilia. Ecki snerist Ephraim til Guds, fyrr enn hann var typtadur, so sem lijfadur Kaalfur, Jer. 31. Ecki liedi Manasses honum Eyrun, fyrr enn hann var beigdur i þwngum Jaarnvidium: Ecki hlijdnadist Juda honum, fyrr enn hann lærdi þad af Anaudinni i Babylon: Og ecki mundi þesse Konungs-Madur hafa skipast vid Ord DRottinns, nema hanns Sonur hefdi legid Daudsiwkur i Capernaum. So eflir nu DRottinn Trwna i Krossburdinum: Og er þad Maala sannast, ad þad sem Omogulegt er fyrer Monnum, þad er mogulegt fyrer Gudi. Þeim sem eru aan Guds i Heiminum, þeim er Mootlætid hin mesta Ordsok til Hugarvijls, þad tekur allann Dug wr þeim, sem ecki Guds treysta; Eñ hañ, sem reider sig uppaa Gud, hann lætur DRottenn vera sitt Hiartans Traust og Hlutskipte, þoott ad Lijf og Saal vanmegnist; Þess gietur Jacob i hanns Pistils 1. Cap. segiande: Hallded þad fyrir hiñ mesta Fognud, Br. M. so opt sem þier ratid i ymislegar Freistingar, vitande þad, ad Reynsla ydar Trwar verkar Þolinnmædina. Hvar fyrer verkar hun þa Þolinnmædina? Þviad so lenge sem þar er einn Trwar-Neisti i Mannsins Hiarta, þa er hann alldrei aan Guds, hversu lijtill sem hañ er, Enn Guds Kraptur er alldrei lijtill, þo hann bwe i Litlu, þess vegna fullkomnast hañ i Breiskleikanum, sagde hann sialfur vid Paal: Þar fyrer skrifar sa Guds Madur so kunnuglega hier um til Romveria, Cap. 5. Vier hroosum oss af Hormungunum, segier hañ, vitande Hormungenn verkar Þolinnmæde, enn Þolinnmædinn Reynsluna, enn Reynslann Vonina, enn Voninn lætur ei til Skamar verda; Þviad Elska Guds er wthellt i Hiortum vorum, fyrer heilagann Anda, sem oss er giefinn. Hvernenn verkar nu Hormungenn Þolinnmædina? Þviad hvar enginn Hormung er, þar orkar ecki aa Þolgiæded, þvi verkar Þolinnmædinn Reynsluna. Um Ezechiam Konung stendr skrifad, 2. Cron. 32. Ad Gud hafe freistad hanns, so ad uppskaatt yrdi hvad hann i Sinni hefdi; Ecki fyrir þvi, ad Gud visse þad ecki, þvi hvar fyrir skylldi hañ ecki vita hvad med Manninum bijr, sem Mannenn skapad hefur? Helldur ad hann reynde sialfann sig, hvad mikla Krapta hann hefdi þegid, til ad bera Guds Alag, ad hanns Trw og Von efldest

þess

þess meir framvegis; Og þañiñ verkar Poliñmædiñ Reynsluna, og Reynslañ Vonina, þviad Elska Guds er wthellt i Hiortum vorum: Vier lijdum, vier freistunst, vier þolum, og trwum þo i ollu þessu, þviad vier elskum hann, sem reynir oss, og vitum, ad hvern þann Son sem hann elskar, þann agar hann. Guds Sonur var so yfirkominn i Piijslunum, ad hann beiddi ad hinn swri Reidinnar Kaleikur mætti fra sier takast, ef þad væri Fedursins Vilie, og þo var honum Elskann so megn til vor Syndugra, ad hañ þreytti vid Daudann, og gaf ecki upp, fyrr enn þad var fullkomnad. Hier med hefur hann þad afrekad oss, ad vier hann elskum, aller þeir, sem a hanns Nafn riettilega trwa, þviad i þvi er Kiærleikurinn, ecki ad vier elskudum Gud, helldur ad sialfur Gud oss elskade, seger Johannes, 1. Pist 4. Þvi skylldi þa ecki Elskann til hanns vera so rijk i oss, ad vier lijdum þad med Trw og Þolinnmædi, sem hann a oss leggur, til þess, ad verda honum lijker i Angistinne, so vier med honum fagna meigum i Dijrdinni.

Þegar DRottinn hafdi nu svarad þessum Manni nockud hardlega, og hañ gaf þo ecki upp ad bidia, jafnvel þoott þad væri i Veikleika, þa vill hañ Blessadur ecki wtslockva þeña lijttloganda Hor-Kveik, helldur seger hañ: Far Þu, Sonur Þinn Lifir: Þad Ord, sem i Textanum stendur, gietur og merkt, hañ lifir heill: Hañ sem vissi hvad med Mañinum bioo, hañ þeckti, ad ei mundi þessi Madur so Þoliñmoodur edur Trwarsterkur, so sem hin Cananiska, þvi tefur hañ ecki framar fyrer honum. Merk hier þad, christiñ Madur, ad DRottiñ veit Tijma og Stunder, nær Maal er ad hialpa, þvi freistar hañ einkis yfir Megn frañ, so ad Trwiñ þrotni ecki: Fyrer þvi, jafnvel þoott ec[illegible]e þykist þu gieta borid meira a Stundum, þa vit þo, ad hanns Stund er eñ þa ecki komiñ, sem ad hefur Tijma og Hentugleika i sinni Hendi, P.G. 1. Bijd þvi stodugur eptir DRottne, þa mun hañ hneigia sitt Eyra til þijns Akalls, Ps. 40. Eckert sijnilegt Medal sa þesse Konungs-Madur til þess, ad Barni sijnu mundi hoolpid verda, og þad braast honum, er hann vonade hellst epter, sem var, ad DRottinn mundi fylgiast of[illegible]ñ med honum, þo trwdi hann þessum Ordum, er JEsus sagde. Sæler eru þeir, sem ecki sia og trwa þo, sagde DRotteñ vid Thomam, af þvi hañ ei villdi trwa, nema hañ tæki a honum: Vier kollum þa sæla, er Krapta-Verkinn sau, eñ hann kallar oss einn sælli, er trwum a hann, an þess, ad vier siaum þau: Ecki villdu Teikniñ alltijd þess orka hia Gydingum, ad þeir sneruist og yrdu hoolpner; Þeir spurdu: Hvert Teikn sijner þu, ad þier leyfist þetta? þegar hann rak wt þa er selldu og keyptu i Musterinu, og hann giordi so morg Teikn a medal þeirra: Þeir leitudu af honum eptir Teikni af Himni, þegar hann hafde wtrekid Dioful þann er Dumbi var, Luc. 11. Eins og þad væri ecki i sialfu sier noogu berlegt Teikn. Hann formælti þeim Oþacklatu Borgum, Corazin og Betsaida, hvar hann hafdi giort hin flestu Teikn, og henni, sem jafnvel allt til Himins var upphafinn, Luc. 10. þessari somu Capernaum, er hier gietur um i Gudspiallinu; Enn margann hefur hann leidt a Lijfsins Veg fyrer einsamlann Ordsins Krapt, og heilagañ Anda, er verkar þar i, hvers vier og notid hofum, sem ecki siaum

og trwum þo: Ad sonnu eru Krapta-Verkinn til þess giord, ad efla Christilegra Trw; Þad siaum vier berlega af þessu Dæmi, sem nu er hondlad um̃: Þessi Madur kom til JEsum, af þvi hann heyrt hafdi þad sem giordist i Cana og an̄arstadar, enn ecki i þeirri Meiningu i Fyrstunni, ad læra Christinndoomin̄ af honum, eins og Nicodemus, enn þo trwdi han̄ þeim Ordum, er JEsus sagde honum i Lijkamlegum Efnum, um̃ Bata Sonar sijns, en̄ sijdan̄, er hann fieck þad ad reyna, er han̄ trwad hafdi, þa segir Textin̄: Ad Han̄ Trwad Hafi, og allt hanns Heima Foolk. Med hverri Trw? Ecki ad hann væri einn almennilegur Spamadur, helldur Messias og Frelsari Heimsins, þvi so merker þetta Ord, Ad Trwa, optlega i Ritningunni: Þetta Dasemdar-Verk var ecke helldur Ydiulaust; Þad kom Jairo til ad bidia um̃ Lijf-Giof Doottur sinnar; Þad leidde Hundrads-Hofdingiann til ad leita Hialpar sijnum Daud-siwka Þioon. Vier hofum og þesse Undur heyrt, og morg on̄ur fleire: Latum þau so styrkia Hiarta vort i Trwnni, ad alldrei vantreystum vier honum, sem er so vijs, so goodgiarn, og mattugur, hvad-sem oss kann til Handa ad bera; helldur glediunst, so sem Petur oss seger, ad vier hrygder verdum um̃ lijtinn Tijma, ef Þorf gioerest, med ymislegum Freistingum, so ad Reynsla vorrar Trwar verdi fundinn miklu dijrmætari, enn Gullsins, hvert ed forgengur, og verdur þo i Elldi reynt, til Lofs, Heidurs og Dijrdar, þegar JEsus Christus verdur opinnberadur, hvern vier elskum, enn siaum þo ei, hvern vier nu ecke siande, enn þo trwande a hann, glediunst med Oumr̃ædilegum og dijrdlegum Fognudi, berande wr Bijtum Verdlaun Trwar vorrar, hver ad er Saluhialpinn.

Hennar niootande ad verda, unni oss DRottenn allsheriar Konungur eilijfrar Dijrdar, fyrir JEsum Christum, AMEN.

# Tuttugasta og Annann Sun̄udag eftir Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 18. Cap.

OG JEsus sagde til sin̄a Lærisveina: Himnarijke er lijkt vid ein̄ Konung, sem reikna villde vid Pioona sijna: Og er hann took til ad reikna, kom einn fyrer hann, sa ed honum var skylldugur um̃ Tiju Þusund Punda, en̄ þa han̄ hafde þad eige til, sem han̄ skyllde giallda, skipade HErran̄ ad selia han̄, han̄s Hwsfreyu, og so Bornen̄, og allt þad han̄ ætte, og borga þar med. En̄ sa Þioon fiell fram̃, tilbad han̄ og sagde: Haf Þollin̄mæde vid mig, allt skal eg þier giallda. En̄ Herran̄ sa Aumur a þeim Þioon, og liet han̄ lausan̄, og gaf honum upp alla Skulldina. En̄ þa hann gieck wt, fan̄ han̄ ein̄ af sijnum Samlags Þioonum, sa ed honum atti ad giallda Hundrad Peninga, hann sama Handtook han̄, greip fyrer Kverkar honum, og sagde: Gialld þad þu ert mier skylld-

skylldugur. Og hañs Samlags Þioon fiell frañ til Foota hañs, bad hañ og sagde: Haf Þoliñmæde vid mig, þvi allt skal eg giallda þier. Eñ hañ villde ecke. Helldur foor burt, og liet hañ i Dyblissu, þangad til hañ hafde borgad sijna Skulld. Eñ sem hañs Sam-Þioenar sau hvad skiede, urdu þeir miøg hryggver vid, komu og kuñgiørdu sijnum Herra, allt hvad ed giørst hafde. Þa kallade hañs Herra a hañ, og sagde til hañs: Þu Illur Þioon, alla þa skulld gaf eg þier upp, af þvi þu badst mig. Hvert byriade þier þa ecki myskunsomum ad vera vid þiñ Samlags Þioon, lijka sem þad eg var þier myskunsamur? Og hañs Herra vard reidur, og ofurseldde hañ Kvølurunum, þangad til hañ hafde borgad allt þad, hañ var hønum skylldugur. So mun og miñ Himneskur Fadir giøra vid ydur, ef ad hver ydar sem eiñ fyrergiefur ecki wt af Hiarta, sijnum Broodur, hañs Misgiørder.

## Exordium.

Þad er skrifad uñ Augustum Keysara, ad þa þar eitt Sinn doo eiñ Riddare, sem liet so miklar Skullder epter sig, ad hanns Arfur vanst hvergi nærre til Lukningar, þa hafe Keysarenn boded, ad kaupa Sæng hanns til Handa sier, þviad Umhyggia Stioornariñar hiellt Vøku fyrer hønum optlega: Teiknande þar med, ad sa Madur munde Svefnsæll vered hafa, er hann gat þo nockurn Tijma sofed, so miklum Skulldum vafenn: Þvi hañ sem til Laans tekur meir eñ hañ fær golldet, hañ hefur Frelsid sellt, og er Þræll hiñs, sem hañ skulldbundenn er: Þess gietur hinn Vijse, er hann segier: Sa ed bygger sitt Hws med añars Fie, hann er lijkur þeim, er safnar Steinum ad Grøf sinne, Syr. 21. Enn Þrællenn hefur engar Naader, nema þær sem hanns Lavardur vill hønum epterlaata. Hvernig sem þvi er nu hattad vor a medal, þa tekur þad yfir, ad vera Okvittur vid hinn Stoora Himins og Jardar Konung, sem ecki þarf ad leida Votta ad Skulld sinne, ecki sækia hana med Løgum, ecki mørg Umsvif hafa til Atfarar, helldur kann ad varpa Lijfe og Saalu i eilijfann Elld, nær hønum þocknast, þvi veit eg ecki hvernenn sa kann ad hafa nockra Roo edur Hvijld, er veit sig Okvittann vid slijkann HErra, so sem Skallded segier: Hver vill vænta sier Værd og Frid, vera Osattur þo vid Gud? Enn þad eru þo aller þeir, er ei vilia tilgiefa sijnum Broodur hañs Misgiørder, so sem oss i þessa Dags Evangelio berlega kiennt verdur, af hveriu vier Tvennt hugleida vilium: 1. Hvad mikid og hverneñ Gud oss fyrergiefe. 2. Hvad miked og hvernenn vier eigum Naunganum ad fyrergiefa.

Hialpa oss i þessu Gudhrædslunnar Eyrinde, naaduge Fader, fyrer hann, sem hefur betalad allar vorar Sekter, þinn Son JEsum Christum, AMEN.

## Utleggingiñ.

Hversu mikid ad Gud oss fyrergiefi, verdur ecki fullsagt; Ef nockur visse hvad oft hann syndgade, þa mætte hann kannskie nærre gieta hvad miked honum tilgiefid være, enn David kallar þad Omøgulegt, er hann segier: Hver skilur hvad oft hann syndgar? Þo vilium vier nu fyrst hugleida, hvilijkan Riett Gud hefur til vor. Miklu er hann stærri enn sa, er vier eigum yfir vorum Vinnu-Dijrum, þvi ecki hofum vier skapad þau, enn hann hefur giort oss, segier David, Ps. 100. Og þegar vier hofdum skotest under Andskotann, og vorum i hanns Vallde, þa hefur hann endurleyst oss, þvi þier erud Verde keypter, segier Paulus, 1. Cor. 6. Ecki med forgeingelegum Hlutum, Gulle og Sylfre, helldur med JEsu Christi saklausu dijrmæta Bloode, hver ed hefur giefid sig Lausnar-Gialld fyrer alla, og þegar vier so endurleyster vorum, hefur hann helgad oss, þvi Guds Ande hefur kallad oss i hanns Vijngard; Fyrst i Skijrninne, sijdann daglega i Ordinu og Sacramentunum, so vier erum ecki vorer eigenn, so sem Paall ad Ordi kiemst, og þad er riett til vor talad, sem DRottenn sagde vid sitt Foolk, Esa. 44. Þu ert minn Þræll Jsrael, eg hefi frelsad þig: Enn til hvers erum vier þa skapader, frelsader og kallader? Ecki til ad vera idiulauser, helldur til ad erfida, enn allra sijst til ad skiemma edur spilla hanns Akri; Ollum af oss hefur hann sitt Pund i Hendur feinged, sumum meira, sumum minna, enn aller hafa noog, þegar kiemur ad Reikningsskapar Deigenum: Þioon þesse var skylldugur Konunginum 10. Þusund Punda, þad eru 60. Sinnum Hundrad Þusund Cronur: þetta var engenn Smaa-Skulld; Enn þo er þad meira, sem Gud hefur oss lanad, sem er Lijkame og Saal, hver Gud skoop i Ondverdu, efter sinne Mynd, hver hann endurskoop, fyrer sijns Sonar Blood i Heilagri Vatns-Laug, hver og daglega eiga fyrer heilagann Anda ad endurnijast efter hanns Mynd, sem þau skapad hefur: Enn gietum vier nu svarad Gude þessare sinne dijrmætu Skiepnu jafngoodri? Laangt er fraa þvi, ef vier nioottum oss ei Fulltijngis. Hefdum vier wtafdaid vid Skijrnar-Saainn, þa vorum vier so ad kalla jafngooder, enn hversu oft hefur nu flettst uppa vort Skijrnar-Klæde sijdann? Lijkaminn er hinn Oædre Partur vors Skapnadar, þo eru bæde Saalenn og hann med Guds Bloode endurleyst: Hendurnar ættum vier ad brwka til ad erfida, margur hefur lagt þær samann med hinum Lata; Til ad hiaalpa Naunganum, enn sumer hafa wtriett þær til ad meida hann. Augun til ad sia Aumur aa þeim Voludu Guds, margur hefur stunged þau wt, þegar oss hefur giefest Ordsok þar til, enn ecki þegar þau hafa hneixlad oss: Eyrun eru oss giefenn til ad heyra Guds Ord, þeim læsa Menn fyrer þvi optlega, enn liwka þeim upp fyrer Hiegooma num; Suner fyrer skammarlegum Ordrædum og fijflslegu Hiale: Munn og Twngu hofum vier þeigid til ad lofa Gud, og ad hiaalpa Naunganum, til ad tala Maale Eckiunnar, og hinns fodurlausa, og hinns underþryckta. O Vor Gud; Vertu naadugur! Hvad margra Þusund Punda Skulld ad þetta verde, maa raada, ecke einasta af Tregleikanum til Bænarinnar og Lofgiordarinnar, helldur af so margre Vanbrwkun Twngunnar, Gudlaste, Roog, Lijge, Svardogum, Bakmælge, og allre þeirre Ohæfu, er Spilling Natturunnar leikur sier

ad,

ad, so sem ødru Tabli; Ad eg sæi mier ecki til Orda, hverſu illa vier høndlum med þeſſa Tialldbwd Sæalarinnar, þar vier briootum optlega nidur þad Guds Muſteri, med Ohooſſamri og Oſkickannlegre Umgeingne. Og ef þar nu fellur þvilijkur Avoxtur af Lijkamanum, hverium vier alldrei ſvarad faaum, meir enn Pioon þeſſe ſijnum 10. Þuſund Pundum, hvad mun þa ecki af Sæaluñe falla? Høfum vier brwkad Tilhneigingarnar til ad elſka Gud og ottaſt hann, Viliann til ad ſtunda þad honum lijkar, Skynſemina til ad æfa ſig i þvi, ſem vors Fødurs er? Og ecki miklu helldur æ moote honum, enn hver ødrum til Skada, og Fiandanum til Pioonuſtu?

O! Vei, O! Vei, hverſu diwpt erum vier þa ſockner nidur i Afgruñ Skulldaña! og være þo allt goodra Giallda verdt, nema ad vier afræktum þañ Fieſiood, er oſs er bodeñ af einſkiærre Naad, til ad bæta allt þetta fullum Bootum, og færum illa med ſiæalft Lauſnar-Giallded, þad er JEſu dijrmæta Blood, ſem hreinſar oſs af øllum vorum Syndum. Oſs er vitañlegt, ad i Heiløgu Altariſins Sacramento verda þeim øllum Skulldernar uppgiefnar, er þad verduglega medtaka; eñ hvad ſegier Paulus um̃ hina? Segier hann ecki, ad þeir eti og drecki ſiæalfum ſier Doom? Þad er, Fordæmingu: Og ſegid mier þa: Ad hveriu mun þeim gagna Sæattmaalans Blood, er hallda þad ſo Almennilegt, og troda Guds Son under Footunum? Vier vitum, ad heilagur Ande upplijſer oſs og helgar med ſijnum Aſtgiøſum: Hann leider þa i allann Sannleika, er ſier læta ſtiorna af honum, hañ er Pantur Arfleifdar vorrar; Enn hverſu oft høfum vier nu mootſtaded honum? Hvad tijdt høfum vier hryggt hann, hvad þraaſinnum høfum vier nu ſlockt hañ, med vijsvitande Mootgiørdum og Bodorda-Brotum i giegn Gudi, og leigid i þeim ecki all-lijteñ Tijma, ſtundum þvert æ mooti Samvitſkunne? ſo vier høfum miſt Naadena, og hefdum hana ad fullu miſt, nema Guds Fødurleg Giædſka hefde ruñed æ moote oſs Fortopudum Sonum; Og af þeſſu ſem nu er ſagt, ſem þo er engannveigenn hælfſagt, þa kann hvers eins ſannydrande Mañs Hiarta ad dæma, hverſu mikid ad Gud honum daglega tilgiefe. Eñ hverium tilgiefur hann þa, edur hveria Aderd brwkar hann i þvi? Þad ſijner oſs Textenn: Hann Reiknaſt Vid Pioona Sijna; So giører hann vid oſs, hann kallar oſs til Reikningsſkapar, ad ſtanda Skil æ Ordum, Giørdum og Hugrenningum; So kallade Gud ſiæalfur Adam, er hann ſyndgaſt hafde, ſo kallade hann Ninive Borgar Menn fyrer Jonam, ſo ſtefnde hann David til Reikningſkapar fyrer Nathan Spaamann, ſo ſtefnde hann øllu Foolki æ Holldtekin-Døgum DRottinns, med Predikun Johannis Skijrara, ſo ſtefner hann oſs eñ i Dag af Muñe ſinna Pienara, þeir hafa hanns Krøfu i Høndunum, þad eru hañs Tiju Laga Bodord, vor Medkieñing er ſkrifud i Book vorrar Samvitſku; Hver ſem þetta Tveñt ſamañber, hann mun fiña, ad hann ecki einaſta er 10. Þuſund Punda ſkylldugur, helldur og ſo mikid æ mooti hveriu Bodorde, af þeim Tiju, er vier ættum upp ad fylla. Eñ þoott Meñ heyre þetta nu ſo oft, þæ eru þo ecke aller ſo liwfir æ ad kañaſt vid Skulldena, og enn ſijdur ad giallda, þvi þad er ei til, er giallda ſkal, hiaa ſiæalfum oſs.

Vid soddaň Skullda-Prioota brwkar hiň Riettlaate Konungur so sem nockurs konar Hardræde, og skipar Ad Selia Þaa, Þeirra Konur Og Born, Og Allt Hvad Þeir Eiga; So sellde Gud sitt Foolk Jsrael, nær þeir voru honum þverbrotner, þar uň spaaer Moyses; segiande: 5. M. B. 32. Hvernenn ellter einn Madur Þusund Jsraels Menn, og tveir reka 10. Þusund aa Flootta? Mun þad ei þess vegna, ad þeirra Gud hefur sellt þa? Þar uň kvartar David, segiande: Ps. 44. Þu hefur sellt þitt Foolk fyrir eckert, og ei aabataft af þeirra Verde: So selur haň þa enn i Dag, sem ei vilia skipast vid hanns Þienara Aminningar, þegar hann leggur aa þa Krossenn, tekur af þeim Heilsuna, þeirra Kvinnum og Bornum, sem haanger af þeirra Saalu, eins og Beniamins af Jacobs; Svipter þa tijmannlegre Blessan, edur giefur þa i Valld Ovina sinna, ad ei skuli þeir verda Ofursellder i fraaleitt Siňe, eins og Pharao, Achab og Jeroboam, sem var selldur til ad giora Jllt, hveria hann hafde þo aadur fyrer sig kallad, og er þad stoor DRottinns Naad, ad hann breitir þannig vid Syndaraň, aadur eň haň hefur uppfyllt Mælir Syndanna. Þegar nu so ber vid, þa trwi eg flestum komi til Hugar, ad tijsta eins og Tranann, og kurra eins og Dwfann, og ad bidia med þessum auma Pioon: Haf Þolinnmæde Vid Mig, Allt Skal Eg Þier Gialllda. Gud giæfi, ad saa Þanki væri stodugre hiaa oss, Eň hann var hiaa honum! Eň hvad skulum vier þa gialllda? Hvad aa snaudur fyrer ad giefa? Þoott vier lifdum Engla Lifnade, wr þvi vier snerunst til Guds, þa ættum vier ad jaata: Onijter Pioonar erum vier, auk helldur ad vier faaum hina minnstu Synd afplaanad af oss til. Þetta er Hugguniň alleina, ad Herrann Saa Aumur A Þeim Pioon, Og Gaf Honum Upp Alla Skulldena. J Uppgiofenne er oll Lwkninginn, i Myskunsemiňe oll Fullnægiaň, i Christi Forlijkun oll Fridþægingin: Eň er hun þa alldeilis giefens? Ad sonnu, ad voru Leite, eň dijrt hefur hun kostad vorn Borgunar-Maň, þvi hann gaf sitt Lijf wt fyrer sijna Saude, Joh. 10. Miň HErra JEsu, eg hugsa til þess, er DRottiň segier fyrer Muň Esajæ, Cap. 13. Uň þær Hormungar, er Chaldæi mundu lijda, af þeim Medis og Persis: Eg skal þad giora, ad eiň daudlegur skal verda dijrmætari eň hid besta Gull: Teiknande þar med, hvilijkur ad verda munde Griňleike Ovinaňa, ad Lijf Maňsins munde ei falt verda fyrir nockurt Verd. Eň hvad var aumt Maňkyn þess, miň DRottiň, ad þad maatte ei endurleysa, nema med þijnu Bloode, O Gud! So mikil var Bræde Fodursins, so mikid haňs Riettlæte, so mikil Stærd Syndarinnar, ad hin minsta Yfirsioon vard ei leyst med allrar Veralldariňar Aud, og so dijrmæt var þesse Skiepna, sem i Ondverduvar epter Gude skopud, þar fyrer bar Veralldariňar Skapari Veralldarinnar Synder; og maa hier, medal aňara, af Stærd Lausnargialldsins marka Þijngd Skulldarinnar, sem upp er giefiň. Þegar Syndarinn nu so framkiemur fyrir Naadar-Stoolinn, med aangraadu Hiarta, i Krapti JEsu Forþienustu, þa er honum Uppgiofeň viis: Þvi hvar sem ad Syndeň yfirgnæfir, þar yfirgnæfir þo Naadeň miklu framar. Eňn hvilijk Uppgiof? Hann Gaf Honum Upp Alla Skulldena, segier Textinn: So

ser

ſer nu Gud ad tilgiefa Misgiørdena, þegar hann er Fridſtilltur, þvi brwkar Ritningинn þeſſa Ordshættu: Ad hañ kaſti vorum Syndum i Haſſins Diwp, og vilie þeirra ecki ad Eilijfu miñaſt: Ad hañ giori oſs þær ſo fiarlægar, ſem Auſtrid er Veſtrinu. Hvad ſeger þu, O Drottēñ miñ! Er þu talar um̄, hverſu lijtid Foornirnar gylldi i þijnu Auglite, Eſa. 40. Fiallid Libanus mundi ecki duga til ad breña, og øll þeſs Dijr mundu ei hrockva til Breñifoorna: Enn þu, vor Gud, ſem allt þetta nægir ecki, þu lætur þier nægiaſt med ydrande Manns Tаar; þau ſlockva Elld þinnar Reide, þau deigia þad Staalid af Nordrinu, þau leggia Bønd aa hann, ſem Dioſuliñ bundid heſur; Þu, fyrir hverium ad Þioodernar eru ecki meir enn Vatns-Drope i Auſu, og ſo ſem Dupt i Metaſkaalum, þu ert aanægdur med einn Harmþrwnginn og Sundurknoſadann Anda: Hvar fyrer? Ecki fyrir vorrar Ydrunar Skulld, ſem ad jafnvel er Synd af vorri Alſu, helldur fyrir JEſu Blood, hvert ed teingeſt vid Syndarans Tаar i Metaſkaalinni aa moots vid þitt Riettlæte. Þegar O Drottēñ brijxlar Jeruſalem um̄ ſijna Vanrækt og Þeckingarleyſi, þa ſeger hann hiaa Eſajam, Cap. 50. Hvar er ſw Skilnadar-Skraa, er eg gaf ydar Moodur? edur hver er ſaa, af mijnum Kaupanautum, er eg heſi ſellt ydur? Siaa, þier erud fyrir ydar Raanglætingar ſelldir, og ſokum Fraahvarfs ydar Moodur, er hun ein laatinn: Og þo ſeger hin eilijfa Giædſka fyrer Munn ſama Spaamanns: Taled þad ſem Jeruſalem er þooknanlegt, og prediked heñi, ad heñar aakvardadur Tijmi ſie uppfylltur, hennar Raanglæte ſie betalad, hun hafi feingid Tvofallt af Hendi O Drottinns fyrir allar heñar Synder: Þeſsi allra Huggunarſamleguſtu Ord, eru ſo ſem Inngaangur til Spaadoomſins um̄ hiñ Fyrſta Nya-Teſtamentiſins Idranar Predikara, Johañem Skijrara. O miñ HErra JEſu! Hver heſur þad Gialldid lokid? Hver nema þu, Gud? Hver ed i voru Holldi lijdandi heſur oſs twofalldañ Fieſiood afrekad, ſem er, Fyrergiefning Syndaña, og eilijft Lijf; Þeſſe er Audur þijns Rijkis i øllu Evangelio, hverium þu, Konungur Dijrdariñar, af einſkiærri Naad wtbijter Þegnum þijnum: Nær vier heyrum Moyſen krefia oſs Skullda þeirra, er vier eigum Gudi ad giallda; Þa møglar Holldid, þad gengur honum ecki betur hiaa þvi, helldur enn hiaa ſijnum Eiginn i Eydimørkunni: Þad vill laata tala þad, ſem þvi er þooknanlegt; Eñ haſta þu aa þad, O Drotteñ, ſo þad þegi, ſtraffa þad, ſo þad hræri ſig ecki, Ogna þvi, þvijnga þad, ſo þvi ſvijdi, enn tala ſijdann þad, ſem Jeruſalem er þocknannlegt, ſem er, ad oſs ſie øll Skulldinn uppgiefinn, og laat oſs ecki ſafna þeim ſijdann: Og er þad ſo wttalad um̄ hid Fyrra.

Eptirfylgir hid Sijdara med ſaaum Ordum ad hugleida. Textinn ſegir: Enn Þa Hann Gieck Ut, Hitti Hann Einn Af Sijnum Samlags-Þioonum, er Honum Atti ad Giallda 100. Peninga, Þann Sama Handtook Hann, Greip fyrer Kverkar Honum, Og Sagdi: Gialld Þad Þu ert mier Skylldugur. Ecki efaſt eg um̄, ad þeſſe vonde Þioon heſur nærſta Bliwgur, Hræddur og Skiaalfandi verid, þegar hann ſtood frami fyrir Konunginum, og heyrdi, ad þar atti Ad Selia Hann Siaalfann, Kviñu

Hañs

Hanns Og Born, Og Allt Hvad Hann Atte: Enn þessi Audmykt vardi ecki lengi: Strax sem hañ var wt af Dyrunum gengiñ, og hañ sa siñ Verkanaut i vidlijkum Prautum staddañ, sem hañ hafdi komñu ædur verid, hondladi hañ vid hañ myskunarlaust. Gud nadi oss auma Menn! Þegar vier lesum vort Synda-Registur, og Samvitskañ tekur til ad lemia oss med Minningu Illgiordanna, þa tarunst vier fyrir Gudi, þeir sem nockud hyrda um Salu sijna: Eñ Gud betri þad, ad vier munum so lijtid til hañs Myskunar, þegar vier eigum Naunganum ad myskuna, og sumir ecki meira eñ þessi vondi Pioon! Annars væru ecki þeir so marger, sem Prisvar, Fioorum-Sinnum a hveriu Ari, lataft taka Kvittun Synda sinna i Skriftar-Stoolnum, eñ eru þo hard-svijrader, myskunarlauser, Heiptrækner, og vilia ecki hid allra minnsta uppgiefa af sijnum Rietti: Og þetta er nu so almennt, bædi i Skullda heimtum, og so i Uppgiof Misverkanna, ad þar uñ ma tala þad, er DRottenn seger, Jer. 2. J Losum Klæda þinna er fundid Blood hinna Voludu Salna, Blood hinna Saklausu: Ecki þarf eg ad grafast epter þessu, þvi þad er yfer allt, seger DRottenn. Þu seger: Hañ er ecke saklaus, hann hefur giort mier stoorum til: Eg sege; Jw, hann er Saklaus, þegar hañ vill þad ofgiort hafa; Þvi DRotteñ seger hia Lucam: Ef þinn Brooder syndgar a mooti þier, þa atel hañ, og ef hann ydrast, þa forlat honum: Villtu þa dyrfast ad kalla þann sekañ vid þig, sem Gud hefur skipad þier saklausann ad hallda? Þu seger: Hann hefur og i þvi Gudi a mooti brotid, ad hann vid mig afgiorde: Hvad kiemur þad vid þig? Sia til ad þu giorer þijna Skylldu, sem er ad fyrergiefa honum; Hver ert þu sem añarlegañ Pioon dæmer? Hañ stendr og fellur sijnum Herra; Lat þier ei verda þad sem Petri er lad, er hañ sagde: Hvad skal þesse? Gief þijna Sok epter, lat Gud rada hvad hann giorer af siñi; Enn þad er vijst, ad hañ tilgiefur honum hana, nær hañ ydrast, þvi er þad Skomm fyrer þig, ad apturhallda þiñi, og nær gaf hañ þier Umbod til ad krefia Skulldar sinnar, nema þu siert Yfirvalld, og eiger Guds Riett ad sækia? Eñ þar uñ giora Meñ sier ecki so ant a Stundum, helldur lata sinn fyrirganga, jafnvel þoott ad slijkt ætti ad ganga þvert a mooti þvi sem þad almennilega tilgeingur, þvi DRottinn hefur sagt: Blessed þeim sem ydur bolva, enn ecki; Þeim sem bolva mier, og muñ eingiñ ofunda þig af þvi, ad fara til Helvijtis med þa Hefnd er þu stalst fra Gudi. Þu seger: Gud gietur tekid siñ Riett nær hann vill, eñ eg ecke, eg vil taka medañ eg giet. Þu Vitfyrringur! Af þvi ad þu ert Vesæll og Vanmattugur, villtu þa hafa stærri Riett enn hinn Almattuge? Enn þad er þier ecki ofgott ad taka þiñ Riett, þar sem Gud slepper sijnum; þu sier hverninn þad gieck hinum vonda Pioon, ad Herrañ ofurselldi Hann Kvolurunum, Þar Til Hann Hafde Borgad Þad Hañ Var Skylldugur: Enn Frelsarenn seger hier i Textanum: So Mun Og Minn Himneskur Fader Giora Vid Ydur, Ef Ad Hver Ydar Sem Einn Fyrergiefur Ecki Ut Af Hiarta Sijnum Broodur Hanns Misgiorder. DRotteñ seger: Hanns Misgiorder, hann tekur einga undann, allar vill hann tilgiefnar sieu, sama seger hann Bak vid DRottiñlega

Bæn,

Bæn, Matth: 6. Þar bidium vier, Ad Gud Fyrergiefi Oss Vorar Skullder, So Sem Vier Fyrergiefum Vorum Skulldu-Nautum. Vilium vier þa ad Gud forlæti oss ad nockru Leite, og ecki ad ollu? Ei mun þad rædlegt, þvi hin minsta Synd vinnur til eilijfrar Fordæmingar, nema hun sie uppgiefinn og forlijkud, þvi sa sem helldur allt Lögmæled, og verdur brotlegur i Einu, hann er sekur vid oll, seger Jacob: Nu forlæt-ur Gud oss eins og vier Næunganum forlæatum; Þar fyrer, ef vier vilium ad hann til-giefe oss allar vorar Synder, þa fyrergiefum vorum Broodur allar sijnar. Hann gaf Honum Upp Alla Skulldina, seger i Textanum: So eigum vier ad breita; Allt eigum vier ad uppgiefa, hveriu Nafni sem heiter, hversu rijkt sem þad liggur oss i Skapi, hv-ern Skada, Ovirding edur Vansa sem vier hloted hofum, þad mæ ei gyllda, þad skal allt uppgiefa fyrer Guds Saker; Og mun þad eingum þeim Ofgolldid þykia, sem Id-uglega hugleider, hvad mikid honum sialfum sie af Gudi uppgiefid. Og hvad vardar mig um Ovirding þessa skynlausa Heims, þegar eg liooma eins og Sool i Rijki mijns Fodur? Hier mun margur spyria: Hvert hann sie skylldugur ad uppgiefa lænad Fie og Skullder, sem hann æ ad odrum? Þar til svara eg, ad ecki talar DRottinn um Fiær-Heimtur i þessum Stad, helldur brwkar hann þetta Dæmi i Eptirlijkingunni, til ad sij-na oss Skylldu vora, i þvi, ad uppgiefa Misgiordernar: Enn þo vil eg þar um segia: Ad ef þinn Skulldu-Nautur er so Vesæll, ad hann ecki mæ missa þad, sem hann æ þier ad giallda, nema hann þar fyrer rate i Armood og Volæde, þa byriar þier ad hafa Þol-innmædi vid hann, og jafnvel giefa honum upp alla Skulldina, ef hann mæ ei annars li-fa, enn þier er fullborgid, ellegar ertu sekur i hanns Dauda fyrer Gudi, þvi hann er þa Þurfa-Madur, enn Gud hefur feinged honum sinn Riett til þess, sem þu hefur Ofmiked. Aptur munu Menn spyria: Hvert ei sie Riettvijst fyrir Gudi, ad sækia Riett sinn fyrer christilegu Yfervallde, æ moote þeim sem oss hafa tilgiort? Þar til liggur Svar; Ad þad leyfist, ad vijsu, ef Madur nær ei Rietti sijnum æ annan Veg, ella væru ei Logenn og Yfirvalldid af Gudi tilskickad; Verolldinn gietur og ecki æn þess verid, sokum Rængs-leitnis Ohlutvandra Manna; Þo skal þad med slijkri Vareygd giora, ad ei raskest Chri-stilegur Kiærleiki, og ad Sækiandenn ecki hatest vid þann, sem hann Varhent æ, nie hverigur vid annann, ei helldur hlaupe til Doomarans fyrer Smæ-Mune hveria, allei-na fyrer Metnadar Saker: Enn fyrer þvi, ad Medal-Hoofed er vandratad i þessu, þa er framvegis verdt ad vita, hverninn vier eigum ad fyrergiefa. Og er þad fyrst ad at-huga, ad þeir ed oss mooti giora, eru med Tvennu Moote: Þar eru þeir sem giora oss til, og ydrast þess ecke, þyker vænt um þad, hroosa sier þar af, edr bidia Forlæts til ad gabba oss, ad ei verdi þeir afhendter Doomaranum, enn hafa þo hid sama i Sinni, og I-treka þad nær þeim rædur so vid ad horfa; Þessum eigum vier þo ad fyrergiefa med þvi Moo-te, ad vier ei olum neina Heipt til þeirra, jafnvel þoott vier neydunst til ad forsvara vort Nafn og Rikte, vora Vine og Vanda-Menn, vorar Eigur og Fiær-Hlute, sem annars mundu verda O-Rædvondum Monnum ad Bræd, ad vier þo ecki glediunst yfer O-

forum þeirra, helldur bidium Gud ad snwa þeim; So seger Salomon: Þegar Ovinur þinn fellur, þa gled st ecki, og nær hann hrapar, þa fagni ei Hiarta þitt, ad þad ei sijnist Illt i Augum D Rottinns, og hann snwi fra honum Reidinni a þig, Ordsk. 24. Ecki Oskum þeim neinnar Hefndar af Moñum, nema þeirrar, sem Log leisa oss, og þo ecki Oska hennar frekari eñ Tilgiordiñ er, eñ þo miklu sijdur, ad beidast Guds Hefndar yfir þeim, allra sijst eilijfs Straffs; Þad er ein Ogudleg Osk, sa ed þess bidur, hann bidur um slijka Hefnd, sem Gud alleina hefur Riett til, og er Afgudadijrkare, hvad þo margt Foolk giorir i Offstæki Brædi sinnar; Helldur eigum vier og þessum ad fyrirgiefa, eñ giefa Gudi Hefndina, og jafnvel þott vier gaungum ad þvi vijsu, ad þeir muni leita a oss aptur: So giorer Gud; Hann liet Pharao standa þegar hann beiddist Fridar, þott hann visse ad ei mundi hann sleppa Israel; Hann fyrergaf Achab þa hañ klæddist i Seck, 1. Kong. B. 21. Visse hañ þo, ad sw Ydran mundi ei leingi vara: Eñ Frelsariñ hefur skipad oss: Verid Myskunsamer, lijka so sem ydar Fadir er Myskunsamur: og ecki talar D Rottiñ um þad vid Petur, er hañ skipadi honum ad tilgiefa sijnum Broodur Siotiju Siñum Siosiñum, Matth. 18. Hvert ad hinn Seki ydradist siñar Mootgiordar edur ei. Adrer eru þeir, sem wt af Hiarta ydrast Misgiordaña, vilia þad giarna bæta, er þeir brotid hafa, og sijna þad i Verkunum, er þeir jata med Muñinum, þa eigum vier aptur i fulla Satt ad taka, so sem ecki hefdi a milli borid: So giorir D Rottinn fyrir Munn Zachariæ; Eg skal Myskuna þeim, og þeir skulu vera so sem alldrei hefdi eg þeim i burtu kastad: Og hier meina eg ad eigi heima sa Skilmali, er stendur Lucæ 17. Og jafnvel þo soddann optlega tilbere; þvi so giorer Gud vid oss, einginn af oss mun neita þvi, ad vier daglega syndgunst, og vinnum ei nema til Hegningar, og þo er hanns Naad Fersk og Nij yfir oss a hverium Morgne, og alldrei hefur hann nockurn Ydrandi fra sier rekid, hversu opt sem hann syndgad hefur. Ef vier nu vilium þessarar Myskunar niota, þa audsijnum hana og vorum Brædrum, añars hofum vier einga Hlutdeild i henni, og þær Synder, sem oss voru adur tilgiefnar, þær munu oss ad nyu tilreiknadar verda, eins og þessum vonda Þioon, þvi Myskunarlaus Doomur mun yfir þann ganga, sem ecki Myskun sijnir, seger Jacob, Cap. 2. Og er þad einn stoor Varaskapur, ad lata Heiptina so fyrir sig rada, ad Guds Blood og hañs Naad snwist þeim til Fordæmingar, er þañig breyter. Og ad Meñ gangi wr Skugga um þad, ad vier skyllduger sieum ad tilgiefa vorum Broodur, hversu opt sem hañ syndgar, þa bijdur hañ, Lucæ 17. ad honum skuli Siosiñum a Degi fyrirgiefast, ef hañ Siosiñum ydrast, lijklegt er, ad eingiñ muni optar brioota a Degi, og þo so opt ydrast: Enn hvernig sem þvi er varid, þa merkir þetta, so opt sem hañ brijtur, eptir Ordshætti Ritningarinnar: Hinn Riettlati fellur Siosiñum a Dege, seger Salomon, Ordsk. 24. Siosiñum a Degi losa eg þig, seger David, Ps. 119. Ef þier heyred mier ecki, þa skal eg straffa ydur Siofalldt, seger D Rotteñ, 3. M. B. 26. Þad er Æfiñlega, so leingi þier ecki heyrid: Þad verdur og ad vera, þvi sa sem vill vænta Fyrergiefn-

giefningar Synda sina allt fram under Daudann, hann skal og hvern Dag fyrergiefa allt i Daudann, nær honum giefst þar Ordsøk til, og þad af Hiarta, segier DRottinn hier i Gudspiallinu, an Yfirdrepskapar, an Moglunar, Bryxlis og Eptirtalna: So giorer Gud; Hann giefur øllum einlæglega, og telur ei eptir, segier Jacob, Cap. 1. Þad er ei noog, ad Men umgangist i Meinleysi, en geyma þo einn Mordingia i Hiartanu, og kyssa a þa Hondina, er Menn giarna villdu ad af væri; Soddann Fyrirgiefning er Hræsni fyrer Gudi. Herrann sa aumur a þeim Þioon, segier Textin: Hann komst vid i Hiartanu, ad sia Eymd hanns, er i Þrældoom ganga atti, med Konu og Børnum, fyrrtur øllu sijnu: So stendur optlega um vorn Frelsara, nær hann sa eitthvad aumt, ad hanns Ydur hafi hrærst af Medaumkan; So vill hann ad vier lynder sieum moote þeim, sem oss tilgiora, og ydrast þess. Þad er vel tilfunded i voru Maali, ad sia aumur a einum; Sa þad giorir, han kienner i Briooste um þann sem hann myskunar, hann tekur sier nockud, hann ber nockud af hans Eymd, og verdur sialfur aumur med sialfum sier, og þad kannskie ecki sijst þess vegna, ad hann veit, ad hann hefur slijkt forþienad, og er slijku Volæde underorpenn, ef Gud vill. Han sem tilgiefur af Hiarta, han alijtur hvad mikid han sie Gude skylldugur, og hvad bradlega han kynne þvilijkt ad henda. J klædest Hiartgrooine Myskunsemi, segier Paulus, ecki þeirre sem er a Vørunum, og seger: Eted og drecked, Klædest og vermed ydur, en giefur eckert hinum Þurfanda; Ei helldr hine, er seger: Eg vil tilgiefa honum; en gleymer þvi þo alldrei, er honum var tilgiort: Helldur þeirre sem hefur diwpar Rætur i Þelalausu Hiarta, elskar Ovini sijna, blessar þa ed bølva, bidur fyrer þeim sem Ossækia, og giorer gott þeim ed misgiora; Og er eckert Skaplynde farsælla en þetta, eckert Roosamlegra, og eckert sem betur Hag sijnum uni; Þvi so sem ad hinn Heiptræke hefur enga Roo, hanns Matur og Dryckur er honum swr og beiskur, þegar Foolskann leggur wt i hvern hanns Liin og Lid, og honum flijgur Mootgiordenn i Hug; So ma og um hinn segia, er foottredur Oriettenn, þad sem David sijngur, Ps. 119. Mikinn Frid hafa þeir, sem elska þitt Logmaal, og þeim mæter eckert Hneixli: Þvi a medal þeirra hellstu Bodorda i Logmaalinu er, ad tilgiefa Misgiordernar, og þeir hneixlast ecki af Oriettinum, sem forsmaa Oriettinn; Þar fyrir vered bradlega samþyckir ydar Mootstodu-Monnum, christner Menn, a medann þier erud enn þa a Veige med þeim, so ecki Ofurselie Mootstodu-Madurenn ydur Doomaranum, Doomarin afhende ydur Kvalaranum, og þier verded so i Ybliffu kastader. Hvar fra hinn naadugi Gud vardveite øll sijn Børn i JEsu Nafne, og giefi øllum oss so ad umgangast hver vid anann hier i Naadene, ad vier i eilijfum Kiærleika meigum samfagna hver ødrum i Dijrdene. Þad bænheyre hinn naaduge Gud, fyrer Sonarins Forþienustu, Amen.

# A Allra Heilagra Messu.

Gudspialled, Matth. 5. Cap.

OG er JEsus leit Foolkid, gieck hañ uppa Fialled. Og þa hañ sette sig nidur, geingu hañs Lærisveinar til hañs. Og hañ lauk upp sijnum Munne, kiende þeim og sagde: Sæler eru þeir sem Andlega eru Volader, þviad þeirra er Himnarijkid. Sæler eru þeir sem Harma, þviad þeir munu Huggader verda. Sæler eru Hoogværer, þviad þeir munu Jardrijkid erfa. Sæler eru þeir, sem Hwngra og Þyrsta epter Riettlætinu, þviad þeir skulu Sadder verda. Sæler eru Myskunsamir, þviad þeir munu Myskun hlioota. Sæler eru Hrein-Hiartader, þviad þeir munu Gud sia. Sæler eru þeir sem Frideñ semia, þviad þeir munu Guds Born kallader verda. Sæler eru þeir, sem fyrer Riettlætesins Saker Ofsookter verda, þviad þeirra er Himnarijke. Sæler erud þier, nær sem Meñerner Hallmæla ydur og Ofsookn veita, og tala i giegn ydur alla Vondsku, fyrer mijnar Saker, þo Liwgande. Fagned þier og vered glader, þviad ydvart Verdkaup er mikid a Himnum. Þviad so ofsooktu þeir Spaameñena, þa sem fyrir ydur voru.

## Exordium.

SO er margt Siñed sem Madureñ er, seger i Gømlum Maals-Hætte. Faaer eru þeir Hluter, sem aller Gooda kalla, enn i þvi kiemur øllum samann, ad þad sie gott ad vera Sæll, og vanta ecki uppa þad þeir gyrnast; Þo meta ecki aller Sæluna med einu Auga: Þad sem Paulus hiellt Þreck ad vera, þad kalla adrer Full-Sælu. Þad er skrifad um̃ Anaxagoram Speking, ad Sæikiere nockur hafe spurt hann ad einhveriu Sinne, hver ad farsæll være? Og hafe hañ svarad: Engeñ Af Þeim, Sem Þu Meinar, Helldur Saa, Ed Þu Kallar VEsælann Ad Vera, Hann Er SÆll. Og hid sama er ad segia um̃ Børn Veralldar þessarar: Þad sem þau Sælu kalla, þad er reindar Volæde, ef riett er aalited. Þesse Haatijdes Dagur er af Lærefedrum christilegrar Kyrkiu i Fyrndenne helgadur øllum Heiløgum, þad er, øllum þeim, sem hafa yfirunned fyrer Lambsins Blood, eñ þo sier i Lage þeim, sem i giegnum margar Hørmungar, Utlegd, Ørbyrgd, Hwdstrokur, Forsmaan, Hwngur, Klædleyse, Lijflaat, og allt þad Illt, er þeir lidu fyrer Christi Nafns Skulld, þeim sem i giegnum øll þesse Oskøp, segie eg, hafa brotist iñ i sijns HErra Dijrd, og þa nefner hann nu Sæla i Gudspiallenu, sem er Brunnur allrar Sælu, og fyrer utann hvern engeñ Sæla maa nefnast, þvi hann er Gud alleina Sæll, og þeir sem i hønum eru, alleina Sæler, og engenn Sæll fyrer utann þa. DRottenn hafde nærri þvi i haalft Aar predikad Evangelium Rijkesins, i hveriu þeim verdur Sælañ heiteñ, er þvi trwa: Hann hafde aadur sagt, ad hver sem tryde a Soninn, hann skyllde ei fyrerfarast,

helldur hafa eilijft Lijf, Joh. 3. Ad sǽ sem drycki af þvi Vatni, er hann munde giefa hø- num, skyllde ecki þyrsta ad eilijfu, Joh. 4. Og fleira þess Hꜳttar hafde hann talad um̃ Guds Rijkis Sælu. Enn so sem ad Kvinnann, er talade vid hañ hiꜳ Jacobs Brun- nne i Samaria, hun skilde ecki hvad hann meinte, þar hun sagde: HErra, gief mier þet- ta Vatn, ad ei þyrste mig, og ei þurfe eg ad koma hijngad til ad ausa Vatn; So hafa og flester af hanns Tilheyrendum vered Ofrooder um̃ þessa Guds Giof, sierdeilis þar ed Logmꜳlsins Fyrerheit, vid hver þeir voru uppalder, þau voru annadhvert lijkamleg, edur vafinn i Hylmingu lijkamlegra Hluta. Fiolde Manns took vel þessum Bodskap i Fyrstuñe, enn þegar til Leingdar liek vid, og þesse Fyrerheit ecki komu so brꜳdlega fram, þa hefur Foolked geinged i Tvær Sveiter, so sem rꜳda mꜳ af Joh. Gudspialla-Book- ar Siotta og Siounda Capitulum: Og jafnvel hafa runned Tvær Grijmur ꜳ sialfa Læresveinana, þoott ad bæde þeir og adrer sæu Krapta-Verkinn, er hann giorde ꜳ þeim Siwku i Galilæa, Matth. 4. Enn til þess, ad undervijsa bæde þeim og ødrum i sinne Rijkis-Stioorn, þa tekur hann þa hier afsijdis frꜳ ødrum uppꜳ Fialled, og talar fyrer þeim Eyrinde Rijkesins, i hinne merkelegu Predikun, er ritud stendur i Matth. 5. 6. og 7. Capitulum: Hverrar Inngꜳngur ad er þetta Heilaga Gudspi- all, af hveriu vier i þetta Siñ hugleida vilium hina Fyrstu SÆlu, og Tvennt þar af oss fyrer Hendur taka: 1. Hversu ad Fꜳtækteñ sie Gagnleg. 2. Hveriu þeim heited sie, sem eru Andlega Volader. Enn þu sem ert alleina Rijkur, styrk þu oss Fꜳtæka og Auma til þessa Verks, so vier verdum i Gude Rijker, fyrer JESUM Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

Sæler Eru Andlega Volader, segier DRotteñ: Eg veit, ad Meñ greinast ꜳ þar um̃, hvad þetta Ord Volader merke i þessum Stad. Bæde Augustinus og Chry sostomus hallda, ad þad sieu þeir, ed afneita øllum sijnum Verdugleik, og kalla sig alls goods Overduga, eñ einkis ills; Og kañ eg þvi ecki ad neita, ad su Meining fie og foolgeñ i þessu Orde, þvi so eiga aller christner lynder ad vera, hvert helldur Rijker eda Fꜳtæker eru, samt hygg eg þo, ad Lausnareñ meine sier i Lage þa, sem eru snauder af Ver- alldar Munum edur Virdingum, þviad so mun þeim flestum hafa hꜳttad vered, er hon- um i þad Siñ epterfylgdu: Þad mꜳ siꜳ af þvi, er Kiennemeñerner og Pharisæi sogdu Fordum, Joh. 7. Trwer nockur af Høfdingiunum ꜳ hann, edur af Pharisæis? Eñ þesse Almwge, sem ecki kann Logmꜳlid, er bølvadur. Og þar ad auke skrifar Lucas alleina i sijnu Evangelio; Sæler eru Fꜳtæker: Og er hann vijkur Rædu DRott- enns til hinna, sem Vesæler eru ad Guds Doome; Þa segier hann, Luc. 6. Vei yd- ur Audugum, þvi þier hafed ydar Huggun medteked: Þa kalla eg þad vijst, ad Drott- enn meinte i þessum Stad, þa sem ei hafa miklu Veralldar Lꜳne ad fagna, ecke alleina þa, sem Orbyrger eru, helldur og þa, sem ꜳ einhvern Hꜳtt eiga vid bꜳgann Kost ad bwa, þvi ad þvilijkra er Guds Rijke, segier Lausnarenn: Þad eru þeir, sem eru eins illa

stadder og Dreigar, og þo ecki þa alla helldur, þvi margur er Fatækur, og skickar sier illa i sinne Fatækt, er Oþolinnmoodur, hleipur med Þioofnum til ad stela, viñur alla Ohæfu fyrer Sulltardoom, til ad rydia af sier Fatækteñe, sem i sialfre sier er eiñ heilagur Hlutur, þvi Guds Sonur hefur hana helgad med sijnu Dæmi, þegar hann giordest fatækur vegna vor, þar hañ var þo rijkur, so vier af hañs Fatækt Rijker yrdum, segier Postulinn, 2. Cor. 8. Þar fyrer utann er hun Straff Syndarinnar, og a einga Hlutdeilld i þessu Fyrerheite: So eru marger af þessum Hwsgangs Herrum, er ganga a medal vor, og leita sier Olmusu i Guds Nafne, enn gialldа Bolvan fyrer Blessan, nær þeir ecke hafa wr hvers Manns Hende þad þeir vilia: Fraskiled er þetta Illþijde slijkri Naad; Gud myskunar sijnum fatækum, segier Esaias, Cap. 49. Enn ecke Andskotans; Þeir verda ad hafa slijka Myskun, er hann vill veita, sem þeir liast til Þioofnustu, ad vellta af sier Christi Oki a moote hanns Logmaale, er skipad hefur, ad sa skuli ecki eta, sem ei vill erfida, 2. Thess. 3. Enn Matthæus segier oss hier i Gudspiallenu, hverier þeir sieu er þesse Sæla tilheyre, þar hañ leggur til þetta Ord, andlega (segir hñ): Þad eru þeir, sem ecki orvænta i Volædinu, ecki eru Oþolinnmooder, helldur eru til Frids i Hormungunum, i Ossooknunum, i Angistinne, i Naudunum, eins og Paulus, þeir ed ecki grijpa til Oleifilegra Medala, og ecki ofunda þa, er hafa Velgeingne Heimsþessa, helldur audmijkia sig under Volduga Guds Hond i Mootgangenum, og segia jafnañ: Verde þinn Vilie: Þesser hroosa sier i sinne Fatækt, so sem Jacob ad Orde kiemst: Og þad eru þeir, ed David kallar Guds Volada Ps. 72. Þetta er su Fatækt, er eg meina ad ecki alltijd gagne til Himnarijkis. Margt ber til þess, christner Menn, ef vier þad vilium riett athuga: Þad er oss vitanlegt, ad vier dugum ecki til þess, ad giora Tvennt i einu; Munum vier þa under eins fa þioonad Gude og Mamona? Og er þa hætt vid þvi, ad ef annannhvern skal yfirgiefa, ad þeim sem Skwrgod þetta fagurt þyker, þeir mune segia laust vid Gud, hvern þeir sia ecki, enn þijdast Mamona, hver ed glansar i Augunum, so ad margann hender þvilijkt og Gydinga Fordum, vid hveria DRottenn segier, Esa. 22. Þier giored Farveg a mille Tveggia Mwranna, fyrer Vatne hins gamla Fiski-Dijkisins, enn þier lijted ecki a þann, sem þad skapad og mindad hefur; Enn sa sem ekert a i Heiminum, hann hefur miklu betre Ordsok og Tækifære til þess, ad verda Rijkur i Gude, og fyrst hañ þenkir ecki a Jardneskañ Aud, þa skal hann alldrei draga hann fra þeim Himneska. Sa sem miklum Aude safnad hefur, hann liggur a sijnum Dreggium eins og Moab, Jer. 48. Hann hefur sijna Umgengne a Jordunne; þar sem hanns Fiesioodur er, þar er hanns Hiarta; Eñ Dreigeñ þarf ecki ad geima vandlega þad sem ekert er, hañs Umgeingne er a Himnum, hvadañ hañ vænter Frelsarans DRottenns JEsu Christi, ef hañ er añars Andlega Voladur, hañ kieppest vid ad safna sier Fiesiood a Himnum. Þar eru og kañskie fæer sem hafa Riettfeingeñ Aud i Heiminum, þvi heiter hann og Ranglætis Mamona: Enn a þessare Audlegd, sem i Himninum er, eiga aller Kost ad saklausu, Gaungu-Madurenn

so

so vel sem Konungurinn, Blindum, Holltum og Lomudum er þar tilboded, þeir kaupa fyrer alls eckert, sem hann eignast, og hversu ad þeir sieu hæfari til ad naa þessari Audlegd, sem ei hafa mikid eptir ad draga, þad kiennir oss Frelsarinn, er hann seger, ad hægra sie Ulfalldanum ad gaanga i giegnum Naalar-Augad, enn Rijkum Manni inn i Himnarijki; Eg vil ei þar umm tala, ad Rijkdoomurinn aflast med Erfide, geymist med Ahyggiu, og missest med Sorg, ef missast skal, enn sw Sorg er sialldann aan Syndar; Morgum hefur hun steypt i Orvænting, og dreigid til ad bæta Raad sitt aptur med Raangindum, og ad vijsu eru flestir Ophollinnmooder yfir Skadanum: Faaer eru eins Lynder og Job, er hann sagde: Gud gaf og Gud aftook, sie Nafn DROttins blessad, Job. 1. Enn saa griet alldrei fyrer Gull, sem ecki aatti þad, hann sem er sannur Guds Vesælingur, hann er sem andlega Voladur; Þoott hann misse þann Faatækdoom, er hann brwkar til Dags og Nætur, þa hefur hann eckert af sinni Audlegd mist, þvi hun er i Himninum, hun skiemmist ecki, segir Petur, hana skal einginn fraa honum taka, og þoott hann kylldi i Hwngri og Klædleysi wt af deya, þa flijtir þad honum alleina til Rijkis. Þad er skrifad umm Alexander hinn Stoora, hann fræga Konung, ad þegar Lid hanns var allt Osþwngbwed orded af Herfaange, so honum þootte lijted framgeingt verda, þa brende hann upp Faung þeirra, og huggade þaa med þvi, ad þeir mundi safna Ogrinne Fiaar, ef þeir liettu þessu af sier, enn sæktu med Flijti til þeirra Landa, sem være audug af Gulli og Silfri. Megi eg nu samann taka þad sem sundurleitast er, þa sijnist mier, ad hinn Alvijse Konungur giori vidlijkt med Faatæktinni vid sijna Volada, þvi nær þeir hafa orvænt sier Veralldlegs Auds, þa kieppast þeir epter þeim Himneska, þegar þeir ætlast til einkis Lids af Monnum, þvi faaer eru Viner hinns Snauda, Ordsk. 19. þa leita þeir Lids hiaa DROttne, og nær hann hefur, so sem i Spegle, laatid þaa siaa Dijrd sijns Rijkis midt i Orbyrgdinni, þa giora þeir Skoll ad ollu Oflæti Heimsins, og er þvi Avoxtur Faatæktarinnar þesse, ad hun gyrnist ei meir enn hun hefur, og er hun þa rijkari helldur enn Salomon edur Assverus; Jaa, hun gyrnest eckert nema sinn Gud, og hann stendur hinum Faatæka alltijd til Boda: Enn saa er Agiarn, sem vill eiga meira enn Himins og Jardar Skapara. Aller vitum vier þad, ad vier baarum eckert inn i Heiminn, og eins vel, ad eckert munum vier i burtu bera, jafnvel þoott sijnast meigi, ad nockrir þad ecki satt halldi, annars mundu Menn leggia meire Huga aa, ad lifa vel, enn verda rijker, og velldur þad þvi, ad Hiartad er so diwpt nidur sockid i Maurana, ad sumir giæta þar ecki ad, fyrr enn Daudinn grefur þa upp, til ad leggiast i eina adra Grof; Þeir gleyma þvi, ad Nakter komu þeir af Lijfi Moodur sinnar, og so munu þeir þangad aptur fara, Job. 1. Þad er ofann i Jordina, sem er allra Mooder. Þar er eingenn kiendur, sem hann kiemur ecki, fyrer þeim Volada; Hann aa ecki vid mikinn Heim ad skiliast; Þvi skal þad ecki draga hann fraa Himnarijki, og sw Audlegd, er hann aatti i Gudi i þessum Heimi, og ecki var nema Pantur eptirkomandi Farsælldar, hun fullkomnast, nær hann inngeingur i Dijrd sijns Herra, og rætist aa honum þad, er Syrach skrifar: O! Daudi,

Hver

Hversu goodur er þã Doomur hinum Fatæka? Vier vitum hversu ad hin liootu Skrymsle, er Syndenn og Diofulleñ hafa fært inn i Verolldina, Agyrne, Ofund, Ofrijki, Drambseme, Ohoof og Ranglæte, hversu, sege eg, ad þad sie gagnstædt Himnarijke, enn allt þetta vill hanga vid Rijkdoominn. Sa skal vel giæta sijn, er ecki hefur neinn Snert af þessu, ef hañ Rijkur er; Þar fyrer seger Paulus: Ad þeir sem vilia Rijker verda, þeir falle i Diofulsins Snorur; Enn Fatæktenne er eingannveginn so hætt vid slijku, og ad vijsu ecki þeim, sem er andlega voladur, þvi hann er nær Himnarijke, eñ hiñ, nema sa Rijki castundi ad vera i Gudi rijkur, og i goodum Verkum: Og ad vijsu hefur Christur lagt Grundvoll sinnar Kyrkiu i Fyrstunni af hinum Fatæku; Þad kieña oss þesse Frelsarans Ord, er i Gudspiallinu standa; Og med sama Hætte hefur þesse Bygging rised epter hanns Himna-For; Þad auglijste Paulus, er hañ skrifar til Corinthios, Cap. 1. Siaed ydar Kollun, Brædur, ad þier erud ecki marger Vollduger, ecki marger Gofuger; Þad kienner oss Jacob Postule, hver ed var a Lijf: Þriatiju Arum eptir þad DRottenn var inngenginn i sijna Dijrd, segiande, Cap. 2. Hefur ecki DRottenn utvaled hina Fatæku i Heimi þessum, Rijka i Trwnne, og Erfingia þess Rijkis er hañ ætlad hefur þeim sem hañ elska. Þessa Alvijsa Byggingarlags hefur margur Audugur sijdañ notid, þvi er þad Synd fyrer oss, ad forsma Guds Volada; Enn fáer voru þeir af Rijkismoñum, er gengu DRottne til Handa, medann hañ umgieckst i Holldinu; Eg ætla þegar Menn taka Zachariam og hanns Hws., Nicodemum, Joseph af Arimathia, Johannam Hws-Frw Chusæ, þegar Menn taka þessa burt, þa mune hiner teliande, sem skipudust vid hanns Kienningar af Hofdingiunum, utann þeir sem Neydinn droo til, so sem voru Jairus, Konungs-Madurenn, og Hundrads-Hofdingenn, og eru þeir þa i Selskap med Fatækum, so sem adur er sagt.

Hier af alykta eg nu so, ad eins og einn vijs For-Smidur, hann velur hid besta Efne til þeirrar Byggingar, er hann ætlar sier vel ad vanda; So hefur og Frelsarenn breytt i þessare sinni Kyrkiugiord, hann hefur valed þad i Underbygginguna, er hann sa ad hentugast var, þad voru hañs Fatæker; So var hañ sialfur, sem var Hyrningarsteinuñ i þessu mikla Forvirke; So voru hin sterkustu Mattar-Trie þar i, sem voru hañs Postular, uppa hveria vier bygder erum; So voru þeirra Epterkomendur fram eptir Olldunum, þar til Diofulleñ spillte þessu Guds Verke med Agyrndenne, Ofundeñe, og Drambsemeñe, so sem lioost er af Christiñdooms-Sogunum. Og sia Menn af þessu, medal annarra, hversu ad Fatæktenn og Guds Rijki eiga vel saman; Eñ þo ad Rijki DRottinns JEsu hefdi sijn Upptok hier a Jordunne, sem var af Umkomuliclum Fiskurum, Olærdum og einkis megnande, þoott þad eflst hafe fyrer utañ allt Ofbellde, Harreyste og Vopnaburd, þvi eingiñn heyrdi hañs Raust a Strætunum, og hañs Rijke var ecke af þessum Heime, ei helldur Vopn hanns Herfarar Lijkamleg, hvers Strijds-Menn ad hofdu Twnguna fyrer Veriu, Þolinmædina fyrer Atvinnu, Trwna fyrer Skiolld, Kiærleikann fyrer Vijge, Fatæktina, Ja, Sialfviliuga Fatækt a

Stund-

Stundum, i Stadeñ Gulls og Silfurs, er Heimurinn kallar Afl þeirra Hluta, sem hañ vill láta Framgáng hafa; Samt hefur þo eingiñ af Veralldar Hosdingium so vijdt wtþanid sitt Velldi uṁ Heiminn, so sem hann, þvi Gud hefur giefid honum Endimork Veralldarinnar til Arfleifdar, so þad er ad fullu og ollu rætt, sem Esaias fyrer-spáer, Cap. 2. Þad skal skie á Sijdurstu Dogum, ad nær þad Fialled Guds Hwss er sett uppá adra Fialla Tinda, og upphafid yfir Háalsana, ad allar Þioder skulu þángad samann safnast. Hvert er þad Fialled? Þad er Christi Rijki: Hvert er þad Hwsed? Þad er hanns Kyrkia; Hver eru þau Fiollinn? Þad eru Rijke Veralldarennar uṁ Heiminn: Já, Enginn hefur so sliootañ, so frægann Sigur unnid, sem vor Konungur, og þo med fáum og fátækum Monnum; Hann lagdi undir sig meira Rijke med Toolf Postulum á stuttum Tijma, eñ Alexander hiñ Stoori á Toolf Arum med ollum Gricklands Her. Einn Madur, St. Páll, hroosar þvi, ad hann hafi allt i frá Jerusalem iñ til Illyricum uppfyllt allt med Evangelium; So þad er sañkvedet, er Esaias skrifar: Mun Jordinn fæda á einum Dege? Mun ein Þiood gietinn verda i Einu? Þar Zion geingur under eins þwngud med Born sijn og fæder þau, Esa. 66. So hefur nu hinum Stoora Allsheriar Konunge þocknast ad byggia sitt Rijki med Fátæktinni, þvi skylldu þá ecki Þegnar hanns kalla hana ollum Rijkdoome rijkare? Þar hann er alleina Rijkur, sem þad hefur wtvalid, sem audvirdilegt er fyrir Heiminum. Enn Gud nádi oss Auma! Þad er hinn allra mesti Skadi vor, ad þoott vier berum oss ad þioona Gudi, þa haungum vier so fast vid Audinn og Aura Safnid, ad Meñ gleyma Guds Bodordum, og stijga fraṁ yfer þau Takmork, er hañ hefur sett oss. So erum vier freker til Fiárins! Eñ hvad er þad, christner Meñ? Þad er ad færa Foorner i Jerusalems Mustere, eñ offra þo samt á Hædunum; Þad er ad sveria vid Nafn DRottiñs, og þo undir eins vid Malcom, eins og Juda. Heyrum þvi Ord DRottins af Muñi Jeremiæ: Ef þu ætlar ad snwa þier aptur til mijn, Israel, þa snw þier, og reika ecki hijngad og þángad. Eingañvegiñ er þad hier med sagt, ad Meñ skuli kasta frá sier allre Uṁhyggiu fyrer Lijkamanum; Alla Hluti hefur Gud Mannunum undir Fætur lagt, til þess hefur hann giort Náatturuna so rijka, ad Manneskiañ skylldi audgast þar af; Eckert hefur hann forgiefins skapad, helldur Mañkyninu til Nota, eñ sier til Lofs og Dijrdar: Enn hitt segi eg, ad Menn láte Gud vera Herrann, enn Maṁon Þrælinn, Já, ad vier sieum Audsins Herrar, enn látum ecki hann drottna yfir oss, enn þo allra sijst, ad vier látum þenna þietta Leyr so klessast vid Hiarta vort, ad vier gleymum Gudi edur hanns Voludum. Og er þad nu so wt talad uṁ hid Fyrra.

Nu Epterfylger ad tala uṁ þad, sem hinum andlega Voludu heitid er. J Textanum stendur: Þviad þvilijkra er Himnarijke. Nu er Guds Rijki med Tvennu Moote: Eitt er hañs Náadar-Rijki, hvert og kallast Himnarijki, Matth. 18. Þar ed stendur: Himna-Rijke er lijkt einum Konunge, sem reiknast villde vid Þioona sijna. Añad er hanns Dijrdar-Rijki: Sá sem vill ná til þess Sijdara, hann skal endilega hafa

Hlutdeild i hinu fyrra, og einginn hefur sa komist i hanns Dijrdar-Rijki, sem ecki hafe ꜳdur verid i hanns Nꜳdar-Rijki; Sumer leingur, sumer skiemur: Þar eru nockrer kallader snemma Morguns, adrer ecki fyrr enn umm hina Elleftu Stund. Enn þad er vijst, ad hverutveggiu þessu lofar D Rottenn þeim, sem ad eru andlega Volader, og þeirra Lijkum.

Hver eru þa Giædinn i D Rottinns Nꜳdar-Rijki? Ecki Metord, ecki Audæfe, ecki Sællijfi i Mat og Dryck, ecki Hefnd yfer Ovinum sijnum, nie þad Hiartalag, er feste sig vid nockud af þessu, þoott þad megi þeim giefast, sem eru Christi Þegnar, þvi Guds Rijki er ecki Matur nie Dryckur, helldur Riettlæti, Fridur og Fognudur i heilogum Anda, seger Paulus, Rom. 14. Og wt af þessum hanns Ordum vil eg i stuttu Mꜳle segia, hver ad sien Audæfi Guds Nꜳdar-Rijkis: Þad er Riettlætid, ecki vort eigid, sem ecki er betra enn Nidlags Fat, þegar þad er sem kostulegast; Helldur JEsu Christi, hver oss er til Riettlætis af Gudi giefinn. Skyllde eg nu vilia taka nockurn Veralldar Aud fyrer þad, D Rottenn minn? Fyrer þad eru mier Synder mijnar tilgiefnar; Enn þegar þær eru kvittar, þa er eg rijkari i ollu mijnu Volædi, enn Salomon i allri sinni Dijrd; J þvi mꜳ eg byrtast fyrir Augliti þijns Fodur, enn ecki i Pelli og Purpura hinns rijka Sælgiætings, Luc. 16. Fyrer þad mun eg Guds Barn kalladur verda, enn ecke þo eg nefndur væri Doottur-Sonur Pharaonis. Hvad gagnar þad Manninum, þoott hann eignist allann Heim þenna, enn lijdi Topun ꜳ Sꜳlu sinni? Hverri eg veit ad borged er, medann eg ꜳ þann Fiesiood, sem hun er endurkeypt med. Þoott ad Sveinninn Conia væri Signets-Hrijngur ꜳ minni hægri Hendi, þa skyllda eg slijta hann þadann, seger D Rottenn umm Jeconiam, Son Jojachims Gydinga Konungs, Jerem. 22. Enn eg er þess fulloruggur, D Rottenn, ad þu ecki slijtur þijna Volada wr þijns Sonar Hondum, hvar þeir skrifader eru, þvi eru þeir ollu betur til þijns Rijkis borner, helldur enn Veralldarinnar Born, hversu sem þau mektug eru, þegar þau hafa hanns Riettlæti fyrir sig ad bera, þvi hann hefr giefid þm Makt til ad vera Guds Born, sem ꜳ hanns Nafn trwa, Joh. 1.

Af þessare Root Jesse sprettur Fridurinn, sem Paulus umgietur, þvi hann er Fridar-Hofdinge, Esa. 9. Og er þad nu sꜳ annar Rijkdoomur i Guds Nꜳdar-Rijki. J Rijkium Veralldarinnar er einginn Fridur: Þegar Menn taka Salomon og Augustum Keysara i burtu, þa skulu Menn ecki finna morg Dæmi til, ad Veralldar-Hofdingium hafi tekist lengi Fridi ad hallda, jafnvel þoott goodir og riettvijser verid hafe, og kynni þad skied ad vera, til ad teikna þar med Christi Rijki, i hveriu ad ꜳ Fridnum mun einginn Endir verda, Esa. 9. Þvi sꜳ eine þeirra var hanns Fyrermyndan; Enn ꜳ Dogum hinns var Lausnarinn i Heiminn fæddur: Enn i Christi Rijki geingur þad odruvijse til; Þar er ecki sꜳ Fridur, sem Verolldinn giefur, helldur hanns Fridur, sem hann oss giefid, sem hann oss eptirlꜳtid hefur, hvern einginn skal af oss taka. Hinn er Ogudlegu hafa eingann Frid, seger D Rottenn hiꜳ Esaiam, Cap. 48. Þeir tonnlast og tyggiast umm þetta Volæde, er þeir Rijkdoom kalla, eins og Gadd-Hestar umm illt Foodur. Enn Fridurinn i Christi Nꜳdar-Rijki er stadfastur, þoott hanns Underskꜳtar

ar hafe Piäning i Heiminum, þa hafa þeir Frid i honum, og eru fullorugger, þvi hañ hefur Heimenn sigrad: Þad er Fridur vid Samvitskuna, þvi Syndenn er afmääd med Guds Sonar Riettlæte: Fridur vid Gud, sem er fridstilltur fyrer hanns Blood: Fridur Innbyrdis, og Eindrægne i Andanum medal allra Guds Barna: Og, i einu Orde ad segia: Þad er sä Fridur Guds, sem ædre er øllum Skilninge, af hverium og kiemur Fognudureñ i heilogum Anda, sem er hin þridia Astgiof, sw ed Guds Voludum heitiñ er i Christi Näädar-Rijke: Þad er sä Fognudur, sem krossfester Manneñ Heimenum, og Heimeñ Mannenum, Gal. 6. Sä ed forsmäer alla Veralldarennar Glede, sä ed lætur Paul og Silam lofa Gud i Fängelsinu, Danielem gänga Ohræddann i Leona Grofinne, sä ed þvi til Vegar kiemur, ad Menn gräta so sem ei Grätande, og fagna so sem ei Fagnande, 1. Cor. 7. So sem hryggver, og þo jafnann glader, so sem Fätæker, enn þo marga Audgande, so sem eckert hafande, og eigande þo alla Hlute, eins og Paulus uñ sig skrifar, 2 Cor. 6. Þesse er Fognudureñ i heilogum Anda, sem rijker i Christi Rijke. Þegar Læresveinarner voru hryggver af þvi, ad Lausnarenn sagde þeim fyrer sijna Burtfor til Fodursins, þä sagde hann: Þier hafed nu ad sonnu Hryggd, enn eg skal siä ydur aptur, og ydvart Hiarta skal fagna, og ydvarn Fognud skal engenn af ydur taka. Ecke talade DRottenn i þad Sinn uñ hina eilijfu Himnarijkis Glede, helldur uñ þann Fognud, er þeim gafst af hanus Upprisu, hver so var mikell, ad þeir trwdu ecke þvi, ad hann Upprisinn være, fyrer Fagnadar Saker, enn þo allra hellst talar hann uñ Astgiafer Heilags Anda, er hann hafde lofad ad senda þeim af sijnum Fodur: Hann var sä ed til fulls uppriette Israels Rijki, þad er, Guds Rijki inne hiä oss, so þeir hofnudu øllum Hlutum, og reiknudu þa Þreck ad vera hiä DRottne sijnum JEsu Christo, og med þeim sama stioornar hann eñ nu sijnum Þegnum, þad er, øllum þeim, er ä hañs Nafn trwa; Hann er þad, sem ber Vitnisburd vorum Anda, ad vier sieum Guds Born, eñ ef vier Born erum, þa erum vier og Erfingiar, Jä, Erfingiar Guds og Samarfar Christi, uppä þad, ad ef vier med honum lijdum, þa skulum vier og med honum Dijrdleger verda, Rom. 8. Þesse Guds Ande er Pantur Arfleifdar vorrar, Eph. 1. Þeirrar sem þar uppi er og ei mä skiemast, eige saurgast og ei rotna, so sem Petur ad henni kvedur, 1. Pet. 1. Þad er hanns eilijfa Dijrdar-Rijke, er eg fyrer skomu minntest ä, hvert ed hinum Andlega Voludu heited er; Þad er sä Fognudur, sem ecki hefur Auga sied, og ecki Eyra heyrt, og ecki hefur i nockurs Manns Hug uppstijged, segier Esaias: Hvar Gud er allt i ollu, og engenn Umskipte Lioossins nie Myrkursins uñ Oendannlegar Allder Allda. Eckert Rijke Veralldar hefur so mektugt vered, ad ecki hafe þad eydelagst, og eitt hefur uppeted annad; Enn þetta mun engann Enda taka, þvi vier mumum eilijflega med Christo vera. Veralldar Hofdingiar drottna yfir morgum misjofnum, sumum Vondum, sumum Goodum, sumum Rijkum, sumum Fätækum, sumum Trwum, sumum Hreckvijsum: Enn þetta er Samkunda heilagra, wtvalid

Foolk og Konunglegur Prestskapur. Hinn nafnfræge Konungur Pyrrhus Epirota Konungur spurde sinn Sende-Mann, er hann hafde giort fraa sier til Romaborgar, hvijlijker ad væru þeirra Raad-Herrar? Eñ hañ svarade: Ad Rædeð være eins og Konunga Samsæte; Eñ þad maa eg með ollu meira Riette segia um Holl ens mikla Konungs, DRottens Zebaoth, þvi þar eru aller Undersaatarner Konungar: Allur Heimurenn nægde ecki Metorda Gyrnd eins Manns, Alexandri hinns Stoora; Enn Guds Rijke næger so miklum Skara, sem engenn fær talid, og hefur þo hver einn so mikid Rijki, ad Alexandri Vellde maa i engann Samjöfnud koma. Þegar DRottenn spaaer um Vegsemd Christi Rijkis hier i Naadenne, þa segier hann, Zach. 12. Ad a þeim Deige skuli hinn vesælaste af Juda verda eins og David, og ad jafnvel þeir Heimsku ei kunna ad fara villt, Esa. 35. Þvi voga eg ad segia: Ad hinn Minnste i Rijke Himnanna mune verda heilagre eñ Johañes, vitrare eñ Salomon, frijdare eñ Absalon, sterkare enn Samson, og rijkare enn oll Rijke Veralldareñar og þeirra Dijrd. Þessarar Sælu nioottande ad verda, unn þu oss Konungur eilijfrar Dijrdar, JEsu Christe; Þier, med Fodur og Heilogum Anda, sie Valld og Heidur, Rijki og Kraptur, um Allder Allda, AMEN.

# Tuttugasta og Pridia Suñudag epter Trinitatis.

Gudspiallid, Matth. 22. Cap.

A Þañ Tijma. Þa geingu Phariseearner, og hielldu eitt Raad, ad þeir feinge veidt hañ i Ordum. Og sendu til hañs sijna Lærisveina med Herodis Þienurum, so segiande: Meistare, vier vitum þad þu ert sañsögull, og kieñer Guds Götu i Sañleika, skeiter og eige nockrum: Þviad þu ser eige ad Mañvirdingum. Þar fyrer, seig þu oss, hvad þier lijtst: Hvert leyfest ad giefa Keysaranum Skatt eda eigi? Eñ þa JEsus formerkti þeirra Vondsku, sagde hañ: Hvad freisted þier mijn, Hræsnarar? Sijnid mier Mintina Skattsins: Og þeir feingu hönum eirn Pening. JEsus sagde til þeirra: Hvers Mynd og Yfirskrift er þetta? Þeir sögdu hönum: Keysarans. Þa sagde hañ til þeirra; Giefed þa Keysaranum, hvad Keysarans er, og þad Gude hvad Guds er. Og er þeir heyrdu þetta, undrudust þeir, forlietu hañ og geingu i burt.

Exordium.

Vier vitum, ad þeim sem Gud elska, samverka aller Hluter til hinns Gooda, segier Paulus, Rom. 8. Þetta sannar oll heilog Ritning med Postulanum, bæde med Ordum og Dæmum; Engenn hefur sir Torfæra vorded a Götu

fyrer

fyrer Guds Bornum, ad hin mattuga DRottinns Hønd hafi ecki rudt hana, og leidt sijna Eskendur þar i giegnum, a einhvern Hatt, til þess gooda, er hañ hefur þeim fyrerbwed. Hardydge Josephs Brædra vard hønum til Uppheftdar, Gen. 41. Þvermoodsku Pharaonis snere Gud sijnu Foolki til Trwarstyrkingar, 2. Mos. 12. Sw Bølvan er Balach Konungur villde hafa keypt af Bileams Muñe, 4. Mos. B. 23. vard Jsrael ad Blessan. Achitophels Raad urdu ecke einungis ad Onijtu, 2. Sam. 17. helldur David til Sæmdar-Auka. Araaser Sauls Konungs giordu hañ frægañ i Jsrael. Jessabels Offsookner styrktu Eliam, 1. Kong. B. 18. Offstope Hamans liette Prælddoomenum af Guds Foolke, Esth. 8. Og þurfum vier ecke margra Dæma hier um ad leita: Eugenn hefur so illt i Sinne haft, so sem Kiennemanna Hofdingiarnir, þegar Herodes og Pontius Pilatus med Heidingiunum og Jsraels Foolki samansofnuduft yfir JEsum Guds Son, til ad giora allt þad, er hañs Hond hafde adur fyrerhugad ad skie skyllde, P. G. 4. Enn þessare Jllsku þeirra snere Guds Alvitra Raad øllum Heime til Myskunar og Syndalausnar, þviad i hañs Nafne, sem þeir i þad sinn heingdu uppa Tried, so sem adra Bølvan, þa faa þeir aller Syndanna Fyrergiefning, sem a hanns Nafn trwa, ad Vitne allra Spaamanna, P. G. 10. So Menn meiga jaata þad satt ad vera, sem Eliphas segier, Job. Cap. 5. Ad DRottenn faange hina Vitru i Slægdum þeirra, og Raad þeirra, er i giegn standa, munu detta. Dæme þar uppa høfum vier i þessa H. Dags Evangelio, þar vier heyrum, ad hiner Olmu Hundar voru enn nu einusinne wtsender, til ad faanga hid saklausa Guds Lamb, og høfdu so haglega tilbwed sijnar Veidebrellur, ad ecki skyllde tilsleppa: Enn hann, sem visse hvad med Manninum bioo, og Onijt giører Raad hiña Ogudlegu, hann fellde þa i hina somu Grøf, er þeir høfdu hønum bwed, og vann a þeim med þeirra eigeñ Vopni, so sem vier heyrdum af Gudspiallenu, af hveriu vier nu vilium hugleida: 1. Hvad vier sieum Yfirvalldinu skyllduger. 2. Hver ad sie Skyllda vor vid Gud Almattugann. Styrk oss hier til, DRottenn minn, fyrer þijns Sonar Forþienustu, AMEN.

## Utleggingeñ.

Vlsefid Keysaranum Hvad Keysarans Er, segier DRotteñ: Meñ leggia þad kañ skie ad litlu sumer hvorier, ad þeir biooda ad hlijda sier, hverra Virding ad vera vid añarra Undergiefne: Þad kyñe ad flwga einum i Þanka, ad ecki væri ad benda Reidur a þvi, þoott ad Logeñ og almeñelegar Skickaner segie þeim nockur Þyngsle a Hendur, sem eingu gieta af sier hrunded, saker Vanmaattar sijns, þvi þeir sonnu raada fyrer Løgunum, sem Tollanna taka: Eñ giætum ad hver sa er, ed þetta segier: Þad segier sa, sem allt Valld giefed er, bæde a Himne og Jordu, Matth. 28. Enn ed þo i Præls Lijki auglijstur, Phil. 2. Hann sem allt Silfur og Gull a, og ecki vill segia Mannenum til, ef hann hwngrar, Ps. 50. Enn hafde þo ecki hvar ed hañ matte Høfde sijnu ad halla, Matth. 8. Hañn sem a hverre Stundu kunne ad bidia Fødureñ um 12.

 Legion

Legion Engla, Matth. 26. Enn kom þo i Heimenn, ecki til þess, ad læta sier þioona, helldur uppa þad hañ ødrum þioonade, Matth. 20. Hverium Gud hafde giefid Tignar Sæte sijns Fødur Davids, Luc. 1. Enn vard þo Forsmaan Mañaña og Fyrerlitning Foolksins, fyrer vorar og allrar Veralldarennar Synder, Esa. 53. Segied mier, Brædur mijner! Mun hann, sem so Hættadur var, hafa talad þesse Ord fyrer sijna Skulld, edur munde hañ ecki hafa kuñad ad naa Riette sijnum, hefde hañs Rijke vered af þessum Heime? Ecki munde hønum hafa þad torsookt vorded, helldur talade hann þau til Blygdunar þverbrotnum Gydingum, hverier ei villdu þeckia hinn Romverska Keysara fyrer sinn Høfdingia, er þo hafde af Gude þeiged Valld yfir þeim, og til þess, ad kienna þier, Guds Barn, þa Hlijdne, er þu ert Yfirvalldenu skylldugur um: Þier kann ad sønnu til Hugar ad koma: Hvad velldur þvi, ad hann skuli helldur drottna yfir mier, enn eg yfir hønum, þar vid erum þo bæder nakter i Heimenn borner, bæder eigum vid Ætt ockar til Adams ad rekia, bæda hefur Gud skapad, og hverigur ockar hefur neitt af sialfum sier? Þar fellur Svar til: Fyrer Guds saker skalltu hønum undergiefeñ vera, hver ad er allra Konungur: Paulus segier med berum Ordum, Rom. 13. Þar er engenn Valldstiett, nema hun sie af Gude, helldur eru þær Valldstietter, sem til eru, af Gude skickadar, þar fyrer, sa ed Valldstiettinne mootstendur, hann mootstendur Guds Skickun, enn þeir ed mootstanda, afla sier Fordæmingar: Þar fyrer, sa sem segiest Gude vilia vera undergiefenn, hann sie og Valldstioornenne undergiefeñ, hver af Gude er skickud. Þu segier: Hañ kom nakenn i Heimenn eins og eg; Eñ ef Gude þocknast ad klæda hann i Purpura, eñ þig i Totur, ættu Søk a þvi? Ertu þar fyrer Rangeygdur, þvi ad hann er Goodgiarn? Þid erud bæder af Adam komner, enn sa sem hafde Valld til ad mynda Adam af Leyr Jardar, mun hann ecke hafa Valld til ad setia eitt Kiered til Heidurs, enn annad til Vanheidurs? Rom. 9. Hverigur yckar hefur neitt af sialfum sier; Af hverium þa? Af Gude; Þar fyrer ættu hvad mest ad virda þann sem yfir þig bodeñ er, þvi þa Virdingu hann hefur fram̃ yfir þig, hana hefur hañ af Gude þeigid; Forakta þvi ecki hanns Skickan, enn lat þier nægiast þinn deilldann Verd; Og so sem Menn eru Konungenum skyllduger ad hlijda næst Gude, i øllum þeim Hlutum, sem Gud ecki bannad hefur, þvi framar ber ad hlijda Gude enn Mønum, sagde Petur, P. G. 4. So byriar oss og ad vera þeim undergiefner, sem hañ yfir oss skipad hefur, ad so miklu Leite sem hañ hefur þad skipad, þvi so segier Petur, 1. Pist. 2. Verid undergiefner sierhverre mañlegri Skiepnu, saker DRottens, hvert helldur Konungenum, so sem Yfirrædande, edur Stioornurunum, so sem þeim er af hønum eru sender; Sa sem þeim mootstendur, er af Konungenum sender eru, hann mootstendur Konungenum, sa sem Konungenum mootstendur, hann mootstendur DRottne, sa sem mootstendur DRottne, hann steyper sier i Fordæmingu, hvar af þad vill fylgia, ad sa sem sijna Yfirbodara svijkur, vanvirder edur mootstendur, i þvi Starfe, er þeir a Hende hafa, hann er sama Doome undervorpenn hia Gude. Hvad eru Menn

þa

þa Yfirvalldinu skylduger? Þad seger oss Paulus, Rom. 13. Gialldeð ollum þad þier skylduger erud; Þeim Skatt er Skattur heyrer, þeim Toll er Tollur heyrer, þeim Otta er Otte heyrer, þeim Heidur er Heidur heyrer. Tvennt þad Siidara er ecki so miog Aboota vant, jafnvel þoott ad Otte sia, er standa ætte af Valldstioorninne, halldi sumum Mønnum lijtt aptur fraa vondum Verkum; Enn wtvortis Lotning og Virdingar fraa Menn noogar, þar er ei yfir ad klaga; Þvi margur verdur til ad kyssa aa þaa Hondina, er hañ giarnañ villdi af være: Eñ þad sem gialldast aa, er optast tregara hiaa morgum, ecki sijdst vid þaa, sem oss eru af Gudi skickader til ad vaka yfer Saalum vorum af þvi þeir hafa ecki Sverdid þad Lijkamlega i Hondunum; Enn hvad þvi Andlega vidvijkur, þa hafa sumer Menn so bryniad Samvitskur sijnar med einu Staal-Hiarta, ad Sverd Andans, sem er Guds Ord, viñur ecki aa hana, jafnvel þoott þad sie giört til þess, ad þreingia sier i giegnum Bein og Merg; Og vil eg ecki fraa mier þad til Orda, þoott Meñ sieu treger i Giolldunum: Gud giæfi, þeirra Christilegum Amiñingum hlijdt være, þa mættu þeir hitt einkis akta, þvi DRottiñ er þeirra Hlutskipte! Eg vil hverfa til þess, er eg strax uñ talade: Giefid Keysaranum hvad Keysarans er, segier Christur: Hañ talar hier sier i Lage uñ þær Skylldur, er Yfirvalldinu gialldast eiga: Og þetta er ecki Manns edur Engils, ecki nockurs veralldlegs Konungs, helldur sialfs Guds Sonar Bod; Þar fyrer, ad lijka so sem sa Kongs Uñbodsmadur, er tekur framar eñ hañs Herra hefur bodid honum, hañ stelur, so er og hiñ Þioofur i Guds Augsite, er dregur þad af Yfirvalldinu, er þvi med Riettu byriar ad hafa, og saa er þad wtilætur med illu Giedi, hañ giorer Gialld sitt ad Synd og ad vondu Verke, þvi seger Paall, Rom. 13. Þar fyrer er einsætt Undergiefiñ ad vera, ecki alleina vegna Reidennar, helldur og Samvitskuñar vegna, hañ meinar Konungsins Reidi (hver ed Salomon seger, Ordsk. 20. ad sie eins og ungs Loons Oskur), helldur og Samvitskuñar vegna, þad er vegna Guds, sem þetta bodid hefur, hverium vier erum i Hiortum og Samvitskum vorum Skulldbundner. Margur Ohlutvandur þeinker so, og sumer kann skie leife sier ad tala: Eg hefi eckert Gott af Valldstioorneñe, hun er ecki nema Almwganum til Þijngsla, þeir hafa miklar Alogur, Menn sæta hordum Refsingum af þeim, jafnvel fyrer smaar Saker. Heyr mier, Barn mitt! Jeg vil ecki tala uñ Guds Bod i þessu, þar Postulenn skipar ad Meñ skule vera sijnum Yfirbodurum undergiefner, ecki einasta Froomum og Goodum, helldur og einniñ Hardrædum og Hreckvijsum. 1. Pet. 2. Og St. Paall skipar, 1. Tim. 2. Ad bidia fyrer Nerone Keysara, sem þo var Gudlaus Madur: Eñ seig mier: Kañ eitt Haf-Skip ad fara Leid sijna fyrir utañ Stijre? Eñ þa sijdur kañ Londum og Lijdum vel ad gaanga, þeim er eingiñ stijrir: Hver aa ad straffa Synder og Leste? Hver aa ad refsa Ogudlegum Skaalkum, þeim er Froomum og Meinlausum veita Yfergaang? Hver aa ad dæma aa mille Bloods og Bloods? Hver aa ad skipa Riettindum Manna, so hver halldi sijnu? Hver aa ad giefa oss Log ad lifa epter? Hver aa ad skicka oss Kiennendur og Predikara, til ad uppfræda

ræda oss til eilijfs Lijfs? Enn varna vid eilijfum Helvijtis Ellde? Hver æ ad vernda oss fra Hernade og Aræsum Omilldra Manna, so ad vier lifa meigum Hægu og Roosomu Lijferne med allri Gudrækni og Sidseme? 1. Tim. 2. Hver æ allt þetta ad giøra, ef þar er eckert Yfervalld? Gud vardveiti sijna Christne fra Omilldum Konungum; Honum sieu og eilijfar Þacker fyrer þa stooru Naad, er hañ hefur oss giefid framar øllum Monnum i Heiminum: Enn þad þore eg ad segia: Betra er illt Yfervalld, enn eckert: Þvi hvar so æstendur, þar er hvers Hond i mooti ødrum, þar er hvor annars Bødull, þar er einginn Ohultur um Lijf sitt, einginn um Børn nie Kviñur, einginn um Eigur sijnar nie Atviñu, þar er einginn Sidsemi, einginn Kiærleike, eingiñ Guds Otte: I einu Ordi ad segia: Þad er hælft Helvijte. Þetta munu þeir Ofgar kalla, er lijda þykiast Aløgur af Yfirvalldinu, eñ eingiñ veit hvad ætt hefur fyrr enn mist hefur: Øllum Monnum i Heiminum hefur þad ad Vegi ordid, ad taka sier Hofdingia, þar sem Almenningur hefur tekid til ad stioorna. Illa gieck þad til æ Døgum hiña Ogudlegu Israels Konunga, Jeroboams, Manassis, Achabs og annarra: Þo var þad enn þa verr, þegar enginn var Doomari i Israel, og hver einn giordi þad riett þootti i hanns Augliti, Dom. B. 17. Þa var valla nockur Guds Þecking i Israel: Þa giordu Beniaminitar þa Hædung, er Sooliñ hefur einga verri yfirskinid, hveria Sodoma og Gomorra mættu skañast sijn vid ad heyra; Þa slætradi Guds Foolk sijnum eigeñ Brædrum og Systrum, heilli Ettkvijsl, mørgum Þusundum Maña, so þar var ecki ein Kona eptir i Benjamin: Og hvad vilium vier længt leita: Vier høfum Epterdæmi hiæ oss, þegar þetta vesæla Land flaut i sijnu eigiñ Bloodi, ædur enn Gud gaf oss Konung, so ad einginn mætti Ohultur leggiast i Reckiu sijna: Hversu ægiætlega leid oss þa? Hversu foor þa fram i Landi voru? Mundu Menn þa ecki Allshugar fegnir verda ad jæta Konunge, og gænga undir hañ, til ad hallda Lijfi og Limum, Fridi og Frelse? So er þvi hættad, Br. M. fyrer oss syndugum Moñum, vier hliootum Lagaña Þrælar ad vera, uppæ þad vier kuñum Frelsi ad hallda. Hver sem nu yfirvegar allt þad Gooda, er vier hliootum af Valldstioorniñe, og under eins þad Illa, er hun afstijrer; Hañ munde med betre Samvitsku og swsare Huga giøra Christi Bod: I þvi ad giefa Keysaranum hvad Keysarans er. Eñ ef nockrum þyker Valldstiettiñ Ressingasom, honum kañ eg eckert betra Raad eñ þad, er gefur St. Paull, Rom. 13. segande; Villtu ei Valldstioornena Ottast, þa gior hvad Gott er, og muntu Lofstijr af heñe hafa, þvi hun er Guds Þienare, þier til Gooda; Eñ ef þu giorer hvad illt er, þa vert Ottaslegeñ; Þvi hun er Guds Þienare, til Hefndar og Reide þeim sem illa giora: Og er so wt-talad um hid Fyrra.

Eñ hversu mikid ad vier Gude skyllduger sieum, þad kañ engeñ Tunga wt ad skijra, hverke Engla nie Maña; Og þvi mun þad nockur Muñur fæ wtsagt, þar sem ad aller Uwallder, aller Heilager i Eilijfu Lijfi fæ þad ecke fullgiordt um alla Eilijfd? Eilijfa Tijd skal til þess hafa, ad prijsa hina eilijfu Giædsku, og Oendañlegar Allder, til ad vegsama

sama hañs Nafn, sem alldrei Enda tekur. Hverſu meigum vier þa jata med David: O! DRottenn, miñi erum vier ollum þijnum Myſkunſemdum: Samt hefur þo hin eilijfa Hatign boded ad vier prijſa ſkylldum þær Daſemder, er hann giorer a medal Mannanna Barna; Ecki fyrer þvi, ad hann þurfte vorrar Hrooſunar vid, þvi hañ er Gud bleſſadur um̃ allar Allder, helldur ad Jhugan hanns Velgiorninga meige verda oſs til Sidboota og Saluhialpar. Vier heyrdum Fyrra Sunnudag talad um̃ hiñ vonda Pioon, ſem var ſijnum Herra 10000. Punda ſkylldugur; Munum vier ecke aller meiga ſitia a Beck med honum, þegar ad Skullda-Dogunum kiemur? Saal og Lijkama hefur Gud giefid oſs. Til hvers? Ecki til ad brwka þad ſo ſem vier vilium ſialfer, helldur til ad þioona DRottne þar med: Lijkamenn er hinn Nedre Partur vors Skapnadar, hann hefur Guds Giædſka lient oſs til ad wtvega Atvinnu vora, ſo ad vier i Sveita vors Andlitis kunnum vors Brauds ad neyta, Gen. 3. Þo hefur hann ſkilid ſier Leigu hier af, þvi St. Paall ſeger: Vited þier ecke, ad ydar Limer eru Muſtere heilags Anda ſem i ydur er, hvern þier hafid af Gudi, og þier erud ecki ſialfs ydar Menn: Hendurnar hefur hann lient oſs til ad brioota Voludum vort Braud: Fæturnar til ad ganga ſwoslega i Guds Hws; Augunn til ad upplyfta þeim til Himens, hvadañ oſs kiemur Hialpeñ; Eyrunn til ad heyra Guds Ord, og vardveita þau; Twnguna til ad lofa hanns Nafn; Enn i ollu þeſſu hofum vier reſiaſt vid hinn Almattuga, þad hefur geingid Andhælis fyrir oſs, vier hofum lied vora Limu Syndinni til Jbwdar, og lated hana drottna i vorum daudlegum Lijkama, Rom. 6. Þar vier attum ad lia þa Riettlætinu til Verkfæra. Margur wtriettir Hendurnar til Raans og Pioofnadar, til ad meida Holld ſijns Naunga, og ad hefna ſialfur ſijn, enn ſtela Hefndinni fra Gude: So langt er fra þvi, ad Meñ giefi Gudi hvad Guds er: Fæturner eru nærſta ſimer, til ad hlaupa a hinn breida Veg: Augunn eru Skalkur, ſo ad allur Lijkamenn verde Skalkur, Grannſkign til ad ſia Kviſtenn i ſijns Broodurs Auga, eñ ad Biaalkanum i ſialfum ſier giæta þau ecke: Eyrun klæa epter þvi, er þau heyra vilia, og eru openn vid Bulldri Veralldar þeſſarar, ſo ad Guds Ord fa ecki Rwm i þeim: Twngañ temur ſier ſkam̃arleg Ord og Fiſlslegt Hial, ſem Chriſtnum hæfir ecki, Roog, Lijge, Bakmælge, og añad þvi um̃ lijkt. Æ oſs auma Meñ! Hverſu illa hofum vier þa Gude gollded hañs Hwſa-Leigu! Vited þier ecki, ad þier erud Kyrkia Guds? Seger Poſtulenn: Enn hann ſem Guds Kyrkiu ſkieñer, þañ vill Gud ſkiema, ſeger hann, 1. Cor. 3. Enn hvernig hofum vier ræktad Guds Hws, Brædur mijner? Þad atti ad vera Bæna-Hws, enn vier hofum giort þad ad Ræningia-Bæle. Enn ef Gud ſkilur ſier nu þvilijkañ Skatt af Lijkomum vorum: Mun hañ þa lata Saalina bwa Oleigis? Eingañ-Vegiñ; Peningureñ, er Judar ſijndu DRottne, hañ var gollden fyrer Hofud hvert i ollu Roma-Rijke, þar fyrer gallt og JEſus Skatteñ fyrer ſig og Petur, er hañ ſpurdi þañ ad, hvert veralldleger Konungar tækiu Skatt af ſijnum eigiñ, edur af añarlegum? Matth. 17. Þar hañ atte þo ecke Skatt ad giallda, þvi hañ var ecke einaſta

Kougboreñ, helldur Konungur ad Eilijfu; So ꝏ og sierhver Eiñ af oss fyrer Sꝏlu ad sia, hun bijr i Leigu-Hwse, hun ꝏ ecki einasta eptir þad ad giallda, helldur og fyrir sialfa sig: Enn hvad eigum vier þa ad giallda, edur hver er Skattur hinns Allra Hæsta? Þad giorer hann sialfur bert, Ps. 50. Ecki et eg Kiot hinna sterku Uxaña, og ecki dreck eg Blood Hafranna; Offra DRottni Lofgiordinni, og lwk hinum Allra Hæsta þijn Heit. Hver er sw Lofgiord, er Gud af oss heimter? Er þad noog ad kasta uppꝏ hañ Kvediu siñi, med einu Psalm-Verse? Fiærri sie þvi, þad heiter ad nꝏlægiast hann med Vorunum, enn Hiartad er lꝏngt þar frꝏ. Gud verdur ecki med Mælgi prijsadur þeirri, er Heidingiar brwka, og meina sig fyrer hana ad bænheyrast, Matth. 6. Helldur so sem David, þar hann seger: Lof seig þu DRottni Ond mijn, og allt hvad i mier er, hanns blessada Nafni. Ef vier vilium Gud ꝏkalla i Anda og Sañleika, þa skal Syndariñ koma hræddur og skialfande fram fyrir hiñ Heilaga i Israel, hañ skal yfirvega hañs Heilagleik, og siñ Overdugleik; Mergd siña Synda, og Fiolldа hanns Myskunsemda; Guds Poliñmædi, og sitt Toomlæte; Guds breñande Elskuſtil sijn, og sijna Eymd og Olucku, sem ecki gietur i Lijkama þessa Dauda elskad hañ af ollu Hiarta, og ollum Kroptum, er oss so heitt elskadi; Og þegar hañs Hiarta er af slijkri Hugraun brꝏdnad i honum sem añad Vax, þa skal hañ hroopa af Diwpinu til DRottiñs, eins og David: Mijnar Synder eru mier yfer Hofud geingnar, þær eru ordnar mier mikils til Ofþwng Byrdi: Og med Tollheimtu-Manninum: Gud vertu mier Syndugum Lijknsamur; Enn er þu so giorer, þa mun Andinn bidia fyrer þier, med Oumrædilegum Andvorpunum: Enn hann er Hiortun rannsakar, veit hver ad er Andans Meining, þvi hann er eptir Gudi Medalgꝏngari fyrer Heilaga, Rom. 8. og er Gud svarar þier i Leyndum Hiarta þijns fyrer heilagañ Anda, sꝏ ed ber þijnum Anda Vitni uñ, ad þu siert Guds Barn, segiande: Vertu Hughraustur Sonur, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar; Þa offra Gudi Lofgiordinni, og seig med JEsu Moodur: Mijn Ond miklar DRottenn og miñ Andi gladdist i Gudi Heilsugiafara mijnum. Þesser eru Kꝏlfar Vara vorra, er vier eigum Gudi ad foornfæra, Os. 14. Þad er þad Offred, sem fyrer honum gylldir, þvi Harmþrwngiñ og Sundurknosadañ Anda mun hann ecki fyrirlijta, Ps. 51. Hver eru þau Heitinn, er vier eigum honum ad lwka? Þad eru þau, er vier hietum honum i Skijrninni, þegar hanns Eingietinn Sonur, hiñ Frijdaste medal Mannanna Barna, trwlofade oss sier i Nꝏd og Myskunseme; Hver voru þau? Þad vier jꝏtudum Gudi helga Trw, uppꝏ hveria vier skijrder vorum, enn afneitudum Fiandanum og ollu hanns Athæfe. Hver er þa heilog Trw? Ecki sw alleina, sem þecker Gud ad vera, hvad einnig giora Dioflarner, og skielfast þar af, Jac. 2. Helldur hun, sem ad verkar fyrer Kiærleikann, Gal. 5. Hver ad er Polinmoodur og Goodgiarn, ecki Ofundsiwkur, giorer eckert Illmañlega, ecki blæs hañ sig upp, er ecki Oþidsamur, hann leitar ei epter þvi sem hanns er, ei Þwnglyndur, hann þeinkir ei Illt, hañ fagnar ecki yfir Rꝏnglætinu, eñ samfagnar Sañleikanum, hañ umber allt, hañ trwir

er ollu, hann vonar allt, hann þolir allt, 1. Cor. 13. Pad er sw Trw, er vier jætudum Gude i Skijrneñe, er slijka Averte af sier giefur, hverier sijdur mega vid hana skilia, eñ Byrtann vid Soolina. Enn hvert er þa Andskotans Athæfi, er vier neitudum? Pad eru Holldsins Verk, sem Paulus upptelur, Gal. 5. Hoordoomur, Saurlijfe, Ohreinleike, Lausung, Skwrgoda Dijrkun, Fiolkijnge, Fiandskapur, Þrætur, Kapp, Reide, Þrættaner, Sundur-Þyckia, Flockadrættur, og annad þeim lijkt: Þetta eigum vier ad læta, enn hitt ad giora, ef vier vilium giefa þad Gude sem Guds er, þvi so segier DRottiun fyrer Munn Esaiæ, Cap. 1. Þvoid ydur, hreinsed ydur, takid ydar Illskubreitne fra mijnu Augliti, læted af Illu, enn læred Gott ad giora, komed sijdann og eigunst Log vid; Þo ad ydar Synder sieu raudar sem Blood, þa skulu þær verda hvijtar sem Snioor, og þo þær sieu sem Purpure raudar, þa skulu þær verda hvijtar sem Ull. Þeir sem eru skyllder under nockurn Konung, þeim byriar ecki einungis ad greida honum Skatta og Skylldur, helldur og ad strijda a moote hans Ovinum: Nu er engeñ þvilijkur Guds Ovinur sem Diofulleñ, þvi Christur og Belial eiga eckert Hlutskipte samañ, 2. Cor. 6. Nu fyrst vier erum geingner Gude til Handa, þvi skylldum vier þa draga eitt Ok med Satan? Andskotans Taum dregur Hollded, eñ Guds Lide stijrer Andeñ; Lætum oss i honum gæanga, so munum vier ei fremia Holldsins Gyrnder, og Iklædunst Guds Herskrwda, so ad vier gietum mootstaded Prettum Diofulsins, Eph. 6. Þa erum vier riettir Guds Þegnar. Enn JEsus Christus, sa ed Hoggormsins Hofud hefur i sundurmared, og nidurbroted Helvijtanna Port, hann virdest ad troda Diofuliñ under Fætur vora; Eñ giefe oss ad beriast goodre Barættu, behallda Trwñe og goodri Samvitsku, þar til oss uñ sijder verdur afsijdis logd Corona Riettlætisins, sem DRotteñ Gud virdest ad giefa oss a þeim Deige, þegar vier eigum ad giallda þa sijdurstu Skulld, og afhenda þad Gude hvad Guds er, sem er Saal og Lijf, hvert vier hofum ad Laane, og ecki ad Eign þeiged.

Þad bænheyre Fader Myskunsemdañа, fyrer Son siñ
JESUM Christum, AMEN.

# Tuttugasta og Fioorda Suñudag eftir Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 9. Cap.

Á Þañ Tijma. Þa ed JEsus talade þetta til þeirra: Sia þu þad Hofdinge nockur gieck ad, og tilbad hañ, segiande: Mijn Dootter er nij-sælud, eñ þu kom og legg þijna Hond yfir hana, og mun hun lifa. Og JEsus stood upp, og fylgde honum, og so hans Læresveinar. Og sia þu, ad Kona, hver ed hafst hafde Bloodfall i Toolf Ar, gieck a Bak til vid hañ, og snerte Falld hañs Klædnadar. Þvi hun sagde med sialfre sier: Ef ad eg mætte ad

eins snerta hañs Klædnad, munda eg heilbrygd verda. Eñ JEsus snerest vid, leit til heñar, og sagde: Vertu hughraust, Dootter, þijn Trwa giørde þig heilbrygda. Og a þeirre somu Stundu vard Konañ heilbrygd. Og þa ed JEsus kom iñ i Hofdingians Hws, og sa þar Lwdur-Peitara og Bulldran Foolksins, sagde hañ til þeirra: Vijked fra, þviad ecki er Stulkañ daud, helldur sefur hun. Og þeir dærudu hañ: Eñ sem Foolked var wtdrifed, gieck hañ þar iñ, og took uñ heñar Hond: Og Stulkañ stood upp. Og þetta Rykte barst wt uñ allt þad sama Land.

## Exordium.

Had eru merkeleg Ord, sem Esaias Spamadur skrifar, i hañs Bookar 26. Cap. og þañig hliooda: J Angisteñe vitiudu þeir þijn, DRotteñ, þeir wthelltu Audmiwkum Bænum, þegar þu typtader þa. So er hattad voru auma Holdse og Bloode, christner Meñ, ad þegar allt ad Oskum geingur, þa þeckir þad a Stundum hverki Gud nie sinn eigenn Veikleika, og þoott vier sium nærre daglega a þeim, sem DRottenn typtar, hversu ad Manneskiann er sier Onoog uñ alla Hlute, þegar hann byrger fyrer henne sitt Auglite, þa er þad eins og þad ecki kome vid oss, so sem ad einn helldur enn annar sie undann þeigeñ þeim Okostum, er Syndeñe fylgia, og Eliphas af Theman kallar ollum jafn vijsa, segiande: Ad Madureñ fædest til Armæduñar, so sem Neistarner af Gloodeñe flwge i Lopted upp: Enn þoott ad þessu sie so vared, þa sijnest so sem ecki eige aller vid lijkann Kost ad bwa, þar nockrer bada i Roosum, og vita ecke af miklum Mootgange ad segia; Hiner þiaast alla Æfi sijna, og sia valla gladañ Dag: Enn þad er Eptersioonar verdt, hvert ad hinna Kior sieu betre enn þessara, ef Menn þad riett adgiæta: Ad vijsu sijnest þad so fyrer mannlegum Doome, annars er þad vijst, ad i Velgeingnenne er Mannenum hættast vid ad gleyma Gude, sem er hin stærsta Olucka, er Syndaranum kann til ad falla. Þegar Jsrael vard fullur og feitur, þa giordest hann lauslatur: Þegar Skeinkiare Pharaonis var aptur komenn til Virdingar sinnar, þeynkte hann hverke a Joseph nie Myrkvastofuna, Gen. 40. Þegar Nebucadnezar virdte fyrer sier oll hañs Stoorvirke, er hañ hafde lated giora i Babylon, þa upphafdest hañs Hiarta, þar til Gud straffade hann, og liet hann eta Gras med Villu-Dijrum, Dan. 4. Þegar Balthazar sat ad Dryckiu, og wt af Ofmetnade liet saurga Kiereñ, sem brwkud hofdu vered til Þioonustunnar i Guds Hwse, þa vard hann rekinn fra Rijke og Lijfe, Dan. 5. Þegar Herodes Konungur metnadest i sijnu Hiarta af Velgeingnenne, og gaf ecke Gude Dijrdena, þa vard hann sleigenn af Engle DRottenns, og doo vesælum Dauda. Eñ so ad Guds Born ei rate i þvilijkan Skalar Haska, þa leggur hiñ goode Gud þeim sijns Sonar Kross a Herdar: Eg þore ad segia, ad DRottenn hefur i sijnu Nadar-Rijke meira wtriett med honum einum

um, enn med ollu sijnu Epterlæte. A medal añara hofum vier Tvo Dæme þar uppa, i þessa Heilaga Evangelio, Samkundu Hofdingians Jairi, og hinnar Bloodfallsſiwku Kviñu, og af bædum þeim hverſu ad Trweñ reyneſt og efleſt i Kroſsbirdenum, ſo ſem Gulled hreinſaſt i Ofnenum, 1. Pet. 1. Vier vilium i DRottenns Nafne hugleida: 1. Jairi Dæme. 2. Hinnar Bloodfallsſiwku. O þu Goode Gud! Vert oſs nalægur med Fulltinge þijns Anda, i JESU Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

SJa þu Ad Hofdinge Nockur Gieck Ad Og Tilbad Hañ; ſegier i Gudſpiallenu: Lucas og Marcus ſegia hañ hafe vered Samkundu Hofdinge: Kañ ſkie hañ hafe hvorutveggia vered, þvi Gydingar hofdu Hofuds-Meñ i hverre Ættkvijſl, og þar ad auki hofdu þeir Forſtodu-Meñ i þeirra Samkundum; Hvernig ſem þetta hefur vered a ſig komed, þa hefur hañ þo mikils meteñ vered medal Gydinga, enn Lijkinde er, ad hañ nune ecki hafa matt JEſum mikels, edur eñ Naudeñ þrijſte honum til þeſs. JEſus hafde i heillt Ar kieñt, predikad og giordt Kraptaverk i Capernaum, eñ þeſs er ei gieted, ad Hofdinge þeſſe hafe feingeſt mikid þar um, fyrr eñ hañs einka Dootter var adkomeñ Dauda. Þad ma og allvijda leſa i Gudſpialls Sogunum, ad þeſshattar Meñ hotudu JEſum framar og offooktu, eñ ad þeir mundu leita Lids hia honum i nockrum Hlut, og þar fyrer ſogdu Gydingar fordum Daga, er þeirra Sendemeñ komu aptur, og ſogdu um DRotteñ, Joh. 7. Alldrei hefur nockur Madur talad ſo ſem þeſſe, þa ſvorudu þeir, ſegie eg; Hvert erud þier og villter, trwer nockur af Hofdingiunum a hañ, edur af Phariſæunum? Ad eg fae mier þad ecki til Orda, ad Judar hofdu aliktad, ad hver ſem medkiende JEſum ad vera Chriſtum, hann ſkyllde bannſettur vera, og rækur fra þeirra Samkundu, Joh. 9. Edur um þad tale, ad Samkundu Hofdingenn reiddeſt honum næſta miog, er hann læknade Kviñuna a Sabbats Deige, þa er i 18. Ar hafde Ohrauſt vered, Luc. 13. Af hverju ollu ſia ma, ad Guds Sonur hefur ecki velþockadur vered hia þeſs ſlags Foolke; Eñ ecki ad ſijdur rak Neidenn þennañ Mañ til ad falla JEſu til Foota med audmiwkre Bæn, ſo ſem bæde Lucas og Marcus ſkrifa, ſo þad ræteſt a honum, ſem David um ſig ſkrifar, Pſ. 18. Þegar eg kveliunſt, þa akalla eg DRottenn, og hroopa til Guds mijns, þa bænheyrer hann mijna Rauſt, af ſijnu Muſtere. Eñ þu, chriſteñ Madur, ſem þetta heyrer; Tak þetta Dæme þier til Vidvorunar og Trw þinne til Styrkingar, ef aliggur: Þu hefur maſkie ecke hyrdt ſo um ad leita ad JEſu a medañ þier vel gieck; A medañ þu varſt a Bloome þinnar Æſku, þad kann vel vera, ad Synder þijns Ungdooms hafe vered margar; Hafe nu DRotteñ vitiad þijn med Kroſsenum, þa kañaſt þar vid, ad hann bender þier til þeſs ad koma til ſijn, ſem ad er DRotteñ þiñ Læknare; Hafe Gud ecki ſtraffad þig med Lijkamans Ohreyſte, þa ranſaka þo vel, hvert þu alheill ſiert. Þeſſe Hofdinge atte Eina Einka Doottur, ſem an alls Efa hefur vered honum kiærari eñ oll hañs Aleiga: Þu att og fyrer eiñe Saalu ad ſia, koſtulegre Dijrgrip fiñur þu ecki i allre Verolldeñe; þvi hv-

ad gagnar þad Mañinum, segier Endurlausnareñ, ad hañ eignest allañ Heim þenna, eñ lijde Topun a Saalu siñe, Matth. 16. Dijrmæt er hun, ecki einasta þess vegna, ad hun er i fyrstu epter Guds Mynd skopud, helldur hiñs annars lꝏngtum framar, ad hun er med Guds Bloode endurkeypt: Giæt ad hvert hun heilbrygd er; Þier virdest ad so sie, af þvi þu kieñer þijns einkis Meins, og þijn Saala er ecki Oroolegi þier, so sem Davids var; Enn trw mier til, kiære, ad þau Saareñ eru ecki betre, sem daud eru, helldur eñ hin, er svijda: Muntu þar fyrer hraustare vera, þoott þu siert lijkur þeim er Jeremias segier, Cap. 5. Þu typtar þa, O Drotteñ; Eñ þeir fiña þar ecki til.

Ber Lijfernis Hꝏttu þijna samañ vid Mæli-Snwru Guds Heilaga Logmꝏls, hvert þu hefur elskad O Drottenn Gud þinn af allre Ondu þinne, og ollu Hiarta þijnu, og ollu Hugskote þijnu, og þinn Nꝏunga sem sialfañ þig, hvert þu gietur sagt med hin um Rijka Yngling, sem kom til JEsum, og villde fa ad vita hvad hañ giora skyllde, so hañ mætte eignast eilijft Lijf, Matth. 19. Ad allt þetta hafer þu giort fra Barndoome þijnum: Og vil eg nu sleppa þessu, þviad engeñ Maña hefur um Æfi Guds Logmꝏl uppfyllt, nema hann einn, sem bar vorar Synder, og alla Logmꝏlsins Bolvan, sialfur syndlaus, hreinn, heilagur, og fraskilenn Syndurunum, Heb. 7. Eñ seig mier; Hefur þu hallded gloggvann Reikningskap vid sialfañ þig hier um, so þu hafer ydrast Syndaña af Hiarta, og lꝏted þier þær leidar verda? Hvert þu hefur lagt vid þijn rotinn Saar og andlegañ Holld-Fwa þann Plꝏstur, er alleina kann ad græda, sem er JEsu blessad Blood med Trwñe medtekid af Læknarans Hende, og hvert þu ad sijdurstu hefur af Alvoru kappkostad, ad betra þiñ Lifnad, hvert þu hefur ecki geinged Umþeinkingarlaust aptur til somu Synda, vellt þier i sama Saur, og syndgad uppa Naadena, og hvert hiñ sijdare Dagureñ hefur bætt nockud um fyrer hinum fyrra? Reyned ydur, segier Paulus, hvert ad þier erud i Trwnne. 2. Cor. 13. Giorum so! Vitum til, hvad heitt vier elskum Gud, þegar Holldsins Fijsn er odrumeigenn; Hveria Trwar Avexte vier finnum i Fare voru; Hvert Guds Ande verkar i oss fyrer sanna Ydran; Hvert vier erum so tilbwner med vorn Reikningskap, ad hveriu Kvollde Dags, ad vier sieum oss visser, ad þoott vier deyum, þa munum vier samt lifa, Joh. 11. Allt so leinge ad vier ecki temium oss þetta Hugarfar, þa þeinkia Menn hid sama, sem Engilleñ af Laodicea, Openb. 3. Eg em Rijkur og Audugur noog og þarf einkis vid, enn þu veitst ecki, segier O Drottenn, ad þu vesæll ert, aumur og voladur, blindur og fatlaus; Eg ræd þier, ad þu kauper Gull af mier, Gull þad i Ellde er reynt, so þu audugur verder, og Iklædest hvijtum Klædum, so ad Vanvirda þinnar Fatleysu ecki Opinberest. Eñ nær vier holldum Reikning vid sialfa oss, þa saaum vier ad þeckia, ad vorar Misgiorder setur hinn Allskygne Gud frami fyrer sig, og vorar Ovitañlegar Synder frami fyrer sijnu Auglite, Ps. 90. Hvad þa, Brædur mijner? Munu þa ecki um sijder upplwkast vor Augu, so ad vier saaum ad siea, ad allt Hofuded er siwkt, allt Hiartad er veikt, fra Hvirfle og allt til Ilia er þar ecke nema Saar, Kaun, Beniar og Prote, Esa. 1.

Hvad

Hvad er þa vor Sæla betur œ sig kominn, enn þesse Hofdingians Dootter, sw er var Daudvona, edur og Andvana Lijk, so sem Matthæus skrifar. Stoor Naud þreingdi Jairum til ad leita Christi; Enn lœtum oss ecki vera Ræktarminni vid Sæler vorar, enn hañ var vid Doottur sijna! Einginn er Krossburdur meiri, enn sw Baraatta, sem er œ millum Holldsins og Andans, Gal. 5. og Tilfinning Synda sinna, med hverium vier hofum hinn nœduga Gud stygdann, hun uppþurkade Davids Krapta, so sem þa Hey þornar œ Sumri, hun lagdi hann i Daudans Dupt, hun hiellt Voku fyrer hañs Augum, þad hann vard so Mœttlaus, ad hann gat ecki talad, Ps. 77. Eñ hvad skulum vier þa Rœds taka, Br. M? Hvad giordi Jairus? Hann fiell til Foota JEsu, seger Marcus, og bad hann mikilega: Gior slijkt hid sama, Christeñ Madur, ef þu villt ad þijn Sæla heilbrygd verdi; Audmijk þig undir volldugа Guds Hond: Eg jœtadi DRottni Synd mijna, seger David, og þa fyrergafstu mier þad: Þad var og satt, þvi undir eins og hann sagde: Syndgast hefi eg œ mooti DRottni, þa svarade Spœmadurenn Nathan honum: So hefur DRottinn Synd þijna i burt tekid, 2. Sam. 12. JEsus rœkte þad ecki vid þenna Samkundu-Hofdingia, þoott kannskie ad bædi hann og hanns Lagsmenn hefdu forakta hann meir enn uñ eitt heillt Ar, þvi hañ visse ad hañs Sæla var Angurfull i honum, og villdi þvi ecke leggia Sorg ofañ œ Sorg, helldur gieck hañ strax œ þœ Leid, er hann beiddi hann uñ. Hier rœtist þad sem Esaias uñ hann spœer, og Matth. 12. Itrekar, segiande: Hann mun ecki deila og ecki kalla, og einginn mun œ Strætunum hañs Raust heyra; Eiñ brœkadañ Reyr mun hañ ecki sundurbrioota, og einn riwkanda Hor-Kveik ecki wtslockva. Hins sama hefur þu ad vænta, Christeñ Madur, hver hellst þu ert; Hiœ Gudi er eckert Mañgreinar Alit; Þegar þu med David kallar til DRottinns œ þijnum Mootgœngs Tijma, þa þu uppriettir þijna Hond œ Nœttar-Þele og lætur ecki af, fyrer þvi ad þijn Sæla vill ecke huggast lœta, Ps. 77. Jœ, allra hellst þegar þu bidur uñ Fyrergiefning þiña Synda, þvi til þess er Guds Sonur i Heimiñ komiñ, ad hann nidurbrioote Diofulsins Verk, 1. Joh. 3. A medal hverra Syndinn er hid versta. Edur meinar þu ad hann, sem liet þad ad Bæn Jairi, ad uppvekia hañs Doottur, œn hvers hann kunni þo hoolpiñ ad verda, ad hann muni neita þier uñ Kvittun þinna Synda, nær þu hennar Sorgfullur leitar, þar hañ veit, ad þu kañt ecki œn heñar Sæluhiœlpina ad erfa, eñ hañ er þo i Heiminn komiñ til þess, ad kall. Synduga og ecki Riettlœta til Ydrunar, Matth. 8. og vill ad aller Meñ verdi Sæluhoolpner og komist til Sannleiksins Vidurkienningar, 1. Tim. 2. Af Hiartgrooinni Medaumkan og brennande Elsku til syndugra Manna hroopade JEsus fordum Daga: Komid til mijn aller þier sem erfided og Þwnga hiœder erud, eg vil endurnæra ydur, Matth. 11. Þvi kiemur þu þa ecki til Guds, hvers Syndir ad eru yfer þitt Hofud geingnar, og þier mikils til Ofþung Byrdi ordnar? Þar þu veitst ad hann svarid hefur og sagt: A hverium hellst Tijma ad hinn Ogudlege snijr frœ sijnu Ogudlegu Athæfi; So sannarlega sem eg lifi, hanns Misgiorninga skal ecki ad Eilijfu

lijfu minst verda, Ezech: 18. Slijka Hlute afrekar Umvondun DRottins hia Syndugum Monnum, þa henni er med audmiwku Hiarta tekid; So vier meigum jaata þad satt ad vera, sem Paulus til Hebræos seger, Cap. 12. Ad oll Typtan, medan hun aliggur, þyke oss hun Sorg og einginn Gledi ad vera, enn eptir a giefur hun fridsamlegann Avoxt Riettlætisins. Jairus þesse var einn Samkundu-Hofdinge, aan Efa einn Skriftlærdur og uppfræddur i Moysis Logmaali, enn i þvi finnur hann eckertRaad mooti Daudanum, sem ei var Von, þvi Bookstafurinn deyder enn Andinn lijfgar, 2. Cor. 3. Bæde hann og hanns Dootter hofdu syndgad a mooti Logmaalinu, enn Logmaalid skylldar þaa alla under Daudann, sem ecki uppfylla þad: So hofum og ecki vier synduger Menn neinnrar Hiaalpar ad vænta i Logmaalsins Verkum, þoott vier sieum þau skyllduger ad giora, þvi Logmaaled er innkomed so ad Syndenn yfergnæfde, seger Paulus, Rom. 5. Þad er, ad hun yrdi uppvijs, þvi aan þess mundum vier ei Syndina þeckia. Þad er ei annad enn eitt Brijne, a hveriu Daudenn hvesser sinn Brodd, þar ed Syndinn er Broddur Daudans, enn Kraptur Syndarinnar er Logmaalid, seger Paulus, 1. Cor. 15. Þvi þad fordæmir þaa sem hana drygia: Hvar hofum vier þa Lijfs ad leita? J Trwnni a hann, sem Logmaalid hefur uppfyllt, Daudann sigrad, og bored Synder vorar upp a Tried, fest þar Handskriftina þaa sem mooti oss var. Enn so sem Psalmavidurinn riettir sig upp under Þwnganum, so vex Trwinn i Krossburdinum: Eg skal ecki segia, hversu Trwarsterkur ad Jairus hefur i Fyrstunni verid; Þad sijnist hann hafi ecki meint, ad JEsus Guds Sonur væri, helldur Spaamadur nockur, so sem Esaias, edur Elisæus, sa ad kynni ad uppvekia Dauda eins og þeir, annars mundi hann ecki hafa meint, ad hann þyrfte ad gaanga heim med sier, og leggia Hond yfer Doottur sijna: Hitt er vijst, ad hanns Trw hefur ecki so sterk verid, sem Kvinnu þessarar, er hier um gietur, edur hinnar Cananisku, edur Hundrads-Hofdingians. O minn HErra JEsu! Hversu naakvæm er þijn Lyknar Hond til ad endurnæra hinn riwkanda Horkveik! Hann liet sier þad ecki noog þykia, ad hann Bænheyrdi hann so fliott sem hinn kunni ad bidia, og gieck strax af Stad, helldur a Veginum stirkte Trw hanns med þvi allra daasamlegasta Kraptaverke, er hann giordi vid Kvinnuna: Ad sonnu hefdi Frelsarinn kunnad ad laata þetta Almættis-Verk leynt vera, eins og onnur, er hann bannade ad bera wt, enn þad villdi hann ecki: Hanns Lijknar Hond er Friooffsom: Hann giordi hier Tvennt i einu: Hann læknadi hina Naudstoddu og faarmdu Konu, er allri Aleigu sinne hafde forgiefins kostad uppa Læknara, og under eins styrkte hann hennar og Jairi Trw; Þvi trwed mier til, ad hann hefur ecki forgiefins talad þesse Ord: Þijn Trwa Giordi Þig Heila. Jaa, enn þa framar, þegar Hws-Karlar Jairi runnu i mooti honum, so sem Lucas og Marcus skrifa, og sogdu: Omaka ecki Meistarann; Þijn Dootter er saalud, þa hefdi honum maatt til Hugar koma, ad þad væri wti, enn JEsus sleppte ecki sinni Hendi af honum, helldur sagde til hanns; Ottast ecki, trw þu alleina. Laat þetta Dæme vera þier jafnann fyrir Augum, Chr. M. þegar þijn Trwa tekur til ad veikiast i Mootgaanginum, og þier kiemur

til

til Hugar med David, ad Gud hafi forgleymt Myskunsamur ad vera, Ps. 77. Siar hier hvad trwr ad þinn Lausnari er, ad hañ freistar einkis yfer Megn fram, 1. Cor. 10. Þu megnar ecki hiñ allra minnsta Trwar-Neista ad kveikia i þier, Guds Verk er þad, er þad veik Trw, þa er þad þo Trw, Gud ann sijnum Giorninge, lꜳt sia, ad þu alleina ecki wtslockver hañ med Oþoliñmædiñi og Bænræktarleysinu, og vert so viss uñ, ad hañ blæs sialfur ad þvi glooanda Kole, er hañ hefur lagt a Varer þijns Hiarta: Hañ liet ecki Petrum sockva, þo hañ væri Trwarveikur, Matth. 14. Hañ leysde ecke ad hañs Lærisveinar forgeingiu: þoott þeir væru lijtil-Trwader, Luc. 8. Hañ uppvakte Lazarum þoott Martha efadist uñ, ad hañ mundi fyrr upprijsa, enn a sijdarsta Degi, Joh. 11. Og hversu opt atalde hann Lærisveinana fyrer þeirra Trwarleysi; So ad þeir beiddu hann og sögdu: HErra, auk þu oss Trwna; samt efldist Guds Kraptur so med þeim, ad þeir urdu þess Allshugar feigner, ad þeir mættu nioota þeirrar Æru, ad þola allar Hꜳdungar hanns vegna. Eg vil ei tala uñ þad mikla Myskunar-Verk, er JEsus giordi vid hinn Twnglsiwka, og Fødur hanns, er hann sagde: Ef þu trwer, þa er Trwudum allt mögulegt; Enn Fadirinn æpti Hꜳstöfum og tꜳradist miög, segiande: Eg trwe, HErra, enn hialpa þu Vantrw minni: Og JEsus rak Diofuleñ wt af hinum Twnglsiwka, took i Hond hanns og reisti hann upp, Marc. 9. So lꜳt þier nu og nægiast DRottinns Rꜳd, christinn Madur, þoott þier finnist, ad þijn Trwa ecki sem sterkust sie, þvi hanns Kraptur fullkomnast i Breiskleikanum, 2. Cor. 12. Og er þetta nu so wt-talad uñ hid Fyrra.

Eptirfylgir ad tala med fꜳm Ordum uñ þad Sijdara. Ecki minna Traust edur Hialpar Von stendur Christnum Manni af þeirri Myskun, sem vor Frelsare giorde a þeirri aumu Konu, er med Trw sinni þꜳdi Heilbrygde af honum. Evsebius skrifar i hanns Christinndooms-Sögu, 7. Bookar 17. Cap. Ad hun hafi heidinn Manneskia verid, fynind wr Cæsarea Philippi. Þier kynni til Hugar ad koma, syndugur Madur, ad Christur hafi ecki giora viliad þvilijk Stoormerke, nema medal sijns Foolks og Gydinganna; Eñ Dæmi hiñar Cananisku, Hundrads-Hofdingians, hinna Diofuls-Odu i Gergeseanna Landamerkium, sijnir allt annad; Og þvi skylldi hann neita þeim Krapta-Verkanna, hverium hann hafdi fyrirhugad Rꜳd Evangelii, so sem stendur hia Esa. 62. Ad DRottenn mune fram̃leida sitt Riettlæte og sijna Dijrd fyrer allar Þiooder; Þu seger: Gud giorer þo ecke Krapta-Verk Manna a medal a þessum Dögum; Enn seig mier: Hvert er Krapta-Verk meira enn þad, ad hañ hefur giort oss Abrahams Sonu af Steinum, þad er, af Heidingium, þeim er Stocka og Steina dijrkudu, og voru þeim sialfer lijker? Þessi vesæla Kviña var þwngum Siwkdoomi undirorpiñ, og Ohrein kollud epter Logmꜳlinu, hver hana snerte, skylldi Ohreiñ vera allann Dag til Kvollds; Enn ecki skiedi þad þar fyrer, ad Kviñurnar a þeim Tijma væru meir Ohreinar i Guds Auglite, helldur eñ eiñ daudur Lijkami, hvern eingiñ mꜳtti snerta, hellde so sm̃ þad var bodid i Guds Logum, til ad teikna oss andlega i Syndunum dauda,

so var og hitt til ad miña oss á Spillingu Nátturu vorrar; Eñ þoott ad þesse Skarar da Manneskia væri so á sigkomiñ, samt fyrerlijtur ecki JEsus hana; Allt er Hreinum hreint, Tit. 1. So var og honum, sem er Hreiñ og Heilagur, og fraskilenn Syndurunum; Þesse Kona var Ohrein epter Levitanna Logmaale, so ad einginn mætti hana snerta, nie Klæde hennar; Enn strax sem hun hanns Klæda-Falld snerte, er sialfur Levi Born hrein giorer, þa vard hun bædi hrein og heilbrygd. Tak þier þad til Huggunar, syndugur Madur, þegar Satan freistar þijn med Orvæntingunne, kannskie ecke fyrr enn i þeim sijdurstu Andarslitrum, nær hann er sem akafastur, þvi hann veit hañ hefur stuttann Tijma. Þitt Riettlæti er so sem Nidlags-Fat; Hvad munu þa vera þijnar bloodugar Illgiorder? Eñ siá: Hier er opnadur einn Brunnur Davids Hwsi, og þeim sem byggia til Jerusalem, til Hreinsunar Syndurunum og Bloodfalls Siwkum: Þu ert Ohreiñ, so sem Kona þesse, og eckert Ohreint má iñkoma i þa himnesku Jerusalem; Eñ hier er Blood JEsu, sem hreinsar þig af ollum þijnum Syndum, 1. Joh. 1. Þijnar Synder eru raudar sem Blood, Esa. 1. Enn JEsus er fyrer sitt eiged Blood einusinni inngeinginn i þad Allra-Helgasta, ad wtvegadre eilijfre Endurlausn, Hebr. 9. Þar fyrer vill hann giora þær hvijtar sem Snioo. Þu hefur eckert Gudi ad lwka fyrer Syndena: Þesse Kvinna hafdi ecki helldur neitt ad giallda i Læknis Laun, þvi hun hafdi eydt þar til allri Eigu siñi, ad hun mætti heilbrygd verda, eñ foor þo jafnann vesnande; JEsus æskte og eingra Launa af henni, helldur sagde hañ: Vertu Hughraust Dootter, Þijn Trw Giorde Þig Heilbrygda. Hañ krefur og ecki Endurgiallds af þier, þvi hvad má Madurenn Gudi giallda? Trw þu alleina þvi, ad hann sie Forlijkun fyrer þijnar, og ecki einasta fyrer þijnar, helldur og fyrer allar Veralldarinnar Synder, 1. Joh. 2. Og heyr þau Lijknarfullu Ord, er hann talar, Esa. 55. Heyred, hver sem ad þyrstur er, komi til þessara Vatna, og hver sem eckert Gialld hefur, hann komi og kaupe fyrer eckert; Komed, segie eg, komed og kauped fyrer utann Peninga, og utañ Andvirde, bædi Vijn og Mioolk; Hvar fyrer lated þier ydar Peninga wte fyrir Matleysu, og ydar Erfide fyrer þann Hlut, sem ei kann ad sedia? Kona þesse gieck Bak vid JEsum, hun var Ohrein, hun var Or-Fatæk, hun var ad ollu Leite aumlega á sig kominn, hun þordi ecki ad yrkia Ordi á hann, og skamadest sijn ad bera sijna Kveinstafe fram fyrer slijkann Herra: Æ! Hvad mætti Syndarinn þenkia, sá er optlega hefur vellt sier i sama Saur, og eins og Hundureñ genged aptur til Spijunnar? Mun hann ecki fyrirverda sig, ad koma fram fyrer hann, i hvers Auglite ad ecke eru Himnarner hreiner, fyrer hverium hiner dijrdlegu Cherubim hylia sijn Andlit? Sannlega være þess meir eñ Von; Eñ fyrer JEsu Forþienustu Skulld, hvers Asioonu þeir byrgdu, og hræktu i hanns Andlit, þa meigum vier med fullu Trauste ganga til Nadar-Stools sins, svo ad vier Myskun odlunst, i hentugann Tijma, Hebr. 4. Þo skalltu vita, syndugur Madur, Skylldu þijna, þegar þu, sem ert Molld og Aska, dyrfest ad tala vid DRotteñ, ad honum ber Dijrdenn og Heidureñ, eñ þier ber Blygdan þijns Andlitis;

Svo

So giorde þesse Kvińa, þvi hlaut hun Myskun; So giordu hiner 10. Lijkþrææu, þeir stoodu fiærre, þvi urdu þeir hreinsader; So giorde hin Bersynduga i Simons Phariseara Hwse, med hverium JEsus var ad Heimbode; Hun kraup Bak til vid hanns Fætur, og þvode þa med Tarum sijnum, og þerrade med sijnum Haar-Lockum, kyste þa, og smurde med Vidsmiore, eñ er Phariseareñ hneixladest þar a i sijnu Hiarta, og meinte þad være Ohæfa, ad slijkur Stoor-Syndare skyllde snerta hann, sem Foolked hiellt Spaamann ad vera, þa liet JEsus hañ sialfann leggia Doomenn a, ad sa munde elska meir, sem meira uppgiefed være, enn D Rottenn sagde til hanns: Af þvi hun elskade miked, þa eru hennar mørgu Synder fyrergiefnar. Ad sijdurstu snerter Kona þesse hanns Klæda-Falld, epter þvi sem hun Raad fyrer giorde med sialfre sier; Nær þorde hun ecke ad gaanga, og er lijklegt, ad hun hafe ætlad ad dyliast, þar hañ stood midt i Mañ-Þrenngenne, og munde hennar þvi ecke giæta. Margur hefur JEsum snorted i þessum Hoop enn engeñ so hart sem þesse Kona. Þad stendur skrifad uñ vorn HEr-ra, ad þegar hañ sa Aumur a nockrum, ad hanns Ydur hafe komest vid i honum af Medaumkan; So hefur og hier vered; hañ fann Krapt wt af sier gaanga; hañs Fodurleg Giædska gat ecki leynt sier, Bruñur Myskunareñar vall hier upp sialfkrafa, og sialft Himnarijked þolde hier Ofrijke. Eñ laat þier þad af þessu til Hugar koma, Guds elskulegt Barn, ad JEsus Christur er uppfareñ yfir alla Himna, og er ecki framar med oss ad Lijkamans-Vistum, samt uppfyller þo hañs Klæda-Falldur þad heila Mustere, sem er christeleg Kyrkia Guds hier a Jorduñe; þar uñ spaaer Zacharias, Cap. 8. Þad skal skie a þeim Døgum, ad Tiju Meñ af øllum Twngumaalum skulu þrijfa i Klæda-Falld Gydingsins, og segia: Vier vilium fara med ydur, þvi vier heyrum ad Gud sie med ydur. Hvernig er hañ þa med siñe Kyrkiu hier a Jorduñe? J Ordenu og Sacramentunum; þad eru hañs Klæde, þar er hañ ad finna, þangad aattu ad þrijfa med Trwareñar Hende, þa ertu honum eins nærre, og enn þa nær eñ þesse Kona, enn allra hellst skalltu til þessa Raads taka, þegar øll oñur bila: Nær hiñ sijdarste Mootgaangur, Daudeñ, þier ad Hondum kiemur, og þijnar lijkamlegar Hendur þreifa ei leingur: Haf þa so fest þijna Trwar-Hond a þessum JEsu Klæda-Fallde, uñ Naadar-Tijmañ, ad þu slepper honum alldrei fyrr eñ hann blessar þig, og mun i giegnum hañ ofañ fliota til Saalar þiñar Kraptur af Hædum, sa ed hana heilbrygda giore af øllum Saalar og Lijfs Meinum. Eñ hañ, sem engañ vill fraa sier reka, er til hañs kiemur, hañ sem lofad hefur ad bænheyra medañ þu ert ad bidia, hañ sem sialfar þreytte vid Daudann, og took aakaflega ad bidia, og kann þar fyrer ad sampijnast Eymdum þijnum, hann, segie eg, mun svara Saalu þinne fyrer Heilagann Anda; hver ed vitnar med þijnum Anda, ad þu siert Guds Barn: Vert Hughraust Mijn Dootter, Þijn Trwa Giørde þig Hoolpna. Þad veite oss øllum goodur Gud, fyrer JEsum Christum, AMEN.

# Tuttugasta og Fimmta Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 24. Cap.

J Þann Tijma. JEsus sagde til sinna Læresveina: Nær ed þier siaed Svivirding Foreydslunnar (af hverre sagt er fyrer Spamanninn Daniel) standande i Helgum Stad. Hvør sem þad les, hann hygge þar ad. Hverier þa eru a Gydinga-Lande, flije þeir a Fioll, og hver hann er a Riæfri, fare hann eige ofann nockud ad taka wr sijnu Hwse, og hver sem a Akri er, snwi hann ei aptur, ad taka sijn Klæde. Enn Vei Þwngudum og Brioost-Mylkingum a þeim Døgum! Enn bidied, ad ydar Flootte verde ecki umm Vetur, og eige a Þvott-Deige. Þviad þa mun verda so stoor Hørmung, hvilijk ad eige var i fra Upphafe Veralldarinnar, allt til þessarar Stundar, og ei helldur mun verda. Og nema ad þesser Dagar verde styttar, verdur eckert Holld hoolped. Enn fyrer Utvalldra Saker, þa skulu þeir styttast. Enn ef nockur segier þa til ydar: Siaed, hier er Christur, eda þar, þa skulud þier ecki þvi trwa. Þviad þar munu upprijsa Fals-Christar og Fals-Spamenn, og þeir munu giora stoor Tækn og Undur, so ad i Villu munu leidast (ef skie mætte) eirnenn Utvallder. Siaed, eg sagda ydur þad fyrer. Nu, ef þeir segia til ydar: Siaid, hann er a Eydemørku; Þa gaanged ecki wt: Siaed, hann er i Laun-Kofum; Þa trwid eige. Þviad lijka sem Ellding wtgeingur af Uppgaungu, og skijn allt til Nidurgaungu, lijka so mun og vera Tilkoma Mannsins Sonar. Þviad hvar hellst ad Hræed er, þangad munu og Ernerner safnast.

## Exordium.

JEsus bijdur sijnum Læresveinum i þessu Gudspialle, ad þeir skuli ei trwa, þoott ad þeim sagt verde: HJer, EDur Þar, Er CHRJSTur; Þvi Þar Mune UPPrijsa MArger FAls-Christar Og Fals-Spamenn, med ødru fleira sem eptersylger, og i Gudspiallenu sier lijkast hermer. Allt rættest þetta strax epter hanns Daga, so af þessu ma sia, ad þad satt er, sem Paulus umm hann segier: Ad i hønum sieu hullder aller Fiarsiooder Vitskunnar. Ecki einasta fundust þeir medal Gydinga, er sig giørdu ad Christo, so sem var Bar-Cochebas, er Anno 130. safnade Ogrynne Hers a moote Hadriano Keysara, og sagdest vera Stiarna sw, er Bileam umm spaer 4. Mos. 24. Helldur og medal þeirra er sig christna kølludu, so sem var Simon hinn Fiølkunne, og Otal fleire, sem wt komu af hanns Skoola, og tøldu Foolkinu þa Trw, ad þeir væru Heimsins Endurlausnarar, giørdu og mørg følsk Krapta-Verk, so sem af fornum Christendooms Søgum er alkunnugt; Vid þessum tekur JEsus Vara sijnum Læresveinum, og ecki einasta þeim, helldur og øllum þeim, sem hann og hanns Kienningar elska mundu, þvi so sem hann sagde i Bænenne til

siins

sijns Himneska Fødur: Eg bid ecke einasta fyrer þeim ( Hann meinte Lærersveinana ) Helldur og fyrer þeim, sem aa mig trwa munu, fyrer þeirra Ord: So hefur hann og þetta øllum þeim sagt, er Postuleg Kienning bodud verdur, so sem hann med berum Ordum segier hia Marcum, i 13. Capitula: Þad eg segie ydur, þad segie eg øllum, vaked þier: Og fyrer þvi, ad Aminning þessi heyrer og oss til, yfir hveria lijklegt er ad Heimsins Ender sie komenn, þa vil eg hana alleina med sijnum Lærdoomum stuttlega yfirvega.

Hvar til oss adstode goodur Gud med Krapte sijns Anda, i JESU Nafne, AMEN.

## Utleggingenn.

NEdrei kunnum vier Guds fodurlegre Giædsku þar fyrer ad fullþacka, ad hann hefur Lande voru þyrmt fyrer Villum og Afgudadyrdkun; Hanns Nafn sie þar fyrer Lofad og Vegsamad umm Allder Allda! Samt mun þo Satan ecke læta oss Hlutlausa: Varne Guds millda Hond vid þvi, ad hann deyde Sæler Mannanna mz folskum Kienningum, þa leitar hann til med illum Dæmum, med vondum Fortolum, og Aeggian til Lasta og vondra Verka, med Toomlæte og Hyskne i þvi ad vijsa þeim Guds Gøtu, sinn hana ecke faa sialfir ratad: Litlu skifter mz hveriu moote ad Fiandenn og hanns Verkfære svijkia daudlegra Manna Sæler wr Guds Hende. Jll Heimsins Epterdæme, sierdeilis þegar þau ecki stroffud eru, þau eru sterkare til ad draga Taum Andskotans, enn nockur Villu Madur: Margur mun vera fyrer ranga Trw fordæmdur, og þo kannskie ei færre fyrer illann Verknad; Þar fyrer segier og Endurlausnarenn: Vei þeim Manne, fyrer hvern ad Hneixlaninn kiemur, Matth. 18. Epterdæmed er ein almenneleg Tunga, sem aller skilia. Þad var hallded Furduverk umm Mitridatem Konung i Ponto ad hann hafdei Lide sijnu allrahanda Þiooder, og gat þo talad sinne Tungu vid hvern þeirra; Enn þad er stærra Furduverk, ad eitt Epterdæme talar þegiande vid alla Menn, sem þad heyra, og þoott þad sie Hlioodlaust sialft, giører þad Þusund Tungur skijrt talande: Jll Dæme spilla bæde Vondum og Goodum: Vonda draga þau til Epterbreitne; Þvi hvad elskar sier lijkt: Þann Gooda, til ad tala illa umm hann, sem þad af sier giefur; Þvi faaer eru so Raadsetter, ad ecki hallmæle þeim sem illt adhefst; Jafnvel þoott Verked byrie ad hata enn Mannenn elska, og Menn eige ad lagfæra þad sem illa fer, enn lasta ecki, so sem Paulus aaminner þa i Galatia, segiande, Cap. 6. Brædur; Ef nockur verdur yfirstijgenn af einhverre Hrøsun, þier sem Andleger erud, leidriettid þann sama med hoogværum Anda. Þad er ad vijsu satt, ad engenn er sa aa medal vor, er kienne Villu neina; Enn hvert ad vier kunnum þar fyrer ad hroosa oss af þvi, ad hin sanna Trw aa Christum, fyrer hveria Menn Sæluhoolpner verda, hvert ad hun drottne i allra Manna Hiortum, þar umm mættu Menn efast nærsta miøg. Endurlausnarenn segier umm Fals-Spaamennina, ad af þeirra Avoxtum skulu Menn þeckia þa: Og hid sama þore eg ad segia umm þa, ed sier hroosa af Gudhrædslunne ( Þad er af Christinndoomenum, so sem Paulus hann aa Stundum nefner ) Enn afneita þo hennar Krapte, 2. Tim. 3. Hver er þa christeleg Trw? Hun ed verkar fyrer Kiærleikann, Gal. 5. Enn hvernig honum vared sie aa þessum verstu og sijdustu Dogum, þad finnur hver einn, þegar hann

stijngur Hendeñe i sinn eigenn Barm, og spyr sitt Hiarta ad, hversu fws ad hañ sie ꜳ ad tilgiefa sijnum Nꜳunga hanns Misgiørder: Hvad mikid hañ vill missa af sijnum Munum, til ad hiꜳlpa þeim Auma og Naudstadda: Hversu liwfur hann er ꜳ ad afsaka siñ Broodur, tala vel um̃ hann, og færa alla Hlute til betra Vegar: Hversu kostgiæfner ad Forelldrar og Hwsbændur eru i þvi, ad ala upp Børn sijn og Hiw i Guds Otta og goodum Sidum: Med hveriu Skape ad Børn og Þioonustu-Foolk hlijda Forelldrum og Hwsbændum, edur hiner Undergiefnu þeim Yfirbodnu. Allt ætla eg þetta fare i Olestre hiꜳ mørgum Manne: Hver þad heyrer, hann hygge þar ad! Edur hver er þa Christennddoomureñ, er Menn hroosa sier af, þegar Kiærleikann vantar? Hver ad er Saal Trwareñar, so sem Jacob segier; Ad hun sie daud ꜳn Verkaña, Cap. 2.

Hier stendur i Ondverdu Gudspiallenu: Nær þier lijted Svijvirding Foreydsluñar, Standande i Helgum Stad: Margar Gietur eru ꜳ þvi, hvad þetta vered hafe. Nockrer meiña þad hafe vered Bijlæte hinns Romverska Keysara: Adrer neita þvi, og segia þad hafe alldrei innkomed i Jerusalems Mustere: Sumer ætla þad eckert annad sie, enn Her Romveria, af þvi, ad þegar Lucas skrifar um̃ þetta Efne, segier hann: Þegar þier siaed Jerusalem umkrijngda med Herskyllde: Edur og so Oalldar Flockur sꜳ, er komu fyrer Eydeleggingunna braust inn i Jerusalem, og saurgade Mustered med Morde, Manndrꜳpum, og allra Handa Svijvirdingum; Þesser voru Gydinga Kyns, og kølludu sig Zelotas; þad er, Vandlætara, og var þad Svijvirding noogu stoor, ad þeir settu uppꜳ sig Nafn Gudlegrar Vandlætingar, sem Guds Mustere smꜳnudu og svijvirdtu, verr enn nockurn Tijma Heidingiar: Til eru þeir sem hyggia, ad þesse Svijvirding Foreydslunnar hafe vered Gull-Ørnenn sa, er Herodes Konungur liet setia uppꜳ Mustered, til Agiætis vid Roma Rijke, hvers Merke ad Ørneñ var, og høfdu Romveriar ꜳ þeim Atrwnad mikinn; Þess gietur Tacitus i siñar Annꜳla Bookar Cap. 2. Er og all lijklegt, ad þad hafe nockud þesshꜳttar vered; Þvi Svijvirding Foreydsluñar, su er Daniel talar um̃, Cap. 11. Er ꜳn alls Efa Bijlæte Skwrgodsins Jupiters, er Antiochus Epiphanes liet setia inn i Guds Mustere, af hveriu rꜳda mꜳ, ad þesse, er Daniel um̃ spꜳer, Cap. 9. Og Endurlausnarenn hier um̃ gietur, mune hinne fyrre ꜳ einhvern Hꜳtt hafa lijk vered: Samt er allt þetta ad vijsu Ovijst. Og þoott eg segie hier um̃ imsra Manna Meiningar, til Froodleiks þeim, er epter vilia taka; Þa vardar oss, christna Menn, nærsta lijted hier um̃: Enn hitt byriade oss ad rannsaka, hvert ad Svijvirding Foreydslunnar kynne ecki enn nu ad finnast i Guds Kyrkiu, ef vel er leitad. J Jerusalem hafde Gud sett Minning sijns Nafns Æfennlega: Hin Lijkamlega er nidurbroteñ, Guds Reide-Stormur hefur henne um̃ Koll kastad, eñ hin Andlega mun verda hiꜳ oss til Enda Veralldar, Matth. 28. Enn hvert henne er alltijd so hreinne hallded, sem byriar, þar er vandlega adgiætande: Jeg sagde ad i Jerusalem hefde Gud sett Minning sijns Nafns, þar bioo hann yfer Cherubim, enn þad er ecki minne Nꜳd, ad hiñ ædste Prestur hefur sagt til vor, Joh. 14. Hver sem elskar mig, hañ vardveit-

er

er mijn Ord, og minn Fader mun elska hann, til hanns munum vid koma, og Vistar-Veru hia honum giora. Enn æ oss daudlega Menn, under Syndena sellda! Hversu lijtil er Miñing Guds Nafns hia oss, þegar vier metum alla Hlute framar hañs Dijrd! Hversu lijted af vorum Gagnsmunum, voru Lijkamans Epterlæte, vorum Virdingum, vilium vier æ Stundum missa fyrer hanns Elsku! Hvad opt metum vier Bod Mañaña meir eñ Guds, og hrædunst meir þa, ed Lijkamañ kuña ad deyda, eñ þañ, sem Lijfi og Sælu kann ad kasta i eilijfann Elld! Hvad opt giorum vier sialfa oss ad Gudum, er vier tilreiknum vora Hamingiu og Lucku-Læn Framsyni vorri og Erfidismunum, eñ gætum ecki ad þvi, ad nema Gud vakti Borgernar, þa vaka Voku-Meñerner til forgiefins, nema Gud bygge Hwsed, þa erfida þeir ed byggia til Onijtis! Ps. 127. Hvad lijtil er Miñing hañs Nafns hia oss, þegar vier vanbrwkum hañs heilaga Nafn, sverium og liwgum þar vid, ia, þyker þad eingiñ Synd vera, þvi þad sie daglegt Mæl! Ja, margur selur JEsum fyrer minna enn Judas, sa ed leggur hanns Nafn vid hiñ allra minnsta Hiegooma: Hversu lijtel er Miñing hañs Nafns hia oss, þa vier foroktum hanns heilaga Ord, og fordunst þangad ad koma, sem þad er um Hond haft! Hversu lijtid miñunst vier þa a hañ sem Mootmælinn þoldi af Syndurunum, til ad opinnbera syndugum Moñum Lijfsins Veg! Þegar vier vilium ecki lia vor Ouñsforenn Eyru til ad heyra þad, sem er þo Kraptur Guds til Sæluhialpar ollum þeim sem trwa, Rom. 1. Menn sitia a Stundum under Heyrn Guds Orda, og vita ad heilagur Andeer i Ordinu, og þad er eins og eitt Mustards-Korn, hvert ad er hid minusta medal Sædanna, enn vex þo so hatt, ad Fuglar Himinsins bwa sier Hreidur i Greinum þess, Matth. 13. Samt vilia Menn ecki lia þvi hid allra minnsta Rwm i Akre sijns Hiarta, hvar inni þad friovsgast meige og Avort færa. So sitia vorer Bwgardar, vor Akneyte og allra Handa Hiegoomi Veralldarennar þar, sem hin heilaga Guddoomsins Þreñing ætti ad sitia, i sijnu Musteri, sem ad er vort Hiarta, 1. Cor. 3. Segied mier i Guds Nafne, segied mier: Er ecke þvilijkt Svivirding Foreydsluñar standandi i helgum Stad? JEsus hefur læted i sijna Kyrkiu hier a Jordunne iñsetia sitt Bijlæti, þad er Kiærleikureñ, þad er hañs Mynd, þvi hañ er Gud, og Lioomi sijns Fodur og Jmynd hañs Guddoomlegrar Persoonu, Hebr. 1. Eñ Gud er Kiærleikuriñ, 1. Joh. 4. Þetta sitt Bijlæti fieck hañ i Hendur sinum elskulegum Lærisveinum, er hann sagde, Joh. 13. Þar af skulu aller þeckia ydur, ad þier sieud mijner Lærisveinar, ad þier elsked hver añañ. Þessa Lijkneskiu JEsu settu þeir iñ i hañs Kyrkiu hier a Jorduñi, med allre Trw og Dygd, þvi skrifad er, P.G. 2. Ad aller Hluter voru sameigiñleger med þeim Trwudu i Jerusalem; Þeir bæru Eigur sijnar fram fyrer Postulaña Fætur, til ad skipta þeim upp medal Naudþurftugra, og aller voru þeir i Eindrægne Andans: O hvad Olijker þessum Tijmum! Þar Ræn og Stuldur, Okur, Harddrægne, Rængsleitne i Kaupum og Solum, Myskunarleyse, Agg, Reide, Fiandskapur, Ofund og Orambsemi, sumra Maña a medal, añadhvert þikia eingver Okoster, edur og so smæer

Lest-

Lester ad vera: Er þad hañs Bijlæti, sinso heitt elskade oss, ad hañ doo fyrer oss Ranglaata, þa vier vorum hanns Ovíner? Rom. 5. Er þad hanns Lijking, sem ecki upplauk sijnum Munni, þegar honum var mootmællt, helldur enn Saudur til Slatrunar leiddur? Esa. 53. Er þad hanns Mynd, sem gieck i krijng, giorde Gott og græddе alla, Ja, allt giorde hann vel, þvi Dausa liet hann heyra, og Maallausa tala? O! Vei, O! Vei; Jeg þori ad segia, þar er onnur Mynd innkomiñ, ecki hinns Romverska Keysara edur hanns Merkis, helldur Andskotans og hanns Merkis, sem er Syndiñ, hveria ad Madurinn lætur drottna i sijnum daudlegum Lijkama, og lær Limu sijna henne til Vopna. Þier erud af Fodurnum Fianda, og leitest vid ad fyrerkoma mier, segier JEsus vid Gydinga, Joh. 8. Enn þeir, ed eru Hardbrioostader, Asælner, Gierplægner, og ecke þyrma hanns Limum., munu þeir ecki strijda under sama Merke og þeir ed hañ hotudu og af Lijfi tooku? Edur hvad er þad, sem Raustiñ af Himni sagdi vid Paal, P.G. 9. er hann foor med Hernadi og Ofridi til Damascum, a moote Guds Sofnude: Saul, Saul, þvi offsækir þu mig? Edur þad sem Doomare Lifendra og Daudra vill segia til hinna Gudlausu, þegar hann kiemur i Skijum Himins med Makt og miklu Velldi, a hinum stranga Degi alls Hollds: Hvad þier giordud Einum af þessum mijnum minnstu Brædrum, þad giordud þier mier? Matth. 25. Andskotiñ kom i Orms Lijki, þegar hann sveik vora Fyrstu Moodur, þad var hanns Mynd; Enn Christur nefnir þaa Eytur-Orma og Nodru-Kyn, Matth. 23. sem ad ytsiwga Hws Eckna og Fodurlausra; Þeir ed tijunda Mintu, Anis og Cumen, Hluti sem lijtid var Jspunnid; Enn gleymdu þvi sem hellst er i Logmaalinu, Trwnni og Myskunseminni: Mun ecki þesse Hoggormsins Mynd allvijda vera skridinn inn fyrir DRottinns Altari, sem er Mannsins Hiarta? Þar Flaattskapur og Undirhyggia, spunninn samann vid Agyrni og Fedraatt og adra þvilijka Lesti, þykir Framsyni ad vera, og saa Virfyrringur, sem ecki kann ad fleyta sier i þessu.

Christur segier hier i Gudspiallinu; Ad Hraski þeirra Tijma, sem koma muni epter Jerusalems Eydileggingu, muni so mikill verda, ad i Villu muni jafnvel leidast, ef skie kyñe, Utvallder; Og þad vegna Fals-Spaamañana, þeirra er opudu eptir Guds Almætti, og sviku margar Saaler fraa honum: So skiedur a þessum vondu Dogum alltijtt og allvijda, ad þeir sem añars mundu Frooмir vera, þeim tekst þad ecki vegna hiña Raangsnwnu og Hreckviisu i Verolldiñi, um hveria Salomon talar, Ordsk. 1. Ad þeir segie: Kom med oss, vier vilium uñsitia Blood, og hylia oss ad Osekiu fyrir hinum Meinlausa; Vier skulum eignast mikil Audæfi, og fylla vor Hws med Herfaang, legg Felag med oss, vier skulum allir eiñ Siood hafa. Einga argari Fals-Spaameñ þarf, eñ þvilijka Belials Syni, og so spillta Naatturu vora; Þvi hver eiñ freistast þegar hañ af siñi eigiñ Girnd verdr tældr og afvega leiddr, þar eptir Girndiñ, nær hun er friooffsom ordiñ, fædir hun Syndina, eñ þegar Syndiñ er giord, fædir hun Daudañ, segir Jacob, Cap. 1.

Dragi einginn sialfann sig a Taalar þar med, þoott ad slijker uñgaangest med sama

Hætte

Hætti og adrir i Guds Christne; Þeir heyra Ordid, eñ færa ei Avoxt þar af, þeir brwka Sacramentinn, enn þo sier til Dooms Afellis; Þeir segia: HErra HErra, eñ giora þo ecki Fodursins Vilia; Þvi vill og Doomarinn til þeirra segia a hinu mikla Allsheriar-Þijngi: Ecki þeckta eg ydur. JEsus segier um̃ Fals-Spamennina, ad þeir komi i Sauda-Klædum, enn innra sieu þeir glepsande Vargar: So eru og þeir, ed locka einfalldar Saler fra Gudi med vondum Fortolum: Þesser eru þeir, er St. Judas um̃talar i hanns Pistle, segiande: Þesser eru Bletter i ydar Kiærleiks-Veitslum, nær þeir hallda Samsæte med ydur, fædande sialfa sig Hyggiulaust, Sky fyrer utann Vatn, hveriu Vindurinn i krijng feyker, rotnar Eykur og Avaxtarlausar, tvisvarsiñum daudar og upprættar. Og ef þann Veg var hattad a hinum Fyrstu Christniñar Dogum, þegar ad Krapta-Verkiñ fylgdu enn þa Kienningunni; Hvad mun ei nu vera, þar ad þvi mun lijda, ad Mannsins Sonur ecki finni Trw a Jordu? Luc. 18. og lijklegt er, ad þeir Tijmar nu yferstande, sem Roddinn af Himne spaer um̃, Op. B. 12. Vey ydur sem a Jordunni bwid og a Sioonum, þvi Diofullinn er ofann til ydar farinn, hafandi Brædi mikla, af þvi hann veit hann hefur stuttann Tijma. Nu fyrir þvi, christner Meñ, ad hier er slijkur Vodi a Ferdum, þa verdum vier af hinum gooda Meistara aminñter i þessa heilaga Dags Evangelio; Latum oss ecki feikia af hverium Vindi Lærdoomsins, Eph. 4. edur tegia med Hafgygu-Saung Veralldarinnar i Snorur Diofulsins. JEsus giorer þad hier bert med skijrum Ordum, hvernig hann og hanns Kienningu þeckia megi fra annarlegum Lærdoomum. Ef þeir segia: Hann sie a Eydemorku, stendur hier; Ad sonnu kiendi JEsus i Eydimorku, þo i margra Þusunda Aheyrn, ecki i Laun-Kofum, þvi hann taladi eckert i Afkimum, helldur kiendi hañ opinnberlega i Musterinu; Þar fyrir lijkir hann Tilkomu sinne vid Elldingu þa, er wtfer af Uppgaungu, enn skijn allt til Nidurgaungu, hvad eg hygg ad ecki sie ad skilia um̃ hanns Tilkomu til Doomsins, helldur um̃ hanns Nadar-Tilkomu i Ordinu, og Leyptran Evangelii, hvers Byrta ad strax epter hanns Himna-For, og allra hellst eptir Jerusalems Eydileggingu, upplijsti mikinn Part Veralldar fra Austri til Vesturs: Og þad dreg eg þar af, ad hier talast ecki um̃ Skiootleik Elldingariñar, helldur um̃ hennar Byrti, og JEsus er hier um̃ Kienningar ad tala, enn ecki um̃ sijna Tilkomu til Doomsins, fyrr enn sijdar i þessum sama Capitula. Um̃ þessa Byrte Guds Evangelii og siñar Predikunar talar Paulus, 2. Cor. 4. segiande: Þar fyrer hofum vier afsalad oss þau Fylsni, er Menn meiga skamast sijn fyrer, ecki gangandi med Undirhyggiu edur falsandi Guds Ord, helldur i Opinberun Sannleikans, giorande oss i allra Manna Samvitskum velþockada fyrer Gudi; Þvi ef vort Evangelium er hulid, þa er þad þeim hulid sem tapader verda. Nu fyrst ad Guds fodurleg Giædska hefur so vijdt wtbreidt Þeckingu sijns Nafns, so þad Foolk, sem sat i Myrkrunum, hefur sied Lioos miked, Matth. 4. Og hun er einnig til vor kominn, sem bwum undir þessu ytsta Heimsins Skauti, so ad segia a Footskor Veralldarennar, þa lat þinn Foot vera fwsañ, Christ-

iñ Madur, til ad ganga i Guds Hws, þar sem hañs Ord er um̃ Hond haft, og lijd ecki ad Saalu þijna velgi vid þvi so sem odru Liettmeti, þvi þad er Foodur heñar, an hvers heñi mun med eilijfu Hwngri saalgad verda i Helvijte, hvar Fordæmder ecki faa munu eiñ Dropa Vatns til ad kiæla Twngu sijna med, þar þeir kveliast i þeim Loga, Luc. 16.

Hvar Sem Ad Hræed Er, Þangad Safnast Ernerner: Þetta talar Guds Sonur an alls Efa um̃ sialfann sig. O minn HErra JEsu! Þvi er so adkvedid þijnum blessada Lijkama? Hvern ad jafnvel Englarner og Hofud-Englarner tigna; Fyrer hverium ad Kraptar Himnanna bifast: Fyrer hverium oll Verolldenn leikur a Reide Skialfe: J hverium ad bijr oll Fylling Guddomsins Lijkamlega, Col. 2. Hann verdur hier Hræ nefndur. Hvar fyrer er þetta skied, Christner Menn? Jeg minnist a mijnar Synder a þessum Dege, sagde Skeinkiare Pharaonis Fordum i Egyptalande: Og þvi mundi oss þa ecki ollu skylldara vera, ad miñast a vorar Illgiorder, sem hafa Guds Son kvaldann, og Hertoga Dijrdarinnar a Krossenn festann? Þvi sannlega bar hañ vorar Synder, og vorum Orkumlum blood hann a sig, Hegningenn hefur a honum leiged, og fyrer hanns Beniar erum vier Heilbrygder ordner: Hann er ordinn hinn Fyrerlitlegaste og Forsmaanarlegaste, fullur Eymda og Kraankleika; So sem sa; ed hylde sitt Andlit fyrer oss, og þar var eckert a honum, sem vier virdtum, Esa. 53. J einu Orde ad segia: Hañ var so sem eitt wtkastad Hræ, so sem Madkur og ecke Madur, fyrer vora Skulld, sem laum i voru Bloode, wtkastader a Vijdavanginum, og þar var ecki eitt Auga sem myskunade oss, þegar hann sagde til vor, i voru Bloodi, ad vier skylldum lifa, Ezech. 16. Enn þenna Maals hatt framsetur vor DRottenn, til þess, ad kienna sijnum Lærisveinum, hvar hann sie ad finna, sem er, i hinni sonnu Christilegu Kyrkiu, er hann hefur stiptad hier a Jordunne, þar er hanns ad leita i Ordinu og Sacramentunum; Þangad sækia aller hañs Elskendur; So sem Ernerner ad Hræinu: Ef eg verd upphafiñ fra Jordu, þa mun eg draga alla til mijn sialfs, segier JEsus, Joh. 12. Hann meinar an alls Efa, þegar hann yrdi upphafenn a Krossens Gaalga; Þvi Johañes skrifar: Ad hañ hafi sagt þetta, teiknande med hverium Dauda hañ deya mundi. J þessum JEsu Dauda hafa allar harmþrwngnar, allar sañ-ydrande Mañeskiur, allar þær sem hwngra og þyrsta eptir Riettlætinu, þær hafa þar, segie eg, eitt andlegt Foodur, ecki sijdur eñ Ernerner i Hræinu. Heilagur Johañes, sa ed þetta skrifar, um̃ hvern og segiest, ad JEsus hafi hañ elskad, hann verdur samlijktur einum Erne, og þad þess vegna, ad hann hefur med hanns andlegum Skilninge so hatt floged, ad einginn hefur so greinilega talad um̃ þann Orannsaka ñlega Leindardoom Guddoomsins Þrenningar, og Holldtekiunnar Christi, sem hann i hanns Evangelio og Pistils Fyrstu Capitulum. Ein Riett-christeñ Saala er einn sannur Christi Lærisveinn, hvern hann elskar, heñar Uñgeingne er a Himnum; Hvar heñar Fiesioodur er, þar er heñar Hiarta, enn heñar Fiesioodur er a Himnum, hverium ei kann Molur nie Rid ad granda, Matth. 6. Hun flijgur upp i Hædernar med Trwariñar Vængium, under hverrar Hlijdne

ne hun giefur sijna Skilningu sæmgna, þar finur hun sitt Foodur, þvi hans Holld er sañarleg Fæda, og hans Blood sannarlegur Dryckur: Þetta sitt Holld og Blood gaf hañ sijnum elskulegum Læresveinum til Nautnar i DRottennlegre Kvølldmæltijd, skomu ædur enn hann lijflatenn var, og giordest so sem eitt Hræ fyrer vorra Synda Saker; Þængad safnast enn nu i Dag, epter hanns Bode, aller þeir sem erfida og Þwnga eru þiæder, til ad endurnæra Sæler siinar og ad minnast Dauda DRottens, med hverium þeir forlijkter eru vid hinn lifanda Gud. Hann sedur þinn Munn med Giædum, og endurnijar þinn Ungdoom, so sem Arnarennar, segier David, Ps. 103. Hvergi skiedur þad helldur, enn i Medtøku Christi Hollds og Bloods, þa Madureñ þess neyter under eins med Trwarennar Munne, og einn Harmþrwngeñ Ande smackar hvad sætur ad DRotteñ er; Þvi JEsus segier: Eg er hid lifanda Braud, sem af Himnum ofañ kom; Ef nockur etur af þessu Braude, hañ skal eilijflega lifa: Enn þad Braud, er eg gief, er mitt Holld, sem eg mun wtgiefa fyrer Lijf Verallðarennar, Joh. 6. Hann meinar hier samt hina Andlegu Nautn, sem med Trwñe skiedur: Fyrer þvi segier hañ aptur so, Joh. 11. Eg em Upprisann og Lijfid: Hver sem æ mig trwer, þoott hañ sie daudur, þa skal hann samt lifa: Jæ, af þessare Andlegre Nautn, verda þeir Himnesku Erner, sem eru christnar Sæler, andlega endurnijader, og alltijd ein nij Skiepna i Guds Auglite, þvi af heñe vidurkveikest Trweñ, af Trwñe kiemur Elskañ, af Elskuñe fædest Kiærleikurenn til Næungans, af hverium ad uppspretta allar christelegar Dygder og Mannkoster: Þar fyrer segier JEsus eñ þa, Joh. 6. Sæ sem etur mitt Holld og dreckur mitt Blood, hann blijfur i mier og eg i honum: Eñ sæ Madur er blijfur i honum, og hann i Mañenum, hann ber mikiñ Avoxt, Joh. 15. Eg hygg JEsus hafe tekid þenna Ords-Hætt af Jobs Bookar Cap. 39. Þar ed DRotteñ segier vid hann um Ørnena: Hun bijr i Klettunum og i Fiøllunum, og i Turnunum, þadann skygnest hun epter Ætum længt æ Leid med Augum siinum; Heñar Ungar drecka Blooded, og hvar sem Hræeñ eru, þængad flijter hun sier. Minn HErra JEsu! Hver er hañ, sem segier, Lofk. 2. Mijn Dwfa, þu sem i Biargskorunum bijr, og i Fylsnum hinna þverhnijptu Klettanna! Sijn mier þitt Andlit, og læt mig heyra Raust þijna, þvi þijn Raust er fogur, þijn Asijnd lystelleg: Ertu ei siælfur þad, minn HErra JEsu? Hver er hin sæta Rausteñ? Þad er þad Lofed þu hefur þier tilreidt af Munne Smæ-Barnanna, sem mylkia sinnar Moodur-Briooost, og þinnar Umnustu. Hver er hin fagra Asynd? Þad er sw, sem þu oss afrekader, þegar þijn Asiæna vard afskræmd, meir eñ añarra Manna. Hver er þijn Dwfa, minn HErra? Þad er þijn christeleg Kyrkia, sem hier verdur i Evangelio Ørn kollud. Hveriar eru Biargskorurnar? Þad eru þijnar blessadar Under, þu sem ert vort fasta Biarg, og Hella vors Hiælpræðis. Hverier eru heñar Ungar? Þad eru þijn og hennar Born, þijn Born, sem DRottenn hefur giefed þier, Esa. 8. Og ecki epter Holldsins Villd, edur Mannsins Vilia, helldur epter Gude eru fædd, hverium þu hefur og Makt giefed Guds Bornum ad vera, Joh. 1. Hvert er þad Blooded, er þeir lepia?

Þad er þitt Blood, O! JEsu, sem ad hreinsar oss af øllum vorum Syndum, 1. Joh. 1. Hvert er þad Hræed, er þeir safnast ad? Þad er þiñ blessadur Lijkame, sem er sannarleg Fæda, Joh. 6. Og a Gaalgañ var fyrer vorar Illgiorder heingdur. Þangad vilium vier safnast, þar villum vier Sadning siña Saalum vorum, þar vilium vier lifa og deya; J þessum Biarg-Skorum vilium vier hylia oss a hinum stranga Deige, medann Reidenn fram̃ hia geingur, og ecki segia til Haalsanna, hylied oss, edur Fiallanna, hrinied yfir oss, þvi þu DRotteñ ert vor Kastale, vort orugt Vijge, vort fasta Biarg.

Þier med Fodur og Heilogum Anda sie Lof, Prijs, Heidur, Vegsemd og Æra, af øllum Utvølldum Englum og Moñum sogd og swngenn, um̃ Alld-er Allda, Amen, i JEsu Nafne Amen.

# Tuttugasta og Siøtta Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 11. Cap.

A Þañ Tijma. JEsus Andsvarade og sagde: Eg þacka þier Fader og DRotteñ Himins og Jardar, ad þu dulder þetta fyrer Spekingum og Vitringum, og opeñberader þad Smælingium. Ad soñu, Fader, þvi þad var so þægelegt fyrer þier. Aller Hluter eru mier i Valld giefner af mijnum Fødur. Og engeñ þecker Soneñ nema Fadereñ, og engeñ þecker Føduriñ nema Sonureñ, og hverium Sonureñ vill þad Opiñbera. Komed aller til mijn, þier sem erfided, og Þwnga erud hladner, eg skal endurnæra ydur. Takid a ydur mitt Ok, og læred af mier, þviad eg em Hoogvær og af Hiarta Lijtelaatur, og munud þier fiña Hvijld Saalum ydrum, þviad mitt Ok er sætt og mijn Byrde er liett.

## Exordium.

Valla trwe eg, ad nockur Huggunarsamlegre Grein fiñist i Heilagre Ritningu, enn þau dijrmætu Ord Frelsarans, er standa i þessu blessada Evangelio, med hverium hann hefur til siñar Naadar og Endurnæringar boded øllum þeim, sem Erfide drijgia, og Þwnga eru þiaader. Hvad kann sa Gledelegra ad heyra, sem allskins Eymdum hladenn er, og einkis a Von nema eilijfra Pijsla; helldur enn þad, ad hann, sem allt Valld er giefed a Himne og Jørdu, Matth. 28. Hann bijdur til sijn ad fyrra Bragde soddann eiñe voladre og tapadre Manneskiu, og ecki einasta bijdur henne til sijn, helldur eg lofar ad hann vilie endurnæra hana? Þetta er so dijrmætt Ord, ad eckert kann Fagnadarsamara ad hugsast edur talast: Enn hverier ad sien meinter med þessum Lausnarans Ordum, þar um̃ er ecke allra Meining eins. Sumer ætla ad DRottenn hafe talad hier um̃ þa sier i lage, sem ad leitudu Saaluhiaalparennar a þeim Døgum i Kyrkin-Sida Løgmaalinu, i Fedranna Setningum, og i Verkum Løgmaalsins, enn kunnu þo enga Hvijld ad finna Saalum sijnum þar af. Þesse Meining er Guds Orde samhlioda, þvi Esaias, Cap. 9. kallar Løgmaaled, Byrdar Þwnga. Adrer meina ad hier med sien þeir meinter, sem under Krossenum stynia, og bera Christi Ok a Herdum sier, enn briota þo ecki Okid i sundur, edur þverskallast a moote Gude, sem þad aaleggur. Ad sijdurstu ætla nockrir, ad þad sien þeir, sem stynia under

Byrde

Byrde Syndanna, og skielfast fyrer Guds Reide og eilijfre Fyrerdæmingu. Nu fyrer þvi, ad hinn stoore Biskup med þa vellærdu Twnguna plagade aa sijnum Hiervistar Døgum mikla og marga Hlute i saamm Ordum inne ad binda, þa hygg eg ad allt þetta, sem aadur er um gieted, sie foolged i þessu Maale, hann bijdur øllum til sijn, þad er øllum þeim, sem aa einhvern Haatt eru mædder edur Þwnga þiaader, jafnvel Ogudlegum, ydrunarlausum og Þverbrotunum, hvøriunt hin mesta Byrde aa Herdum liggur, þoott ei finne þeir til hennar, þar hann er fyrer alla daaenn, 2. Cor. 2. Og fyrer hveria hann daaenn er, þeim hefur hann til sijn boded, þvi engenn vill hañ tapest, helldur ad aller komest til Sannleikans Vidurkienningar, 1. Tim. 2. Enn søkum þess, ad nu er engenn saa medal vor, sem leite ad Saaluhiaalpenne i Løgmaalsins Verkum edur Setningum, enn um Krossburd DRottenns hefe eg nockrum Sinnum aadur talad; Þa vil eg i þetta Sinn tala um þa, sem under Byrde Syndanna þreitter eru, og hvad þad sie hellst, sem oss eige ad leida til ad taka feigens Hende aa moote þessu Naadarfulla Tilbode. Enn þu Giædskurijke Fader, sem øllum hefur til þinnar Myskunar boded, styrk oss med Krapte þijns Anda til þessa Verks, fyrer JEsum Christum! AMEN.

# Utleggingen.

Hoott þar eckert añad være, sem kyñe ad hræra oss til ad fagna þessu giædskurijka Bode, þa er þad vor eigeñ Eymd: Hver er so Þyrstur, ad hañ verde ecki feigeñ ad drecka, Hwngradur ad mettast, Þreittur ad hvijlast, Sioohrakeñ ad naa Hofneñe, Siwkur, ad hañ ecki giefe Aleigu sijna til, ad hañ meige heill verda, og saa ed i Fangelse situr, ad hañ kaupe ecki Lausn sijna dijrum Doomum? Eñ nu er þad audvitad, ad Mañeskiuñe, aa medañ hun er under Guds Reide, heñe er midur fared eñ øllum þessum. Engeñ Þorste, Hungur, Erfide edur Siwkdoomur kañ ad jafnast vid þad, ad eiga Von aa hañs Oblijdu, fyrer hvers Auglite ad skiaalfa Fiskar Siaafarins, og Fuglar Himinsins, og Dijr Merkurinñar, og øll Skridkvikinde aa Jørduñe og aller Meñ, sem aa Jørduñe eru, Fiollenn klofna, Biorgeñ hrynia, og aller Mwr-Vegger munu til Jardar falla, Ezech. 38. Eckert Haf-Root er so sem Belials Becker, Ps. 18. So sem þau Votneñ, sem gaanga inn ad Saalu eins aangraads Syndara, Ps. 69. Hver eru þau Bond og Fiotur, sem meige jafnast vid Myrkranna Hlecke, 2. Pet. 2. Vid þad Dijke, sem vellur af Ellde og Brennesteine? Openb. 21. Og kunnum vier ecke ad efast um, ad allt þetta er Syndaranum bwed, þegar vier lesum i Løgmaale DRotteñs, 4. Mos. 27. Ad saa skule bolvadur vera, sem ecki helldur allt þad sem þar er inni skrifad: Segied mier þa, Born mijn; Hvilijk Faasiña er þad, ad taka ecki aa moote honum med allskonar Blijdu, sem bijdur Monnunum ad giora þa kvitta vid Oskop þesse? Hiaa hverium øll Veralldarinnar Ogiæfa, Hwngur, Fatleyse, banvænar Sootter, Ørbyrgd, Utlegd, Ossookner, Ellds-Naud, Sverds-Eggiar, og jafnvel sialf Fiorbroteñ i Daudanum; Þoott allt þetta i einu hladest aa eina Mañeskiu um allann Heims Alldur, þa være þad, segie eg, hid mesta Epterlæte og Sæla hiaa hinum eilijfu Hormungum, er Syndeñ hefur tiluñed. Og være nu þetta Tilbod ecki so mikils virdande, ef vier hefdum nockud til þess unned, edur leitudum þess ad fyrra Bragde, þvi þad kynne þa ad heita so sem nockurskonar Verdkaup, so sem ef einn Þienari giorer eitthvad þad, sem einum Hofdingia vel lijkar,

ad hann setur hann vid sitt Bord, og sæmer hann Giofum, jafnvel meir enn hañ hafde tilunñed: David giorde vel vid Mephiboset, og liet hann eta Mat vid sitt Bord, sotum Vinættu sinnar vid Jonathan Fodur hanns, 2. Sam. 9. Vidlijkt giorde hann og vid Son Barzillai wr Gilehad, 1. Kong. 2. Eñ þvi er ecki til ad segia hiœ oss; Engeñ leitar ad Gude, þegar hañ kiemur i þenna Heim, siœlfur bijdur hañ oss til sinnar Endurnæringar i Skijrnenne: Þad mœ uñ alla Menn segia, sem Ritningenn segier uñ hina vantrwudu Verolld, ad allt Holld hafe fordiarfad sijna Vegu, Gen. 6. Reidennar Born fædunst vier, Eph. 2. Reidennar Born mundum vier uppalast, og deya Reidennar Born, nema Gud fyrer JEsu Dauda hefde meire Myskun œ oss giort. Eg heyre ecki i Gudspiallenu, ad þad Foolked, sem var samannkomed ad heyra þessa Predikun þad hafe leitad epter þessu Tilbode. Hann blessadur var i þessare Rædu ad straffa þær Ogudlegu Borger Corazin, Betzaida og Capernaum, i hverium giord voru flest hañs Kraptaverk, og er hañ sem mest œngradest af Mañaña Opacklæte, þa spratt upp þesse Lijknarfulla Vatns Æd af Bruñe Myskunarennar: Og skulum vier ecki meina, ad hañ hafe þad alleina talad til þess Foolksins, er þa nœlægt var, helldur og til vor, sem Ord hañs heyrum eñ nu i Dag. Dæmid þier nu siœlfer, Brædur mijner; Ef eiñ Naudstaddur og allskonar Eymdum hladeñ visse sier Hæle vijst, og villde þess ecki leita, jafnvel þoott ecki være honum þad boded, jafnvel þoott hann mætte hafa stoora Eptergœngsmune þar fyrer, munde hañ ei Rœdlaus halldeñ af ollum Moñum? O! Hvad tefur oss þa ad reña œ moote vorum Brwdguma, er ad fyrrabragde hefur oss, Glæpa-Moñum og Ovinum sijnum, þessa dijru Heilsu-Giof framboded, og liett af oss þessu Oke? Þu seg ier kaunskie i Hiarta þijnu: Eg fiñ ecki til þessarar Byrdar, vel fer uñ mig, og eg kieñe mijn einkis Meins. Þetta er allt Offatt, hvad Gud nœde! Findu Meñ til Meina sinna þa mundu fleire heilbrygder verda: Þu typtar þa O Rottenn og þeir finna þar ecke til, sagde Jeremias, Cap. 5. uñ Foolked i Jerusalem; Sama mœ eg segia uñ þa, sem Guds Heilaga Logmœls Reidar-Þrumur slœ uñ Eyrun, og þeir fiña þar ecke til, þoott þar fliwge einn Skruggu-Steinn af Sinai i hveriu Ordi. O Þu vesœll Madur! giæt þo þess, ad betra er eitt mikid Sœr, ef þad er lifande, helldur enn lijtel Skeina daud og sveñ; Betre voru allar Rœnglætingar Tollheimtumañsins, þegar þær voru jœtadar, helldur eñ allt Phariseæarans Riettlæte, sem hann stærde sig af, Luc. 18. Betre voru Synder hinnar Bersyndugu, sem þvode JEsu Fætur i Tœrum sijnum, helldur enn Vandlæte Simons, er kallade þad Ogiorning, ad snerta hana, Luc. 7. Þu ert þier ein gra Stoor-Glæpa medvitande, muntu þar fyrer vera saklaus fyrer Gude? Veistu ecki ad Himnaña Hiinnar eru ecki hreiner i hañs Auglite? Job. 15. Þvi muntu þa vera, sem daglega syndgar, og vinnur ei nema til Hegningar? Veistu ecki, ad jafnvel hin miñsta Synd steiper Mannenum i eilijfa Glotun, nema Sonur Guds hefde bætt fyrer hana? Ecke einasta hann, sem giorer Stoormerkeñ af þvi sem bannad er i Logmœlenu, helldur og sœ, sem ei giorer allt þad sem i þvi boded er, hann er bolvadur, Gal. 3.

Muntu

Muntu þa ecki vid Gud sekur vera; Þoott ei veger þu Mann, edur kreinker Egta-Kvinu þijns Naunga, edur steler med Launung hans Femunum? Edur er þad Forgiefins, sem hann hefur sagt, Matth. 5. Hver sem lijtur eina Konu til ad gyrnast hana, hann hefur allareidu drygt Hoor med henni i sijnu Hiarta: Og, hver sem reidist Broodur sijnum, hann er Raads sekur? O! Gud giæfe, ad Menn være so Kostgiæfner i þvi, ad rannsaka siaalfa sig, so sem ad hnijsa um annars Haattsemi! Þad er oss ecki so forullt ad giora, jafnvel þoott eckert sie oss þarfara edur naudsynlegra, til ad naalægiast vorn Frelsara med christilegri Ydran, þad er so Omissande, ad ef vier vilium þad ecki giora, þa giorer hann þad, sem ad Hiortunn og Nijrun rannsakar: Þvi segier hann hiaa Zophoniam, 1. Cap. Þad skal skie aa þeim Dege, ad þegar eg rannsaka Jerusalem med Lioose, ad eg skal straffa þaa Menn, sem eru samangrooner vid þeirra Saurende; Ecke þess vegna, ad DRottenn hafi Þorf ad rannsaka vorar Hugrenningar, aller Hluter eru Berer og Nakter fyrer hanns Augum, Ebr. 4. Helldur ad hann auglijse Fatleyse vorrar Blygdunar, Op.B. 3. nær vier hana ei siaalfer þeckia vilium, og kasta vorum eiginn Þreck i vorar Asioonur, so sem Malachias ad Ordi kiemst, Cap. 2. Þegar vier vilium ecki þvo hann af med Taarum vorrar Ydranar. Vite þvi aller Menn, ad eingin er so Heilagur, ad ef hann aa fram fyrer Gud ad koma, ad hann ecki aa einhverin Haatt megi lietta af sier Byrdi Syndanna. Enn hverninn maa hann henni aflietta, hafi hann alldrei til hennar fundid? Og so lengi sem hann ecki til hennar finnur, so leingi er hann Gudi og hanns Syne fiarlægur; Hann er kominn ad kalla Synduga og ecke Riettlaata til Ydrunar, Heiler hafa ecki Læknarans Þorf, Matth. 9. Guds Sonur er i Heiminn kominn til ad lækna þad sem sundurmarid er: Enn hvernig maa hann þitt Hiarta lækna, ef þad er heillt, og þu finnur til eingra Meina?

Eg heyre hier i Gudspiallinu, ad hann bijdur til sijn Ollum Þeim Sem Erfide Drygia, Og Þwnga Eru Þiaader, þad er, ollum þeim, sem eru sundurkramder af Megni Samvitskunnar, fyrer þeirra Afbrota Saker, hverier ed erfida i Taarunum, og væta um Nætur sijna Sæng med David, hverium Guds Hond er Of-Þwng ordinn, og þar er einginn Maattur i þeim fyrer Guds Ognan, Ps. 38. Og laangar so epter DRottne aa Þurrlendinu, Ps. 63. Þessum bijdur JEsus til sinnar Endurnæringar, enn ecki þeim sem hroosa sier af þvi, ad þeir sieu ecki eins og adrer Menn, Luc. 18. Ei helldur hinum, hverier þoott ad þeir sieu hinum verstu og swlustu Klækium og Skommum hladner þa finna þeir ecki meira þar til enn Kletturinn, þo Menn legge heilann Skips-Farm edur alldrei so mikinn Þwnga ofann aa hann; So maattugur er Diofullenn i þeirra Vantrw, Eph. 2. Þar fyrer, syndugur Madur, vilier þu nioota þessa Tilbods, og allra hellst i heilagre DRottins Kvolldmaaltijd (hvar Endurnæringen er aan Mælingar frambodinn ollum Þreyttum og ollum Sorgbitnum) vilier þu þessa Not hafa, segie eg, þa kvel Hiarta þitt med Ihugan þinna vondu Verka, og Guds heilaga Logmaals: Alldrei eru þau so faa, ad ecki meigi þau ofbiooda þier, nær þu hugleider þinn Overdugleik

leik og hañs Riettlæte. Tem þier slijkt Hugarfar, og slijt Hiarta þijnu med soddann Þaunkum Daglega, þa muntu brædlega þig erfida moodann, og so mikinn Þwnga finna, ad þu munt valla sær undir risid, þa ertu og fyrst hæfur til ad taka æ mooti þessu Bodi, þvi Giallð-Peningurinn verdur ecki giefiñ þeim, sem Illt adhafast, ei helldur þeim, sem eckert vinna, helldur þeim, sem bera Hita og Þwnga Dagsins, Matth. 20. Þoott sumir beri hañ skiemur eñ sumir; Og þoott i þeim Stad tali Frelsariñ um hid Eilijfa og Oforþienta Verdkaup æ Himnum, þa er so sw Endurnæring, sem eitt ydrandi Guds Barn finnur i Vitnisburdi heilags Anda þar uñ, ad þad sie Guds Barn, hun er, segie eg, Pantur þeirrar eilijfu Endurnæringar, sem Johañes uñ talar, i hañs Opinnberana Cap. 14. Þar hann prijsar Sælu þeirra, sem i DRottni daudir eru, þvi þeir hvijlast edur endurnærast af Erfide sijnu; Iæ, ef þier so giorid, Børn mijn, þa mun ydur brædlega længa epter Gudi, so sem Hiortinn eptir ferſku Vatni, Ps. 42. David længadi eitt Sinn i Bruñiñ i Bethlehem, eñ þegar þeir færdu honum Vatnid, þa villdi hañ ecki drecka, helldur wthellte þvi fyrir DRottni, 1. Chron. 12. Enn þegar þier wthellid ydar Tæarum fyrir Gudi, sem Þecking Syndaña hefur kreist wt af ydar Augum, þa mun hañ endurnæra ydur med þeim himnesku Vatns-Straumum, sem frañ flioota af Stooli Guds og Lambsins, Op. B. 22. Hver sem þar af dreckur, hañ skal ecki smacka Daudann ad eilijfu. Komum þvi til þessara Vatna, giegnum þessu Tilbode; Komum og kaupum fyrer alls eckert, bædi Vijn og Mioolk, Esa. 55. Og þoott ad Angist Syndanna kunni ad þrijsta so miog ad Hiarta Syndarans, nær hann stendur undir Ransaki Samvitskunnar, ad hann telie sig Overdugañ Guds Nædar, þa gior ei þijnum Frelsara þann Oriett, ad þu efir uñ hañs Guddoomlega Myskun, sem er eins stoor og hann er siælfur, hversu sem þu ert hinum verstu Syndum hladinn, ef þu ydrast af Hiarta, og lætur af þeim, hver sem þad efar, þad er eins og hann villdi setia Christ af Tign sinni, þvi hann er þess vegna Konungur vor Syndaranna, ad hann hefur sigrad vora Ovini, eñ keypt oss Gudi til Handa med sijnum Dauda. Seig mier, hvad skal sæ hafa til ad bera, sem einum skal myskuna, nema Mættinn og Viliañ? Eñ uñ hverttveggia þetta tekur DRottañ allañ Efa fræ Syndaranum i þessu heilaga Gudspialle. Fyrst seger hann: Aller Hluter eru mier Ofurgiefner af mijnum Fodur: Þetta talar Christur epter Manndoominum, þvi eptir Guddoominum er hañ Siælfrædi allra Hluta fræ Eilijfd til Eilijfdar, med Fodur og heilogum Anda: Enn fyrst honum er allt Valld giefid bædi æ Himni og Jordu, af honum sem þad alleina hefur, og sem alleina kann ad fyrirgiefa Syndirnar, þvi skylldi hann þa ecki kunna ad tilgiefa þier þijnar Synder, hversu sem þær liootar eru og andstyggilegar, nær þu hatar þær, og villt af þeim læta? Hann sagde Fordum þegar Judar hneixluþust æ þvi, ad hann sagdi vid hinn Hælfvisna: Þier eru þijnar Synder fyrergiefnar: Hvert er liettara ad segia, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar, edur ad segia, statt upp og gack? Matth. 9. Minn HErra JEsu, meira kostade þig þad ad endurskapa mig af Andskotanum vanskapadann

adann, helldur enn ad skapa honum Heilsuna, sem þu hafder i Fyrstunni i Moodur-Lijfe skapad, eun fyrst þu sijndir med þessu Kraptaverki, ad Mannsins Sonur hefdᵉ Makt til ad fyrergiefa Synder a Jordu, þa giet eg ecki efast um̃, ad þu kunnir mijnar Synder ad tilgiefa, hversu sem þær fwlar eru: Þu sem sagder til ens Hœlfvisna: Statt upp, tak Sæng þijna og gack i burt, Matth. 9. Eg veit og ad þu gietur hiaalpad mier med Naad þijns Anda, ad rijsa upp af þeim Syndaña Bed, er eg so leinge hefi sofid a. Gud er alleina sa sem Dœasemdar Verkinn giorer, Ps. 97. Hañ er og saa alleina, sem tilgiefa maa Syndena: Hverttveggia giorer þu hier, DRottiñ minn, þvi giet eg ecki um̃ Valld þitt efast; Eñ um̃ Viliañ miklu sijdur, þvi þu seger hier i Gudspiallinu: Komid Til Mijn Aller: Þa veit eg ad þetta Tilbod nær og til mijn, þoott eg væri syndugri eñ aller Meñ; þegar eg erfida i Þeckingu og Jaatningu Synda miña, i hverium þu miñ Frelsare hefur erfidad, Esa. 43. þegar eg var þinn Ovinur, Rom. 5. Þvi þu segier: Komed Til Mijn Aller Þier Sem Erfided: Og þegar eg stiu under Þwnganum, er þu barst minna vegna, þegar Hegningenn laa a þier, enn eg vard Heilbrygdur fyrer Beniar þijnar, Esa. 53. Þvi þu segier: Komed Til Mijn Sem Þwnga Erud Þiaadir. Til hvers? Ecki til þess, ad skipa mier ad borga hinn sijdarsta Pening, þvi Gud hefur fyrer þijna Skulld uppgiefid mier alla Skulldina: Ecki til þess, ad eg lwke þier þaa Handskriftina er þu hefur a Krossen neglt, Col. 2. Helldur til þess, ad þu takir a mooti mier faaraadre Manneskiu, so sem Fadirinn vid hinum auma Syni, er sinni Arfleifd sooad hafdi, Luc. 15. Þvi vil eg allshugar feiginn koma, O! HErra JEsu, og þvo Fætur þijna med Taarum mijnum, og smyria þaa med Angri mijns Hiarta og Elskunni til þijn, er mier hefur so margar Synder tilgiefed, Luc. 7. Ef eg þess verdugur verda mætti, fyrir þijna eiginn Forþienustu. Komid Til Mijn Aller Þier Sem Erfided, segier Brunnur Giædskuñar: Þetta mætti tilheyra jafnvel hinum allra heiloguſtu Mouñum, Noe, Abraham, Job, Eliæ, Johañi Baptista, og jafnvel Guds Moodur sialfre; So heilagur er Gud, so er hañ Riettlaatur, ad hann maa ei lijda hid miñsta Grand a Mañeskiuñi, an fullkomins Endurgiallds fyrer Syndina, enn þad verdur ei golldid nema i Christi Forþienustu, og af heñi hafa Meñ eingiñ Not, utañ Meñ ydrest Syndaña af Hiarta; enn ad ydrast Syndaña, kostar hañ alltijd nockurt Erfidi, sem þecker Guds Haatign og siñ Veikleika, þar fyrir skuli hann aller Kvittunar bidia, Ps. 32. a þeim Tijma nær Reikninguriñ skal halldast; Fyrir þvi hrædist Job øll sijn Verk, enn ef hann hræddist þau, og jafnvel hin bestu, þa mun þeim Guds Mañi þoott hafa, ad hañ þyrfte Ydranar vid, hver alldrei gengur Erfidislaust af, eigi hun Gudi ad lijka; Þar um̃ ber liooſast Vitni hañs sijdarsta Jaatuing fyrir honum, Cap. 42. Eg straffa sialfann mig, og ydrast i Molld og Øsku: Þetta sagdi Job, um̃ hvern Gud vitnadi a mooti Satan, ad eigi væri hañs Lijki i Landinu, ad hañ væri fullkomiñ, riettvijs, Gudhræddur, og fordadist þad Vonda, Job. 2. Hvar af Menn siaa, ad þad er satt, sem Paall seger: Ad allur Heimurenn sie fyrer Gude Sakfallenn, Rom. 3. og ad einginn sie so

Heilagur, ad hann ecki allshugar feiginn megi taka þessu Naadarfulla Lausnarans Tilbodi; Eñ þar minn HErra seger: Komid til mijn aller þier sem Þwnga erud þiaader, þa kalla eg mier boded med þessare Gudlegu Raust, og øllum Stoorsyndurum, sem mikinn Part Æfi sinnar hafa i Þriootskunni og Glæpunum aled, enn fyrst hañ hefur þad talad, hvers Blood ad hreinsar oss af øllum vorum Syndum, 1. Joh. 1. Hañ sem er Forlijkun fyrer allar Veralldarinnar Synder, 1. Joh. 1. J Krafte þeirrar Foornar, i hverri Gud forlijkade Heiminn vid sialfann sig, 2. Cor. 5. Þa giet eg ecki ætlad, ad hañ, sem alleina er Sañordur, Rom. 3. Ad hann muni spyrna mier syndugum Ormi, burt af Skør Foota sinna, nær eg þar ligg med sannri Ydran, og fullum Asetninge til Yfirbootar: Þvi skyllde eg þa laata mijnar Illgiørder og bloodug Afbrot hindra mig fraa, ad taka þessu Giædskufulla Tilbode med hinum mesta Føgnude mijns aangrada Hiarta! J þessu styrkia mig hañs blessud Fyrerheit, þar hañ svared hefur, ad hañ ei vilie Syndarans Dauda, helldur ad hann snwe sier og life, Ezech. 33. Um þetta taka allañ Efa fraa mier þau dijrmætu Ord, er hañ talad hefur, ad hañ vilie eingañ fraa sier reka þann sem til hanns kiemur, Joh. 6. O! Þvi skylldi eg þa vera so Myskunarlaus vid sialfann mig, ad eg ei skylldi leita hanns Naadar, þar eg veit hann er so Myskunsamur? Þad er kuñugt, hversu ad Judar høfdu reitt Drotteñ til Reide, og hversu ad hañ neyddist til ad reka þaa wt wr þvi Landinu, er hañ hafde giefid Fedrum þeirra; Eñ þegar hann hafde teked þaa i Saatt aptur, þa seger hin eilijfa Giædska, Zach. 10. Eg skal myskuna þeim, og þeir skulu vera eins og eg hefdi þeim alldrei burtkastad. So laangt er fraa þvi, ad Gud tilreikne Sañydrande Manne drygdar Synder, þegar hañ snijr sier til hañs af øllu Hiarta, og þoott so megi tilbera, ad DRotteñ leggi aa þig Tijmannlega Refsing, Christeñ Madur, þu sem aa JEsum trwer, fyrer undannfarnar Synder, til þess ad þu ecki meinir þig saklausann ad vera, þa laat þier ei Hug fallast, edur ætla ad hañ mune burtreka eilijflega. Valla nockur Þiood i Heiminum hefur so þwngre Hegningu sætt af hañs volldugre Hende, so sem hanns Frumgietiñ Sonur Israel, 2. M. B. 4. uñ nockra Stund: Og þo seger Fader Myskunsemdanna, Jer. 31. Heyred þier Ord Drottenns, O! Þier Heidingiar, og kunngiøred þad i fiarlægum Londum, og seged: Hañ ed sundurdreifde Israel, hann samañsafnar honum, og vardveiter hañ, so sem Hyrder Hiord sijna, þvi DRottenn endurleyser Jacob, og frelsar hañ af þess Hendi, sem er sterkare honum. Þacker sieu þier, þu Dijrdarinnar Konungur, ad þetta Fridar=Bod er og komid til vor, þiña aumustu Vesælinga, sem bwum aa Hala Veralldariñar; Þvi vilium vier Allshugar fegner heyra hiñs gooda Hyrdirs Raust, sem til sijn bijdur øllum þeim sem Erfide drijgia, og Þwnga eru þiaader. Hver er saa Þioon, ef hañ misbrijtur nockud vid sinn Laanar=Drottiñ, og hafi hann nockra Æru=Taug i sier, edur hyrdi uñ Velferd sijna, ad ecki leite hann Saatta til hanns aa alla Vegu, sierdeilis ef hañ aa Fyrirgiefningar Von. Nu þoott vier aa hverre Stundu, hveriu Augnablike, styggium DRottiñ Himins og Jardar; Þvi skylldum vier þo ecki sann leita Forlijkunar hiaa

honum

honum er vier vitum ad er so audvelldur ad taka vid Syndurunum, ad hañ segier, Zach. 1. Snwed aptur til mijn, og skal eg snwa mier til ydar. Hier þarf ecki Joab ad brwka Vijsdooms Konuna af Thechoa til ad frida fyrer Absalon hiaa David, 2. Sam. 14. Ecke þarf hier Paulum til ad sætta Onesimum vid Philemonem, Philem. v. 10. Enn hier er JEsus Christus, Gud og Madur, sæ einaste Medalgaangare millum Guds og Manna, 1. Tim. 2. Hann segier, i Krapte þess Umbods, er hann hafdi af hinum Allvallda Konunge, til ad sætta Mañkyned vid hann og sialfann sig; Hañ segier med fullum Myndugleika: Komed Til Mijn Aller Þier Sem Erfided Og Þwnga Erud Piaader, Eg Vil Endurnæra Ydur. Þad er eitt mikid Fyrerheit, sem Gud giefur Jacob edur Jsraels Hwse, Jer. 30. Hañs Hofdinge skal af honum koma, og hañs DRottnare skal af honum framgaanga, hverium eg bioda mun ad hann nalægest mig; Þvi hver er sa, sem þore ad lofa sier i sijnu Hiarta, ad hañ vilie nalgast mig? segier DRottenn. Hver er sa Hofdinge? Þad ertu Dijrdarennar Konungur, JEsu Christe! Hver er sa DRottnarenn? Þad ertu Guds og Mariu Sonur, þu sem af Meyar Lijfe ert wtgeingenn, af Lijfe Dootur Jacobs, jafnvel þoott þinn Utgaangur sie þo fraa eilijfu, Mich. 5. Hverium eg nuu biooda til mijn ad koma; segier DRotteñ. Þvi skal hañ til þijn koma, O! HErra? Hañ sem bijr i þijnu Skaute fraa Upphafe Eilijfdarennar, Joh. 1. Og epter Mañdoomenum er hañ sa Madur sem þier nærstur er, Zach. 13. Vor vegna hefur hañ nalgast þig, O Gud! sem fiarlæger vorum, laangt fraa þijnu Auglite, og fraa Vellde Dijrdar þinnar, Eph. 2. Hverium kasta aatte i hin ytstu Myrkur. Vor vegna er hañ þier nalægur vordenn, so sem Kieñemadur epter Skickan Melchizedechs, Hebr. 5. Jnngeingenn i þad Allra-Helgasta, i Himinenn fram fyrer þig, med eina Foorn, ad wtvegadre eilijfre Endurlausn, Ebr. 9. Hver er sa, sem þyrde ad lofa i Hiarta sijnu, ad hann villde nalgast þig? Hver villde taka sier þann Heidur til? Engeñ syndugra Manna. O DRottenn! Hvad munu Haalm-Straaeñ bwa vid eiñ fortærande Elld? Edur Riked vid Stoormeñ af Eydemorkuñe? Hvad Leyreñ vid Jaarn-Spijruna? Hvad Vatns-Boolann, hvad Gufa Jardarennar, vid Reidarslog Himensins? Hañ einn, hañ eiñ maa þig nalægiast, fyrer hverium Troonarner og Magtarvolldenn skialfa, og hann tilbidia, Ebr. 1. Hver alleina i Himeneñ uppstijgur, Mañsins Sonur, sem ofann er stijgenn af Himne, og þo aa Himnum, Joh. 3. Og med honum munu uppstijga aller þeir sem hañ hefur med sier dregid, þa hañ upphafeñ var, þad eru aller ydrande Syndarar; Aller Þeir Sem Erfida og Þwnga eru Piaader; Jaa, aller þeir sem trwa aa Nafn Eingietens Sonar Guds, P. G. 10.

Eñ þess er ad giæta, Br. M. Ad þessu Naadarfulla Tilbode fylger Skilmaale nockur. Taked aa ydur mitt Ok, og Læred Af Mier, Þvi eg em Hoogvær, og af Hiarta Lijtelaatt. Eg vil nu i þetta Siñ ecke tala margt uñ Ok DRottens, er sier i lage nefnest hñs Kross, og er iñefalid i Mootlætingum þessara Tijma, helldur vil eg tala uñ þad, sem hlijder þvi Efne, er eg i Ondverdu hoof uñ ad tala, sem i Tveim Hlutum er feelged; Þad er i Fyrstu

ad plaaga Saalu sijna med Hræsnislausre Jaatningu og Tilfinningu Syndarennar, hvar af Ydranenn kiemur. Og i Annann Maata, ad krossfesta hinn gamla Manneñ, Rom. 9. Er sig fordiarfar i Gyrndum Villudoomsins, Eph. 4. Þesse Krossburdur er Gude hvad kiærastur; Og ef Manneskiann temde sier hann daglega, þa munde þad afstijra morgu utvortis Mootlæte, jafnvel þo DRottenn aa Stundum virde sijna bestu Astvine med Teikne sijns Sonar. Vier skomunst vor ad sounu, ad jaata Synder vorar fyrer Monnunum: Vier dylium þær hvad mest vier kunnum, jafnvel fyrer þeim sem verre eru enn vær (nema þeir sem Diofullenn hefur so bared Sigg i, ad þeir hafa mist alla Tilfinningu, so þeir stæra sig af Glæpunum); Og þad velldur þvi, ad Syndenn er so lioot, ad jafnvel marger þeir sem Ohlutvander eru, hata hana og lasta aa odrum; Enn þvi munu Menn vilia dylia hana fyrer Gude, eins og aller Hluter sieu ecke berer og nakter fyrer honum? Ebr. 4. Enn þetta giorum vier ecke einasta, nær vier ecke jaatum Syndernar, helldur og nær vier ecke rannsokum þær, leitum ecke epter þeim smaasmuglega i innstu Filsnum Hiarta vors Hugskots, og ecke ydrunst þeirra af Hiarta, nær vier hofum funded þær. Enn þvi dylium vier Siwkdoomenn fyrer Læknaranum? Edur Þorsena og Vannmattinn fyrer honum, sem er alleina rijkur? Þyrmer þu sialfum þier, þa mun hann þier misþyrma, ef þu hylur, þa mun hann opennbera; Þvi skyllde eg ei vilia aangrast fyrer honum, sem gledst af þesse Angre, og vill mier þad launa med Þusyndfalldri Glede? Þvi eg vil endurnæra ydur, segier Lausnarenn. Þvi mun eg skyrrast vid ad jaata Synder mijnar i Augsyn heilagra Engla, þar meire Glede er i Himnenum yfir Einum Syndugum, sem Ydran gioreer, enn yfer Niju og Nijutiju Riettlaatum? Luc. 15. Menn hafa alldrei heyrt, ad Gud hafe deilt Ill-Deilum vid einn sannydrande Vesæling; Eñ um hina segier hañ, Jer. 2. Eg skal þraatta vid þig, af þvi þu segier: Eg hefe ecke syndgast; Enn hvar med þraattar hann? Ecki med Ordum toomum, ecke med Dvergmaals-Hlioode, so sem Spaamadurenn ad Orde kiemst, helldur med Drepsoott og Manndraapum, Ezech. 38. Og jafnvel med Ylfri og Tannagnijstran vid þa, sem ecke skipast vid þetta Nadar-Tilbod. Þar fyrer, Brædur mijner, þess betur sem vier þeckium Guds Fodurlega Giædsku, i þvi, ad taka vid Syndaranum, nær hann ydrast, og þess meire Haaska sem vier vitum oss bwenn vera, nema vier ydrunst; Þess helldur leggium allt Kapp aa, ad bleita vor Hiortu fyrer Gude, so Heilagur Ande faae þar inne-bwed, aan hvers vier ecki gietum til JEsum komest, so sem vier medkiennum i vorre Trwariaatningu: Og er þad ecke noog, ad aangrast fyrer Syndernar um Stundarsaker, þad er eins og Elldur i Sinu hlaupe, ad laata sier volgna nockra Stund um Hiartaræturnar, nema Ydraneñ verde oss so sterk, ad vier hotum þær Syndernar, er oss aadur hafa hvad kiærastar vered. Hvad gagnade þad hinum Volldugu i Jerusalem, ad þeir gaafu lausa Þræla sijna og Ambaattir? þegar Nebuchadnezar hafde lagst um Borgena, enn hneptu þau aptur i Þrældoom, nær hann var burt vikenn um Stundarsaker, Jer. 34. Eins er þeirra Maña Ydran/

van, sem grææta Synder siinar fyrer Gude, enn hverfa þo aptur til hinna somu: Godd-
añ Ydran fordæmer Manneñ meir, eñ affakar; Þvi hun siiner þad, ad hañ hefur þeckt
Syndena, og vill þo ecke af henne lææta. DRotteñ hefur kieñt syndugum Manne einn
Skriftargææng hiaa Jeremiam; Hann skyllde oss alldrei wr Minne falla: Þier skulud
hafa Leida aa sialfum ydur fyrer ydar Raanglætinga Saker, og skamast ydar fyrer yd-
ar Svijvirdingar, og blygdast fyrer ydar Vegu. Ef Meñ lietu sier þetta Hugfast ve-
ra, þa mundu þeir ecki lææta sier þykia so vænt um Syndena, ad þeir vellte sier i henne
aptur strax, sem þeir eru geingner fraa Prestsins Knææm. Good Uppbyriun er þad ad
sonnu, ad ausa wt Hiarta siinu fyrer Gude med Jaatningu Syndanna, og ecke skiedur
þad nema fyrer Verkan Heilags Anda: Enn St. Paall aaminner þa i Thessalonica, 1.
Thess. 5. Ad þeir ei skule slockva Andañ; Og mun hañ þad viliad hafa ollum sagt;
Hryggid ecke Heilagañ Anda Guds; J hverinm þier innsiglader erud til Dags Endur-
lausnariñar, segier hañ, Eph. 4. Hvar af audsært er, ad Madur kañ med Apturhvarfe
til Syndareñar ad fæla Guds Anda fraa sier. Eins og Dwfurnar flya Reikinn; So
flijr Guds Ande Syndsamlegar Hugsaner: Eñ þegar Heilagur Ande er burt vikenn;
Hvad liggur þa fyrer vesælle Mañeskiu? Ecki añad eñ fyrer Saul Konunge, 1. Sam.
16. Ad þegar Gud took sinn Anda fraa honum, þa þuste yfir hann Guds vondur
Ande; Jaa ecke añad, eñ ad eiñ Ohreiñ Ande tekur Sio adra Anda sier verre, og hverf-
ur aptur i Hws sitt hvadañ hañ kom; Og verdur so þess Mañs hid Siijdara argara
hinu Fyrra, Luc. 11. Jaa, þad kann ad koma þar, ad saa sem so tijdt forsmææer Anda
Naadarinnar, Ebr. 10. ad Gud verde honum so reidur um siider, ad hañ yfirgiefe
hañ i Fraaleitt Siñe: Eins og Paall talar um Heidingiana, Rom. 1. Þad er Maals-
hattur Guds optlega i Ritninguñe, ad þegar Mañeskiañ lætur sig aangra Syndena,
þa vilie hañ ydrast þess Jlla, er hañ hugde ad giora heñe; Eñ þesse Fodurleg Giædska
hiñs Myskunsama Guds, sem ætte ad draga oss til Ydrunar, hun aflar morgum
Daara enn meire Þverwdar, so þeir hverfa aptur til Spijuñar, sem Petur ad Orde
kiemst, 2. Pet. 2. Af þvi Gud hefur so tijdt forlaated þeim Syndena; Eñ siaae þeir til,
sem þañig hafa vaned sig til ad misbrwka Guds Þoliñmæde, ad ecke verde þeim sagt.
eins og Jerusalem: Þu hefur yfirgiefed mig, þu ert aa Bak aptur horfeñ; Þar fyrer
vil eg wtrietta mijna Hond aa moote þier, til ad farga þier; Eg em vordeñ þreyttur af
ad ydrast, Jer. 15. Gud giæfe, ad þeir sem einusinne hafa smackad hid gooda Guds
Ord, og Krapt epterkomande Alldar, þeir villdu hugleida hvad miklu yndælle er, jafn-
vel sw Hrygd, sem ad er epter Gude, 2. Cor. 7. helldur enn allur Heimsins Munad-
ur, þegar hann geingur sem hædst: Þvi ef hid Heidna Skaalld segier, ad þar sie nock-
ur Vellyst i þvi ad grææta; Hvad mun ei þeim þykia, sem Ande Fagnadarins pressar
Taareñ wt af Augunum? Taked aa Ydur Mitt Ok, segier Frelsareñ hier i Gudspiall-
enu, Þvi Mitt Ok er Sætt, Og Mijn Byrde Er Liett. Eg vil ecke i þetta Siñ tala
so eigeñlega um Kross-Byrde DRotteñs i wtvortis Mootlætingum, og þa Hugsve-

i un hinns gooda Anda, sem henne jafnann fylger, helldur vil eg tala hier um̃ Deydingu Holldsins, og Krossfestingu hinns gamla Adams, sem bijr i oss; Seigie mier þeir, ed einusiñe hafa kieñt a hvad sætur ad DRottenn er: Mun nockur Assverus i sijnu stoora Heimbode, Esth. 1. Mun nockur Baltazar i ollu sijnu Ohodse, Dan. 5. Nockur Herodes i sijnum Hooru-Danse, Matth. 14. Nockur Benhadad i Herbwdum sijnum, 1. Kong. 20. Munu þeir, segie eg, una so vel sijnum Hag; so sem riett-trwads Mañs Saala i Jatningu Synda siña fyrer Gude; Þegar Ande DRotteñs ber heñe Vitne um̃, ad hun sie Guds Barn? Rom. 8. Alldrei hefur hiñ gamle Madurenn so mikel Umbrot, ad ecke sie þad Yndæle þeim, sem i Guds Herskrwda berst, Eph. 6. ad sigra hañ, og hañ gledst af Logmaale DRotteñs, segier Pall, Rom. 7. Jafnvel þoott hann finna þykest eitt añad Logmaal i sijnum Limum, sem hertake hañ under Syndarennar Logmaal. Ad soñu kunna hiner ad klædast Pelle og Purpura, og hafa kostulegt Bordhalld, Luc. 16. Margur mun sa vera, er segier til Saalar siñar, þegar hañ hefur alls Nægter misjafnt wtvegadar: Et og Dreck Saala mijn, þvi þu hefur til margra Ara safnad, Luc. 12. Eñ alldrei kañ þetta ad jafnast vid þa Naadar-Mola, er detta af þvi Himneska Borde ofañ a Foot-Skor DRotteñs, Matth. 15. Hvar vier synduger Ormar skrijdum og mænum i Himeninn, epter hiñe eilijfu Hugsvolun, er Guds Ande heiter oss fyrer Paals Muñ, ef vier berum Christi Ok med Þolenmæde. Læred Af Mier Þviad Eg Em Hoogvær Og Af Hiarta Lijtelaatur. Hvar fyrer? Hier um̃ talar Postuleñ, Hebr. 5. segiande: Þoott hañ Sonur Guds være, þa hefur hann lært Hlijdnena, af þvi sem hann lided hefur. Segied mier nu, þier sem erud Ættleidingar, og ecke Guds einka Syner, eins og hann var: Munud þier nockurn Tijma leggia þann Kross a hiñ gamla Adam, ad ecki hafe DRotteñs Kross vered honum þijngre, sem hann bar a sijnum Lijkama, samlijkur Holldenu Syndeñe undervorpnu, þegar hañ var af ollum ysergiefeñ; Og jafnvel af sijnum Himneska Fodur? Marc. 15. O! hvilijk Mynkun er nu þad, ad vier skylldum ei vilia vaka eina Stund med honum, til ad þiaa Saaler vorar med christelegre Ydran, og Deydingu vorra vondra Gyrnda; Þar hann hefur lofad oss sijns Anda Hugsvolun, nær vier so giorum! Takid a ydur mitt Ok, segier DRotteñ hier. Enn hvad er Christi Ok? Þad er allt þad, sem Menn bera med Þolenmæde, hvert helldur þad kiemur fra Gude sialfum, so sem eru Siwkdoomar, Astvina-Misser, Skade sa, er vier meinum ad kome af Hendingu, edur añad þvilijkt: Ellegar hañ kiemur fra Moñunum; So sem er Oriettur, Forsmaan, Offookner, og þesshaattar: Edur og ad þad er Straff vorra eigeñ Synda, er vier sialfer a oss leggium i Ydranareñar Verke, og Baraattunne moote Holldsins Gyrndum. Allt er þad Christi Ok, ef Meñ bera þad so sem hañ skipad hefur, þvi eckert af þessu kañ ad henda oss, sem vier ecke forþienad hofum med Syndeñe, edur añad hvert fyrer hañs Tilhlutan edur Tillaatseme: Eñ ef vier kostum Okenu i burt med Oleyfelegum Hætte, Jer. 2. þa verdur þad Heilsusama DRotteñs Ok ad Diofulsins Oke; Ef vier erum Oþolenmooder i

Siwk-

Siwkdoomenum, Moglunarsamer i Orbyrgdenne, ef vier giolldum einn Oriett med odrum, og bætum vorn Skada med Skada Naungans; Þegar vier þañ Veg breitum, þa hofum vier eingrar Endurnæringar, eingrar Hugsvolunar ad vænta Sælum vorum, þa hverfur Sætleike sa, er Christi Oki og hañs Byrdi fylgia; Ja, hvad meira er, ad þad Ok, sem oss verdur uppaalagt fyrer Heimsku vorrar og Synda Saker, þad kuñum vier ad giora ad DRottens Oke; Ef vier berum þad med Hoogværd og christilegre Þoliñmæde. David er oss til Eptirdæmis hier i: Eg efast ei um, ad þad hefur geinged honum til Hiarta, þegar hann var rekiñ fra Riiki af siinum eigiñ Syne, 2. Sam. 15. Þo vañ hañ so mikid a med sañri Ydran og Audmykt Hiarta siins, ad Gud leiddi hañ heim aptur, med Sæmd og Heidre, 2. Sam. 19. og linadi Plaagurnar, 2. Sam. 24. Laatum oss þesse Dæme til Christum leida; audmiikum oss under vollduga Guds Hond, 1. Pet. 5. Vegiñ vitum vier, sporum ecki ad gaanga hañ, tokum a oss hid sæta Ok Christi, og skiootum oss ecki undañ hañs Byrde, so vier meigum fiña eilijfa Endurnæring, eilijfa Hugsvolun Saalum vorum, og gaanga iñ til hañs Hvijldar: Þad veite oss goodur Gud, fyrer siins Sonar blessada Forþienustu, Amen.

# Tuttugasta og Sioünda Suñudag efter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 17. Cap.

Aþeim Tijma. Og Sex Dogum þar epter, took JEsus med sier Petrum og Jacobum, og Johañem Broodur hañs, og hafde þa Afsiidis uppa hatt Fiall, og uiñmyndadist fyrer þeim. Og hañs Asiaana skein sem Sool, eñ hañs Klæde urdu so biort sem Lioos. Og sia, ad þeim byrtust þeir Moyses og Elias, og toludu vid hañ. Eñ Petur ansade og sagde til JEsu: HErra, hier er oss gott ad vera; Ef þu villt, þa vilium vier giora hier Þriar Tialldbwder: Þier Eina, Moysi Eina, og Eliæ Eina. Og þa hañ var þetta ad tala, Sia, ad biart Skij umskygde þa. Og sia, ad Rodden wr Skijenu sagde: Þesse er Sonur minn Elskulegur, ad hverium mier vel þocknast, hlijded þier honum. Og er Lærisveinarner heyrdu þad, fiellu þeir frañ a siinar Asiaaner, og urdu miog hrædder. Eñ JEsus gieck til þeirra, took a þeim, og sagde: Standed upp og vered ei hrædder. Eñ þa þeir litu upp, saau þeir eingvañ nema JEsum alleinasta. Og er þeir geingu ofañ af Fiallinu, baud JEsus þeim og sagde: Þier skulud eingvum þessa Siin segia, þar til ad Mañsins Son er upp aptur risenn fra Daudum,

## Exordium.

Peirra Guder eru Fiallaña Guder, søgdu Fordum Pienarar Benhadads Syrlands Konungs, er Peir vorn ellter af Jsraels Moñum; Græatlegt er til Þess ad vita, hverniñ Satan hefur blindad Mañeskiuna, ad Skynseni Holldsins smijdar sier so dærlega Þaanka uñ Guds Hætign, so sem ad hañs Rijki sie ecki eins rijkt i øllum Attum hañs Velldis; Eñ hvernig sem Þvi er nu varid, Þa siæ Meñ Þo, ad Gud hefur sig hvad mest opiñberad Mannkyninu æ Fiøllunum: A Fiallinu Sina wtgaf hañ sitt Løgmaal, 2.M.B.20. A Þvi sama Fialli taladi hañ vid Eliam, i Hellirnum. A Fiallinu Moria talade Guds Sonur vid Abraham, er hañ villde hafa offrad Gudi Syni sijnum Jsaak, Gen. 22. A Þvi Fialle stood Jerusalems Mufteri, hvar Gud hafdi siñ Elld og siñ Ofn, Esa. 31. Og mæ sijnast, ad Gud hafi teiknad med Þessu, ad hañ væri hiñ allra Hærste, og byggi i Hædunum, so ad Diøfulleñ hefur og apad eptir Þessari Guds Dijrkan, eins og i mørgu ødru, og læted sier æ Hædunum Þiona: Þad vitna Þær Hædirnar medal Guds Foolks, er hañ so miøg til Reidi reittu, æ hverium hañ segier, ad ei sien nema Prettir. Eñ i Þessa Dags Evangelio heyrum vier hina allra dijrdlegustu og huggunarsømustu Opinberan, Þar hiñ Eingietni Sonur Fodursins, Jklæddur vorn Holldi, uñmyndadist sijnilega fyrer Lærisveinunum æ Fiallinu Helga, hvert ed hiner gømlu Lærifedur Christneñar hafa meint ad vera Fialled Tabor i Galilæa. Af Fiallinu Nebo i Moabs Lande sijndi DRottiñ Moysi alla Fegurd og Giædi Canaans Lands, eñ æ Þessu Fialli hefur hañ sijnt Læresveinunum, og øllum Þeim er æ Soniñ trwa fyrir Þeirra Ord, iñ i Þad himneska Canaan, er hann nefnir sijna Hvijld, Hebr. 3. Og til frekara Vitnis Þar uñ, Þa vil eg kvedia ydur, Guds Børn, til ad gæuga afsijdis med Christo og hañs Lærisveinum, til ad hugleida Þessa dijrdlegu Opinberan, i hverri Tvent er ad athuga, sem er: 1. Siaalfa Forklaarunina. 2. Vottana, sem nææger voru. DRottiñ, vertu i Verke med oss, og Raad Þijns Anda, fyrer JEsu Forþienustu, Amen.

## Utleggingeñ.

Hann umñyndadest Fyrer Þeim, seger Textiñ: Ecki er Þad so ad skilia, ad hañs Mañdoomleg Nattura hafi umbreittst æ nockurn Hatt, helldur Forklaradist hun; Hin dijrdlega Guddoomsins Fylling, sem i honum bioo, skaut wt Geislum sijnum i mañlegu Holldi, so Þeir kyñu ad siæ hañs Dijrd, Dijrd so sem Eingietins Sonar af Fodurnum; Hañ afklæddist, so ad segia, Þioons-Myndiñi uñ Stundar-Saker, eñ ecki Natturuñi. Tak Þad til Hugleidingar af Þessu, Guds Barn, ad ædur eñ Þu maatt samlijkur verda Þessari dijrdlegu Mynd Þijns Frelsara, sem hier uñgietur, Þa byriar Þier ad umñyndast epter hañs Mynd, sem Þig skapad hefur, Þad er, endurnijast i Þijnu Hugskoti, Þvi so seger Frelsarenn, nema Þier umñyndest, og giorest so sem Þetta Ung-Barn, Þa kunnid Þier ecki ad inngæanga i Guds Rijki. Matthæus skrifar fræ Þvi i Textanum, hvilijk ad verid hafi Forklaaran Þesse, Þar hañ seger, Ad Hanns Asiæna Hafi Skynid Sem Sool; Og skulum vier Þo ecki ætla, ad Sool Riettlætisins, Mal. 4. hafi Þo ecki ollu fegur skynid, enn Þesse, er æ Himninum lioomar; Þvi hennar Byrti kunnum vier aller ad standast, enn Þegar Lærisveinunum gafst Sijn Þesse en mikla, Þa skrifar Marcus, Cap. 9. Ad Þeir hafi ordid Ottaslegner, so ad Petur visse ecke hvad hann talade, so sem bæde hann og Lucas, Cap. 9. skrifa, helldur tekur Gudspiallamaduriñ Lijking af Soolunni, Þvi hañ hafdi eckert biartara ad jafna vid, sem daudlegum skiliast kunni; og ei skulum vier helldur meina Þetta hafi verid sw

Dijrd, er Guds Sonur ætte hiá sijnum Fødur, ædur enn Grundvollur Veralldarennar var lagdur; Þvi jafnvel Utvallder skulu skijna eins og Sool i Rijke sijns Fødur, Matth. 12. Enn hvilijk sw Byrte mune vera, er þar af audsært, ad vier skulum verda Englunum jafner, hverra Siooner ad daudleger Menn þo varla stadest fá; Þvi sagde Manoha: Vid munum saullega deya, þvi vid høfum sied Engel DRottens; Og skulum vier þo vita, ad Dijrd og Hátign Guds Sonar yfirgengur so miked Englanna Dijrd, sem hann hefur þeim Ædra Nafn odlast. Framar seger Textenn, ad hanns Klæde Hafi Ordid So Biort Sem Lioos: Þegar Moyses kom ofann af Fiallinu Sina med Logmálid, þa skrifar Paulus, ad hanns Asiána hafi vered so biort, ad Israels Syner hafi ei mátt lijta i gegn henni, alleina af þvi, ad hann hafde vid Gud talad, og þo fieck Moyses hana byrgt med Skijlunne, er hann heingde fyrer sitt Andlit: Enn þetta yfergnæfer, hier fá ecki Klædinn inniluktt þann skíæra Guddoomsins Fegurdar-Liooma, sem bioo i Christi Forklárudu Holldi, helldur skein hun i giegnum, so þau urdu fogur eins og Lioos. O minn HErra JEsu! er þetta su Mynd, sem ad hieck á Krossinum, þegar þu giørdist Bolvan fyrer mijnar Synder? Sw sem Esaias umm talar i 53. Capitula, segiande: Þar er einginn Mynd edur Fegurd á honum, og þegar vier lijtum hann, er þar eckert Alit, sem vier gyrnunst, hann er forsmádur og Manna Audvirdilegastur, hann er plágadur af Mønnum, og Kránkdæmum alvanur, og so sem einn Madur er byrgir sitt Andlit fyrer oss, so foraktannlegur, ad vier virdum hann einkis? O þu Saklausa Guds Lamb! hvilijk voru nu þessi Ummskipte! DRottenn minn! Hvad vorum vier synduger Ormar, ad þu, Lioomi Fødursins Dijrdar, skylldir so bera vor Kránkdæme! Hvad þrijste þier til þess, minn Lausnare, ad þu skylldir breyta þessari Dijrd i þá herfilegu Asiánn, er Spámadurenn talar umm? Eckert annad enn þijn Guddoomlega Elska, þijn diwpu Myskunar-Ydur, i hverium þu vitiader vor Uppruunenn af Hædum. Enn þu Guds Barn, sem heyrer þenna dijrdlega Atburd, tak þier hina mestu Huggun af honum, þegar Guds Fødurleg Giædska virder þig med sijns Sonar Krosse, ad so dijrdlegur sem hann giordest hier fyrer Augum Lærisveinanna, so Vegsamlegur og ollu Vegsamlegre muntu verda, nær þu inngeingur i þijns Herra Fognud, ef þu tekur hanns Ok á þig, og fylger honum epter, þvi þessa hanns Dijrd sáu þeir daudlegum Augum, so sem bædi Petur og Johannes votta; Enn þad hefur ecki Auga sied, og ecki Eyra heyrt, og ecki hefur þad i nockurs Manns Hug edur Hiarta komid, hvad Gud hefur þeim tilbwid sem hann elska: Enn Elskann til hanns siest alldrei betur enn i Mootlætinu, þar reynist hun so sem Gullid i Ofninum, þar er sá Leykvollurinn, hvar ed hinar andlegu Kiempur eiga ad sijna Frækleik sinn; Þar er Skeid-Floturinn, er aller þeir eiga ad hlaupa med Pæle, sem vilia Hnossed odlast. Lucas hefur sagt oss þad, hvert ad verid hafi Inntak þess Samtals, er þeir Moyses og Elias áttu vid DRottinn á Fiallinu helga, sem var umm þá Utfør, er hann skylldi fullkomna i Jerusalem, þad er sw Burtfør til Fødursins, er hann nefner hiá Johannem, i 16. Capitula, i

þeirre Hiartnæmu Predikun, er hann talade fyrer Lærisveinunum under sijna Piislar-Gaungu, þa ed hann fullkomnade og batt fullanu Enda a þad, sem hanns Fader hafdi honum um̄boded. Ecki hefur þesse Syn edur þetta Samtal skied fyrer Christi Skulld, þvi sialfur visse han̄ allt þad er yfer han̄-atti ad koma; Sialfur þeckte han̄ og Guddoomsins Hatign og Vegsemd, sem ad i honum bioo, helldur Postulan̄a vegna, hverier ad siidan̄ mattu þola so miklar Hörmungar, Fiotur, Hwdstrokur, Offsokner, Um̄satur, ia, siita og grata, þegar Heimurin̄ fagnade, og þad fyrer Christi Nafns Saker, so ad alltijd nær þeir i Hormungunum min̄tust a þessa dijrdlegu Opinberan, skylldu þeir hafa þad, þeir kynnu ad endurnæra Hiarta sitt med, sem var ein Fullvissa um̄ þvilijka Dijrd, er þeir sau nu fyrer Augum sier; og þvi er ecki ad undra, þoott ad þeirra Lagsmenn gengiu glader wt fra Radinu, nær þeir hwdstrijkter voru, ia, ecki þoott ad St. Paall væri til Frids i Offsooknunum, i Angistinni, i Naudunum, þar hann hefur ecki einasta þessa Sijn heyrt, helldur og var sialfur i hinn Þridia Himin uppnumin̄. Petur hafdi fyrir skom̄u spurt DRottinn ad, hvad þeir skylldu i Laun hafa, sem ad yfergafu alla Hlute, og fylgdu honum epter? Enn DRottenn sijnir honum hier a Fiallinu, ad so miklu Leite sem hann sia kunne, i þessu daudlega Hollde, hvers hann matti Von eiga fyrer siina Pioonustu, og er þad Mala sannast; Petre þootte so miked til þess koma, jafnvel þoott ecke være þad meira hia hinni eilijfu Dijrd, helldur enn Rikte Salomonis fyrer Drottningunni af Arabia, honum þootte so mikid til þess koma, sege eg, ad hann sagde: Hier Er Oss Gott Ad Vera. Hann var fæddur i Judæa, Einu Lande, sem er Paradijs af Verolldinni, hann hafde vijda vered med Christo, bædi þar og i Galilæa, hann hafde sied Jerusalems Mustere, og hina kostulegu Guds Pioonustu þar in̄i; Enn ollu gleymdi hann þvi sem til Baka var, hier þootti honum Gott ad vera. O! hversu munu þeir þa gleyma ollu Oflæte Veralldar, ollu Epterlæte og Fagnade i Heiminum, er sitia Lambsins Brwdkaup i Himninum! Ad vijsu var Sijn þesse mikil, er Postulunum gafst, og sæla ma þa kalla af hen̄i, en̄ þo er þeim ei minna veitt, sem DRottin̄ auglijser sig i Hiartanu, þvi sæler eru þeir, sem ei sia og trwa þo, sagdi Lausnarin̄ fordum vid Thomas; Pad sie eg a so morgum Pusundum Piislarvotta DRottinns, um̄ hveria þad sanñvedid er, sem Esaias spaer, Cap. 24. Ad þeir prijsudu DRottinn midt i Elldinum. Petur var vidstaddur þessa Opinberun; Han̄ heyrdi Moysen og Eliam tala um̄ Fullkomnan DRottin̄s Utfarar, og þar ad auke heyrde hann Fodursins Raust, þo gleymde þesse Guds Vinur ollu þessu skom̄um Tijma þar epter, i Biskups Hollin̄i, ecki vardi þesse Um̄vendan DRottinns lenge hia honum; Enn þegar Christur var i honum til fulls myndadur, so sem Paulus ad Ordi kiemst, þa mundi han̄ fyrr hafa þolad hinar skielfilegustu Piisler Verålldar, en̄ ad falla fra Christo, og gafst Raun þesse optlega siidan̄; Og þetta er nu sw Sioon a JEsu Christo, er vier eigum ad kosta Kapps um̄ ad na, a allri vorri Reisu fra Voggunni til Grafarinnar. Pad er þad heilaga Fiall, er vier eigum ad klifrast uppa,

medan̄

medann vier lifum. Sua sem þañig hefur komed Auga a Christum, hañ kallar DRottenn fyrer sitt Hlutskipte, þoott ad Saal og Lijf vanmegnest, og nær hann Gud siñ hefur, þa skeiter hañ hverke um Himen nie Jord. Eñ so sem ad þetta er eitt miked Hlutskipte, hver sem þvi nær, Ja, so miked, ad Himen og Jord meiga i engañ Samjøfnud koma; So skal og miked til þess vinna, ef vier vilium verda niootande Arfskiptis Heilagra i Lioosenu, Col. 1. Ef vier vilium þocknast Gude i Lioose lifande Manna, Ps. 56. Pa byriar oss ad skrijdast Hvijta-Vodum, ecke sijdur enn þeir i Fyrndenne, sem Skijrn og Christne taka villdu, þad er, ad vier Jklædunst Herklædum Lioossins, ad vier Jklæduust einum nijum Manne, ad vier Jklædunst Guds Herskrwda, þad er, i einu Orde ad segia, med Paals Ordum, Col. 3. Ad vier Jklædunst so sem Utvallder Guds H. og Elskuleger Hiartgrooenne Myskunseme, Goodgyrneñe, Lijtelætenu, Hoogværdenne, Polennmædenne. Eg veit þad maa þykia undarlega til Ords teked, ad Postuleñ temur sier þenna Ordshaatt, ad Jklædast Dygdunum, eñ valla kann þo nockur betre ad fiñast: An Klædaña gietum vier ecke lifad, þau eru þad sem veria oss Froste og Kulda; So kuñum vier ecke helldur ad lifa Audlegu Lijfe fyrer utañ þenna Sakleysesins Skrwda: Hañ varnar oss vid Helvijtis Bruna. Klædnadur DRotteñs vard fagur og Leiptrande af þvi, ad Guddoomsins Byrte, sem i hañs Hollde bioo, hun skein i giegnum þau, eins og Sooleñ Glered, so eigum vier ad laata þad skijna i vorum Lijfernis Haattum, Ordum og Athofnum, ad Gud bwe i oss fyrer Trwna; Þad bijdur Frelsarenn Læresveinunum, Matth. 5. Med þessum Ordum: So lijse ydar Lioos fyrer Moñum, ad þeir sicae ydar Goodverk, og dyrke ydar Fodur, sem a Himnum er: Eñ fyrer þvi, ad daglega sletteft uppa vort Skijrnar Klæde, a medann vier gaungum i giegnum Forod Veralldar þessarar, þa maa þad daglega þveiged verda. Marcus skrifar um Klædnad DRottenns, Cap. 9. Ad hann hafe so biartur vered, ad engenn Þvotta-Madur a Jordu kuñe þvilijkt ad giora: Og sama er ad segia um vort Brwdkaups-Klæde, þad kañ engeñ so hreint ad giora a Jordu, ad i Guds Augum byrtast meige; Þad maa um oss alla jaata, sem DRottenn segier um sitt Foolk, Jer. 2. Þoott þu þvoer þig i Sallt-Petre, og safner þier mikellre Saapu, þa ertu samt Ohreinn fyrer mier: Hann einn, hañ eiñ gietur þau ad fullu hreinsad, sem er eins og Kopar-Smidsins Elldur, og eins og Saapa Þvotta-Maña, Mal. 3. Þad er þitt dijrmæta Blood, minn Frelsare, i hveriu ad aller heilager hafa þveiged sinn Skrwda, Openb. B. 7. So kañtu og DRotteñ miñ, ad giora jafnvel Synder mijnar hvijtar eins og Snioo, þoott þær sieu raudar sem Blood, og Ullhvijtar, þoott þær Purpura raudar sieu, Esa. 1. Ja, eg em þess fullvruggur, ad nær þu breider þiñ lioomande Klædafalld wt yfir mijn saurug Totur, þa mune þeirra ei giæta; Guddoomsins Fylling, sem i þier bioo Lijkamlega, hun skein i giegnum þiñ Klædnad a Fiallenu Helga, eñ Sorte miñar Illsku mun alldrei gieta brotest i giegnum þessa Byrte inn i Augu þijns Himneska Fodur: Þessu fulltreyste eg, DRotteñ minn, þvi eg veit, ad þu ert komeñ til ad leita ad þvi sem tapad er, og ad kalla

Syn duga, og ecke Riettlæta til Yðrunar. Þier sie Lof, Æra, Makt og Dijrd, ad eilijfu, Amen.

J Muñe Tveggia edur Þriggia skulu oll Ord standa, sagde DRottenñ i Log-Book siñe Fordum: Eñ um þetta Þijng mæ eg segia þad, er Johañes segier i hanns Fyrsta Pistils Fimta Capitula. Þrijr eru þeir sem vitna æ Himne, og Þrijr eru þeir sem vitna æ Jordu. Hier eru Þrijr Vottar Jardneſker, og adrer Þrijr Himneſker. Eg vil tala fyrst um þa Jardneſku, þvi Textenn gietur fyrr um þa. Þad voru Petrus, Jacobus og Johannes, þesser voru engver Smælingiar i Guds Hwse, jafnvel þoott þeir være halldner Afrak og Hreinsunar-Foorn hiæ Verollden̄e. Petur var sæ ed fyrstur allra Postulañа þeckte, ad JEsus være Christur Sonur Guds lifanda, Matth. 16 hann var sæ ed DRotteñ fyrstum afhendte Lykla Himnarijkis, til ad leysa og binda, ecki þad, ad Petur afhendte þa hinum Postulunum wt af sier, helldur giorde DRotteñ þad siaalfur sijdann: Hañ lagde Lijfid ofañ æ sijna Medkienningu um̄ JEsum, þvi jafnvel þoott ecke hafe Menn so vissar Sogur um̄ hañs Lijflæt, þa kieñer Johañes oss þad, ad Lausnareñ hafe spææd honum þvi; Ad hañ munde Gud med sijnum Dauda dijrka. Jacob var sæ, er fyrstur allra af þeim Toolf liet Lijf sitt fyrer Vitnisburdeñ JEsu, og underskrifade hañ med sijnu saklausa Bloode. Johannes var sæ, ed læ fyrer framañ DRotteñ um̄ Kvolldmaaltijdena, honum auglijste hañ Svikarañ, hann er sæ Læresveinn, um̄ hvern skrifad stendur, ad JEsus hafi hann elskad; Hann hefur og greinelegast af ollum Gudspiallamonnunum talad um̄ Persoonu Frelsarans, honum auglijste DRottenn þa miklu Hlute, er skie skylldu æ epterfylgiande Tijmum; So sem lioost er af hanns Openberunum: Hann lifde og leingst allra Postulanna, til ad mootstanda þeim Ebioni og Cerintho, er neitudu Guddoome vors Frelsara. Og þess vegna er þad af Gudlegre Forsioon skied, ad hann feinge hañs Hætign Augum ad lijta i þessum Stad, so hañ þess betur kyñe þar um̄ ad vitna. Mooder þeirra Jacobs og hañs beidde Frelsarañ um̄, ad Añar Sona siña mætte sitia honum æ hægra Veg, eñ Añar æ vinstri, DRotteñ svarade heñe; Þier vitid ei hvers þier biedid; Eñ þo sijnest mier, ad hann blessadur hafe ad nockru Leite orded vid Boon hennar i þessum Stad, þar hann took þa framar odrum med Petre, til ad sijna þeim, so sem Aleingdar, inn i þa Dijrd, sem hann æ hiæ sijnum Himneska Fodur. Eñ af þessare veglegu Sioon hafa þesser Guds Meñ lært, þar þeir valla gaatu stadest hana, ad ei munde þeim hendt i þessu Daudlega Hollde ad sitia honum æ hægre edur vinstre Hlid i Dijrd Himnauna, og þvi spordu þeir ecke sijna daudlega Lijkame sijdann fyrer hanns Skulld, þegar þeir vaxner voru epter fullkomnum Mæler Christi Alldurs, so þeir med Paulo, Phil. 3. næ kynnu, i Uppprisu hinna Daudu, Hnossenu þeirrar Kollunar, sem þar uppi er i JEsu Christo. Enn vier, sem nu heyrt hofum Vitne þeirra um̄ Forklaaran DRottens, og vitnum ad þeir inngeingner eru i Dijrd sijns HErra; Vier skulum leggia allann Hug æ, ad vera eins lynder og þeir, ad vier holldum alla Hlute Þreck ad vera, og jafnvel siaalft Lijfed,

so vier ꜳvinnum Christum, Phil. 3. Þvi hver sem ad hatar Sꜳlu sijn.. i þessum Heime, hann mun vardveita hana til eilijfs Lijfs, Joh. 12. Og þesser eru nu hiner Jardnesku Vottar ad Stoormerke þessu, sem teked hafa vid Vitne þeirra Himnesku: Um̃ hveria eg hefe hier epter nockud ad tala.

DRotteñ sagde Fordum under sijna Pijnu, Joh. 12. Fader, vegsama þitt Nafn, og Raustteñ af Himne svarade honum: Eg hefe vegsamad, og eg skal aptur vegsama, þa sagde hañ vid Læresveinana: Þesse Raust skiede ecke vegna mijn, helldur ydar vegna. So mꜳ eg og segia um̃ þꜳ Himnesku Votta, sem Texteñ um̃gietur, ad ei byrtust þeir DRottne fyrer hanns Skulld, helldur þeirra sem med honum voru, Jꜳ, vegna allra þeirra, sem epter þeim heyra mundu þenna Tilburd. Vottarner eru Þrijr af Himnum, Moyses, Elias, og siꜳlfs Fodursins Raust, er vitnade af Skijenu. Moyses var einn trwr Rꜳds-Madur i ollu Guds Hwsi, hañ valde Gud til ad wtleida sitt Foolk af Egyptalande, hann talade vid Gud i Horeb, þegar Jsrael villde hafa sig undann þeigenn, ad heyra Raustina DRotteñs Guds sijns, hañ medtook Logmꜳled af hañs Hende, og talade vid hann optlega eins og Madur vid Mann talar. Hvert Moyses hafe vered hier med Sꜳl og Lijkama, skal eg ecki margt um̃ tala, þad er vijst, ad hann doo ꜳ Fiollunum Habarim, hvadann Gud sijnde honum Landed Canaan, og Gud groof hann i Dalnum, segier Ritningeñ, 4. Mos. B. 34. Þo er lijklegt, ad Moyses hafe hier allur vered, þvi um̃ Eliam er þad vijst, ad hann foor med Ond og Lijkama til Himens, enn engann Mun giorer Matthæus edur hiner Gudspiallamennirner þeirra i sijnu Rite um̃ þessa Opennberan. Nockrer færa til ad stydia þessa Meiningu, þad sem stendur i Judas Pistli, v. 9. Ad Michael Hofud-Engill hafe þrꜳttad vid Satan um̃ Lijkama Moysis, so sem ad villde Andskotenn hafa feingid Valld hanns, enn Gud hafde hann uppnumed, og ad vijsu lijtur Petur til þeirrar Sogu, er þar skrifud stendur, i sijns Sijdara Pistils Odrum Capitula. Enn hvernenn sem þessu er vared, þa veit eg, ad hann sem uppvakte Son Ekiunnar af Sarepta, og hinnar Sunamitisku, hann sem Lazarum leidde wt af Grofinne, hann sem uppreiste Doottur Jairi, hann sem liet marga Framlidna gꜳnga wr Grofunum i Christi Upprisu, honum var ecke um̃ Megn, ad lꜳta Moysen koma til þessarar Hꜳtijdar ꜳ Fiallenu Helga med Ond og Lijkama, og þesse var nu hinn Annar Himneskra Votta af Monnum. Eñ hinn var ad sijnu Leite eingu minne, Elias, hver med ollum Riette mꜳ nefnast hinn Ypparste af Spꜳmonnunum, hann var hinn meste Vandlætare vegna Guds Nafns, hann liet slꜳtra Jessabels Spꜳmonnum vid Lækenn Kischon, honum sende Gud Elld af Himne yfir þa Tvenna Fim̃tiju Achabs Sende-Menn, hann fieck med Bæn af Gude Dogg af Himnum, þa ecke hafde rignt i heil Þriw Ar, hann foor med Elldlegum Hestum og Vognum til Himna, hann talade vid Gud ꜳ Fiallenu Horeb, eins og Moyses, og bꜳder fostudu þeir i 40. Daga og 40. Nætur, eins og Christur i Eydemorkenne, beggia þeirra gietur og Malachias i Þridia Capitula siñar Ma-

la-Bookar, under eins og hañ endar hid Gamla Testament. Slijka Votta byriade Guds Syne ad hafa til Dijrdar sinnar, er hann Forklaradest; Og skulum vier vita ad Gud giörer eckert forgiefens, auk helldur so mikla Hlute, sem þesse var, øll var og Þorf a þvi; Sw Tijd var nærre komenn, ad Gud munde slaa Hyrderenn, og ad Sauder Hiardarennar mundu sundur tvistrast; Enn hversu ad Læresveinarner hafe vered bwner under þa Ogn, þad sijna oss Gudspialls Sogurnar. Ad sonnu hafde Petur lijst þvi skomu ádur, Matth. 16. Ad JEsus være Christur Sonur Guds lifanda, og kallade Frelsarenn hann sælann þar fyrer; Þvi Holld og Blood hefde honum þad ecke openuberad, helldur Ande sijns Fodurs; Enn þo took Hollded so ad rada skomu þar epter, er JEsus talade um sijna Pijnu, ad Petur atalde hañ og sagde: Spara sialfann þig, ad ei verde þier þetta; Ja, þegar hann heyrt hafde, ad Moyses og Elias toludu vid DRottenn um hanns Sijdurstu Utfør fra Jerusalem, þa var þo Einfelldnenn so rijk i Holldenu, ad hann sagde: Vier Villium Giora Hier Þriar Tialld-Bwder: Þier Eina, Moysi Eina, Og Eliæ Eina, og þoott hann hefde Maal fyrer hinum Postulunum, þa er audvitad, ad þeir hafa eins Faakiæner vered. Hier maa nu segia þad sama um þenna Guds Ast-Vin, sem Paulus um sig segier: Þegar eg var Barn, giorda eg sem Barn, og eg talade sem Barn: Petur var enn nu ecke fullvaxenn i Christenndoomenum, og þvi talade hañ Bernsklega. O Þu Guds Madur! Munde hann nockud þurfa Tialld-Bwdar vid, hvers Asiana ad skein sem Sool, og hanns Klæde voru biort eins og Lioos? Munde hann ætla sier ad eiga langa Dvøl a þessu Fialle, sem ádur sagt hafde: Ad hann munde lijflatenn verda i Jerusalem, hvad þu og heyrder, Guds Vinur af þessum Tveimur Himnesku Vottum? Var þesse Openuberan til þess giør, ad hun skyllde leinge vara, og ei miklu helldur til ad vera Forsmeckur hinnar eilijfu Dijrdar? Þvi skyllde Moysi og Eliæ giora Tialld-Bwd, eins og ad ei være i JEsu einum Sælañ full? Riett hafa þeir nu Marcus og Lucas skrifad um þetta Faafræde Peturs, ad hañ hafe ecki vitad hvad hañ sagde, kañskie af þvi, ad Felmtur var yfer hañ komeñ: Eñ i þvi maa marka Elsku þa og Traust, er hann hafde a DRottne, ad hann giorer ei Raad fyrer neinne Tialld-Bwd handa sier edur sijnum Lags-Monnum, þvi hann hefur vered fulltrwa þar um, ad þar sem hanns HErra være, þar mundu og þeir verda. So skulum vier og lyuder vera, christner Menn, þegar vier erum visser um Christs Vinattu, þa verum ecke hugsiwker fyrer Lijfe þessu. Hvar kunnum vier so ad vera hia JEsu, ad oss illa lijde? Hvar meigum vier so vera fyrer utann hann, ad oss vel lijde? Vorpum þvi allre vorre Ahyggiu uppa DRottenn, hann mun þvi vel til Vegar koma. Og þesse var nu Veikleike Peturs og hinna Læresveinanna. Enn til þess ad bwa þa under hina miklu Freisting, sem ar epter fylgde; Þa skiede nu þesse Dijrdlega Jardteikn, og þoott þeim fiellest mioog so Hugur, þegar i Raunernar rak, þa er þad vijst, ad þeir hefdu miklu midur haft sig, hefde þeir aan hennar vered. Þesser

er voru þeir Þrijr Lærisveinar, er JEsus took Assijdis med sier, a þeirri Naatt, er hann Fordæmdur var, þegar Kvolinn hoosst. Gud nadi oss Auma og Synduga! Vier gietum hverki þolad Heitt nie Kallt med JEsu; Þessa dijrdlegu Syn gaatu þeir valla stadist, enn i Kvolinni svaafu þeir, þa yfergaafu þeir hann aller: Enn Þacker sieu þier, hin Guddoomlega Speke, þu kannt ad midla fyrer oss bædi Medlæte og Mootlæte, epter þvi sem þu veitst hvad med Manninum bijr: J þinni dijrdlegu Forklaaran lietstu þijna Postula sia þijna Dijrd, ad so miklu Leite, sem þeirra daudleg Augu gaatu þolad, enn i Kvolinne leysder þu þeim ad sofa um̃ Hrijd; Þu gafst þeim og Fararleyfi, þegar Hoopur Manna var yfer þig kominn, so þad maa jaata, DRottenn minn, ad þu ert einn Biskup Freistadur a allañ Haatt lijka sem vier, þo aan Syndar; Þar fyrer kanntu ad sampijnast Eymdum vorum.

Adur enn eg skilst vid þetta Maal, þa vil eg þar um̃ tala, ad Postularner þecktu þaa Moysen og Eliam, er þeir alldrei hofdu þo adur sied. Lijkleg er þeirra Gaata, er meina ad af Samtalinu hafi þeir maatt þeckia þaa: Enn hverki Moyses nie Elias hofdu greinuglegar spaad um̃ DRottins Pijsler, helldur enn David og hiner Spaamennerner, sierdeilis Esaias, nema hann hafi þaa vid Nafn kallad, hvar um̃ eckert er skrifad, þvi helld eg þad lijklegra, og nærre þvi fyrer satt, ad Guds Andi, hafi þeim þad opiñberad i þad Sinn: Þvi hann sem liet Samuel þeckia Saul Konung, adur eñ hann hafdi hann sied, sem liet Johannem þeckia sinn HErra i Moodur-Lijfe; Hann gat og audvelldlega giefid Christi Lærisveinum þessa Þecking a Moyse og Elia; Og er þad ecke lijtel Huggun fyrer christna Menn, ad hver einn mun þeckia ecki einasta sijna Ast-Vine, i þeirre himnesku Glede, helldur og alla Utvallda, sem hafa yfirunned fyrer Lambsins Blood, fraa þeim Fyrsta til þess Sijdarsta, sem iñgengur i Fognud sijns HErra, og med þeim eilijflega gladiast, og Gude Lof-sijngia a þessu Fagnadarens Lande: Og er nu þetta sagt um̃ Moysis og Eliæ Vitne, sem voru fraa Himnum. Enn hier kiemur einn ollum meire, sem uppfyller bædi Himin og Jord, þad er Fader DRottins vors JEsu Christi, sem hier vitnar: ÞEsse Er Sonur Minn Elskulegur, Honum Skulud Þier Heyra. Riett er Gaata Hieronymi Lærifodur, ad minni Hyggiu, hañ skrifar, ad Moyses og Elias hafe þess vegna vered sveipader i Skije þvi hinu biarta, adur enn Raustenn kvad vid, ad ei skylldu Postularner meina, ad annar hver af þeim væri sa, er til var talad: Og þegar þeir uppstoodu, þa saau þeir eingann nema JEsum: Þeir saau hann alleina, i hverium alleina er Saaluhiaalpinn: Þeir saau hann alleina, sem er hinn einaste Medalgaangare mille Guds og Manna: Enn hvilijkur er nu Vitnisburdurinn? ÞEsse Er Minn ELSKUlegur SONur. JEsus stood hier i sijnum fullum Manndoomi, fullum af Guddoominum, og þo seger Faderenn: Þesse Er Minn Elskulegur SOnur; Hvar af audsært er, ad Christur er Guds Sonur, bæde epter Guddominum og Manndoominum. Minn Frelsare! Þeir kolludu þig Timburmannsins Son; Þinn Fader segier: ÞEsse Er Minn Elskulegur Son-

ur,

ur. Þeir sogdu ad þu giordir þig ad Gudi, af þvi þu kallader Gud þinn Fodur, enn Gud segier hier: Þesse Er Minn Elskulegur SOnur: Þeir sogdu: Vier vilium ecki lꜳta þenna drottna yfer oss, enn DRottinn allra Drottna, þinn Fader, er þeir kolludu sinn Gud, enn þecktu hañ þo ecki, hann segier: Þesse Er Minn Elskulegur Sonur, Honum Skulud Þier Heyra. Moyses hafde ꜳdur fyrer sagt, 5.M.B. 18. Spꜳmann mun DRottinn uppvekia ydur af Brædrum ydar, honum skulud þier heyra: Eñ sꜳ hinn same kom til sinnar Eignar, og hañs Eiginn þecktu hann ecki. Moyses lærdi og sialfur meira hier, helldur eñ hann sialfur hafdi fyrerspꜳd: Ad sonnu vijsadi hañ til hañs i greindum Spꜳdoomi, eñ hier sꜳ hañ þad, sem bædi hañ og margir Spꜳmeñ gyrntust ad siꜳ, og sꜳu þad ecki. Abraham sꜳ hañs Dag ad soñu, enn ei sꜳ hañ DRottiñ voru Holldi Iklæddann, eins og Moyses i þessum Stad. Allra Sijdarst vil eg gieta þess Myskunar-Verks, er DRottinn giordi ꜳ Lærisveinunum, er þeim var lidid i Brioost af þessare Dijrdar-Sioon, ad hann gieck ad þeim, og snart þa, og sagde: Standed Upp Og Vered Ohrædder. Hañ sem alvanur var Dijrdeñe, og þo i Mañlegu Hollde Opeñberadur, hann kuñe best ad vægia Holldsins Veikleika: Þad sijner hañs Mañdoom, ad hañ Snart þꜳ, þad auglijsir hanns Guddoom, ad hann reiste þꜳ ꜳ Fætur med þessu Atvike. Miñ HErra JEsu! Eg veit ad þu ert ei sijdur Mꜳttugur nu eñ þꜳ, og eckert Mañgreinar Alit er hiꜳ þier: So þegar vier follum i ardlegt Omeige, og hofum engañ Mꜳtt edur Frid i vorum Beinum vegna Syndaña, þꜳ gietur þu Snorted oss, og reist oss ꜳ Fætur aptur, Jꜳ DRotteñ, þegar hid Sijdarsta Aungvited lijdur yfir oss i Daudanum, Snert oss þꜳ, miñ Frelsare, og seig til Sꜳlar vorrar: Statt upp og vert Ohrædd! og leid oss iñ i þijna Dijrd, þar er oss Gott ad vera, þar vilium vier Eilijflega med þier bwa, Þier, Fodurnum og Heilogum Anda O-endannlegt Lof sijngia, um Allder Allda, Amen.